# FORNALDARSAGAN,

ÍSLENZKUÐ OG AUKIN

EPTIR SÖGUBÓK H. G. BÓHRS

AF

PÁLI MELSTEÐ.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGÌ.

---

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

1864.

# FORMÁLI.

Áður en eg skilst að fullu og öllu við bækling þenna, sem nú á að koma fyrir almenníngs augu, þykir mèr hlýða, að ávarpa lesendur hans nokkrum orðum.

Öllum skynsömum mönnum kemur saman um, að sagnafræðin sè einhver hin nauðsýnlegasta og nytsamasta vísindagrein fyrir lönd og lýð. Allar mentaðar þjóðir leggja því mikla stund á veraldarsögu og kappkosta að eiga hana, hver á sínu móðurmáli. Vèr Íslendíngar megum með kinnroða játa, að vèr erum í þessu, sem svo mörgu öðru, orðnir eptirbátar annara þjóða. Vèr egum enga veraldarsögu til á vora túngu, og þó verður eigi annað sagt með sanni, en að allmargir á meðal vor hafi miklar mætur á sögum og sagnafræði; enda væri oss þá ílla í ætt skotið, ef vèr værum nú orðnir fráhverfir og afhuga þeirri vísindagrein, er forfeður vorir yðkuðu með svo frábæru kappi, og urðu frægir af bæði fyr og síðar. En ef það er satt, að vèr höfum nokkrar mætur á sagnafræði, þá er hitt eigi síður satt, að móðurmál vort er í alla staði svo ágætt, og svo vel lagað fyrir sagnafræði, að eigi þurfti það í vegi að standa fyrir sagnaritum eða sögubók á vorri túngu. En þó er það sem eg segi: að engin veraldarsaga er til á íslenzku, því að ekki er teljandi þetta litla »ágrip mannkynssögunnar», er eg gaf út (1844) fyrir 20 árum síðan, enda er það nú út selt fyrir löngu. Nú sjá allir, að meðan veraldarsagan er eigi til hèr á landi nema á útlendu túngumáli, þá getur sagnafróðleikur eigi orðið nema einstakra manna meðfæri og eign, en allri alþýðu hlýtur hann hartnær að verða sem hulinn leyndardómur. Því er nú betur, að þetta eru menn farnir að sjá, og menn er farið að lánga til að eignast og lesa söguna á þeirri túngu, er þeir skilja, á móðurmáli sínu. Síðan eg komst nokkuð til vits og ára hefir hugur minn jafnan hneigzt að sagnafræði, og þaðan hefi eg einatt haft fróðleik og yndi og huggun. Hvað var þá eðlilegra, en að eg reyndi að miðla löndum mínum — einkum hinum ýngri og fáfróðari — eitthvað af því, er sjálfum mèr þótti gott og fagurt? Og það hefði eg fyr gjört, ef eg hefði eigi

um mörg undanfarin ár verið öðrum störfum háður, sem hafa bannað mèr flestar bókmentir nema í hjáverkum.

Þegar eg hugleiddi, hvernig eg gæti komið á fót sögu-ágripi — því að um annað er eigi að tala en ágrip margra hluta vegna — handa löndum mínum, þá var um tvent að velja: annaðhvort að rita það af sjálfs míns ramleik, eptir því sem eg bezt kunni, eða þá að taka einhverja útlenda sögubók, og færa hana í íslenzkan búníng, með meiri eður minni breytíngum, eptir því sem mèr hugkvæmdist. Mig brast áræði til hins fyrra, og þá var hitt eptir, að velja einhverja útlenda sögubók og snúa henni á móðurmál mitt. Býzt eg þá helzt við, að reka muni aptur að því, sem einusinni var sagt um mig: »að menn skilji ekki í, hvernig sami maðurinn geti haft svo gott lag á að snúa, og svo lítið vit á að velja». Þó hygg eg, þegar til alvöru kemur, að nú sè eigi gild ástæða til að gjöra lítið úr vali mínu. Eg hefi valið sögubók eptir *H. G. Bóhr* »prófessor» og skólameistara í Kaupmannahöfn; hefi eg gjört það bæði vegna þess, að mèr þykir sú bók vera vel samin, og meðfram vegna þess, að mèr er kunnugt, að henni hefir verið fylgt um mörg ár, og er enn fylgt, í Reykjavíkur lærða skóla; en það hefði ágætur kennari als eigi gjört, ef bókin þætti eigi þess verð, þar sem þó var um fleiri allgóðar sögubækur að velja.

Að þessu sinni kemur þannig á prent hinn *fyrsti partur veraldarsögunnar,* eða *fornaldarsagan,* þó eigi beinlínis þýdd eptir Bóhrs sögubók, nema fyrst framan af, heldur bygð á þeirri undirstöðu, sem Bóhr hefir lagt. Það er einkum Rómverjasagan sem eg hefi aukið nokkuð talsvert, af því að hún er að tiltölu styttri hjá Bóhr heldur en fyrri hluti bókarinnar; en Rómverjasagan er þó sá kafli fornaldarsögunnar, sem er hvað efnisríkastur.

Þó eg hafi nokkra vitneskju um, að hinar nýjustu uppgötvanir manna bæði á Egyptalandi og í Asíu bendi til þess, að sumt vanti og sumt sè eigi sem rèttast, er sagt hefir verið frá fornþjóðum þessara landa, og sem staðið hefir í hverri veraldarsögunni eptir aðra, þá hefi eg samt sem áður eigi árætt að breyta frá því, sem bæði Bóhr og aðrir sagnaritendur, sem mèr eru kunnir, hafa sagt um það efni; þess er ætíð kostur þá er full vissa er um það fengin.

Eg hefi hugsað, að ekki einúngis alþýðumenn vorir, heldur einnig únglíngar þeir, sem til menta eru settir, mundu lesa bók

þessa, fyrir því hefi eg sett sumstaðar í svigum útlend orð; eg held þau hneyksli engan, en geta orðið þeim til stuðníngs, sem gánga skólaveginn.

Mèr þykir hlýða, að geta þess hèr, að eg hefi haft fyrir mèr 5. útgáfu af Bóhrs sögubók prentaða 1859, og fyrst, er eg var meir en hálfnaður, fengið hina 6. og síðustu útgáfu frá 1863 í hendur. En við samanburð þykist eg sjá, að mjög svo litlu er breytt í hinni síðarnefndu útgáfu frá því, er segir í hinni fyrri.

Það er nú innileg ósk mín, að bók þessi, sem hið lofsverða »íslenzka bókmentafèlag» hefir tekið að sèr að gefa út, og þar á ofan greitt mèr fè fyrir starf mitt, megi fá marga lesendur í landi þessu; hepnist bókinni að ná hylli góðra manna, þá mun að líkindum miðaldarsagan og nýja sagan koma á eptir áður lángt líður. Þó eg viti, að ymsu sè hèr ábótavant frá minni hálfu, þá hefi eg þá von, að þessi viðleitni mín geti orðið til þess, að glæða löngun til sagnafróðleiks meðal landa minna, og til þess hefi eg viljað stuðla, að vísu af veikum mætti, en af hreinum hug og hjarta.

Reykjavík, 28. dag aprílmán. 1864.

*Páll Melsteð.*

# YFIRLIT EFNISINS.

## FYRSTI KAFLI.

### ASÍA OG AFRÍKA.


| | Bls. |
|---|---|
| Elztu bústaðir manna | 1. |
| Babylon | 2. |
| Föniciumennn | 5. |
| Gyðíngar | 7. |
| Cýrus | 8. |
| Egyptalandsmenn og Kambýses | 19. |
| Svika-Smerdis | 26. |


## ANNAR KAFLI.

### GRIKKIR OG ÓFRIÐUR ÞEIRRA VIÐ PERSA.


| | |
|---|---|
| Hetjuöld Grikkja | 30. |
| Hómer | 30. |
| Hellas og Pelopsey | 34. |
| Sparta (Spörtuborg) | 35. |
| Aþena (Aþenuborg) | 39. |
| Nýlendur Grikkja | 40. |
| Samband milli Grikkja innbyrðis | 42. |
| Styrjöld hin fyrri milli Persa og Grikkja | 44. |
| Bardagi í Þermópýle (Laugaskarði) | 46. |
| Framhald ófriðar milli Grikkja og Persa | 51. |
| Hèr segir enn af alþýðustjórn Aþenumanna | 58. |
| Pelopseyjar ófriður | 59. |
| Alkibíades | 62. |
| Sókrates | 69. |
| Styrjöld hin síðari milli Persa og Grykkja | 74. |
| Upphefð Þebumanna | 76. |
| Filippus í Makedoníu leggur Grikkland undir sig | 79. |
| Alexander hinn mikli | 82. |
| Ríki Alexanders mikla eptir hans dag og fram að árinu 301 f. Kr. | 93. |


## ÞRIÐJI KAFLI.


| | |
|---|---|
| Italía. Rómverjar | 96. |
| Upphaf Rómaborgar. Konúngar Rómverja | 97. |
| Lúcíus Júníus Brútus. Burtrekstur konúnga úr Rómaborg | 101. |

Hið rómverska þjóðveldi og framför þess ........ 105.
Markús Fúríus Camillus ........ 107.
Rómverjar vinna Mið-Ítalíu og Suður-Ítalín ........ 113.
Hið fyrsta púnverska stríð ........ 117.
Viðburðir milli hins 1. og 2. púnverska stríðs ........ 120.
Hannibal ........ 121.
Uppgángur Rómverja eptir hið annað púnverska stríð til ársins 133 ........ 134.
1. Egyptaland ........ 134.
2. Litla-Asía og Sýrland ........ 135.
3. Makedonía og Grikkland ........ 137.
4. Eyðíng Kartagóborgar ........ 141.
5. Ófriður við Viriatus og við Númanzíumenn ........ 143.
Tíberíus Semprónius Gracchus ........ 145.
Cajus Maríus ........ 150.
Stríðið fyrsta við Miþrídates. Einveldi Súllu ........ 161.
Stríðið annað og þriðja við Miþrídates ........ 165.
Samsæri Catilínn ........ 170.
Cajus Júlíus Cæsar ........ 173.
Endalok hins rómverska þjóðveldis ........ 187.
Hið rómverska keisaradæmi ........ 197.
I. Keisarar af ættum Júlíusar og Claudíusar 197.
C. J. Cæsar Octavíanus Ágústus ........ 197.
Tíberíus ........ 203.
Caligúla ........ 206.
Claudíus ........ 208.
Neró ........ 209.
II. Skattlöndin taka þátt í forrètti Ítala og í keisaradómi ........ 211.
Galba. Othó. Vítellíus ........ 211.
Flavíusarnir (Vespasían. Títus. Dómitían) ........ 213.
Keisaradæmið frá 96—217 e. Kr. ........ 217.
III. Hið rómverska keisaradæmi fær austnrlenzkan svip. Tildrög til skilnaðar milli hins vestlæga og austlæga Rómaveldis (217—375) ........ 224.
Constantínus mikli ........ 232.
IV. Þjóðabyltíngin mikla ........ 237.
Theódósíus mikli ........ 237.
Skipting Rómaveldis og endalok hins vestari hluta 241.

# Fyrsti kafli

## Asía og Afríka.

### Elztu bústaðir manna.

Svo segir í heilagri ritníngu, að guð setti hina fyrstu menn, *Adam* og *Evu*, í aldingarðinn *Eden*. Það var austur í *Asíu*, og þaðan hefir síðan mannfólkið dreifzt út um löndin. Það er í Asíu, að vèr heyrum fyrst mannkynsins getið, en þá var það í bernsku, fáskrúðigt og fákunnandi; ríki og konúngar áttu sèr eigi stað; feðurnir voru konúngar ættmanna sinna. En er tímar liðu fram og mannfjöldinn jókst, tóku menn að flytja bústaði sína saman og byggja sèr borgir; þaðan hófust ríki og þjóðstjórn.

*Indland* er talið með hinum elztu ríkjum. Sagan segir, að þar hafi snemma á öldum verið komin á stjórnarskipun og nokkur mentun. Í vestri hluta Indlands bjuggu blámanuaþjóðir, er menn hafa fyrst sögur af; en síðar komu *Hindúar* þángað norðan af Kákasusfjöllum; brutu blámenn undir sig, og hafa síðan ráðið þar löndum. Þaðan eru sagðir beztir landkostir. Hindúar greindust þegar í fornöld í fjórar sveitir: klerka (Bramanspresta), hermenn, jarðyrkjumenn og iðnaðarmenn; hver þessara flokka skiptist aptur í aðra smærri. Afkomendur blámanna þeirra, er Hindúar höfðu undir sig lagt, nefndu menn *Parias*. Þeir voru lægstir að metorðum þar í landi. Bramansprestar voru virðíngamenn mestir, og áttu þá upphefð að þakka bæði vopnum sínum og því hinu öðru, að þeir einir þektu trúarbrögð og stýrðu öllum helgihöldum. Hinar helgu bækur þeirra (Vedabækur) eru ritaðar á tungu þá, er Sanskrít heitir. Sú er ein af forntúngum mannkynsins. Á þeim bókum eru bygð trúarbrögð Hindúa og öll önnur vísindi þeirra. Iðnaðarmönnum leyfðist eigi að lesa hinar helgu bækur. Hindúar tignuðu *Brama* (sólina) umfram aðra

guði. *Siva* hèt einn af guðum þeirra; hann táknar eld, þann er alt skapar og öllu eyðir. *Visnú* hèt hinn þriðji; hann táknaði lopt og lög, er öllu heldur við líði. Það er eitt í trú þeirrar þjóðar, að guðir tækju á sig manns gerfi. *Búddha* hèt spekíngur einn, er uppi var þar í landi á sjöttu öld fyrir Krist († 543); hann kváðu menn vera Visnu, breyttan í manns mynd. Búddha kendi meðal annars, að til væri ein æzta vera, skapadómur, er enginn mætti umflýja, iðgjöld, er hver og einn hrepti eptir því, er hann hefði aðhafzt hèr í lífi, ílt eður gott. Margar lífernisreglur kendi hann, þótt eigi sè þær hèr á nafn nefndar. Til eru enn á Indlandi margar menjar um mentun þá, er þar var í fornöld; þannig hittast þar rústir og húsatóttir afarmiklar, einkum forn goðahof í hömrum, bæði ofan jarðar og neðan; svo er í ey þeirri, er Elefante heitir; þar eru hof og í þeim hvelfíngar stórar, steinlíkneskjur og höggnar myndir á veggjum.

## Babylon.

*Babylon* var reist hèr um bil 2000 árum fyrir Krists burð. Landið umhverfis borgina var slètt og ákaflega grösugt; lögðu borgarmenn stund á akuryrkju og kvikfjárrækt og ráku verzlun bæði upp til sveita í Asíu og vestur á Miðjarðarhafsstrandir. Hinn gríski sagnaritari Heródótus lýsir Babylon hèr um bil á þessa leið, borgin stóð á frjófu slèttlendi beggjamegin við ána *Evfrat;* dýki var grafið um borgina bæði breitt og djúpt; fyrir innan dýkið var grjótveggur af brendum tígulsteini, hlaðinn í ferhyrning og bundinn jarðlími; hann var þrjár mílur vegar á hverja hlið, 300 feta á hæð og 80 feta á breidd; hlið voru á honum 100 og öll af eiri gjörð; uppi á honum voru vígturnar og svo lángt bil á milli, að snúa mátti vagni, er fjórir hestar gengu fyrir. Fyrir innan þenna grjótgarð var annar hlaðinn, en þó nokkru minni. Eptir borginni lágu mörg stræti niður að fljótinu; var þeim öllum læst í þann enda, er að fljótinu vissi, og sterkar eirhurðir fyrir; brú var á ánni milli borgarhlutanna, mikil og ramgjör af höggnu grjóti, og hver steinn festur við annan með járngreypíngum og blýi; fljótsbotninn var settur brendum tígulsteini, en bryggjur á bæði lönd og rið til uppgöngu í þverstrætin við fljótið; var að þessu öllu saman hin mesta trygging fyrir alla flutnínga eptir ánni. Svo er sagt, að þá er stórvirki þau voru unnin, er

nú voru talin, hafi fljótinu verið veitt í vatn eitt fyrir utan borgina. Fljótið var leitt í marga buga áður það náði borginni; þannig fóru menn þrem sinnum eptir því, þrjá daga hvern af öðrum, fram hjá hinum sama bæ, áður menn kæmu til Babylonar. Var það til þess gjört, að óvina her ofan úr Armeníu kæmi eigi á óvart borgarmönnum. Síki voru ótal mörg grafin milli Evfrats og Tígrisár, og mátti veita vatni úr þeim í allar áttir út yfir landið; fyrir þá sök var landið ákaflega frjótt, svo óvíða fanst slíkur jarðargróði og því síður meiri.

Fljótið skipti borginni, eins og áður er sagt, í tvo hluti; húsin voru tví- og þríloptuð. Í öðrum hluta borgarinnar var konúngshöll, og múrveggur mikill og traustur umhverfis; en hinumegin árinnar stóð Belusarhof (*Zevs Belos*), og eirhlið inn að gánga; í hofgarðinum miðjum stóð turn, hlaðinn af steini, 600 feta á lengd og breidd niður við jörð; ofan á hann var hlaðinn annar turn, og svo hver upp af öðrum, til þess er átta voru komnir; rið lágu um turna þessa að utan, er upp mátti gánga; í hinum efsta turni var hof eitt mikið og fagurt, þar inni stóð borð af gulli gjört og skrautlegt rúm uppbúið; sögðu Babylonsmenn að guð þeirra hvíldi þar, er hann vitjaði hofsins; neðar í turninum var annað hof, þar var líkneskja guðsins sitjandi við borð; var hvorttveggja af gulli og stórvaxið. Fyrir utan hofið stóð gullaltari, á því brendu prestar á helgidegi guðsins ár hvert 100 fjórðúngum reykelsis. Inni í hofinu stóð önnur líkneskja af skæru gulli 9 álna há. Þessi mikla og auðiga borg er nú að mestu horfin; menn hafa á seinni öldum grafið og leitað í rústum hennar og fundið leifar hinna fornu múra og undirstöður að Belusarhofi. Í nánd við Hilla-borg á Evfratsbökkum finst ákaflega mikið af rauðum tígulsteini, er Arabar flytja þaðan og hafa til húsagjörðar. Sá steinn segja menn að sè leifar úr hofum og húsum hinnar nafnfrægu Babylonar.

*Assyría.* Það er sögn manna, að sá hafi heitið *Nínus*, er það ríki setti fyrstur á stofn; aðalborgin hèt *Ninive* og stóð á Tígrisárbökkum, Assyríumenn voru gjarnir á ófrið og ráku hernað suður í land ofan með stóránum; lögðu þeir Babylon undir sig mjög snemma á öldum. Er svo sagt, að *Semíramis* drotníng Nínusar hafi aukið og prýtt Babylon á ýmsa vegu, látið reisa þar skrautleg hús og gjöra ýms listaverk önnur. *Sar-*

*danapal* var síðastur konúngur í Assyríaríki hinu forna; hann lifði munaðarlífi og var kveifarmenni hið mesta. Þá voru jarlar tveir uppi, annar í Medíu og hèt *Arbaces,* hinn í Babylon og er nefndur *Belesis.* Þeir fóru með her á hendur Sardanapal konúngi og settust um Niniveborg. Þá var sem vaknaði hann af svefni og varðist drengilega; en þar kom, að jarlar unnu borgina; og er konungur sá sitt óvænna lagði hann eld í höll sína; þar brann Sardanapal konúngur inni og frillur hans og auðæfi öll. Það var nálægt 900 vetra fyrir Krists burð.

Af *Assyríaríki hinu nýja* hafa menn ljósari sagnir. Sá er nefndur *Phûl,* er þar var fyrstur konúngur (770 árum f. Kr.). Eptir hann kom til ríkis *Tiglat Pílesar* (hèrumb. 750). Á hans dögum unnu Assyríumenn Medíu og Babylon og nokkurn hluta Sýrlands. *Salmanassar* lagði undir sig Ísraelsríki á Gyðíngalandi og mestan hluta Sýrlands (722). En eptir hans dag fór ríkinu hnignandi, og meðan eptirmaður hans *Sanherib* sat að völdum, brauzt Medía undan yfirráðum Assyríumanna (710); þá fóru þeir og herferð til Júðaríkis og Egyptalands, en biðu ósigur og urðu frá að hverfa við svo búið. *Kaldear* hèt þjóðflokkur einn, er að norðan kom úr Kúrdistan-fjöllum, og settist að í Bábylon og brauzt þar til ríkis; *Nabopalassar* hèt konúngur þeirra (625). Að lyktum tók *Cyaxares* Medíukonúngur Niniveborg og settist þar að (hèr um bil 600 árum f. Kr.).

Nabópalassar, konúngur Kaldea og Babýlonsmanna, náði þegar yfirráðum yfir mestum hluta Sýrlands; hans son var *Nebukaðnesar.* Á hans dögum herjuðu Egyptalandsmenn í ríki hans; en hann snerist í móti, og vann frægan sigur á þeim í orustunni hjá *Circesium* (606) og rak þá harðlega af höndum sèr. Síðan fór hann herför til Gyðíngalands, tók *Jórsalaborg* (588) og flutti Gyðínga þaðan austur til Babylonar, til þess þeir skyldu gleyma þar trú og siðum feðra sinna. Hann lagði og undir sig Fönicialand. Þá var það að *Týrusborg* varðist honum um 13 mánuði; en loks flýðu borgarmenn, og settust að á ey einni þar fyrir landi; þar gjörðu þeir sèr aðra borg, og kölluðu hana Týrus í eynni. Á ofanverðum dögum Nebukaðnesars fór ríki hans aptur, og því meir sem tímar liðu fram.

Þá er *Media* var laus orðin undan yfirráðum Assyríu konúnga, tóku landsmenn þar til konúngs yfir sig þann mann, er

*Dejoces* hèt (700); hann var hverjum manni rètlátari, svo að orð fór af víða um lönd; hann gjörði þá borg, er *Ekbatana* hèt, mikla borg og skrautlega, með 7 múrveggjum umhverfis; hún var höfuðborg þar í landi. Hans son hèt *Fraortes;* hann vann Persa og fleiri þjóðir í Asíu, en fèll í herför móti Assyríumönnum. *Cyaxares*, tók ríki og konúngdóm eptir föður sinn, og hèlt fram hernaði eptir hann og settist um Niniveborg, en þá bar svo við, að *Skýþar* brutust inn í landið; varð Cyaxares þá frá að hverfa og hætta umsátinni að sinni. Skýþar eltu þjóð þá, er *Cimmeriar* hètu, og voru komnir norðan yfir Kákasus fjöll; fóru þeir því næst herskildi yfir Sýrland og Litluasíu, og höfðu yfirráð í Medíu um 28 ár. Loks gat Cyaxares unnið þá með svikum og drepið af þeim margt manna; flýðu Skýþar þá landið og leituðu á fund *Alýattes* konúngs; hann rèð fyrir *Lydíu*; það var fyrir vestan Halysfljót í Litluasíu, og blómlegt ríki um þær mundir. Þessu næst búast hvorir tveggja til orustu, Alyattes og Cyaxares, en þá varð sólmyrkvi mikill (30. dag Sept.mán. 609); gjörðu konúngarnir þá frið milli sín. En er Skýþar voru burtu flúnir tók Cyaxares konúngur Niniveborg (því nær 600 árum f. Kr.).

## Föniciumenn.

Í fyrndinni (því nær 2000 árum f. Kr.) bygðu *Föniciumenn* sjáfarströnd þá, er liggur fyrir Miðjarðarhafsbotni vestan Líbanonsfjall; ströndin er mjó, og skamt milli fjalls og fjöru; litlir voru þar landkostir, en svo var landi háttað, að íbúum þess var sem bent til þeirrar atvinnu, er þeir skyldu leita. Fyrir því lögðu þeir alla stund á kaupskap og verzlun, og urðu brátt frægir af verzlun sinni, er þeir ráku á tvær höndur, bæði austur í Asíu og vestur til ýmsra Norðurálfu landa. Snemma á tímum gjörðust *Týrus* og *Sídon* (Sætt) hinar auðugustu borgir; fóru menn þaðan kaupferðir, bæði austur á Indland og vestur á úthafsstrandir Norðurálfu; sumir segja, að þeir hafi farið inn í Eystrasalt, og átt verzlun við þjóðir þær, er þar bjuggu fyrir á landi. Vara sú, er Föniciumenn fluttu til útlanda, var einkum gler og vefnaður, litaður ýmislega í skelfisksblóði (purpuralitur). Föniciumenn fundu hvort tveggja fyrstir manna, bæði glerið og þenna lit. Glerið þótti í fornöld hin mesta gersemi, og var gjört af einskonar sandi, er fanst í fljóti einu á Fönicialandi. Purpuralitinn höfðu menn úr

skelfiski einum, er fanst í fjöru á Miðjarðarhafsströndum. Sá litur var margbreyttur, bæði rauður og dökkblár, enda allar þær tilbreytíngar litarins, er menn þekkja millum beggja þeirra. En á Sýrlandsströndum fanst sú tegund þessa skelfiskjar, er lita mátti af hárauðan eða fagurrauðan lit; sá litur þótti fegurstur allra. Söluvoðir Föniciumanna voru annað tveggja af ullu eða baðmullu, og þær hinar fagurrauðu þótti hin bezta vara og var í mestum metum.

Einn var sá hlutur, er greiddi landverzlun Föniciumanna, en það var, að hin sama túnga (semversk túnga) var töluð af mörgum þjóðum, bæði á Arabalandi, Sýrlandi og allvíða um Litluasíu. Lestamenn fóru lángt suður á Arabaland (Jemen), og sóttu þángað ýmsan varníng, t. a. m, alskonar reykelsi; komu sèr enda í viðkynníngu við kaupmenn austan af Indlandi og vestan af Egyptalandi og keyptu þaðan ull, baðmull, gull, gimsteina, kanel og ibenholt (svört og hörð viðartegund). Einnig fóru kaupmenn af Fönicialandi austur til Babylonar og áttu þar mikla verzlun upp og niður með Evfrat, og keyptu þar ábreiður og ýmsan varníng; þeir komust og norður í Armeníu og fluttu þaðan kopar, þræla og hesta, er þóttu hinir beztu.

Það hafa menn fyrir satt, að með fyrstu hafi sjófarir Föniciumanna öllu fremur verið stofnaðar til rána en til verzlunar, eða til hverstveggja; þá er kaupmenn höfðu selt varníng sinn lètu þeir greipar sópa um eignir kaupunauta sinna og höfðu syni þeirra og dætur á brott með sér í þrældóm. En þar kom brátt, að farmenn þessir sáu, að friðsamleg verzlun var þeim ábata meiri, en óvinsælar og stopular gripdeildir og rán. Eptir því sem vörumegn austan úr Asíu drógst að Týrus og Sídon, að því skapi juku kaupmenn þaðan kaupferðir sínar bæði um Miðjarðarhaf og til fjarlægari landa. En sjóferðir voru í fornöld enginn hægðarleikur; því bæði var, að sjáfarstrendur voru mönnum þá lítt kunnar, enda villiþjóðir sem fyrir bjuggu, og svo skorti menn þá marga hluti, er síðar eru fundnir og hafa gjört slíkar ferðir auðveldari; þannig var kumpásinu (leiðarsteinn) ókunnur um þá daga, er nú vísar mönnum leið milli landa; þó lètu Föniciumenn ekki hugfallast, enda tókst þeim að sigrast á öllum þeim torfærum; þeir hugðu að gángi himintúnglanna og lètu þau leiðbeina sèr um sjóinn; þeir könnuðu eigi að eins allar strendur með

Miðjarðarhafi, heldur fóru þeir einnig vestur um Njörfasund (Herkúlesstöpla, Gíbraltarsund)). þar sögðu menn komið á heimsenda. Nýlendur þær, er Föniciumenn stofnuðu víðsvegar, til þess að auka verzlun sína og greiða, gefa oss glögga hugmynd um hug og dug þessarar hinnar ötulu kaupmannaþjóðar. þannig settust Föniciumenn snemma á öldum að á Róðusey og á flestum eyjum í Grikklandshafi (Archipelagus) norður að þrakíuströndum; Cýprusey komst snemma í hendur Týrusborgarmönnum; á Krítey, Sikiley, Sardínarey, Korsíku, Baleareyjum (Manörk og Mínörk) áttu þeir nýlendur; víða á norðurströndum Afríku höfðu þeir náð fótfestu og reist þar auðigar borgir; ein á meðal þeirra var hin fræga *Kartagóborg* (hún hófst hèr um bil 900 árum f. Kr.); sú borg bygðist af Týrus og efldist svo mjög og auðgaðist af verzlun sinni, að lángt þótti yfirstíga Týrus. Föniciumenn rèðu einnig fyrir á Spáni sunnanverðum, og fyrir vestan Herkúlesstöpla gjörðu þeir borg á eyju einni og kölluðu *Gadir* (Kadix). Á Spáni var gnægð silfurs, og svo er sagt, að Föniciumenn þeir, er fyrstir komu þar við land, flytti þaðan skipsfarma af þeim málmi og gjörðu af ýmsa óvalda hluti, t. a. m. skipsakkeri; frá Bretlandi fluttu þeir tin og skinnavöru, og af þjóðum þeim, er bygðu strendur við Norðsjóinn og Eystrasalt, og ef til vill Jótland, keyptu þeir röf (Rav), er þá var höfð til prýðis á ýmsan hátt, eins og gimsteinar á vorum dögum. Með verzlun Föniciumanna fluttist ýmisleg mentun af Asíu til þeirra þjóða, bæði í Suður- og Norðurálfu, er þeir sóttu heim, og alment er þeim eignað, að hafa fyrstir manna fundið leturgjörð og reikníngslist. það er og mælt, að af Föniciu hafi þjóðmentun fluzt til Grikklands. *Kadmus* hinn fönverski segja menn hafi gjört Kaðmusvígi (Cadmea) í *Þebuborg;* sú varð síðan höfuðborg í Böiótíu og furðu fræg.

## Gyðíngar.

*Gyðíngar* fluttust snemma á öldum til Egyptalands; þar voru þeir illa haldnir og þrælkaðir sem mansmenn. Nálægt 1500 ára fyrir Krists burð var *Móses* uppi meðal þeirra; hann kom þeim burt af Egyptalandi og setti þeim lög; eptir hann gjörðist *Jósúa* höfðíngi yfir Gyðíngum og kom þeim alla leið til *Palæstínu,* og þar settust þeir að í Kanverja löndum. Stjórnendur Gyðínga eru

kallaðir *dómarar* þángað til 1100 árum fyrir Krist; þá tóku konúngar við yfirráðum; eru þessir taldir frægastir og hver niður af öðrum: *Sál, Davíð* og *Salómon*. Þá stóð ríkið með mikilli vegsemd. En er Salómon konúng leið (975) hófst styrjöld innanlands, er svo lyktaði, að ríkið skiptist í tvennt: *Ísraelsríki* og *Júðaríki*. Jórsalir eða Jórsalaborg (Jerúsalem) var höfuðborg Júðaríkis. Frá því, er ríkin skiptust í sundur, áttu Gyðíngar einatt í deilum innbyrðis, eður við nágranna sína, til þess er *Salmanassar* Assýríukonúngur vann Ísraelsríki (722), og *Nebúkaðnesar* Babýlonskonúngur Júðaríki (588); voru Gyðíngar þá fluttir í útlegð, og stóð svo um 70 ár.

Gyðíngar höfðu lítið samblendi við aðrar þjóðir, og átrúnað fyrir sig og trúðu á einn guð; fyrir því koma þeir lítið við sögur annara þjóða. En að forsjónarinnar ráði hafði þessi litla þjóð öðlazt sanna þekkíngu á guði og varðveitt trú sína ómengaða um margar aldir, til þess að *lausnarinn* gæti birzt þaðan öllum þjóðum þegar aldir liðu fram og tími var til kominn.

## Cýrus.

Þar sem nú heitir *Persaland,* í hèraði því er Farsistan nefnist, bjuggu *Persar* í fornöld; þeir voru hermenn miklir og lifðu á jarðyrkju og kvikfjárrækt. Átrúnaður þeirra var að því leiti ólíkur annara fornþjóða, að þeir höfðu hvorki goðahof nè goðalíkneskjur, en áttu helgihöld sín undir berum himni og trúðu á sól, túngl og stjörnur; eru enn til menjar þess átrúnaðar þar í landi; lifnaðarhættir þeirra voru upphaflega eins og tíðkast meðal fjallaþjóða; börn ólust þar upp við harðan kost og hispurslausan klæðnað, þótt heldri manna börn væri, og meðal annars var þeim kent þetta þrent: að ríða hestum, skjóta af boga og segja satt. Í fyrndinni voru Persar háðir Medíumönnum, nágranna þjóð sinni, en höfðu þó valdsmenn yfir sèr af innlendri konúngaætt. Einn af valdsmönnum þeim hèt *Kambýses;* hann var kvæntur og átti *Mandane* dóttur Astýages Medíukonúngs.

Svo er að ráða sem konúngi þessum hafi eigi verið grunlaust um, að Kambýses, er hlotið hafði slíkt kvonfáng, mundi fleira vilja girnast það, er fengur væri í; því að það er sagt, að hann dreymdi draum þann, að honum þótti vintrè eitt furðumikið vaxa úr kjöltu Mandane dóttur sinnar og dreifðust limarnar um

alla Asíu. En prestar þeir í Medíu, er *Magar* hètu, rèðu drauminn svo, að Mandane mundi son eiga þann, er yfirráð fengi yfir allri Asíu. Nú leitar Astyages sèr ráðs, að eigi mætti þetta fram koma, því að þá var fall búið ríki hans; lætur hann því sækja dóttur sína til Persalands og hafa heim til sín í því skyni, að fyrirfara barni hennar, þá er það fæddist. Líður nú að því, að Mandane verður lèttari og elur sveinbarn, og var kallað *Cýrus.* Maður er nefndur *Harpagus;* hann var frændi Astyages konúngs og trúnaðarmaður hans mikill; konúngur kallar hann á sinn fund, og selur honum sveininn í hendur, og biður hann granda honum; skilja þeir að svo mæltu. Harpagus hugsar nú sitt ráð; hann vissi, að Astýages konúngur tók að eldast og átti ekki sonu; var þá eigi annað líklegra, en að Mandane mundi erfa ríki eptir föður sinn, en snúa hefndum á sig, ef hann sjálfur yrði syni hennar að skaða. Fyrir því þótti honum snjallast, að koma sökinni af sèr og á annan mann; gjörir hann þarnæst orð fjárhirði þeim, er *Mitridates* hèt; hann gætti hjarða Harpagusar upp til fjalla. En er þeir fundust segir Harpagus honum, að konúngur hafi sagt svo fyrir, að hann skyldi taka við sveininum, bera hann til fjalls og láta þar eptir, sem engir væri manna vegir; skuli hann engu fyr týna nema lífinu, ef hann leysi erindi þetta löðurmannlega af hendi; enda kveðst hann sjálfur muni hafa gætur á hversu trúr hann reynist.

Svo bar til, að kona hirðis þessa ól andvana barn í þetta mund. Maður hennar segir henni, hvað fyrir hann hafði verið lagt; og með því að honum var kunnugt um foreldri sveinsins, en hann hinn mannvænlegasti, þá verða þau ásátt um, að þyrma Cýrusi, en færa hitt barnið, er andvana var fætt, í föt hans og bera síðan út. Nú var svo gjört og tókst alt greiðlega. Harpagus sendi menn á fjöll; fundu þeir þar barns lík, og kváðu svo frá öllu gengið, sem fyrir hefði verið lagt; en Cýrus vex upp með fóstra sínum og veit enginn annað en að hann sè hirðis son.

Nú líður til þess, er *Cýrus* er tólf vetra; þá var það einhverju sinni, að hann lèk kóngsleik með öðrum sveinum; kusu þeir hann til konúngs í leiknum; skipaði hann þá embættismenn eins og siður er konúnga: nokkra gjörði hann skutulsveina, aðra sendiboða, einn skyldi vera konúngi í auga stað. Þá bar það

til, að einn þeirra sveinanna braut í móti konúngi, og var sá höfðíngja son; lèt Cýrus þá taka hann höndum og refsa, svo að hèlt við meiðslum; sveinn sá reiddíst og sagði föður sínum; en hann fór að finna Astýages; sýnir honum son sinn, hve sárt hann var leikinn og mælti: »þannig leikur sá þræll oss, hirðis sonurinn«! Konúngur lèt kalla Cýrus fyrir sig og talaði til hans þúngum orðum. Þá mælti Cýrus: »Eg var kjörinn konúngur þeirra, þessi var mèr óhlýðinn, hann hefir fengið sín málagjöld; hafi honum verið refsað um of, þá er eg nú hèr á þínu valdi«! Konúngi virtist svarið einarðlegt og þótti bregða fyrir svip Mandane dóttur sinnar, enda talaði ekki ambáttarsonur á þá leið. Hann lèt sækja hirðinn og kúga til sagna; Harpagus var og látinn koma og varð hann nú að segja satt frá, hversu alt hefði til gengíð. Astýages reiddist mjög, en lèt eigi á sèr finna og sagði: »það hryggir mig, er eg hefi gjört dóttursyni mínum; nú er þetta hefir betur ráðizt en til var stofnað, þá lát þú son þinn koma híngað til Cýrusar, og sit sjálfur til borðs með mèr«. Harpagus varð glaður við, sendir son sinn þrettán vetra til hallarinnar, og kemur sjálfur þángað í ákveðinn tíma. Konúngur lèt bera sauðakjöt fyrír gesti sína, en fyrir Harpagus var settur sèrstakur rèttur. En er svo þótti sem Harpagus hefði fengið saðníng sína, spurði konúngur hann, hversu honum hefði geðjazt að matnum. Harpagus lèt sèr vel hafa líkað. Þá komu inn konúngs sveinar í höllina og báru karfir, voru þar í hendur og fætur og höfuð sonar hans. Þá mælti Astýages: veiztu nú, hvað þú hefir etið? Veit eg það vel, kvað Harpagus; en alt er það gott, sem þèr gjörið herra! Síðan tók hann leifar sonar sins, gekk heim og gróf þær í jörðu.

*Cýrus* var látinn lifa, því svo sögðu Magar, að nú væri draumur konúngs fram kominn, er Cýrus hefði verið konúngur í leiknum; var hann nú sendur heim til foreldra sinna á Persalandi og ólst hann upp með þeim um hríð. En það er að segja frá Harpagusi, að hann var enn við hirð Astýages konúngs, og í miklum kærleikum við hann, en í kyrþey gjörði hann samtök við nokkra höfðingja þar í landi, til þess að steypa konúngi úr völdum, var honum það auðunnið, því að Astyages varð mjög óþokkaður af þegnum sínum sökum grimdar. Þá er Harpagusi þótti tími til kominn, sendi hann Cýrusi hèra einn, og falið brèf í; var

þar á ritað, að hann skoraði á Cýrus, að hann skuli gjörast foringi fyrir Persum, og hefja uppreisn gegn Astýagesi; lofar hann Cýrusi sinni liðveizlu og margra höfðíngja í Medíu. En Cýrus, er honum kemur þessi orðsendíng, þá kallar hann Persa til fundar við sig, og birtir þeim bréf Astyagesar; hljóðar brèfið á þá leið, að Cýrus skuli taka að sèr öll yfirráð yfir Persum; en hið sanna var, að Cýrus hafði sjálfur gjört brèf þetta á laun við afa sinn. Nú sem Cýrus er orðinn foríngi Persa, býður hann þeim að koma fjölmennum hinn næsta dag, og hafa axir meðferðis; þeir gjörðu svo, og lætur hann þá fara á skóg og fella trè þann dag allan til kvölds; segir þeim svo að skilnaði, að koma að morgni og búast hinum bezta búníngi; lætur hann slátra hjörðum föður síns og efna til stórveizlu. Komu nú Persar, eins og hann hafði fyrir sagt; heldur Cýrus þeim öllum kostulega veizlu; sátu menn úti og voru vel kátir. Þegar upp var staðið spurði Cýrus þá, hvern daginn þeir kölluðu betri; þeir kváðu þar margt á milli vera. Þá mælti Cýrus: »ef þèr viljið mèr fylgja, þá skal yður jafnan svo vegna sem nú í dag, og þaðan af betur; en viljið þèr það eigi, þá bíður yðar ófrelsi og ánauð, sem í gær. Nú eigið þèr hversdagslega við slík ókjör að búa, meðan þèr þjónið undir Astýages; fyrir því skulið þèr segja skilið við hann þegar í stað».

Eptir þetta hófu Persar og Medíumenn uppreistina gegn Astyages konúngi; varð fundur þeirra hjá *Pasargada* (560 f. Kr.). Harpagus var fyrir konúngs mönnum; en svo hafði hann talað um fyrir sínum mönnum, að þeir veittu Cýrusi lítið viðnám; varð honum því sigurinn auðunninn. Astyages varð handtekinn og sat í varðhaldi til dauðadags. Þó fekk Astyages það ráðrúm, áður hann var tekinn, að hann gat látið hengja presta þá, er svo sljólega höfðu draum hans ráðið. Þannig fengu Persar yfirráð yfir Medíu.

Þá rèð fyrir *Lydíu* og þeim hluta Asíu hinnar minni, er liggur fyrir vestan Halýsfljót, sá konúngur, er *Krösus* er nefndur; hann var mikill höfðíngi og vellauðigur og gekk orðstýr hans víða um lönd; hann hafði átt orustur við gríska nýlendumenn á ströndum Litlu-asíu og fengið sigur; var hann allfrægur af þeim viðskiptum vestur á Grikklandi. Lydía var auðigt land; í ám var þar gullsandur, en í fjöllum dýrir málmar. Krösus var jafnfrægur af auðæfum sínum sem af gjafmildi; hann sat í *Sardes-*

*borg.* Einhverju sinni komu sendimenn til hans frá Lakedæmon á Grikklandi í þeim erindum, að kaupa gull í súlu eina, er Grikkir höfðu þá í smíðum; gaf Krösus þeim þá svo miklar gjafir, sem þeir vildu þyggja. Maður nokkur á Grikklandi, er *Alkmeon* hèt, hafði eitt sinn orðið liðsinnandi sendimönnum Krösusar. Konúngur bauð honum til sín í Sardes, og gaf honum að skilnaði til leyfis, að hafa brott með sèr svo mikið af gulli, sem hann gæti borið. Alkmeon tróð á sig öllu því er hann gat, fylti skó sína og lèt í munn sèr, er hann mátti eigi á annan veg með komast; þá hló Krösus, því að honum þótti maðurinn furðulega ágjarn, en þó leyfði hann honum að hafa á burt hálfu meira en komið var. Það ræður að líkindum, að konúngur þessi, er svo mjög var lofaður, þættist öllum mönnum fremri og hamingjusamari; og fyrir því lagði hann lítinn trúnað á spakmæli *Sólons* hins gríska spekings, er einhverju sinni sótti hann heim, og brá sèr lítið við auðæfi Krösusar; en þessi voru orð Sólons: alt heims lán er fallvalt, og enginn er sæll fyrir sitt endadægur.

Þá er Krösus frèttir, að Astyages konúngur frændi hans er feldur frá ríki og settur í varðhald, en veldi Persa fer dagvaxandi, þá hugsar hann sèr, að stemma stigu fyrir því, áður það beri sig ofurliða. Þó vildi hann fyrst gánga til frèttar við guðina og vita hvað þeir segðu um fyrirætlun hans, og í því skyni tók hann það ráðs, að reyna goðasvörin, og sjá, hvort hann mætti treysta sannsögli þeirra. Sendir hann þá menn til allra hinna nafnkendustu vefrètta og þar á meðal til hins víðfræga Apollóshofs í *Delfis*, og leggur svo fyrir menn sína, að á hinum hundraðasta degi frá heimanför þeirra, þá skuli þeir hver í sínum stað spyrja guðinn að, hvað Krösus Lydíu konúngur sè þá að starfa. En á þeim degi brytjaði konúngur lamb og skjaldböku og sauð hverttveggja saman í eirkatli með eirloki yfir; hugði konúngur að enginn mundi geta getið þess. Frá því er eigi sagt, hverju hinar ýmsu vefrèttir svöruðu; en er sendimenn komu hinn ákveðna dag til guðsins í *Delfis* og spurðu hann, hvað Krösus Lydíu konúngur hefði þá fyrir stafni, þá svaraði Apollóspresturinn (Pyþía) þeim, hrifinn af heilagri andagipt, þannig: »eg þekki dýpt hafsins og hvert sandkorn jarðarinnar; eg skil hinn dumba og heyri þann, sem eigi getur talað; ilminn af hinni þykkskeljuðu skjaldböku leggur mèr fyrir brjóst; nú er hún soðin

saman við lambakjöt í eirkatli; eir er undir og eir er yfir«. Þegar Krösusi komu þessi andsvör, treysti hann hverju orði, er guðinn í Delfis hafði sagt; gaf þángað til hofsins stórgjafir, og lèt spyrja hann, hvort hann skyldi byrja herferð móti Persum. Honum var þannig svarað: »Þegar Krösus fer yfir Halýsfljót, þá mun stórt ríki til grunna gánga«. Í þriðja sinn lætur hann spyrja guðinn, hvenær yfirráð hans yfir Lydíu muni enda taka. Pyþía svaraði: »Þegar múlasni verður konúngur yfir Persum, þá skulið þèr, lingerðu Lydíumenn flýja fram með hinu grýtta *Hermos*; tefjið eigi og látið yður enga lægingu þykja, þótt þèr sèuð ragir«. Krösus varð glaður við, er hann heyrði svar þetta, því að honum þótti auðvitað, að aldrei mundi múlasni verða konúngur yfir Persum, og fyrir því mundi ríki hans á Lydíu standa um aldur og æfi. Þessum tvíræðu goðasvörum treysti Krösus og hèlt her sínum austur yfir Halýsfljót og inn í Persaland; kom Cýrus þar til móts við hann; varð þar orusta og hafði hvorigur sigur. Krösus var liðfærri; lèt hann því undan síga til Lydíu, en gjörir orð bandamönnum sínum í Babýlon, Egyptalandi og Lakedæmón, að þeir sendi sèr liðveizlu til Sardesborgar, er komin sè þángað að 5 mánuðum liðnum; en hinsvegar sendi hann frá sèr alt það lið útlendra manna, er á mála hafði gengið hjá honum; því að honum kom sízt til hugar, að Persakonúngur mundi veita sèr eptirför inn í Lydíu eptir þá orustu, er fyr var getið, og hvorigur bar af öðrum. En er Cýrus verður þess vísari, hvert ráð Krösus hefir upptekið, þá heldur hann liði sínu vestur yfir Halýsfljót og til Sardesborgar. Komu Persar Krösusi mjög á óvart; þó fer hann með liði sínu út úr borginni og leggur til orustu við Cýrus; Krösus hafði riddara hrausta og vel búna og treysti þeim hið bezta. Harpagus, sem fyr er nefndur, var í liði Persa; hann gaf Cýrusi það ráð, að setja persneska riddara á bak úlföldum, er hafðir voru eigi til reiðar heldur til þess að bera farángur hersins, og fylkja þeim móti riddaraliði Krösusar; voru hestar Lydíumanna slíku óvanir og fældust, er þeir sáu úlfaldaliðið; mistu Lydíumenn þá taumhaldsins og urðu að stíga af baki og berjast á fæti; sneri þá brátt mannfallinu á þá, og urðu þeir að flýja, sem eigi fèllu, inn í borgarvirkið; var það ákaflega traust og vel víggirt, og erfitt til aðsóknar. Krösus gjörði orð bandamönnum sínum og biður þá koma sem

skjótast til liðs við sig. Nú hafði Cýrus setið hálfan mánuð um virkið, og fekk eigi unnið; lýsti hann þá yfir því, að hann heitir hverjum þeim manni miklum verðlaunum, er fyrstur nái uppgöngu á virkismúrana. Þó gjörir Cýrus áhlaup mikið á virkið, en Lydíumenn tóku djarflega á móti, og verða Persar frá að hverfa. Þá bar svo til, að einn af varnarmönnum misti hjálm sinn ofan fyrir bergið, er virkið stóð á, þar sem það var brattast; maður nokkur í liði Cýrusar, sá er *Hydroiades* hèt, fekk sjeð manninn, er hann fór ofan bergið í einhverjum stað, sótti hjálminn og gekk upp aptur hina sömu leið. Leitar hann nú fyrir sèr, ef hann fái upp komizt í virkið þann veg, er hinn hafði farið, og lýkur svo að honum tekst það og fleirum með honum; fekk Cýrus þannig unnið virkið, og varð Krösus konúngur handtekinn. Bauð Cýrus að brenna skyldi Krösus á báli og 7 menn aðra með honum, únga að aldri. En er að því var komið, að Krösusi skyldi hrynda á bálið, komu honum til hugar orð Sólons þau, er hann hafði sagt, að enginn væri sæll fyrir sitt endadægur; þótti honum þau nú vilja rætast á sèr, og fanst þá svo mikið til um alt þetta, að hann æpir hástöfum þessum orðum: *Sólon! Sólon! Sólon!* Lèt Cýrus túlkinn spyrja Krösus; hverju sætti óp það, og hver sá væri, er hann kallaði svo ákaft á. Sagði Krösus honum frá viðræðu þeirra Sólons. Cýrusi gekst hugur við, er hann hugleiddi hverflyndi hamingjunnar, og óttaðist að sèr mundi koma hefnd fyrir grimdarverk þau, er hann hafði unnið. Hann bauð því mönnum sínum, að slökkva eldinn, og leiða Krösus af bálinu; en eldurinn varð þeim eigi auðslöktur. Þá er það sögn Lydíumanna, að Krösus hafi beðið Apolló leysa sig af þeim hörmúngum, er hann var í staddur, og minnast þess, að hann hafði gefið hofi hans góðar gjafir. Er svo sagt, að meðan konúngur ávarpaði guðinn úr eldinum, þá hafi dregið skýflóka yfir, og gjört regnskúr mjög mikla, svo að eldurinn sloknaði. Cýrus lèt leysa fjötra af Krösusi, bauð honum til sætis og spurði hann svofeldum orðum: »hvað gat komið þèr til þess að gjörast heldur óvinur minn en vinur»? Krösur mælti: »Þèr varð það að hamíngju, herra! en mèr að óhamíngju; guðir Grikkja valda því, er espuðu mig til ófriðar móti þèr; því hver er svo fávís, að hann meti meira styrjöld en frið? í friði grafa synir feður sina, en á ófriðartímum grafa feðurnir syni sína». Cýrusi þótti tal hans vitur-

legt, og leyfði honum að hann beiddi sig einhverrar bænar. Sagði Krösus honum goðasvör þau, er hann hafði fengið, og nefndi gjafir þær, er hann hafði sent hofi Apollós í Delfis, og að lyktum beiddi hann Cýrus leyfis, að mega senda nokkra af mönnum sínum til Delfis með fjötra þá, er hann hafði verið lagður í og gjöra guðinum þá orðsending: hvort honum þætti eigi mínkun, að hafa gint Krösus til að hefja ófrið gegn Cýrusi og gjöra ríki hans ónáðir; svo skyldu þeir og sýna guðinum fjöturinn til jarteikna um sigursæld Cýrusar. Þá er sendimenn komu til hofsins, báru þeir upp spurníngar, eins og fyrir þá var lagt; en guðinn bar það fyrir sig, að forlögum yrði eigi raskað, og guðirnir sjálfir gæti eigi breytt þeim; Apolló hefði gjört alt, sem í hans valdi hefði staðið; þannig hefði hann valdið því, að Sardesborg varð eigi tekin fyr en að þrem árum liðnum; og það skyldi Krösus vita, að sjálfur hann hefði fyrst orðið handtekinn þrem árum síðar, en ætlað var; þar sem Krösus mintist á goðasvarið, þá gjörði hann guðinum rángt til; því að hann hefði að eins sagt, að þegar hann færi móti Persum, þá myndi hann kollvarpa stóru ríki; hefði nú Krösus sjálfur kunnað að sjá fótum sínum forráð, þá hefði hann fyrst átt að spyrja guðinn að því, hvers þeirra ríki, Cýrusar eða Krösusar, mundi kollvarpast, ef Krösus færi yfir Halýsfljót; að því hefði Krösus eigi spurt, og mætti hann því sjálfum sèr um kenna; svarið um múlasnann hefði Krösus eigi skilið: Cýrus væri sá múlasni, því að hann væri kynblendíngur, með því móðir hans hefði verið dóttir hins göfugasta manns í Medíu, en faðir hans væri persneskur og af lágum stigum; og að lyktum mætti Krösus minnast þess, að guðinn hefði borgið honum, er hann var að því kominn að brenna á eldi. Þegar Krösus fekk þessi svör guðsins, lèt hann sefast og þóttist sjá að sèr einum, en ekki guðinum, var sök á þessu gefandi.

Þá er *Cyrus* hafði unnið Sardesborg, sendu hinar grísku borgir á vesturströnd Litlu-asíu sendimenn til hans og buðu honum, að gánga á hans vald með sömu kjörum, sem þær hefðu haft hjá Krösusi. En áður Cýrus vann Lydíu og sigraðist á Krösusi hafði hann boðið borgum þessum, að gánga í samband við sig; virti hann því lítils þessi tilboð þeirra og svaraði sendimönnum með dæmisögu þessari: »hljóðpípu-leikari sá fisk sveima fyrir landi; blès hann þá í pípu sína í því skyni að fisk-

arnir rynni á land. En er hann sá þá von bregðast, varpaði hann netjum sínum í sjóinn og veiddi marga fiska; og sem þeir sprikluðu mjög í netjunum, mælti hann: nú þurfið þèr ekki að leika yður, er þèr vilduð eigi þyggja þá skemtun, er eg blès í pípu mína og bauð yður hana«. Harpagus hinu herkænasti maður vann hinar grísku borgir hverja af annari á þann hátt, að hann hlóð torfgarða jafnháfa borgarmúrum, og fekk svo tekið borgirnar. En það er frá Cýrusi að segja, að hann hèlt hernum austur á Asíu og lagði þjóðir undir sig austur að Indusá. Krösus fylgdi honum og studdi hann með ráði og dáð. Skamma stund höfðu Lydíumenn þjónað Cýrusi, áður þeir hófu uppreist; kom honum þá til hugar, að leggja Sardesborg í eyði, en selja landsmenn mansali. En Krösus fekk talið hann af því, og gaf honum það ráð, að venja Lydíumenn svo, að þeir lèti af óspektum og hneigðist heldur til annara hluta en hernaðar. Hann rèð Cýrusi að taka öll vopn frá þeim, láta þá venjast hlýari klæðaburði og meiru hóglifi, en þeir áður hefði vanizt, láta börn þeirra læra söng, hljóðfæraslátt og smáverzlun. Þegar uppreistinni var lokið, fylgdi Cýrus þessu ráði, og hinir harðfengu og hergjörnu Lydíumenn urðu fljótt lingerðir og spaklátir.

Þá er *Cýrus* kom aptur úr austurför sinni snerist hann í móti Babýlonsborg; hafði hann þá her mikinn og vel að öllu búinn; hann flutti með sèr vatn á silfurskálum úr Koaspesfljóti hjá *Súsa*, því að af því vatni einu drukku Persakonúngar; lèt hann því flytja vatn þetta með sèr á vögnum, hvert sem hann fór. Þegar Cýrus kom að Gyndesfljóti, — það vatn fellur í Tigrisá —, ætlaði einn af hestum hans, er helgur var og hvítur á lit, að synda yfir ána, en straumurinn tók hann, og fórst hann þar. Þá reiddist Cýrus fljótinu og þótti það furðu djarft, og hótaði því, að gjöra það svo litið, að eigi skyldi væta konu til knès þótt yfir væði; stöðvaði hann þar herinn og skipti mönnum til verka, og lèt veita Gyndesfljóti í 360 siki; varð aðalfljótið þá svo lítið, sem hann hafði sagt. Að þessu starfi var hann alt sumarið, og hèlt síðan áfram ferðinni til Babýlonar. Þá var *Labýnetus* konúngur í Babýlon; hèlt hann liði sínu úr borginni til móts við Cýrus og lagði til orustu við hann. Þar fekk Cýrus sigur, en Labýnetus flýði aptur í borgina; var hún ramlega viggirt og vistir nógar til þriggja ára; voru borgarmenn fyrir þá sök ókvíðnir og

lètu sèr lítið um finnast, þó Cýrus gjörði þeim umsátur. Cýrus sat lánga hríð um borgina og þótti illa áhorfast; borgarmúrarnir voru bæði háir og traustir, en á þeim tímum skorti bæði kunnáttu og áhöld til að vinna víggirtar borgir. Loks fann Cýrus það ráð, er honum dugði; hann lèt liðsmenn sína veita Evfratfljóti í vatn eitt skamt þaðan; varð fljótið þá svo grunt, að vatnið tók mönnum eigi meir en í beltisstað. Gjörðu Persar þá atlögu að borginni og komust þann veg inn í hana; sátu borgarmenn þá að veizlu og höfðu gleði mikla og ugðu alls eigi að sèr. En svo var Babýlon mikil ummáls, að Persar ræntu og drápu menn í öðrum enda borgarinnar, meðan borgarmenn sátu að veizlu í hinum, og voru vel kátir og vissu eigi hvað fram fór, fyr en Persar komu yfir þá og gjörðu þeim herfileg veizluspjöll (536 f. krb.).

þess er áður getið, að *Gyðíngar* höfðu verið herleiddir til Babýlonar af Nebúkadnesar konúngi; sátu þeir þar síðan og undu við hið versta; en nú gaf Cýrus þeim heimfararleyfi og urðu þeir fyrir því vinir hans miklir. það er sagt að 50 þúsundir Gyðinga hafi þá farið úr Babýlon og flutzt aptur heim á Gyðíngaland; reistu þeir þá aptur musterið mikla í Jórsölum, og hlóðu þar borgarmúra af nýju. þeir *Serubabel* og *Josva* yfirprestar, voru foríngjar Gyðínga á heimferð þeirra.

Nú sem Cýrus hafði lagt undir sig lönd öll í Asíu vestan frá sjó og austur að Indusfljóti, þá vildi hann tryggja landamæri ríkis síns að norðan, gegn þjóðflokkum þeim, er þar reikuðu um löndin. Fyrir því heldur hann liði sínu móti *Massagetum;* voru þeir hjarðmenn einir, er höfðust við á flatlendi því hinu mikla, er gengur austur af hinu *Kaspiskahafi;* hjarðir þeirra voru aleiga þeirra, og hèldu þeir þeim á beit híngað og þángað á því svæði, en höfðu hvergi fasta aðsetu; vildu þeir hvorki áreita aðra, nè heldur þola yfirgáng af öðrum. Á dögum Cýrusar rèði drotníng sú yfir Massagetum, er *Tomýris* hèt. Cýrus sendi fyrst menn til hennar og lætur spyrja hana, hvort hún vilji ekki giptast sèr; en hún þóttist sjá, að Cýrusi mundi öllu heldur leika hugur á að ná yfirráðum yfir Massagetum, en að giptast sèr, og fyrir því neitar hún ráðahag þessum. En er Cýrusi komu þau svör, heldur hann her sínum norður að *Araxesfljóti,* og tók að gjöra brú á ána; hinumegin fljótsins bjuggu Massagetar. Meðan stóð

á brúargjörðinni, sendi Tomýris menn til Cýrusar, og lætur þá færa honum svofeld skilaboð: »Hættu störfum þessum Persakonúngur! ráð þú yfir þínum mönnum, en lát oss í friði með það sem vèr höfum! En lángi þig svo mjög til að reyna þig við Massageta, þá þarftu ekki brú að gjöra til þess. Vèr skulum fara þriggja daga leið inn í land, svo þú getir híngað komið í land vort; en kjósir þú hitt heldur, að veita oss móttöku í þínu landi, þá gjör þú slíkt hið sama«.

Krösus réð Cýrusi að þyggja heldur hinn fyrra kostinn, er Tomýris bauð; fór hann á skipum yfir Araxesfljót, og Krösus gaf honum þá aptur það ráð, að veiða Massageta með brögðum. Honum var kunnugt, að Massagetar þektu hvorki vínföng, nè ýmsa munaðarvöru, er Persar lögðu sèr til munns; lèt hann þá slátra fjölda kvikfènaðar og matreiða, og þvínæst lèt hann mat þann allan, og miklar nægtir af óblönduðu víni eptir verða í herbúðum sínum, og þar til gæzlu setti hann nokkra af hinum lökustu meðal liðsmanna sinna; en sjálfur hèlt Cýrus meginhernum þaðan á burt. Nú sem hann var þaðan farinn komu Massagetar til herbúða Cýrusar, undir forustu *Spargapíses* sonar Tomýris drotníngar; tóku þeir herbúðirnar eptir litla mótvörn; settust síðan að veizlu og átu og drukku, þar til er þeir vissu ekki sitt rjúkandi ráð og ultu útaf. En litlu síðar komu Persar að þeim, og rèðust á Massageta þar sem þeir lágu í rotinu og drápu fjölda þeirra, en tóku suma; var Spargapíses einn á meðal þeirra. En er hann hafði aptur fengið fult ráð og rænu, biður hann Cýrus leysa fjöturinn af sèr, og sem hendur hans voru lausar, þá veitir hann sèr sjálfur bana. Þá er Tomýris frètti ófarir manna sinna og dauða sonar síns, gjörir hún Cýrusi svofeld orð: »Þú, óseðjandi blóðdrekkur! vínið er ólyfjan, sem þèr hellið í búka yðra þángað til illyrði renna yður af vörum; með ólyfjani þessu hefir þú svikið son minn og fengið hann á þitt vald, en ekki með dug eður drengskap. Nú vil eg ráða þèr heilt, en taktu nú eptir því, sem eg segi: Láttu þèr lynda það happ, er þú hefir hlotið, og farðu svo í friði heim til þín aptur; en viljir þú ekki það gjöra, þá sver eg eið við sólguðinn, Massageta drottinn, að eg skal seðja þig á blóði, þó þú sèrt óseðjandi«.

Cýrus gaf þessum orðum engan gaum og hèlt liði sínu til

móts við Massageta. Tomýris drotning safnaði liði miklu og fer í móti Cýrusi; verður þar harður bardagi og mátti lengi eigi á milli sjá, hverjir sigrast mundu; gengu menn í höggorustu; sneri um síðir mannfallinu á Persa, og fèll þar *Cýrus* konúngur. *Tomýris* lèt kanna valinn og leita Cýrusar, og fundu menn lík hans; lèt drotníng koma líkinu í leðursekk fullan af blóði, svo hann fengi saðníng sína, eins og hún hafði haft í hótyrðum við hann. það var 529 vetrum fyrir Krists burð.

## Egyptalandsmenn og Kambýses.

Norðan og austan á Afríku er land það, er *Egyptaland* heitir; þar eru landkostir hinir beztu, en til beggja handa sandauðnir miklar. Svo hagar til bæði á Egyptalandi og á eyðimörkinni *Sahara,* að þar kemur sjaldan eða þvínær aldrei regn úr lopti, mundi því Egyptaland brátt verða eyðimörk, ef *Nílfljót* rynni ekki eptir því endilöngu og flæddi á hverju sumri útyfir landið, vökvaði jarðveginn og veitti hvers konar aldinum vöxt og viðgáng. þar vex baðmull og ýmsar korntegundir. Beggja megin fljótsins gánga fjallgarðar af suðri til norðurs; eigi eru þeir háfir, og því lengra sem dregur norður í landið og nær kemur Miðjarðarhafi, því meir gánga fjöllin sundur, og að því skapi breiðkar dalurinn; verður þar þá slèttlendi mikið, en fljótið rennur um marga ósa í sjóinn. það land heitir *Nílár-Delta.* Í fyrndinni bygðu Eþíópar þetta ágæta land, og fyrir sakir landgæða og veðursældar, komust þeir þegar nokkuð áleiðis í vísindum og íþróttum; prestar þeirra kunnu stærðafræði, stjörnufræði, sagnafræði og aflfræði (Mechanik). En þó þeir kynni nokkuð í vísindagreinum þessum, þá fór allur þorri landsmanna á mis við þá mentun. þjóðinni var skipt í sjö flokka eða kynkvíslir, er mjög vandlega voru greindir hverir frá öðrum; fyrir því gat hvorki almenn mentun nè sönn ættjarðarást sameinað íbúa Egyptalands til einnar þjóðar. Eptir atvinnu sinni nefndust þessir sjö þjóðflokkar þannig: prestar, hermenn, nautahirðar, svínahirðar, kaupmenn, túlkar og skipstjórar. Prestastèttin fór mjög á huldu með þau vísindi, er hún kunni, og hið helga letur, er hún ritaði (hieroglýfar, heilög myndaskript) gat enginn maður lesið nema sá, sem þekti leyndarmál prestanna, og þannig tókst þeim að halda hinum fáfróða lýð í hinni mestu undirgefni.

Hermannastèttin hafði þau forrèttindi að verja líf konúngs; hún leið engum af öðrum flokki, að hafa hin minstu hernaðarstörf á hendi, og þar eð hún þannig einsaman bar vopn og kunni vopnum að beita, þá hafði hún ásamt prestunum alt vald yfir hinum öðrum flokkum. Konúngur var kosinn af þessum tveim flokkum; þeir einir áttu jarðir í landinu, og hinir voru þeim algjörlega háðir; hinir fimm óæðri flokkar máttu ekkert samneyti eður samblendi hafa við presta eður hermenn; svínahirðar voru í minstum metum af öllum; ef þeir snertu einhvern mann úr öðrum flokki hinum minsta fíngri, þótti það hin versta saurgun, er vandlega skyldi af þvegin. En um einn hlut komu allir þessir flokkar sèr saman, og það var, að þeim þótti engin þjóð í heimi standa sèr jafnfætis; að því leyti líktust Egyptalandsmenn Kínverjum; en af jafn óvitulegu þjóðardrambi leiddi þá eðlilega, að þeir fóru á mis við margvíslega mentun og framfarir, er aðrar þjóðir hefðu getað veitt þeim, og öll mentun og vísindi Egyptalands hlaut að verða sèrvizkuleg og eintrjáníngsleg og fá á sig eins konar steingjörfíngs svip. Þessu til sönnunar skal þess getið, að prestarnir höfðu safn mikið af ýmsum reglum læknisfræðinnar; hvað sem fyrir kom, urðu læknar að fylgja þeim reglum og engu öðru; en bæri svo til, að einhver læknir fylgdi öðrum ráðum en þeim, sem þar voru rituð, og sjúklíngur andaðist, þá var læknir sá dauðasekur.

Egyptalandsmenn tignuðu marga guði, einkum *Ósíris,* forlaga guð, og *Ísis,* er táknaði frjófgun jarðarinnar; þar að auk hèldu þeir mörg dýr vera heilög, t. a. m. *Íbis* (fugl), *Ichneumon* (Faraósrotta), köttinn, og ýmsar höggormategundir; sumir menn þar í landi trúðu á krókódílinn. Það varðaði líftjón ef dýr þessi voru drepin. Ef svartur kálfur fæddist með helgum einkennum, með hvítum díl ferhyrndum í enni, arnarmynd í hnakka og tordífilsmynd undir túngurótum, þá varð mikill fögnuður um alt Egyptaland, og hátíðahöld með mikilli viðhöfn. Þann kálf kölluðu landsmenn *Apis* og blótuðu hann; hof hans var í *Memfisborg.* Þeir trúðu því, að annað líf væri til eptir þetta, en sálin gæti eigi komizt til bústaðar Ósíris, fyr en eptir margfalda hreinsun. Fyrir því hèldu þeir, að sálir manna færi eptir dauðann í líkami ýmsra dýra, einn af öðrum, þar til þær sneru aptur í manns líkami; þetta hríngsól varð hver mannssál að gjöra þrisvar áður

fullhrein væri. það kölluðu þeir sálnareik. Til þess að sálin, er hún kom aptur af reiki þessu, gæti fundið líkama sinn órotnaðan, þá smurðu þeir líkin dýrum smyrzlum, vöfðu þau ullarvoðum og lètu í kistur, gjörðar af eins konar fíkjutrè, er mjög var seigt og endíngargott; er enn til fjöldi þess konar smurðlíka (*mumiæ*) á Egyptalandi, er geymzt hafa óskemd um margar þúsundir ára í grafreitum neðanjarðar. Er það allmerkilegt, að hitta þannig nú á tímum líkami þeirra manna, er eitt sinn voru uppi á Egyptalandi og sjálfir voru sjónarvottar að ýmsum þeim furðuverkum, er sögð eru þaðan úr landi.

Til eru margar fornleifar og menjar hinnar fornu íþróttar egypzkra manna; rústir af hofum með úthöggnum myndum og afarstórum líkneskjum goða, manna og dýra. því að sá var siður Egyptalands konúnga í fornöld að þröngva alþýðu manna til að vinna slík stórvirki, starfa að slíkum stórsmíðum, til þess að sýna seinni alda mönnum stórmensku og höfðíngsskap konúnganna, er svo miklu gátu til leiðar komið. Meðal þessara hinna miklu fornleifa, er einkum finnast í nánd við *Þebu* á Egyptalandi, eru steinstöplar þeir hinir miklu (*Pýramídar* og *Óbelískar*) nafnkendastir. *Pýramídar* eru ákaflega miklir stöplar af steini, ferstrendir og breiðir mjög að neðan, en að sèr dregnir upp og oddmjóir að ofan; hlezlunni var svo hagað, að stallar voru á, tveggja og þriggja feta háfir eptir steinþyktinni, og mátti gánga upp sem á stigum. Hinn stærsti af steinvörðum þessum var 700 feta á hvern veg niður við jörðu, og jafnmargra feta á hæð. Margir þeirra eru enn til á Miðegyptalandi fyrir vestan Nílfljót. *Óbelískar* eru ferstrendir stöplar af einum steini, og gegnir það furðu, að menn skuli hafa orkað að höggva og reisa slík heljarbjörg, um 180 feta á hæð; eru þeir að líkindum höggnir út úr hömrum suður í fjöllum á Egyptalandi hinu efra; á hliðum þeirra er höggið hið helga letur egypzkra manna, og hefir mönnum nú á hinum síðustu tímum tekizt að þýða það að nokkru og mun að líkindum margt verða ljósara en verið hefir um fornöld Egyptalands. Sumir af Rómverja keisurum fluttu nokkra af steinstöplum þessum til Rómaborgar, og standa þeir þar á einstöku torgum staðarins.

Einn af forn konúngum Egyptalands er nefndur *Sesostris;* hann var mikilvirkur og víðförull og fór herferðir til ýmissra

landa; hann vann Litlu-asíu og Skýþaland og Eþíópaland, eður Bláland; það er suður af Egyptalandi; hann lèt gjöra síki út um landið og veita vatni úr Nílfljóti til gróðurauka.

það hafa menn fyrir satt, að sundurþykkja milli prestastèttar og hermanna hafi valdið því, að Egyptaland skiptist í 12 konúngsríki

Einn af konúngum þeim var *Psammetíkus;* hann varð einvalds konúngur (656—617) og þröngvaði hermannastèttinni til hlýðni við sig með tilstyrk málaliðs, er hann fekk af *Íóníu* og *Karíu;* en prestastèttina gjörði hann sèr auðsveipa með því að reisa hof og helgar smiðar; hann leyfði útlendum mönnum, einkum Grikkjum, að setjast að við Nílárósa.

*Nekko* hèt son hans; hann misti Sýrlaud eptir orustuna hjá *Circesium* (606), en lagði alla stund á að koma upp skipastóli. *Herodótus* hinn gríski sagnaritari segir, að hann hafi látið *Föniciumenn* sigla umhverfis Afríku; lögðu þeir út *hafið rauða* og komu aptur að þrem árum liðnum inn *Njörfasund* (Gibraltarsund). *Apries* hèt sonarson Nekkós; hann herjaði á *Cyreneborg;* þar bjuggu Grikkir. Apries konúngur beið ósigur; gjörðu liðsmenn hans þá uppreist, og tóku mann af lágum stigum, er *Amasis* hèt, til foríngja yfir sig. Varð Apries konúngur handtekinn og líflátinn, en *Amasis* settist að völdum eptir hann. Amasis (frá 570—526 f. Kr.) var atorkumaður mikill og slægvitur; hann lèt reisa hof mörg og gjörði það til þess að geðjast prestastèttinni; við alþýðu manna var hann ljúfur og lítilátur og hinn glaðlegasti, og fyrir þá sök varð hann ástsæll; hann leyfði Grikkjum verzlunarviðskipti við Egyptalandsmenn og bólfestu í *Naukratisborg.* Á hans dögum var ársæld mikil á Egyptalandi; jók það eigi alllítið vinsældir hans meðal landsmanna.

þá er *Cýrus* var fallinn í ófriði við *Massageta,* eins og fyr er ritað, tók *Kambýses* sonur hans konúngdóm yfir Persum; hèt hann að halda fram hernaði og vinna lönd, sem faðir hans hafði gjört; lèk honum þá mest hugur á að eignast Egyptaland; þykir það land erfitt aðsóknar austan af Asíu, fyrir því að þá er að sækja yfir eyðimörk þá er *Suez* heitir; sú skilur heimsálfurnar; hefir herliði þar opt illa farnazt. Kambýses gjörði samband við konúng einn í *Arabía*; fekk vatn hjá honum handa liði sínu á eyðimörkina, og flutti á úlföldum. þá rèð *Psammenítus* konúngur

fyrir Egyptalandi; safnar hann líði og fer til móts við Kambýses; varð fundur þeirra hjá *Pelúsium* (525 f. Kr.); það er í Nílárhólmum; varð þar orusta mikil og lauk svo, að Kambýses fekk sigur; eptir það tók hann *Memfis,* eina af höfuðborgum landsins.

Kambýses var gjarn á stórræði og hernað, sem faðir hans, en ólíkur honum í mörgu öðru. Þótt Cýrus væri einvaldur, þá lèt hann eigi grimd koma niður á mönnum eptir því sem verkast vildi, hann hafði það og til, að vera veglyndur, enda höfðu Persar minníngu hans lengi í hávegum; og þykir það bera þess vott, að hann hafi ekki eingöngu verið ágengur harðstjóri, heldur haft margt sèr til ágætis. En Kambyses var bæði reiðigjarn, grimmur og heiptrækinn, og þar á ofan jók hann þessa ókosti sína svo mjög með ofdrykkju, að stundum hèlt við æði. Hann hlífði Psammenítus um hríð, en þar kom, að hann lèt ráða hann af dögum, síðan beitti hann hinni mestu grimd gegn ættmönnum hans, og lèt misþirma líki Amasis konúngs, föður Psammenítus, fyrir þá sök, að Amasis hafði að sögn komið sèr undan því með kænsku, að gipta Kambysesi dóttur sína. Þessu næst ráðgjörir Kambýses að fara herskildi lengra suður á Afríku. Í því skyni sendir hann 50 þúsundir fótgönguliðs vestur til *Ammonium;* þar heitir nú Sivah og er í eyðimörkinni *Sahara;* þar var bygð og þar var nafnfrægt hof og vefrèlt; þar tignuðu menn guðinn *Ammon.* Kambýses valdi menn mjög í för þessa; lögðu þeir upp frá *Þebu,* höfuðborg Suðuregyptalands og hèldu inn á eyðimörkina; hefir eigi spurzt til þess herliðs síðan; en það er sögn Ammoníumanna, að lið þetta hafi hrept veður mikið í óbygðum með sandroki og hafi þar farizt hvert mannsbarn. Suður af Egyptalandi bygðu um þær mundir »hinir lánglífu Eþíópar«; það var fjallaþjóð, og lifði við kjötmeti og mjólk, en skeyttu hvorki akuryrkju nè listum eður neins konar mentun. Kambýses lèk hugur á að leggja þá þjóð undir sig, en áður lengra ræki ræður hann það af, að senda njósnarmenn egypzka á fund konúngs þeirra Eþíópanna, og fá fregn af landinu. Njósnarmenn fara, sem fyrir þá var lagt, og höfðu með sèr gjafir til konúngs, bæði purpuraklæði, gullfesti, armbaug af gulli, smyrsl og pálmaviðarvín. Segir ekki af ferð þeirra fyr en þeir koma á fund Eþíópa konúngs; hann var mikill maður vexti og fríður sýnum. Segja sendimenn, að Kambýses Persa konúngur sendir honum

gjafir þessar, er hann átti eigi aðrar betri, og vill vera vinur hans og gestafèlagi. Konúngur mælti: »eigi mun Persa konúngur hafa sent mèr gjafir þessar í því skyni, að gjörast gestafèlagi minn; eigi er það heldur satt, er þèr segið, því að þèr eruð njósnarmenn einir; Persa konúngur er viðsjáll maður; væri hann það eigi, þá mundi hann láta sèr nægja sitt land, og mundi eigi seilast til annara«. Konúngur hèlt á boga; lèt hann þá strenginn slakna á boganum, fekk sendimönnum hann í hendur og sagði: »Konúngur Eþíópa ræður Persa konúngi að hyggja af leiðángri híngað í land, þángað til hann, eður einhver annar persneskur maður, getur dregið ör fyrir odd á boga þessum; alt til þess tíma má hann þakka guðunum, að Eþíópum hugkvæmist eigi, að auka ríki sitt með annara löndum«. Því næst tók hann við purpuraklæðunum og spurði, hvað sá hlutur væri. En er sendimenn höfðu skýrt honum af vefnaði og lit klæðanna, mælti konúngur: »mennirnir eru svikulir og klæði þeirra eru einnig svikul«. Þá spurði konúngur, til hvers væri höfð gullfestin og armbaugurinn. Sendimenn sögðu honum það; en konúngur hugði vera mundu fjötrar, hló og mælti: »þá höfum vèr sterkari fjötra hèr í landi, en þessa«. Vínið þótti honum gott, og spurði, hvað Persa konúngur hefði til matar, og hversu gamlir menn yrði þar í landi. Sendimenn svöruðu, að konúngur æti brauð, og sögðu honum hvernig jörðin væri búin undir sáníngu; hveitikorni sáð í hana, er síðan sprytti og yrði að hárri stöng; en hvað aldri manna liði, þá yrði Persar áttræðir. Konúngur svaraði: að sig furðaði als ekki, þó þeir gæti eigi eldri orðið, þar sem þeir æti áburð jarðarinnar, og hefðu þeir ekki vínið að styrkja sig á, þá myndi þeir naumast verða svo gamlir.

Þá er Kambýses frètti orð Eþíópa konúngs, varð hann ákaflega reiður, og það því fremur, sem hvorki hann, eða nokkur annar persneskur maður gat dregið ör fyrir odd á boga þeim, er sendimenn komu með frá Eþíópalandi. Kambýses átti bróður þann, er *Smerdis* hèt; hann einn gat dregið bogastrenginn lítið eitt; það mislíkaði Kambýses stórum, og fyrir því sendi hann Smerdis bróður sinn heim til Persalands. Sjálfur hèlt hann her sínum til móts við Eþíópa konúng; átti liðið að sækja yfir fjöll og fyrnindi þau, er liggja suður af Egyptalandi. Kambýses var fljótfær og framgjarn, og hafði litla fyrirhyggju haft fyrir vistum

handa liðsmönnum sínum; þrutu vistir í óbygðum og urðu Persar að hafa fararskjóta sína til matar, og þar kom um síðir, að liðsmenn vörpuðu hlutkesti um hverjir þeirra deyja skyldu, til að seðja húngur hinna. Varð Kambýses þá að snúa aptur til Egyptalands. En er hann kom aptur til Memfis-borgar, var hátíð mikil meðal landsmanna, því að guðinn Apis var þá nýkominn til þeirra; lèt Kambýses drepa þá menn, er fyrstir sögðu honum þau tíðindi, og kvað ósannindi ein er þeir sögðu. En er prestarnir játuðu það satt að vera, sem þeir höfðu sagt, kvaðst Kambýses vilja sjá Apis og vita hvort hann væri taminn. Var þá Apis leiddur fyrir konúng, og jafnskjótt og Kambýses sèr hann rekur hann sverðið í lær nautinu, og mælti: »þèr heimskingjar! er það guð, sem hefir hold og blóð, og verður járni særður? slíkur guð er rèttkjörinn yður til handa, en þó skulið þèr eiga því skamma stund að fagna, að hafa gabbað mig«. Að því mæltu lèt hann berja prestana, og bauð að drepa hvern þann egypzkan mann, er þá ætti nokkurn þátt í hátíðarhaldinu. En það er frá Apis að segja, að hann dó í hofi sínu af sárum: jörðuðu prestar hann síðan á laun við Kambýses.

Litlu síðar birtist Kambýses sýn í svefni; honum þótti Smerdis bróðir sinn sitja í konúngs hásæti og nam höfuð hans við himin. Draumur þessi fèkk Kambýses mikillar áhyggju og fyrir því sendir hann *Prexaspes* vin sinn austur í *Súsa* og lèt hengja Smerdis. Upp frá því varð Kambýses svo óður, að hann rèði sèr ekki fyrir grimd; hann spyrnti þannig fæti við systur sinni, svo að hana dróg til bana, var það fyrir þá sök, að hún minti hann á Smerdis bróður þeirra. *Krösus* gamli, er verið hafði ráðgjafi föður hans, varð opt að fela sig til að forða lífi sínu, er hann hafði gefið Kambýsesi eitthvert það ráð, sem honum geðjaðist eigi að. Enginn maður þorði að yrða á hann, nema með mestu flærð og fagurmælum, og þótt hann sýndist glaður í bragði, þá urðu menn vel að gæta þess, að segja honum ekkert ógeðfelt. Einhverju sinni spurði hann Prexaspes: »Hvað segja Persar um mig?« Hinn svaraði: »Menn segja þèr þyki sopinn góður herra! en að öðru leiti er þjer hælt«. Konúngur mælti: »nú skaltu sjálfur um dæma, hvort Persar hafa satt að mæla, er þeir segja slíkt, eða þeir eru gengnir frá vitinu; ef eg hitti son þinn, sem þar stendur, í hjarta, þá er ljóst, að Persar segja ó-

satt, og að eg er með öllu ráði«. Greip konúngur þá boga sinn, lagði ör á streng, og skaut af; sveinninn fèll þegar; stóð örin í miðju hjarta. Þá varð Kambýses glaður og mælti við Prexaspes: »nú er auðsèð, að það eru Persar, en ekki eg, sem vitið hafa mist. Hefurðu nokkru sinni sèð betur skotið en þetta?« Prexaspes mælti: »guðinn sjálfur getur ekki betur skotið!«

Um þessar mundir gjörðist sá viðburður á Persalandi, að maður nokkur af prestastèttinni frá *Medíu*, gaf sig fram í höfuðborginni *Súsa*, og sagðist vera *Smerdis* bróðir Kambýsesar; urðu margir til að trúa orðum hans, og komst hann þannig til ríkis. En það er að segja frá Kambýses, að þá er hann frèttir aðfarir þessar, bregður hann við skjótt, og býzt að fara heim til Persíu og sefa uppreistina; en er hann var kominn til *Sýrlands*, tókst svo til, að þá er hann vildi stíga á bak hesti sínum, stakk hann sig á sverðsoddi í lærið; var það allmikið sár; varð hann þá að láta þar fyrirberast sem hann var kominn; kallaði hann nokkra persneska höfðíngja á sinn fund, og segir þeim, að hann hafi látið taka bróður sinn af lífi, til þess að draumur sinn skyldi eigi fram koma; en prestur sá, sem nú sè kominn til ríkis á Persalandi, sè svikari, og verði þeir að steypa honum úr völdum; tók konúngur þá að gráta og harmaði miög forlög sín. En er Persar sáu Kambýses gráta, rifu þeir klæði sín og grètu hástöfum. Þó trúðu þeir því, að prestur segði satt, og væri Smerdis sonur Cýrusar konúngs, Kambýses gæti ekki unt honum konúngstignar, og vildi því æsa menn til ófriðar gegn honum. Eptir það andaðist Kambýses af sárinu (522).

## Svika-Smerdis.

Eptir lát Kambýses rèði prestur þessi yfir *Persalandi*, og hafði aðsetu í *Súsa*. Hann gjörði sèr alt far um, að ná hylli landsmanna með því, að leysa menn frá herþjónustu, og gefa þá lausa við skatta. Það er sagt um þenna Svika-Smerdis, að Cýrus hafði eitt sinn refsað honum fyrir einhverja yfirsjón, á þann hátt, að hann lèt skera af honum bæði eyrun. Þessi líkams-lýti reyndi Smerdis að dylja sem bezt, og fyrir því lèt hann engan persneskan höfðíngja koma á sinn fund, lèt þvínær aldrei sjá sig, en sat allajafna heima í höll sinni. Maður hèt

*Ótanes,* honum var kunnugt, að einn *medverskur* prestur hafði verið afeyrður á dögum Cýrusar; kom honum því til hugar, að alt mundi vera sami maðurinn, sá sem afeyrður var og þessi sem til valda hafði brotizt. Ótanes átti sèr dóttur; hún var ein af konum Smerdis; hana fær Ótanes til að taka höfuðfatið af konúngi, einhverju sinni þá er hann var sofnaður. Og jafnskjótt sem Ótanes verður þess vísari að konúng vantar eyrun, gjörir hann samsæri við sex persneska menn; einn af þeim hèt *Daríus;* hann var son *Hystaspis* jarls á Persalandi.

Nú hefir *Svika-Smerdis* konúngur frètt, að sá kvittur gángi meðal manna, að konúngstign hans muni miðlúngi vel fengin; lætur hann þá Prexaspes koma á sinn fund og lofar honum öllu fögru, ef hann gángi fram á hallarmúrinn og sannfæri lýðinn um, að hèr sè als engum brögðum beitt, heldur sè það Smerdis sannur son Cýrusar, er nú sitji að völdum í Súsa. En það er frá Prexaspes að segja, að jafnskjótt sem hann hefir stígið fæti upp á hallarmúrinn, þá hirðir hann lítið um loforð þau, er hann hafði heitið Smerdí, og þylur upp alla ættmenn Cýrusar og allar þær velgjörðir, er Cýrus hefði veitt Persum; kveðst sjálfur hafa ráðið Smerdis bana eptir áeggjan Kambýsesar, og að sá maður, sem nú hafi konúngsvald á hendi, sé prestur og eigi ekki tilkall til konúngdóms á Persalandi; lauk hann erindi sínu með því, að bannsýngja Persum, ef þeir reyndi eigi að losa sig undan yfirráðum Medíumanna. Að því mæltu steypir hann sèr ofan fyrir múrinn og lèt þannig líf sitt.

Nú víkur sögunni til hinna sjö, er samsærið höfðu gjört; vissu þeir eigi hvað Prexaspes hafði aðhafzt, en hinsvegar eggjaði *Daríus* þá mjög á, að vinda bráðan bug að sinni fyrirætlun; gánga þeir nú til hallarinnar og ná skjótt inngöngu, með því varðmenn gruna þá ekki, þar sem þeir voru allir í höfðingjatölu. En er þeir komu að konúngs herbergjum, vildu þrælar þeir, er þar hèldu vörð, eigi leyfa þeim inngöngu; brugðu samsærismenn þá sverðum og vógu þrælana. Meðan þetta gjörðist sat konúngur, sem venja hans var til, í herbergi sínu, og hjá honum prestur einn, og ekki fleiri manna; ræddu þeir með sèr, hvað til bragðs skyldi taka, síðan Prexaspes hafði þannig brugðizt, sem reynd var á orðin. Í því ruddust samsærismenn inn að þeim, greip annar þeirra þá boga, en annar spjót, og bjuggust til varn-

ar; sá varðist vel er spjótið hafði, þar til er hann fèll; en hinn, er hann sá að hann fekk eigi boganum við komið, þá kastar hann honum og flýr í annað herbergi þar er dimt var. Þángað komst *Daríus* og einn af fèlögum hans, er *Gobrýas* hèt; rèðist Gobrýas á Smerdis þar í myrkrinu, og urðu sviptíngar með þeim. Daríus stóð hjá með brugðnu sverði, en þorði eigi til að leggja, því að hann óttaðist, að hann kynni að vega fèlaga sinn í stað konúngs, þar í myrkrinu. En er Gobrýas finnur, að Daríus hefst ekki að, kallar hann og mælti: »Neyttu sverðsins maður, þótt eg verði fyrir högginu«! Daríus heggur fram sverðinu; hittir konúnginn; varð það hans bani. Nú hafa þeir Daríus með sèr höfuð Svika-Smerdis og sýna lýðnum; gengu borgarmenn þá í lið með þeim og drepa presta þá alla, er þeir fengu hönd á fest. Náðu *Persar* þannig í annað sinn yfirráðum yfir *Medíumönnum* (521). En það var samkomulag með samsærismönnum, að sá þeirra skyldi konúngur verða yfir Persum, er þeim hesti riði, er fyrstur hneggjaði. Að morgni dags í sólarupprás riðu þeir allir út úr borginni, eins og til var sett. Hafði stallari Daríusar hagað svo til, að hestur hans hneggjaði þegar, er þeir komu út fyrir borgina. Þannig varð *Daríus Hystaspisson* konúngur yfir Persum (521 f. Kr.).

Hið *persneska einvaldsdæmi* varð aldrei víðlendara, en um daga Daríusar konúngs. Það náði um þær mundir austur að Indusfljóti, suður að Indlandshafi, Arabalandi og Eþíópíu, vestur að eyðimörkum Afríku, norður að Miðjarðarhafi, Þrakíu, Svartahafi, Kákasusfjöllum, Kaspíahafi og heiðalandi því, er þaðan gengur til austurs. Persakonúngur, er alment var nefndur »*hinn mikli konúngur*«, var tignaður eins og guð, og allir sem á hans fund sóttu, urðu að knèkrjúpa honum, og sýna hina mestu lotníngu. Hann hafði aðsetu í 4 höfuðborgum, *Babýlon, Ekbatana, Persepolis* og *Súsa*, eptir því sem árstíðum hagaði. Í Súsa voru samankomin lángmest auðæfi, og hverskonar munaður og óhóf átti þar heima. »Hinn mikli konúngur« hafði fjölmenna hirð, marga þræla og mikil kvennabúr, og svo má að orði kveða, að höll hans ljómaði öll af gulli og dýrgripum, svo að furðu gegndi. Það var einskonar miðsól, er skein út um hinn mikla þjóðageym, er Persakonúngur rèði fyrir. Persar voru fyrir öðrum þjóðum, er konúngi lutu, og guldu þær þeim skatta og skyldur;

næstar þeim að virðíngu gengu nábúaþjóðir þeirra, og svo koll af kolli, svo að þeir voru jafnan minst metnir, er fjærstir bjuggu konúngi. Siðir og lifernishættir voru hispurslegir og viðhafnarmiklir, en þó í aðra rönd harðýðgislegir og samboðnir ómentuðum mönnum; jarðyrkja og garðyrkja var í góðum metum og konúngur studdi hana; vegabætur og póstgöngur áttu sèr stað um ríkið; vatnsból voru gjörð á eyðimörkum, og verzlun og samgöngur nutu opinberrar verndunar. En öll þjóðin og hver einstakur maður laut konúngi og jörlum hans, eins og ófrjálsir menn: þeir áttu alt undir miskun konúngs bæði fè og fjör; hann gat svipt þegna sína öðruhverju, eða hvorutveggja, eptir því sem honum þóknaðist í þann svipinn.

Ríki Persakonúngs var skipt í mörg jarlsdæmi. Konúngur setti jarl yfir hvert fylki. Þó jarlar þessir væri undirgefnir konúngi, rèðu þeir hartnær sem einvaldar hver í sínu fylki, og því fjarlægari sem þeir voru frá konúngi, og meiri menn fyrir sèr, því meira varð ráðríki þeirra í þeim fylkjum, er þeir voru yfir skipaðir. Þegar konúngi líkaði eitthvað miður við jarla sína, voru það einatt úrræði hans, að hann sendi menn til höfuðs þeim, og lèt drepa þá; settist vegandinn þá að völdum í hins stað, er drepinn var, og bar fyrir sig konúngsbrèf. En opt bar það við, að jarlar þessir urðu ofjarlar hinum mikla konúngi, og gjörðu það er sjálfum sýndist, hvað sem konúngur bauð. Þannig ríkti harðstjórn um alt Persaveldi og í hverju einstöku fylki. En jafnframt því, að stjórnarfyrirkomulag þetta hèlt um stundarsakir þjóðunum undir ánauðaroki Persa, þá flýtti það einnig fyrir sundrúngu ríkisins, er kenna mátti sjálfræði hinna persnesku jarla.

---

# Annar kafli.

## Grikkir og ófriður þeirra við Persa.

### Hetjuöld Grikkja.

Það er kunnugt, að af *Európu* gánga þrjú nes og öll mikil suður í hafið. Hið austasta nesið bygði þjóð sú í fornöld, er *Pelasgar* hét; voru þeir í ætt við Indur, og lifðu við jarðyrkju. Svo er um sögu *Grikkja*, sem annara þjóða, að þegar farið er fram í fornöld, þá verður frásögnin myrk og hrikaleg og þó i molum; veldur það því, að meðan þjóðirnar eru í bernsku, þá eru hugmyndir þeirra bernskulegar, og þeim er ekki lagið að lýsa viðburðum þeim, er gjörzt hafa, greinilega og eðlilega eins og þeir hafa orðið til í heiminum, heldur smíða þær sèr alskonar kynjamyndir, mennina gjöra þær að guðum og verkin verða að því skapi. Fornmentun *Grikkja* byrjar á því, að í broddi þjóðarinnar gánga hetjur (*Heroes*) margar, t. a. m. *Herkúles, Pesevs, Jason,* er eiga í miklum þrautum ýmist við náttúru-öflin, ýmist við alskonar ófreskjur í dýra- eður mannamyndum; verða þeir ágætir mjög af hreysti sinni og þrekvirkjum, og eru hafðir í guðatölu eptir dauðann. Meðal frásagna þeirra, er þannig lýsa fornöldinni, eru kvæði *Hómers* talin einhver hin ágætustu. *Hómer* var grískur maður af *Íóna*-ættkvísl; hafði sá þjóðflokkur numið lönd á vesturströndum *Litlu-Asíu,* nokkru áður en sögu-öld Grikkja hófst, og þar gjörðust þeir viðburðir, er *Hómer* hefir um kveðið. Þykir hann framúrskarandi, bæði vegna þess hve háfleygur hann er í anda, þegar hann lýsir lífi manna og guða, viðureign þeirra og bardögum; vegna þess, hve nákvæmlega og ljóslega hann segir frá mentunarástandi þeirra tíma, líferni þjóða og einstakra manna, viðburðum og stöðum, og loksins vegna þess, hvílík áhrif kvæði hans höfðu jafnan á hina grísku þjóð.

### Hómer.

Hann er fæddur á vesturströnd Litlúasíu, en eigi vita menn

hvar, og svo er sagt, að sjö eyjar og borgir keptu um hann, og sagði hver, að hann væri hjá sèr borinn og barnfæddur. Honum eru eignuð tvö höfuðkvæði: *Ilíonskviða,* eður kvæði um umsát og fall Ilíonsborgar (Trójuborgar), og *Odyssevskviða,* eður kvæði um hrakníng og heimkomu Odyssevs (Úlixesar).

Sagan segir, að *París,* sonur *Príamus* konúngs í *Trójuborg,* hafi sótt heim *Menelás* Spartverja konúng gestavin sinn, en farið svo þaðan, að hann hafði á burt með sèr drotníngu hans, *Helenu* hina fögru, og flutti hana og auðæfi mikil til Trójuborgar. Menelás átti bróður þann, er *Agamemnon* hèt, hann var konúngur í *Mykene;* það er og á Grikklandi. Nú sem Menelás er sviptur konunni, fer hann að hitta bróður sinn, og síðan fara þeir bræður og beiðast liðs hjá *Akkeum* (þ. e. Grikkjum) til þess að ná aptur konunni frá Trójumönnum. Grikkir urðu vel við liðsbón þeirra bræðra; höfðu þeir nú liðsafnað mikinn og hèldu hernum austur til Litluasíu til móts við Trójuborg. Þessir eru taldir ágætastir höfðíngjar í liði Grikkja: *Agamemnon,* hann var aðalforíngi fyrir Grikkja her; *Menelás* konúngur sjálfur; hann er nefndur hinn rómsterki; *Akkilles* hinn fóthvati, og talinn hinn ágætasti af öllum Grikkja hetjum, hann var sonur *Pelevs* þvíukonúngs og *Þetísar* hafgyðju; *Odyssevs,* hinn ráðagóði, þrautgóði konúngur á Íþöku, hinni grýttu ey fyrir vestan Grikkland; *Díómedes* hinn sterki, konúngur í Argos; *Nestor,* konúngur í Pýlus og fl. Allir höfðu þeir mörg skip og hið friðasta lið. Svo er sagt, að Nestor væri elztur allra höfðíngja í liði Grikkja; »höfðu yfir hann liðið tveir mannsaldrar mæltra manna, en nú var hann konúngur yfir þriðja mannsaldri«; fyrir því gekk hann eigi í orustu, en á ráðstefnum var hann öllum öðrum framar, því að hann var manna vitrastur og málsnjallastur; ræðan flaut honum af vörum, sætari en hunáng. Grikkir settust um Trójuborg, og gjörðu áhlaup á hana; en Trójumenn tóku snarplega á móti. *Paris* skaut vel af boga, en var að öðru leiti enginn garpur nè fullhugi; en meðal Trójumanna urðu þeir frægastir af vörn sinni: *Eneas* og einkum »hinn hjálmkviki« *Hektor,* sonur Príamus konúngs. Trójumönnum kom lið víðsvegar að úr Litlu-Asíu; varð borgin eigi auðsótt, og frestaðist umsátin alt að 10 árum; en margar urðu smáorustur með mönnum. Guðir og gyðjur stigu niður úr hinum glæstu sölum á *Olymps-fjalli* og gengu í hina

miklu styrjöld. *Pallas Aþena* (Minerva) hin volduga meygyðja, og hin ráðríka *Hera* (Juno), drotníng *Sevs* (Jupiters), veittu Grikkjum; en *Afrodíta* (Venus) ástagyðja, og *Febus Apolló*, hinn langskeyti bogvaldur, veittu Trójumönnum og einkum Hektori.

Ilíonskviða, er einkum segir frá viðburðum á hinu tíunda ári styrjaldar þessarar, byrjar á því, að skáldið heitir á sönggyðjuna, með þeim orðum: »kveð þú, gyðja, um hina fársfullu heiptarreiði Akkillesar!« því að reiði hans og deila við Agamemon olli einmitt því, að styrjöldin stóð svo lengi. Agamemnon hafði stygt Akkilles með því, að taka frá honum *Hippodamíu Brísesdóttur*, hina fögru ambátt, er Akkilles hafði þegið að heiðursgjöf og unni hugástum. Sat nú Akkilles harmþrúnginn í tjaldi sínu og hafðist ekki að, en stytti sèr stundir með hörpuslætti. Hektor sótti ákaflega fram og með honum Trójumenn; hopuðu Grikkir fyrir, og lá við sjálft að þeir Hektor mundu kveikja í skipum þeirra. Þá fekk *Patróklus* lèð vopn Akkillesar vinar síns, þau voru vopna bezt, og gekk móti Trójumönnum, en svo lauk, að Patróklus fèll fyrir Hektori. En er Akkilles frèttir lát vinar síns, verður hann ákaflega reiður, fer yfir herbúðadíkið og kallar svo ógurlega, að hestar fældust fyrir kerrum Trójumanna, drápust þar tólf manns, en miklum felmtri sló á alt liðið. Því næst lèt Þetis hinn fræga völundarsmið *Hefestus* (Vulcanus) smíða vopn handa Akkillesi, er hún færir honum; slíkra vopna hafa menn eigi heyrt getið hvorki áður nè síðan; herklæðist nú Akkilles, og varpar sèr í kerruna, en *Átómedon* stýrði hestum hans; geystist nú Akkilles fram móti Trójumönnum, og hèlzt þá ekki við honum; flýðu Trójumenn undan út á *Ksanþus*-fljót; en svo var Akkilles þá óður, að hann hljóp út í fljótið á eptir þeim með brugðnu sverði og hjó á báðar hendur; varð þar hræðilegur aðgángur, »er mennirnir voru slegnir með sverði, en vatnið varð rautt af blóðinu«. Þá reiddist fljótsguðinn, er hann sá að straumur hins helga vatns stíflaðist mannabúkum; ærðist þá fljótið og skullu ógurlegar öldur á Akkillesi; hörfaði hann þá undan á land upp, en fljótið elti hann, og mundi það hafa svelgt hann í sig, ef aðrir guðir hefði eigi dugað honum, og Hefestus orðið þeirra drjúgastur; hann hleypti eldi í öll trè og aldini á fljótsbökkunum. Við því báli mátti fljótsguðinn ekki og hörfaði undan, en Akkillesi var borgið.

Nú er að segja frá Hektori, að hann stóð fyrir framan borgarhlið og beið Akkillesar, því að hann vildi fyrir hvern mun við hann berjast; en í annan stað grátbændu foreldrar hans hann, að haun berðist eigi við heljarmanninn, en þó gátu þau eigi talið honum hughvarf. Nú kom Akkilles að honum; varð Hektor þá hræddur og lagði á flótta, en Akkilles elti hann; runnu þeir þannig þrem sinnum á hlaupi í kringum Trójuborg, en allir guðir horfðu á. Loksins nam Hektor staðar og snerist í móti Akkillesi; lauk svo þeirra viðskiptum, að Akkilles kom spjótslagi á Hektor, framan í hóstið, þar sem herklæðin hlífðu honum eigi, og fekk Hektor bana af. Priamus leysti líkama sonar síns út hjá Akkillesi við ærnu fègjaldi. Stóð enn ófriður um hríð og fèll Akkilles fyrir bogaskoti Parísar, enda var Apolló með í leiknum; haugur var orpinn yfir Akkillesi við Hellespontus (Helluhaf). Um síðir varð Trójuborg unnin með brögðum hins slægvitra Odyssevs. Grikkir gjörðu afarmikinn trèhest, holan innan, og lètu einvalalið af sínum mönnum felast þar inni; meðal þeirra var Odyssevs, og var honum ætlað að gæta dyranna á vígvèl þessari. Grikkir lètu, sem þeim leiddist umsátin, brendu herbúðir sínar og hèldu heimleiðis, en leyndu flota sínum undir *Tenedusey*. Trójumenn undruðust trèhestinn, þar sem hann stóð eptir skilinn á ströndinni; hugðu þeir, að Grikkir hefði gefið hann Aþenu í heiðursskyni, og til þess að búa sjálfum sèr greiða heimför; færðu Trójumenn hestinn með miklum fagnalátum inn í borgina; flyktist lýðurinn þá að til að skoða nýlundu þessa; var þá mikil ráðagjörð með mönnum, hvort rèttara mundi, að brenna hestinn, eða hrynda honum fyrir björg niður; urðu þeir hlutskarpastir, sem rèðu til þess að láta hann standa á borgarvíginu og friða gyðjuna þannig. En er nótt var komin, gengu Grikkir úr hestinum; skipaflotinn sneri aptur frá Tenedus; komu Grikkir þá Trójumönnum á óvart; tóku borgina, drápu karla, ræntu fè, en ráku konur og börn í þrældóm.

Höfðíngjar þeir, er komust lífs af úr Trójumannastríði, hèldu hver til síns heima eptir stórvirki þessi; greiddist þeim ferðin allmisjafnlega. En enginn þeirra varð jafnfrægur af ferðavolki sínu, sem Odyssevs; hann átti 10 samfleytt ár í hrakníngum, og um þá hefir *Hómer* ort Odyssevskviðu. Á leið sinni kom Odyssevs við *Sikiley*, og hitti þar jötna þá, er *Kýklópar*

nefndust; þeir voru mannætur; komst hann nauðulega úr höndum þeim; hann fekk siglt fram hjá hinum skæðu *Sírenum,* söngdísunum, er töfruðu farmenn með sætum söng; hann fekk umflúið hina voðalegu óvættu, *Skyllu* og *Karýbdis,* er drápu sex af skipverjum hans; *Póseidón* sjávarguð var stórreiður Odyssevs, braut skip hans í spón, og rak hann upp að *Feakalandi;* en Feakar tóku honum vel, gáfu honum góðar gjafir og fluttu hann, Póseidóni þvernauðugt, heim til Íþöku.

Meðan Odyssevs var í hrakníngum þessum, settust biðlar margir upp hjá *Penelópu* konu hans, eyddu búi þeirra Odyssevs, og leituðu ráðahags við hana með frekju. Þegar Odyssevs bar að húsum, hafði hann tekið á sig stafkarlsgerfi; biðlarnir sátu að veizlu og höfðu ráðgjört með sèr, að sá skyldi hljóta Penelópu, er skotið gæti ör af boga Odyssevs gegnum tólf axaraugu. Enginn af biðlunum fekk dregið upp bogann; tók stafkarlinu þá við boganum og leyfðu þeir honum að skjóta ef hann gæti. Odyssevs bendir þegar upp bogann og skaut örinni gegnum öll axaraugun; kastar hann þá dularklæðunum og segir til nafns síns; gengur fram í salinn ásamt *Telemakkus* syni sínum, steypir niður fyrir sig örvunum og mælti: »nú er kappleikur þessi á enda, en nú vil eg mèr annað mark setja, það er enginn maður hefir áður hitt, og freista hvort eg fæ náð því, og Apolló vill ljá mèr fulltíngi sitt«. Að því mæltu skaut hann ör að *Antínóusi;* hann var ósvífnastur allra biðlanna; kom örin í háls honum, í því er hann bar vínker að munni sèr; fèll Antínóus við skotið, en matborðin steyptust, og urðu í blóði einu. Þar feldi Odyssevs þá alla, biðlana, og hefndi þannig skapraunar þeirrar, er þeir höfðu honum gjört.

## Hellas og Pelopsey.

*Pelasgar* hètu, eins og áður er sagt, þjóð sú, er fyrst bygði *Grikkland,* en eptir Trójuborgar daga hrukku þeir fyrir þjóðdeild þeirri, er *Hellenir* hètu. Síðan voru allar hinar ýmsu deildir af því þjóðerni kallaðar *Hellenir,* eða *Grikkir* sameiginlegu nafni, og hefir það haldizt síðan. Hèr um bil 1104 árum f. Krists burð komu *Dórar* og lögðu undir sig mestan hluta *Pelopseyjar,* en *Iónar* settust að í suðurhluta Grikklands, á meginlandinu fyrir norðan Pelopsey, þar sem hèt *Attíka,* og á hinum næstu

eyjum, þar á meðal á Evboiu. Eptir fall *Kódrusar* (1068), hins síðasta konúngs í Attíku, fóru Jónar austur um haf og settust að á vesturströnd Litlu-Asiu.

Til forna hafði Grikklandi sjálfu verið skipt í þrjá höfuðhluti: *Norður-Grikkland* (eða Epirus og þessalía), *Mið-Grikkland* (eða Hellas), og *Suður-Grikkland* (eða Pelopsey). Hellas greindist aptur í þessar sveitir eða fylki: *Attíku* og *Megaris, Boiótíu, Fókafylki, Lókrafylki, Dóris, Etólíu* og *Akarnaníu.* Millum Pelopseyjar og meginlands gengur mjótt eið; á því eiði stóð *Korinþuborg.* En á Pelopsey var sveitum þannig háttað: í miðju landi var *Arkadía,* sunnar *Lakónía* og *Messenía,* vestar *Elis,* norðar *Akkaja,* austar *Argólis.* Um eyjarnar í Grikklandshafi, bæði *Krítey, Kyklades-eyjar* og *Sporades-eyjar* bygðu Hellenir einnig snemma á öldum. Bæði meginland Grikklands og Pelopsey eru fjöllótt. Þó gengur ekki einlægur samfastur fjallgarður eptir landinu, heldur eru þar einstök fjöll, sumstaðar hálendi og sumstaðar gróðursælir dalir og sjávarstrendur. Landið er mjög vogskorið, var það því snemma vel fallið til verzlunar og sjósóknar. Af landslaginu leiddi eðlilega bæði það, að landsmenn greindust í mörg smá ríki, er hvert um sig tók sèrstaklegum framförum, eptir því sem hverju bezt var lagið, og án þess að vera öðru háð, og lika hitt, að samgöngur og samband milli smáríkja þessara var mjög auðvelt; í Grikklands fjöll eru sumstaðar þröng og djúp skörð, eru þar örugg vigi en ílt aðsóknar; einnig þetta dróg til þess, að auka Grikkjum þor og þrek og kenna þeim að treysta sèr og vopnum sínum.

## Sparta (Spörtuborg).

Meðal rikja þeirra, er *Dórar* höfðu stofnsett á *Grikklandi,* komst ekkert til slíkrar upphefðar sem *Sparta* (Lakedæmón) í *Lakóníufylki* á *Pelopsey.* Snemma á tímum sátu þar konúngar að völdum; gekk köngdómurinn í erfðir, og töldu þeir ætt sína til Herkúlesar; voru konúngar jafnan tveir í einu. En er tímar liðu fram, kom upp ágreiníngur milli konúnga og þegnanna, og ríkisstjórnin fór aflaga. Þá var það, að sá maður, er *Lýkúrgus* hèt, og var einn af konúngsættinni (hèr um bil 880 f. Kr.) setti *Spartverjum* lög og kom á öðru og fastara skipulagi, en verið hafði fyrir hans daga. Lög hans voru mjög merkileg, en þó

voru þau í sumum greinum yfrið óþýð og hörð; þau gjörðu *Spörtu* að herskáu lýðstjórnarveldi, en þó átti þar jafnan heldri manna stjórn sèr stað öðrum þræði; eptir lögum þessum var það þjóðfèlagið (Staten), sem alt var miðað við og alt varð undir að lúta; hver einstakur maður var skyldur að leggja alt í sölurnar fyrir þjóðfèlagið, og styðja það og efla á allar lundir; þess vegna var það og, að þjóðfèlagið sjálft (opinber stjórn) tókst á hendur uppeldi barnanna, rèði mataræði borgaranna og hafði tilsjón með athæfi hvers einstaks manns. Jafnskjótt og börnin fæddust var ákveðið, hvort þau skyldi halda lífi, eður eigi; þættu þau vanheil eða vansköpuð voru þau líflátin, því að ekki þótti lið í þeim fyrir þjóðfèlagið. Til hins sjöunda árs höfðu konur uppeldi sveinbarna á hendi; þó voru þeim settar ýmsar reglur fyrir uppfóstrinu, til þess að börnin vendist eigi á kveifarskap. En frá því ári hófst hið opinbera uppeldi, og harðnaði að því skapi, sem börnin eltust, því að alt miðaði til þess, að gjöra sveinana harða og hrausta hermenn í þarfir fósturjarðarinnar. Vísindi og listir voru þeim ekki kendar, heldur hitt, að hlaupa, glíma, og beita vopnum fimlega; matur var gefinn lítill og tilbreytíngalaus, til þess menn vendist á sparneytni og þolgæði; rekkjur voru ómjúkar; lágu menn á stargresi, er þeir sjálfir tíndu sèr á *Evrótafljóts*-bökkum; menn máttu þola högg bæði af stallbræðrum sínum og kennendum; margur úngur maður lèt í fórnarskyni húðstrýkja sig til bana á altari *Artemísar* (veiðigyðju), án þess að bregða sèr nokkuð við sár eður bana; að sýna gamalmennum virðíngu og auðsveipni, þótti eitt hið fegursta skart á únglíngum. Borgarar mötuðust eigi hver hjá sèr, heldur allir til samans opinberlega, og var hver húsbóndi skyldur að leggja sinn skerf til borðhaldsins; frá slíkri samnautn var enginn maður undan þeginn, jafnvel ekki konúngarnir sjálfir; fóru máltiðir fram með hinni mestu sparneytni, en þó með hóflegri glaðværð.

Æztu völdin í Spörtu voru í höndum *öldúngaráðsins;* sátu í því, auk beggja konúnganna, 28 þjóðkjörinna manna, og enginn ýngri en sextugur; höfðu konúngar á friðartímum lítil forrèttindi umfram ráðherrana, önnur en þau, að þeir höfðu fyrirsæti við máltiðir allar, þeim voru sýnd ýms lotníngarmerki umfram aðra menn, og þeir stóðu fyrir öllum helgihöldum, af því þeir áttu kyn sitt að rekja til Zevs; en á ófriðartímum voru þeir

sjálfkjörnir herforíngjar. Nokkru síðar voru skipaðir í Spörtu þeir menn, er *Efórar* eður *tilsjónarmenn* hètu, þeir voru jafnan 5 saman; voru kjörnir af lýðnum, höfðu völd á hendi um eitt ár; þeir voru forsetar bæði í öldúngaráðinu og á þjóðfundum, og þeir gátu tekið konúnga fasta, ef þeir höfðu brotið lögin. Þessir tilsjónarmenn takmörkuðu þannig að nokkru leiti bæði ráðið og konúngana. Þjóðfundir Spartverja, er allir frjálsir borgarar sóttu, rèðu einnig nokkru um ýms þjóðmálefni, en þó varð öldúngaráðið jafnan hlutskarpast. Íbúar Spörtuborgar sjálfrar áttu einir tilkall til setu á þjóðfundum; en hinn lýðurinn allur, sem bjó utanborgar í *Lakóníu*, kom þar hvergi nærri, og átti enga hlutdeild í stjórn lands og laga. Löndum hafði Lýkúrgus skipt á þá leið, að hvert heimili á *Lakóníu* fekk jafnstóran jarðarskika, til þess að jöfnuðurinn skyldi verða sem mestur. En þar eð jarðarpartar þessir einúngis gengu að erfðum til þeirra manna, sem voru oddvitar heimilanna, þá leiddi þar af, að jarðagózið lenti í höndum fárra manna, er þá rèðu mestu yfir hinum mörgu, sem enga fasteign áttu. Til þess að þjóðfèlagið ætti ráð á borgurum sínum, hvenær sem vera skyldi, þá máttu þeir eigi tefja sig við akuryrkju, eða önnur störf; öll slík störf höfðu *Helótar* á höndum; þeir voru mansmenn Spartverja og harðlega haldnir. Á ófriðartímum gengu Helótar í orustur sem lèttvopnað lið, en síðar á tímum voru þeir settir á herskipin; þótti sú herþjónusta miklu auðvirðilegri en hin á landi.

Lög þau, er *Lýkúrgus* setti, og stjórnarskipun sú, er á þeim var bygð, miðaði til þess að gjöra Spartverja hrausta og hergjarna; enda lýsti það sèr brátt og kom þá fyrst niður á þeim, er næstir bjuggu *Lakóníu;* hið fyrsta herfáng Spartverja varð nágrannaland þeirra *Messenía.*

Spartverjar áttu tvisvar í miklum ófriði við Messeníumenn. *Hið fyrra stríðið* stóð frá 743—723 f. Kr. Voru tildrögin til þess deila milli tveggja manna; annar þeirra átti heima í Messeníu og hèt *Polýkares*; hinn í Spörtu, og hèt *Evefnus.* Polýkares hafði komið nokkru af hjarðfè sínu í gæzlu til Evefnusar; sló Evefnus eign sinni á það og stal því úr sjálfs síns hendi og þar á ofan bætti hann eigandа fjárins skaðann með svikum og sonardrápi. Þá laust upp ófriðinum. *Aristódemus* hèt konúngur Messeníumanna; hann varðist Spartverjum vel og lengi, og er svo

sagt, að hann blótaði dóttur sinni til sigurs sèr, en það kom fyrir ekki; Spartverjar settust um *Íþómu-kastala*, og tóku hann eptir lánga umsát og lögðu Messeníu undir sig.

Nú liðu því nær 40 ár, þá hófst ófriðurinn af nýju milli Spartverja og Messeníumanna. það var *hið síðara stríðið;* það stóð frá árinu 685—668 f. Kr. Messeníumenn þoldu illa ánauð Spartverja og gripu til vopna. *Aristómenes* Messeníukonúngur, hinn ágætasti maður og hinn mesti kappi, varði landið af frábærri hreysti, vann opt sigur á Spartverjum og herjaði lönd þeirra, svo að Spartverjar sáu sitt óvænna, og leituðu ráða til vefrèttarinnar í Delfis; guðinn sagði þeim að leita trausts til Aþenuborgar. þá er sagt að Aþenumenn, sem undir niðri litu öfundarauga til Spartverja, hafi sent þeim *Tyrtevs,* halta skáld, og skyldi hann vera þeirra ráðgjafi. En er Tyrtevs var þángað kominn, þá tekur hann til að yrkja hersöngva; við þá söngva fengu Spartverjar nýjan hug og dug. Varð vefrèttin þeim þannig til góðs, þótt Aþenumenn ætluðu annað. þá kom það og til, að *Aristókrates,* Arkadíukonúngur, sveik Messeníumenn í trygðum, og voru þó bandamenn hans. Úr því gekk Spartverjum betur; síðast náðu þeir kastala þeim, er á *Eiri* hèt (668 árum f. Kr.). þá var Messenia unnin öðru sinni, og landsmenn þeir, er eptir lifðu, gjörðir að *Helótum,* þ. e. urðu mansmenn. *Aristómenes* komst undan og varð eigi handtekinn, og eptir að hafa unnið ættjörðu sinni alt það gagn, er hann orkaði, þá andaðist hann í Róðusey. Að loknum þessum ófriði flýði mikill mannfjöldi af Messeníu vestur til *Rhegium* á Ítalíu. *Gorgus,* sonur Aristómenesar var foríngi þeirra. Frá Rhegíum föru þeir síðan yfir sundið og tóku *Zankle,* sem þar var andspænis á móti; gáfu þeim stað nafn eptir sèr og kölluðu *Messana.* þar er nú *Messína* á Sikiley.

Eptir því sem tímar liðu, lögðu *Spartverjar* undir sig alla *Pelopsey,* og lètu eigi þar við sitja, heldur náðu þeir einnig yfirráðum yfir mestum hluta meginlands á Grikklandi. Hvervetna þar sem Spartverjar lögðu lönd undir sig, leituðust þeir við að koma á samkynja stjórnarskipun þeirri, er þeir sjálfir höfðu heima í Spörtu, og það var höfðíngja- eður heldri manna stjórn; en hvar sem þeir höfðu nokkur yfirráð yfir eður afskipti af, þá risu þeir jafnan öndverðir móti annari stjórn, hvort heldur það var harðstjórn (Tyranni), eður lýðstjórn (Demokrati). Meðan

Spartverjar þannig sátu yfir virðíngu annara þjóða á Grikklandi, rèðu þeir mestu á ófriðartímum; þeir skipuðu foríngja yfir herinn, og þeir kváðu á, hversu mikinn liðsafla sèrhvert fylki skyldi senda til hersíns, þá er alment útboð eður liðsafnaður var á Grikklandi.

## Aþena (Aþenuborg).

Þessi hin nafnfræga borg lá í *Attíku-hèraði* í *Hellas*, og átti upphaf sitt að rekja til *Íóna*. Í fyrnsku höfðu þar setið konúngar að völdum; en það nafn var aftekið, þá er *Kódrus* konúngur fèll, 1068 árum fyrir Krists burð; var þá sett *lýðstjórn*, og stjórnarfoííngar nefndir *Arkontar;* fyrst var svo til ætlað, að einn skyldi vera þjóðstjóri (Arkont) í senn, og hafa völdin á hendi æfilángt; síðan var sú breytíng gjörð, að þeir skyldi sitja í völdum 10 ár, og loks urðu þeir 9 að tölu, og skyldu að eins vera við embætti 1 ár. En höfðíngjar og auðmenn rèðu þó mestu, og náðu flestum jarðeignum undir sig og kúguðu mjög hina fátækari. Til þess að ráða bót á slíkum ófjöfnuði, vantaði lög, og þá var einum af þjóðstjórunum, er *Drakó* hèt, falið á hendur að semja lög (622); en lög hans voru svo hörð, að þau þóttu óhafandi. Varð nú óstjórn í Aþenuborg, en þá vildi mönnum það til, að sá maður var uppi, er *Sólon* hèt; hann var einn af þjóðstjórunum og stórvitur maður. Hann gaf Aþenumönnum lög (594). Hann skipti þjóðinni í 4 flokka eptir efnum. Í hinum fyrsta flokki voru þeir, er mesta hlutdeild höfðu í alþjóðlegum málefnum, en þeir áttu og þýngstum sköttum að svara; af þeim flokki voru þjóðstjórar kjörnir; öllum alþjóðlegum störfum stýrði *ráðið*, en í því sátu 400 manna, er allir voru kjörnir meðal þriggja hinna efstu flokka; sátu þeir að eins árlángt, er í það ráð voru kvaddir. Aþenumenn höfðu lengi átt dóm þann, er *Areópagus* hèt; sá dómur var í miklum metum, en þótti nokkuð harður; hafði Drakó mjög rýrt vald og álit þess dóms, en Sólon jók hvorttveggja aptur; í þeim dómi sátu þeir menn, er verið höfðu þjóðstjórar; þar voru dæmd öll hin stærri óbótamál. En fyrir því var sèð, að höfðíngjar gátu í engu þröngvað kosti og kjörum alþýðu. Frá dómi Arkontanna var leyft að skjóta málum til annara dóma, og í þeim dómi sátu menn af öllum stèttum, og á almennum þjóðfundum höfðu allir borgarar atkvæðisrètt.

þannig komst smátt og smátt alt valdið í hendur alþýðu, eður rèttara sagt, í hendur einstakra manna, sem með mælsku sinni og áliti rèðu mestu meðal lýðsins. Maður einn í Aþenuborg hèt *Písistratus;* honum var margt vel gefið, og honum tókst að verða einvöldum í borginni (561); misti þá lýðurinn völd þau, er hann hafði haft um stund, en Písistratus rèði einn öllu; hafði lífvörð um sig sem hann væri konúngur, en fór þó vel og viturlega með sínu ráði; hann unni mjög skáldskap, og lèt fyrstur manna safna kvæðum *Hómers* skálds og rita á bækur, og þaðan eru þau kvæði Hómers komin, er vèr nú höfum. Písistratus andaðist 528 árum f. Kr. burð; tók þá *Hippías* sonur hans við völdum, og fór gætilega með í fyrstu; en sem bróðir hans *Hipparkus* var veginn af *Harmódíus* og *Aristógitoni,* þá var góðmenskunni lokið hjá Hippíasi, og gjörðist hann þá hinn grimmasti maður. Sá endir varð þar á, að Aþenumenn fengu lið af Spartverjum, og ráku Hippías af höndum sèr; fór hann þá í útlegð til Persalands.

Nú hófust flokkadrættir miklir með Aþenuborgarmönnum, er svo lyktuðu að sá maður, er *Klisþenes* hèt, sigraði, með aðstoð lýðsins; Klisþenes skipti lýðnum í 10 flokka eður fylki (Fylai), og hverju fylki í heimili (Demoi). Hinu forna ráði, er Sólon hafði sett, var nú breytt, og sett fimmtýgi manna nefnd; þeir hètu *Prýtanar,* og skyldu þeir jafnan stýra alþjóðlegum málum. Um þessar mundir var settur hinn nafnkendi *Skeljadómur* (*Ostracismus*), er dæmdi menn til útlegðar. Prýtanar spurðu lýðinn á ári hverju, hvort hann vildi að nokkur yrði dæmdur þeim dómi; ef lýðurinn þá hugði, að einhver mikilsháttar maður mundi verða sèr ofvaxinn, þá var honum innanhandar að fá þann mann dæmdan í 5 eður 10 ára útlegð; en þá urðu 6 þúsundir manna að gjalda jákvæði við því. Þó fèll engin rýrð á þann, er útlægur varð eptir slíkum dómi, og eigur hans óskertar með öllu.

## Nýlendur Grikkja.

Snemma á öldum bygðust nýlendur af Grikklandi víða um strendur Miðjarðarhafs; báru nýlendur þessar vott um uppruna sinn, því að bæði hèldu þær grískum siðum og grískri túngu.

Nýlendur Íóna dreifðust austur á bóginn, bæði um Litlu-Asíu strendur og um eyjarnar, eptir því sem leiðir Aþenumanna lágu. Eptir fall Kódrusar konúngs (1068) fór fjöldi manna af

*Íónum* úr Attíku, fyrir því að þeir undu illa breytíngum þeim, er þá urðu á stjórninni, austur á Litlu-Asíu strandir, og stofnuðu þar ýms smáríki, er síðan urðu mjög víðfræg. *Nílevs*, sonur Kódrusar var fóríngi þessara landnámsmanna. Hinar helztu borgir, er risu upp þar austur, voru *Míletus* og *Efesus*, þar var *Artemishof* hið auðga, og hin ágæta verzlunarborg *Fókea;* þaðan bygðist seinna á tímum *Massilía* (Marseille), sunnan á Gallíu.

*Dórar* fóru landnámsferðir til Ítalíu; settu þeir einkum bygð sína um Suður-Ítalíu (Neðri-Ítalíu, Stór-Grikkland) og Sikiley, og urðu þar fjölmennar nýlendur. Eptir hina fyrri styrjöld Spartverja og Messeníumanna, fór fjöldi manna (Parþenar) frá Spörtu fyrir kúgunar sakir, og námu land sunnan til á Ítalíu í fögru hèraði, og reistu þar *Tarentuborg* (708 árum f. Kr.).

Hèr um bil um sama leiti (720) bygðu *Akkear Sýbarisborg* orðlagða af auðlegð og skrautlífi, og *Króton* (710); hvortveggja borgin er við Tarentuflóa vestanverðan; í Króton var *Pýþagóras* spekíngur (frá 529) og skóli sá, er við hann er kendur; fengu borgir þessar mikil áhrif á allan stjórnarbrag hinna grísku staða á Ítalíu, er þær leituðust við að koma þar á höfðíngjastjórn.

Á *Sikiley* settust *Dórar* að eptir hina síðari styrjöld milli Spartverja og Messeníumanna og bygðu *Messana;* þar heitir nú *Messína.* Frá Korinþuborg bygðist *Sýrakúsa* (735 f. Kr.); sú borg varð skjótt auðug af verzlun sinni, og náði mikilli frægð meðal hinna grísku borga. Það var snemma, að höfðingjavaldið í Sýrakúsa var brotið á bak aptur, og þá komst þar á lýðstjórn; en sökum þess, að stjórnarskipun sú gekk mjög skrykkjótt, og að þar voru sífeldar innbyrðis óeyrðir, þá risu þar upp harðstjórar hver af öðrum, er öll yfirráð fengu yfir lýðnum og hèldu honum í skefjum; áttu harðstjórar þessir í miklum og lángvinnum styrjöldum við *Kartagóborgarmenn,* er snemma á öldum höfðu fengið fótfestu á Sikiley, litu öfundarauga til Sýrakúsu og uppgángs hennar, og vildu bæla alla Sikiley undir sig; það má telja harðstjórum þessum til gildis, að þeir unnu mjög grískum listum og grískri mentun. *Díónysíus* hinn eldri (405—368) átti fjórum sinnum í ófriði við Kartagóborgarmenn og rak þá harðlega af höndum sèr. Sonur hans, Díónysíus hinn ýngri, var grimmur maður en þó duglitill; á hans dögum herjuðu Kartagóborgarmenn að nýju í ríki hans. Leituðu Sýrakúsmenn þá liðs

til Korinþuborgar og fengu; var öðlíngurinn Tímóleon foríngi fyrir því hjálparliði og vann ágætan sigur á Kartagóborgarmönnum hjá *Crimessus* (342); rak hann þvínæst Díónysíus frá völdum og setti lýðstjórn í Sýrakúsu.

Austarlega á *Norður-Afríku* ströndum námu Dórar land, og settu þar *Cýreneborg;* landið þar umhverfis hèt *Cýrenaica;* þar voru landkostir góðir, enda yrktu landnámsmenn það drjúgum.

það var jafnan, að landnámsmenn höfðu fulltíngi ættjarðar sinnar til að stofna nýlendur þessar, enda álitu þeir sjálfa sig sem niðja þess lands, er þeir voru frá komnir. þeir fluttu goðin með sèr af ættjörðu sinni, og buðu þeim að taka til umráða lönd þau, er þeir numu, reistu þeim hof sem líkust þeim, er heima höfðu verið; eld fluttu þeir með sèr af þeim, er brunnið hafði á ráðhúsa ölturum heima; sá eldur var kallaður helgur og brann sí og æ á arni nýlendumanna. þeir sendu jafnan sendiherra og gjafir til hinnar fornu ættjarðar. Og þegar almenn neyð krepti að, þá veittu hverir öðrum lið, nýlendumenn og frændur þeirra í hinu forna landi.

## Samband milli Grikkja innbyrðis.

Jafnvel þó Grikkir væri mjög gjarnir á að sundrast í smáríki, er hvert gat samið sig eptir sinni vild og tekið þeim framförum, er þeim var eðlilegast, þá könnuðust þó allir Hellenir við, að þjóðerni þeirra væri eitt og óskipt; enda var fernt, er að því studdi:

1. *Ein þjóðtúnga,* 2., *sömu guðir* og sami átrúnaður, og leiddi af þessu 3., *ýms þjóðfèlagsleg sambönd,* og 4., hinir *grísku hátíðlegu leikar.*

2. Engin vefrètt og enginn þjóðhelgur staður á öllu Grikklandi var jafnfrægur Apollós-vefrèttinni í *Delfis* (Pýþó) í *Fókafylki* undir *Parnassusfjalli.* þeir, sem þángað leituðu frètta, urðu fyrst að leysa ýmsar helgar skyldur og störf af hendi, áður þeir gengi í hofið; en sem þar var komið, þá settist *Pyþía*[1] á stól og gaf svör af guðlegri andagipt í einstökum orðum á stángli eða samanhángandi málsgreinum; voru svörin einatt í ljóðum með sexstuðla bragarhætti. Í öndverðu voru Dórar einir um ve-

1) *Pyþía* eða prestur Apollós var fyrst á tímum meyja (meyprestur), síðar voru teknar til þess embættis konur yfir fimtugt.

frètt þessa, og var hennar því einkum leitað af Spartverjum; en eptir því sem tímar liðu fram fekk vefrètt þessi svo mikið orð á sig, fyrir sakir skarpskygni sinnar og andagiptar, að bæði Grikkir og erlendar þjóðir höfðu hana í mestu hávegum og gáfu stórgjafir þángað til hofsins. Er það haft fyrir satt, að Fókar hafi einhverju sinni rænt þaðan 8 milíónum ríkisdala; en þó voru þar nokkru síðar frekar 3 þusundir líkneskja af gulli, silfri, eir og marmara. Þegar vandamál báru að höndum Grikkja, þá leituðu þeir allir þángað hinna síðustu úrslita, hvort sem gjöra var um frið eður ófrið, löggjöf eður landnám.

3. Snemma á öldum gengu Grikkir í ýms fèlög, eða gjörðu ýmisleg sambönd sín í millum, og var sá tilgángur þeirra, að vernda sameiginlega trú og helga dóma og koma öllum grískum þjóðflokkum í náið samfèlag, er bygt væri á rètti og sanngirni. Eitt af þessum fèlögum var það, er kent er við *Amfiktýon;* gengu tólf fylki grísk í það fèlag, og áttu fèlagsmenn fund með sèr tvisvar á ári, í *Delfis* og í *Þermópýle.*

4. Í ákveðinn tíma hèldu menn leika og söfnuðust menn til þeirra af öllu Grikklandi; voru þeir haldnir með hinni mestu viðhöfn og vegsemd; hinir *ólympsku leikar* eru einkum nafnkendir; voru þeir haldnir frá alda öðli fyrsta hvert ár á *Ólympsvelli í Elis-hèraði.* Þeir voru helgaðir *Zeus,* hinum æðsta guði, og þar átti hann hof og þar var vefrètt hans. Um tíma lögðust leikar þessir niður, en sá maður, er *Ifitus* hèt og *Lýkúrgus* hinn frægi löggjafi Spartverja komu þeim aptur á fót. Frá því árið 776 f. Kr. höfðu menn skrá yfir nöfn þeirra, er sigur unnu i leikum þessum, varð það til þess, að sagnaritarar miðuðu tímatal sitt (Olympiades) við leika þessa hèr um bil frá miðri 5. öld f. Kr., og þótti það vel eiga við, fyrir þá sök, að tímatal var þá mjög margbreytt hjá þjóðunum. Leika þessa mátti hver sá maður sækja, er sannað gat, að hann væri af grísku foreldri, hvort sem hann var snauður eða ríkur. Þar þreyttu menn þrenns konar skeið: kapphlaup, kappreið, kappakstur, var ýmist 2 eða 4 hestum fyrir beitt; þar var leikið krínglukast; þar var glíma og þar var hnefaleikur; þar reyndu menn sig í hljóðpípuleik og hörpuslætti; seinna á tímum voru þar sýndir trúðleikir og ýms snilldarverk. Þeir, sem báru af öðrum og sigurinn unnu, fengu pálmviðargrein að verðlaunum og hríngur var settur á höfuð þeim af

olíuviðarblöðum; voru þeir hafðir í hávegum og víðfrægðir um endilángt Grikkland; skáldin t. a. m. Pindar († 442 f. Kr.), ortu lofkvæði um þá, sem aldrei fyrnast; og þó þeir hefði unnið ágætan sigur í orustu, þá gátu þeir eigi orðið frægari meðal landa sinna. þessir hinir fjölmennu fundir komu því til leiðar, að Grikkir kyntust betur hverir öðrum, en ella mundi verið hafa, vissu gjörla hvað vísindum og íþróttum leið í hverju bygðarlagi þar í landi, og álitu sjálfa sig sem eitt þjóðfèlag gagnvart öllum útlendíngum, þ. e. þeim, sem eigi voru Grikkir (Barbaroi).

## Styrjöld hin fyrri milli Persa og Grikkja
(frá 492—449 f. Kr.).

þess er áður getið, að *Daríus Hystaspesson* var einn af hinum 6 samsærismönnum, er veltu Svika-Smerdis úr völdum í *Persíu* (521); síðan herjaði Daríus á *Skýþa;* þeir bjuggu fyrir norðan Ister (Dóná), og voru hirðaþjóð. Hann lèt gjöra brú á Dóná, og setti harðstjórana á Litlu-Asíu ströndum til að gæta brúarinnar; fekk hann þeim lánga reim með 60 hnútum á, og bauð þeim að leysa einn hnút á hverjum degi, og geyma brúarinnar vel og vandlega þángað til hinn síðasti hnútur væri leystur. Síðan bjóst Daríus með her á hendur Skýþum; lètust þeir undan flýja og gintu Daríus lángt inn í land; leitaðist hann við með ýmsu móti að fá komið þeim til orustu við sig, en það forðuðust þeir; gekk svo um hríð, að Daríus fekk eigi aðgjört, en vistir tóku að þverra fyrir honum, og varð hann loks frá að hverfa við svo búið. Voru þá liðnir meir en 60 dagar síðan Daríus fór norður yfir fljótið; gjörðu Skýþar varðmönnum orð, og eggjuðu þá á að brjóta brúna, til þess að gjöra Daríusi sem mest ógagn. þetta ráð samþyktist *Miltiades* frá Aþenuborg; hann var einn af harðstjórum þeim, sem áður er á minst, og hafði yfirráð á nesinu við *Hellespontus;* því að enda þótt hann sæi, að bæði sínum yfirráðum og annara harðstjóra væri lokið, ef Persakonúngur biði ósigur, þá var honum þó meira um að gjöra fjör og frelsi landa sinna, en sjálfs síns yfirráð. *Histieus,* harðstjóri í *Miletus,* var á öðru máli, og að hans ráði varð það, að brúin var ekki brotin, og þannig komst Daríus heill á húfi suður yfir ána og til *Þrakíu;* tók hann þá Histieus tveim höndum og hafði í miklum hávegum. En litlu síðar snerist honum

svo hugur, að hann grunaði Histíeus um hollustu við sig, bauð honum á sinn fund, og lèzt mundi veita honum enn meiri sæmd, en í þess stað tók hann af honum völdin, og setti þann mann, er *Aristagóras* hèt, til umráða í Miletus. Nú þarf eigi að undra, þótt Histíeus þættist sárt leikinn af konúngi, og hugði á hefndir, og fyrir því eggjar hann Aristagóras til uppreistar gegn Daríusi; hafði það þann árángur, að Íóna borgir á Litlu-Asíu ströndum hlupu upp til ófriðar móti Persum og fengu liðveizlu frá *Aþenuborg* og *Eretríu* á Evböu. Daríus snerist þegar í mót og fekk bælt niður uppreist þessa; hugði hann nú því næst að hefna sín á Grikkjum fyrir það, er þeir höfðu veitt lið uppreistarmönnum. Býr nú Daríus konúngur þessu næst út flota mikinn, setur *Mardónius* jarl yfir og sendir til Grikklands. En er skipin komu þar við land, sigldi Mardóníus með ströndum fram; en er flotinn kom suður á móts við *Aþos-höfða*, laust á ofviðri miklu, tvístraðist þá flotinn, og týndist mestur hluti manna og skipa; var þá lokið þeirri ráðagjörð. En er Daríus kom sú fregn, reiddist hann ákaflega og sendi þau boð til Grikklands, að hvert fylki skyldi þegar senda sèr mold og vatn, er tákna skyldi undirgefni undir hans vald. Fáir þorðu á Grikklandi að neita skipun hins volduga Persakonúngs, nema *Spartverjar* og *Aþenumenn;* þeir vildu eigi kúgast láta. Sneri nú Daríus reiði sinni á borgir þessar, safnar liði og sendir af stað hundrað þúsundir manna; siglir herinn vestr yfir Grikklandshaf (Arkipelagus), og lendir við Evböu; taka Persar þegar Eretríu-borg, og síðan gengur herinn á land í Attiku og nemur staðar á *Maraþónsvöllum. Datis* og *Artafernis* voru fyrir liðinu.

Nú búast Aþenumenn til varnar, en gátu eigi sent móti Persum nema 9000 vígra manna, og frá *Plateuborg* í Böiótíu kom 1000 manna til liðs við þá. En þótt lið þetta væri fáment, þá skorti hvorki hreysti nè frelsisást, og hinn herkæni, ágæti *Miltíades* var foringi þess. Þá stóð hin fræga orusta á *Maraþónsvöllum* (490 f. Kr.). Aþenumenn börðust af mesta hugrekki og hreysti; sigurinn var um hríð tvísýnn, en svo lauk að Persar hopuðu á hæl, og því næst brast flótti í lið þeirra og flýðu undan til skipa. Eptir þann ósigur hugði Daríus af herferðum gegn Grikkjum, og dó 5 árum síðar (485).

## Bardagi í Þermópýle (Laugaskarði).

Eptir lát *Daríusar* tók *Xerxes* sonur hans konúngdóm yfir Persum. Faðir hans hafði farið ófarir fyrir Grikkjum, og nú hugði Xerxes, að halda því fram og enda það vel, sem faðir hans hafði ílla byrjað. Er svo sagt, að hann væri á fimta ár að búa sig undir herferð á hendur Grikkjum; lèt hann þá afla til vista handa hernum, gjöra brú af tvísettum skiparöðum yfir Helluhaf milli heimsálfanna; grafa skurð gegnum Aþos-höfða á Makedóníu, til þess að skipin, er fara áttu með landi fram og haldast í hendur við landherinn, þyrfti eigi að fara fram fyrir höfðann, því að það þótti glæfraför. Nú er öllu þessu var lokið, leggur Xerxes upp vorið 480. f. Kr. frá *Sardes*, hinni fornu höfuðborg í Lydíu, og hefir óflýjanda her. Í broddi hersins var lestin og farángur liðsins; þar næst kom fótgönguliðí mörgum fylkíngum; voru þar saman komnar ýmsar þjóðir af Asíu og Afriku, er allar lutu Persakonúngi; þar voru menn af Indlandi, klæddir baðmullarvoðum, með boga og örvar; þar voru Svertíngjar sunnan af Núbíu; var hörund þeirra pentað sumstaðar hvítum, sumstaðar rauðum dílum; þeir báru boga 3 álna lánga og örvar steinyddar, spjót höfðu þeir og voru oddar á af geitarhorni í stað járns; þeir gengu naktir að miklu leiti, en að nokkru höfðu þeir hulið sig ljónshúðum og pardus-skinnum. Því næst var stundarhrið í millum, og þá komu persneskir riddarar, þúsund að tölu; það var einvalalið; þeim fylgdi ein þúsund fótgönguliðs, þeir báru spjót og sneru oddum til jarðar, en gullhnúður á efri enda. Á eptir þessum kom vagn *Zevs* Persaguðs og gengu 8 hestar fyrir; þeir voru allir hvítir og kallaðir helgir; vagnmenn gengu með hestum þessum, því enginn maður mátti setjast í sæti guðsins. Því næst kom koúngsvagninn og helgum hestum fyrir beitt; í þeim vagni sat *Xerxes* konúngur í öllum konúngsskrúða. Eptir konúng komu riddarar og fótgöngulið í tveimur deildum, ákaflega vel búnir að vopnum og klæðum; þá kom mikil sveit manna, er hafði spjót að vopni; það lið var valið mjög, og þótti vera hið vaskasta í hernum, enda var sú fylkíng kölluð *„hin ódauðlega«*, því að í henni stóðu allajafna 10,000 manna; klæði þeirra og vopn voru sett gulli og silfri, svo að víðsvegar ljómaði af; næst á eptir þeim komu 10,000 riddaraliðs. Þá var aptur autt bil,

er aðgreindi Persa frá því liði, er á eptir kom og aptast var í hernum; en það voru ýmsar þjóðir af ýmsum löndum, er konúngur hafði saman dregið. Allur þessi ógna her var samtals 1,700,000 fótgönguliðs og 80,000 riddaraliðs; riðu sumir þeirra úlföldum. Auk þessa fylgdu liðinu hervagnar sunnan af Afríku, og slíkur grúi af þrælum og ambáttum, að sagt er verið hafi engu færra en herliðið. Herskipin voru 1207 að tölu, og á þeim menn af öllum þeim þjóðum, er sjóferðir tíðkuðu; þar að auki voru 30 persneskir liðsmenn á hverju skipi. Við Helluhaf kannaði Xerxes konúngur lið sitt og þótti ærið mannmargt. Þá var með honum *Demaratus* Spartverjakonúngur landflótta. Xerxes þóttu sèr allir vegir færir og mælti: »hyggur þú Demaratus, að Grikkir þori að hreifa sig gegn mèr?« Demaratus svaraði: »villu að eg tali eins og þèr þykir bezt að heyra, eða eins og satt er?« Xerxes leyfir honum að segja hið sanna. Þá mælti Demaratus: »það er þá fyrst, að Spartverjar munu aldrei gefast á þitt vald, og þar næst er, að þó þú fengir alla aðra Grikki á þitt mál, þá mundu Spartverjar einir saman berjast móti þèr; og hirð eigi að spyrja um hvern liðsafla þeir hafa, því að, þó eigi hefðu þeir meira lið en 1000 vopnfærra manna, þá mundu þeir engu að síður leggja til orustu við þig«. Þá hló Xerxes og mælti: »heyr á endemi! ætlar 1000 manna sèr að berjast við allan minn her? við skulum líta á þetta með skynsemd. Ef Grikkir hefðu húsbónda yfir sèr slíkan sem Persar hafa, þá læt eg mèr skiljast, að þeir myndi, af ótta fyrir svipuhöggum, láta rekast móti slíku ofurefli, en með því þeir eru engum háðir, eins og þú segir, þá munu þeir aldrei það gjöra«. Demaratus mælti: »rètt segir þú, herra! að Spartverjar eru engum manni háðir, en þó er það eitt, er þeir allir lúta, og það eru lögin; aldrei breyta þeir gegn því er lögin skipa. En lögin bjóða þeim, að flýja aldrei fyrir óvinum sínum, riðlast eigi í fylkíngu, og gjöra annaðhvort, að vinna sigur eða falla með sæmd«. Xerxes hló, og trúði engu orði af því, sem Demaratus sagði.

Hinar helztu borgir á Grikklandi í það mund voru *Sparta* og *Aþena*. Báðar þær og fáeinar aðrar höfðu eigi orðið við skipun *Xerxis,* þá er hann sendi til Grikklands og bauð, að senda sèr jörð og vatn til jarteikna um hlýðni og hollustu. Jafnskjótt sem þeim kom fregn um herbúnað Xerxis konúngs, gjörðust

þessar tvær borgir oddvitar þeirra fylkja á Grikklandi, er eigi vildu þola yfirgáng Persa. Áttu menn þá fund í *Korinþuborg* og var það ráðs tekið, að gjöra fyrirsát í *Þermópýle* (Laugaskarði), og verja Persum inngöngu í Grikkland. En þar er landi svo háttað, að *Öta-fjall* gengur austur og fram að sjó; og heitir þar nú *Zeitúnsvík* og mýrlent við sjóinn; en þar sem skarðið er þrengst, er sagt að svo hafi verið tæpur vegurinn, að eigi mátti í senn fram aka nema einum vagni. Þar hafði til forna verið hlaðinn grjótgarður og grafin gröf fram með, og nú, er Grikkir fréttu, að fjandmanna væri von yfir skarðið, þá brugðu þeir skjótt við og gjörðu vígi þetta enn ramlegra en áður var. *Leónídas* hèt annar konúngur Spartverja í það mund, honum fálu þeir á hendur að verja skarðið; og þótti mönnum erindið veglegt. Hèlt nú Leónídas konúngur af stað norður þángað og með honum 300 Spartverja; hugði hann gott til fararinnar, þótt hann vissi að sú væri hans hin síðasta, og var allkátur; gjörðust þá fleiri til af Grikkjum að gánga undir merki hans, og urðu þeir saman 3000 manna; settust þeir nú í skarðið og biðu þess, er að höndum kæmi.

Nú er að segja frá *Xerxes* konúngi, að hann frèttir, að menn nokkrir eru komnir í *Laugaskarð* og ætla að gjöra honum þar fyrisát; þótti honum það næsta ótrúlegt og hugði, að þeir mundi eigi fyr líta sig, en þeir legði á flótta. Heldur hann nú liði sínu suður undir skarðið, og er hann heyrir, að Spartverjar sitji þar fyrir og sè sumir þeirra að leikum, en sumir kembi hár sitt og búizt skrautlegum búníngi, þá bregður honum nokkuð í brún, og spyr Demaratus hvað Spartverjar hafizt þar að. Demaratus svaraði: »menn þessir eru komnir til þess að verja oss skarðið, og hafa viðbúnað fyrir; því að það er siðvenja þeirra að prýða höfuð sitt, þá er þeir ætla að skríða skuli til skara«. Eigi vildi þó Xerxes þessu trúa. Liðu svo 4 dagar, að hann lagði eigi til orustu; en á hinum fimta degi reiddist hann, og skipaði *Medíumönnum,* er voru í liði hans, að leggja til atlögu og taka höndum þá hina ósvífnu menn, er fyrir sátu, og leiða þá fram fyrir sig. Hann lèt reisa hásæti eitt mikið og settist þar í, og horfði á viðureign Grikkja og sinna manna. Gjörðu nú *Medar* harða atlögu, en þar var ílt til aðsóknar, því að skarðið var þröngt, en Grikkir tóku djarflega á móti; höfðu þeir löng spjót og urðu Medum ærið skeinuhættir, en Medar höfðu vopn styttri. Stóð

nú bardagi til kvölds; voru þá margir fallnir af Medum, en fáir af Grikkjum; lèt Persakonúngur »hina ódauðlegu« hersveit leggja til atlögu og fór á sömu leið. Vörðust Grikkir af hinni mestu prýði; lètu þeir stundum hefjast fyrir; gengu Persar þá nær og hugðu þá flýja myndu, en það var kænskubragð Grikkja; gjörðu þeir þá hið harðasta áhlaup á Persa og lètu vopnin dynja á þeim; fèllu Persar þá unnvörpum; og það er sagt, að Xerxes hafi þrisvar hlaupið úr hásæti þann dag, því að hann hugði að sínir menn myndu ósigur bíða. Daginn eptir skipar Xerxes til nýrrar atlögu og lætur nýjar sveitir manna sækja að, og hyggur að Grikkir muni svo yfirkomnir af sárum og þreytu, að þeir fái eigi lengur varizt; en svo fór sem fyr, að Persar fengu eigi að gjört, þótti Xerxes þá óvænlega á horfast og litlar líkur til, að hann myndi nokkru sinni komast yfir Laugaskarð.

Maður hèt *Efíaltes,* hann var grískur og hinn mesti ódrengur og mun hans skömm uppi meðan lönd eru bygð; honum var vel kunnugt þar um fjöllin; hann vissi að einstigi eitt lá yfir fjallgarðinn skamt frá Laugaskarði, og segir hann Persum frá því. *Leónídas* vissi og að einstigi þetta var til, og fyrir því hafði hann sett nokkra menn úr Fókahèraði til að gæta einstigsins, svo að eigi yrði að baki honum gengið. En þegar er Xerxes fréttir, að komizt verði á öðrum stað yfir fjallið, bregður hann við skjótt og sendir »hina ódauðlegu hersveit« þann veg, en Efíaltes vísaði þeim leið. Þá er nátta tók lögðu þeir af stað, og voru komnir upp á fjallið í dögun; um nóttina vöknuðu Fókar við íllan draum; spruttu á fætur og vopnuðust. Hugðu Persar að þar myndu Spartverjar fyrir, og brá heldur í brún; en Efíaltes sagði þeim hvað manna þar væri; lètu Persar þá örfar drífa á varðmenn og stöktu þeim á flótta, halda síðan ofan af fjallinu og fara mikinn.

Nú er að segja frá *Leónídas* konúngi, að hann frèttir þessi tíðindi; sèr hann að þar verður eigi við gjört; tekur hann það ráð, að hann sendir frá sèr mestan þorra liðsmanna sinna, og hefir að eins eptir hjá sèr Spartverja og nokkra menn aðra af Grikkjum; biður hann þá, er hann sendir burt, að fara hvern heim til sín og bera þau tíðindi, að Spartverjar hafi af hlýðni við lögin eigi viljað hopa af vígvellinum, þótt þeir sæi dauðann fyrir. Hann sendi og son sinn frá sèr, þann eina er hann átti,

því að hann vildi eigi að konúngsætt Spartverja, er komin var af *Herkúlesi,* yrði aldauða. Hann vildi og að tveir af frændum sínum, er þar voru með honum, skyldi komast lífs af, og beiddi þá bera brèf frá sèr til Spörtu. Þá svaraði annar þeirra, að eigi væri hann þángað kominn til þeirra erinda að bera brèf hans, heldur til hins að berjast; og hinn svaraði því, að hreystiverk hans myndu segja alt, það er Spartverjar þyrftu að vita, og fór svo hverigur. Því næst hèlt Leónídas mönnum sínum veizlu og bað þá vera vel káta, því að í kveld myndu þeir allir gista að *Hadesar.*

Þá er *Xerxes* þóttist vita, að sínir menn myndu vera komnir yfir fjallið, gjörir hann harða hríð að þeim *Leónídas,* svo að þeir gætti því síður þess, er að baki þeim gjörðist. En Leónídas, sem vissi vel hvað fram fór, hugði einúngis á það að vinna sem mest áður hann fèlli, og fyrir því gengur hann nú fram fyrir víggarðinn með liðsmenn sína, og berst ákaflega; fèll þá margt af Persum, en flýja þorðu þeir eigi, því að yfirmenn þeirra stóðu að baki þeim og börðu hvern þann, er á hæl hopaði; þó hèldust Persar eigi við og hrukku margir undan og í sjóinn og lètust þar. Þá er spjót Grikkja brotnuðu, brugðu þeir sverðum, og hjuggu bæði hart og títt. En þó fór hèr sem optar, að engi má við margnum, og fèll Leónídas við frægan orðstýr fyrir ættjörð sína og frelsi; börðust menn lánga stund um lík hans; hrukku Persar fjórum sinnum fyrir, en Grikkir náðu líki foríngja síns. Nú komu þeir Efialtes að baki þeim; fóru Spartverjar þá inn fyrir víggarðinn og á hól einn og vörðust þaðan meðan auðið varð; brotnuðu þá mörg sverð þeirra, vörðust þeir þá með tönnum og höndum, og beiddist enginn maður griða; fèll þar hvert mannsbarn af Grikkjum svo að enginn stóð uppi. Þar sem Leónídas fèll var síðan höggið ljón af steini og látið þar standa. Þar er og steinn, er hinir síðustu af mönnum hans fèllu, og rist á þetta letur: »komumaður, seg þú Spartverjum, að vèr hvílum hèr, fyrir því að vèr hlýddum lögum þeirra«. Þannig fèll *Leónídas* konúngur og kappar hans allir; en áður bardaginn tókst sendi Leónídas 2 af mönnum sínum frá sèr, fyrir því að þeir voru augnveikir. En er þeir heyrðu, að Persar væri komnir yfir fjallið á bak Grikkjum, þá heimtar annar þeirra, er *Evrýtus* hèt, vopn sín og lèt þræl sinn leiða sig aptur þángað, sem þeir Leó-

nídas börðust; þá flýði þrællinn, en Evrýtus barðist, þótt hann blindur væri, og fèll eptir drengilega vörn. Hinn, er burt hafði verið sendur, hèt *Aristódemus;* hann vildi eigi aptur snúa og berjast, en fer heim til Spörtu; en þar var svo i móti honum tekið, að hann var haldinn óalandi og óferjandi; enginn maður vildi liðsinna honum, eður mæla við hann orð, og gefið var honum kenníngarnafn og kallaður *flóttamaður.* Litlu síðar fór hann í orustu, gekk vasklega fram og fèll. Þá fyrst, er hann var látinn, fekk hann uppreisn á mannorði sínu. Það er sagt, að Xerxes tæki lík Leónídas, og lèti negla á kross; síðan hèlt hann hernum suður um skarðið niður á Grikkland; en sèð hafði hann nú merki til þess, hverjir hreystimenn Grikkir voru, og hve mjög þeir unnu fósturjörðu sinni og frelsi, enda var þess eigi lángt að bíða, að allur sá hinn mikli her, er hann hafði saman dregið, yrði gjöreyddur af Grikkjum.

## Framhald ófriðar milli Grikkja og Persa.

Meðan bardaginn stóð í *Laugaskarði,* varð fundur á sjó með Persum og Grikkjum. Herskip Grikkja láu undir *Artemisium*-höfða; hann er norðan til á ey þeirri, er Evböa heitir austan undir Grikklandi. Það var ráðagjörð Persa að leggja þar tveim megin að Grikkjum, og fyrir því hèldu þeir nokkrum hluta flotans suður um Evböu, og ætluðu svo að halda til móts við Grikki; en er Grikkir fengu njósn af því, biðu þeir ekki boðanna, en hèldu skipum sínum móti Persum; varð þar allmikil orusta og flýðu Persar; en þau skip, er þá flýðu undan, týndust litlu síðar í ofviðri. *Þemistókles* hèt herskipaforíngi Grikkja, og verður hans síðar getið að miklu; hann var hreystimaður hinn mesti, slægvitur og málsnjall, en grunaður var hann um gæzku og þótti einatt líta fremur á sinn hag en annara. Eptir orustuna við Artemisíum-höfða, hèldu Grikkir skipum sínum suður fyrir land, og lögðu þeim undir *Salamis-ey*; voru þar saman komin bæði skip Pelopseyjarmanna og margra annara fylkja á Grikklandi; svo hafði Þemistókles fyrir sèð. Meðan Persar voru á leiðinni og þokuðust nær, höfðu Aþenumenn leitað frètta til guðsins í Delfis, hversu þeir skyldu fyrir búast og verjast Persum; svaraði guðinn þeim svo: að mjög myndi að þeim þrengja, en það ráð gæfi hann þeim, að verjast fyrir innan trèmúra gyðjunnar Aþenu, og

bætti þessu við: »þú hin guðdómlega Salamis, þú munt eyða sonum kvinnunnar!«. Rèðu margir þetta á þann veg, að það táknaði skiðgarð þann, er kríngdi um vígið í Aþenuborg; en Þemistókles skildi þetta svo, að trèmúr sá, er guðinn hefði nefnt, væru skipin, og að hann hefði spáð þeim sigri í sjóorustu við Persa, því að öðrum kosti mundi guðinn eigi hafa valið Salamis — og þar myndi að líkindum verða barizt — svo veglegt nafn, að kalla hana guðdómlega; fekk hann og komið flestum á sitt mál; hann hafði látið gjöra mörg skip; gengu nú því nær allir menn úr Aþenuborg með konur og börn sín út á skipin, eða lètu flytjast út til Salamiseyjar.

Í annan stað halda Persar liðinu suður eptir landi, brendu bygðina en drápu mannfólkið. Þá var það, að ein af hersveitum þeirra kom til Delfis, og ætlaði að ræna Apollóshof; voru þar engir menn fyrir til varnar, því að guðinn hafði sagt Delfimönnum svo: »Komi Persar híngað til þess að ræna, þá mun eg freista að verja mig sjálfur«. Nú komu Persar til hofsins; heyrðu þeir þá heróp inni fyrir; því næst fèll bjarg mikið að þeim ofan úr Parnassusfjalli, eyddi öllu er fyrir varð og fylgdu þar með þrumur og eldíngar. Þá sló miklum ótta á Persa og lögðu á flótta; en Delfí-menn veittu þeim eptirför. Það er og sagt, að Persar litu aptur á flóttanum, þóttust þeir þá sjá tvo risa í eptirförinni, er drápu alt það, er þeir náðu til; það voru tveir hálfguðir er börðust gegn Asíumönnum.

Meginher Persa hèlt suður um Böiótíu og til Aþenuborgar; var hún auð af mönnum; lögðu Persar eld í borgina og brendu til ösku. Nokkru síðar tóku þeir vígið á *Akropolis* eptir mikla vörn af þeim fáu mönnum, er þar voru fyrir. En svo mikill skaði sem þetta var, þá var hitt þó ógæfan meiri, að Grikkir voru eigi á eitt sáttir, heldur sundurþykkir, og nálega hvert fylki vildi draga sinn taum; var því eigi annað sýnna, en að sameiginleg vörn allra Grikkja gegn Persum myndi farast fyrir. Pelopseyjarmenn og Korinþubúar sögðu, að það væri Aþenumönnum einum saman í hag, að flotinn lægi undir Salamisey; biði Grikkir þar ósigur, þá myndi Persar kvía þá þar inni á víkinni, og þá væri taflslok; hitt væri ráð, að leggja til orustu við Persa nálægt eiði því, sem bindur saman Hellas og Pelopsey, þar væru víggirðíngar og þar væri landher til varna, og við hann gætu

þeir sameinað sig ef alt um þrotnaði. En þemistókles sá, að skildist Grikkir þannig hverir frá öðrum og gengi í ýmsar sveitir, þá væri úti um Grikkland. Fyrir því tók hann það ráðs, að hann gjörir Xerxes konúngi orðsendíng á laun, og lætur segja honum, að sundurþykkja mikil sè með Grikkjum og ætli hverir að skilja við aðra; hann skuli nota færið meðan það gefst, ef hann vilji sigrast á þeim öllum í einni orustu. Grikkir sátu á ráðstefnu og gátu eigi orðið á eitt sáttir; þá kom *Aristides* hinn aþenski, og samlandi þemistóklesar, á fundinn og bar þá fregn, að herskip Persa hafi lagzt fyrir alla víkina og sé búin til atlögu. það var sem þemistókles vildi; þá var Grikkjum einn nauðigur að berjast. Grikkir lögðu skipum sínum þar sem víkin var mjóst, til þess að Persum skyldi erfiðara að neyta hins mikla liðsmunar, er þeir höfðu. Tókst þar nú hin viðfræga *Salamis-orusta;* börðust hvorirtveggja af hinni mestu ákefð. Persar gjörðu harða atlögu og vildu láta konúng sinn sjá, er horfði á bardagann, að þeir gengi vel fram; en Grikkir tóku karlmannlega á móti og vissu sem var, að heill og hamíngja fósturjarðarinnar var undir því komin, að þeir legði hvorttveggja fram bæði hugrekki og staðfestu. Og svo er sagt, að í hinni fyrstu atlögu Grikkja, hafi mörg skip af Persum komizt í bendu eina og orðið hvert fyrir öðru; en Grikkir börðust allir sem einn maður, og skorti hvorki viturlega og einbeitta forustu, nè hreystilega og samhuga framgöngu. Stóð orustan alt til kvelds, enda var þá sigur unninn, og skip Persa sum hroðin, en sum á flótta snúin; lét Xerxes þau skip, er af komust, sigla til Hellusunds, til þess að gæta brúarinnar; sjálfur flýði hann austur um haf til Asíu með nokkrar leifar af hernum, ílla til reika bæði af sulti og sárum. *Mardóníus* hershöfðíngja sinn lèt hann eptir verða á Grikklandi með 300 þúsundir manna einvalaliðs, og þar á meðal »hina ódauðlegu hersveit«. Auk þessa liðs lèt hann og eptir þar í landi 50 þúsundir málaliðs frá *Makedoníu,* og ýmsar grískar hersveitir, er heldur vildu Persum veita, en löndum sínum. Um veturinn eptir sat Mardónius í Grikklandi norðanverðu; en er voraði, leggur hann af stað og tekur Aþenuborg öðru sinni, en hefir þar þó litla viðdvöl og heldur norður til Böiótíu; nam hann þar staðar á valllendi miklu, því að þar þóttist hann bezt mega við koma riddaraliði sínu, er hann hafði mjög margt. þar komu þeir

*Pásanías* frá Spörtu og *Aristídes* frá Aþenu með Grikkja her og lögðu þegar til orustu; var liðsmunur ærið mikill, svo að sagt er, að þrír Persar væri um einn mann grískan. En svo lauk, að *Mardóníus* fèll; flýðu Persar þá til herbúða sinna, en Grikkir tóku þær þegar og unnu hinn frægasta sigur. Sú borg hét *Platea*, er þeir börðust hjá (479 f. K.). Sama dag, sem orustan stóð við Platea, unnu þeir *Leótykkídes* frá Spörtu og *Xanþippus* frá Aþenu herflota og sjóvarnir Persa við *Mýkale-höfða* í Litlu-Asíu. Eptir þenna dag voru Grikkir .einráðir á hafinu, og gátu átt samgöngur sem þeir vildu við landa sína í Asíu.

Sú hin mikla og almenna hætta, er Grikklandi var búin af heimsókn Persa, hafði þokað öllum Grikkjum saman í nánara fèlagskap en áður, til varnar móti hinum útlendu óvinum. Var þá svo í fyrstu, að Spartverjar fengu *æzt yfirráð* (Hegemoni) á Grikklandi, bæði fyrir þá sök, að Aþenumenn af einlægri ættjarðarást vægðu fyrir þeim í öllu, og hins vegna, að Pelopseyjarmenn voru þá í sem mestum uppgángi. Um þær mundir hèlt Pásanías, sigurvegarinn frá Platea, allmiklum skipaflota frá Spörtu og Aþenu norður til *Býzantíum* — þar áttu Persar vopnabúr mikil —; vann Pásanías þá borg, og fengu Grikkir þar of fjár. En svo var Pásanías skapi farinn, að hann lèt sèr eigi nægja að vera forvígismaður Grikkja, heldur fýsti hann nú að komast til æðri metorða og valda. Gjörði hann þá samband við Persakonúng, og hafði í ráðagjörð við hann, að brjóta undir sig alt Grikkland, og verða einvaldur yfir; hann bjó sig persneskum búníngi, hèlt lífvörð um sig, og hafði alt í sukki. Ræður að líkindum, að Spartverjum hafi eigi geðjazt að slíku, enda var honum boðið að leggja niður hervöldin og koma heim til Spörtu. Hann gjörði svo; lètu Efórar þá setja hann í varðhald, og skömmu síðar varð hann sannur að landráðasök. En er Pásanías sá sitt óvænna, vildi hann forða sèr og flýði til Aþenuhofs. Þar var hann byrgður inni og sveltur til bana. Er svo sagt, að móðir hans væri þá enn á lífi og veitti þeim mönnum að verki, er hlóðu grjóti í hofsdyrnar og byrgðu son hennar inni. Er það eitt til marks um það hvernig Spartverjar voru skapi farnir í þá daga, jafnt konur sem karlar.

Nú víkur sögunni til Aþenuborgar. Þar var *Þemistókles* eigi aðgjörðalaus, heldur fekk hann því til vegar komið með ráðum

sínum og framgöngu, að borgin reis aptur af rústum. Múrveggur var settur um borgina mikill og ramgjör; Píreushöfn var stækkuð og víggirt. Þegar Pásanías sat norður í Byzantium og ofmetnaðist þar, eins og áður er sagt, þá urðu þjóðir þær, er voru í sambandi við Spartverja, honum fráhverfar og kunnu ílla hans ráðlagi; kom þá svo, að Aþenumenn, með tilstyrk Íóna yfir á Litlu-Asíu, fengu yfirráð yfir herskipaflota Grikklands (476), og gjörðust oddvitar fyrir fèlagi því eða sambandi, er þá hófst með þeim, er bjuggu í Makedóníu, Þrakíu, á eyjunum í Grikklandshafi og í nýlendum á Litlu-Asíu. Þannig fengu Aþenumenn *forystu* (Hegemoni) á Grikklandi andspænis Spartverjum.

Þegar hèr var komið, gjörðust Aþenumenn forstöðumenn ófriðarins, sem áfram var haldið, og var nú fremur orðin sókn en vörn af Grikkja hendi, einkum á sjó; *Aristídes* »hinn rèttláti«, hafði verið dæmdur í útlegð með skeljadómi (Ostracismus), en sýkn var hann orðinn fyrir Salamis-orustu og kominn heim aptur; nú hafði hann fjárhald bandamanna á hendi, og kvað á, hve mikið fè hver þjóð, er í sambandið hafði gengið, skyldi til leggja. Fjárhirzla bandamanna var geymd á hinni helgu ey *Delos*.

Meðan ófriður stóð með Grikkjum og Persum, hafði alþýðumanna veldið í Aþenu aukizt stórum, fyrir því að allir voru jafnt kallaðir til varnar móti Persum, bæði æðri menn og lægri. Arístídes fylgdi reyndar fremur höfðíngjastjórn en alþýðustjórn, en þó virtist honum nauðsynlegt að bera upp það nýmæli: *að allir borgarar í Aþenu fengi jafnan rètt til embætta í ríkinu.* Var þá úr lögum numið, að fasteign skyldi ráða hverir sótt gæti um embætti; þó voru hershöfðíngjar undanskildir. Litlu síðar var svo ákveðið að hlutkesti skyldi ráða, hver embætti hlyti af þeim er beiddust; þó var út af því brugðið. Aristídes hèlt virðíngu sinni til dauðadags (469 f. Kr.). Hann hefir verið einhver hinn bezti og ósèrplægnasti maður, sem sögur fara af; enda var honum gefið fagurt kenníngarnafn, og kallaður »*hinn rèttláti*«.

Litlu eptir dauða Pásanías komu sendimenn af Spörtu og báru þá sök á hendur *Þemistóklesi,* að hann hefði verið í vitorði með Pásanías. Hvað sem hæft er í þessu, þá varð sú endalykt á því máli, að Þemistókles var dæmdur í útlegð eptir skeljadómi. Fór Þemistókles þá af landi burt og á fund Persakon-

úngs; sagði hann konúngi, að hann hefði að sönnu gjört Persum meiri skaða en nokkur annar maður, en þó svo væri, þá hefði hann meir en bætt Persum aptur þann skaða; hugði þemistókles á orðsendíngu þá, er hann gjörði Persakonúngi, áður Salamis-orustan varð, og aðra fregn, er hann þar á undan hafði komið í eyra konúngi, og olli því, að konúngur flýði þá fyr en ella mundi orðið. þá var kominn til ríkis á Persalandi *Artaxerxes handalángur* (465—424); fagnaði konúngur þemistóklesi vel, og gaf honum þrjár borgir auðigar til uppeldis; hèt ein þeirra *Magnesía,* þaðan skyldi hann hafa brauð, önnur hèt *Mýus,* þaðan skyldi honum koma kjöt, hin þriðja hèt *Lampsakus,* þaðan skyldi hann hafa vínföng. það er mælt, að þemistókles hafi sjálfur ráðið sèr bana, er hann sá, að hann gat eigi, eður vildi eigi, efna loforð sín við Persakonúng þau, að koma Grikklandi á hans vald, og að hann hafi svo fyrir sagt, að taka skyldi öskuna, þá er líkami hans væri brendur, og flytja á laun til Attíku.

Vegur og virðíng þemistóklesar var á förum, þegar *Símon Miltíadisson* hófst til valda í Aþenuborg. Hann var manna örlátastur og gjafmildastur; varð hann af því mjög vinsæll meðal alþýðu, þótt hann væri af flokki höfðíngjanna og þeirra foríngi; hann var stjórnvitríngur mikill og ágætur hershöfðíngi. þeir lögðu fèlag með sèr Símon og Aristídes; var fyrirætlun þeirra sú, að efla sátt og samlyndi meðal Grikkja; enda var það mark og mið höfðíngjaflokksins á Grikklandi, að afstýra innlendum ófriði og halda öllu í jafnvægi þar í landi. Símon hafði yfirstjórn herflotans og sá svo um, að Aþenumenn rèðu mestu á eyjum þeim, er gengið höfðu í samband við þá. Árið 469 f. Kr. átti hann tvær orustur við Persa á einum og sama degi, austur í *Pamfylíu* við *Evrýmedons fljót,* aðra á sjó en aðra á landi, og vann sigur í báðum. Litlu síðar varð sá atburður í Spörtu, að þar kom jarðskjálfti mikill og hrundi borgin því nær öll til grunna. Eins og að líkindum ræður komst alt í uppnám í Spörtu; sættu *Helótar* því færi og gjörðu uppreist, og *Messeníumenn* hlupu þá einnig upp til ófriðar og bjuggust fyrir í *Íþómu*-kastala. þá kom Símon því til leiðar við Aþenumenn, að þeir sendu Spartverjum lið; var Símon foríngi fyrir hernum og hèlt til Íþómu; hófst þá *ófriður hið 3. sinni* við Messeníumenn (465—455 f. Kr.). En bráðum kom upp sundurþykkja milli Spartverja og Aþenumanna,

þar sem þeir sátu um Íþómu-kastala; sendu þá Spartverjar liðsafla þann heim aptur til Aþenuborgar, er þeir höfðu þaðan fengið. Fór þá svo, að Aþenumenn gáfu Símoni sök á því, hversu til hefði tekizt; var honum þá vikið frá völdum, og því næst fór hann í útlegð. Að 10 árum liðnum var ófriðnum lokið við Messeníu, og báru Spartverjar hærra hlut í þeim viðskiptum. Fóru þá margir menn úr Messeníu landflótta til Aþenuborgar, og var þeim þar vel fagnað; vísuðu Aþenumenn þeim til landa norður í *Nápaktus* við Korinþuborgar fjörð, og fluttu þeir þángað bygð sína.

En frá því, er Aþenumönnum var vísað burt frá umsátinni við Íþómu-kastala, fór sundurþykkja vaxandi milli þeirra og Spartverja og fleiri þjóða á Grikklandi; en Simon, þótt hann væri í útlegð, þá reyndi hann jafnan til að styðja málsveg Aþenumanna. Var hann þá kvaddur heim aptur, og leitaðist hann þá við hvað hann kunni, að koma sættum á milli Spartverja og Aþenumanna, og það tókst honum að miklu leiti. Þessu næst bjó hann mikinn her út á hendur Persum, studdi uppreist sem *Amyrteus* (aðrir segja *Inarus*) hóf á Egyptalandi í það mund, og hèlt austur til Kýprus-eyjar; hafði hann þá tvö hundruð skipa og öll vel búin; settist hann um borg þá í eynni, er *Citium* hèt. Þá tók Símon sótt og andaðist (449 árum f. Kr.). Varð hann Grikkjum mjög harmdauður, sem von var. Eptir lát Símonar hèldu Aþenumenn heim aptur, og unnu þeir á leiðinni sigur mikinn fyrir Litlu-Asíu ströndum og annan á landi uppi á liði því, er sent var skipunum til varnar.

Þessi var hinn síðasti viðburður, er nokkuð þykir að kveða í styrjöldinni milli Persa og Grikkja; lauk þeim ófriði svo, að Grikkir fengu yfirráð öll á Grikklandshafi og á Litlu-Asíu ströndum (449 f. Kr.). Það er ýngri sögn, og þó vart sönn, að Artaxerxes konúngur handalángur, er til ríkis kom eptir Xerxes (465), hafi samið frið (449), sem kendur er við Símon, og verið eitt í samníngum þeirra, að Grikkir í Asíu skyldu lausir undan yfirráðum Persa, og að hvorki persneskur her eða floti skyldi mega koma nær Grikklands ströndum en til var tekið í þeim friðarsamníngum.

Hèr segir enn af alþýðustjórn Aþenumanna.

Þegar sótti á seinni hluta ófriðarins milli Grikkja og Persa, kom sá maður til sögunnar í Aþenuborg, er *Períkles* hèt. Hann var hinn mesti afbragðsmaður; fölskvalaus vinur fósturjarðar sinnar, eins og Arístídes hafði verið, er aldrei vildi beita brögðum sèr til upphefðar eða ágætis; stórvitur maður og allra manna málsnjallastur. Enginn maður var því betur fallinn til að stjórna alþýðunni en Períkles, enda gjörðist hann brátt foríngi hennar. Hann jók völd alþýðunnar mjög með því, að veikja á allar lundir álit það, er hinn forni höfðíngjadómur *Areópagus* hafði í þjóðmálefnum; fekk Períkles því til vegar komið, þrátt fyrir mótstöðu höfðíngjanna, og þrátt fyrir það, að *Eskýlus* skáld í sorgarleik einum, er hann þá orti, reyndi til að vekja ást og virðíngu Aþenumanna til hins forna og göfuga dóms, að dómsvaldið í öllum hinum stærri málum komst í hendur alþýðunnar; hið sama var að segja um löggjafarvaldið og embættaveitíngar, að svo miklu leiti sem hlutkesti rèði eigi, hverjir embættin fengi; þá var það og lögtekið, að alþýðan fengi kaup fyrir þíngsetu. Eigi leið lángt um áður Aþenumenn tækju að beita meira valdi við þjóðir þær, er voru í sambandi við þá. Í stað þess, að þeim hafði áður verið gjört að skyldu, að leggja til skip og menn og önnur hernaðaráhöld þegar berjast skyldi við útlendínga, þá var nú sú breytíng á gjörð, að þær skyldu greiða ákveðin fègjöld. Þjóðfjárhirzlan var flutt úr *Delos-ey* til Aþenuborgar (460); þar þótti hendi nær að taka til fjárins, er á þurfti að halda. Nú með því að Aþenumenn voru oddvitar sinna bandamanna, og höfðu ærið fè yfir að ráða, þá miðaði þeim drjúgum áleiðis til að ná þjóðaforræði á öllu Grikklandi. Egína, sem fyrrum var aðkvæðaríki, varð að selja af hendi skipastól sinn; Böiótía og Fókaland voru að nokkru leiti kúguð til hlýðni. Aþenumenn rèðu fyrir flestum hèruðum í Hellas, eyjunum í Grikklandshafi og nýlendunum á Litlu-Asíu ströndum.

Í það mund stóðu vísindi með miklum blóma í Aþenuborg; fagrir sorgarleikir eptir þjóðskáldin *Eskýlus, Sofókles* og *Evripídes* voru sýndir borgarmönnum í Aþenu, og *Períkles* fekk því til leiðar komið, að hinir fátækari fengu ókeypis að heyra og sjá leiki þessa, svo þeir færi eigi á mis við þann fróðleik og ment-

un, er slík skemtun veitti mönnum. Þá var *Fidías* uppi; hann var frægastur myndasmiður í fornöld. Þá var Aþenuborg prýdd á ýmsan hátt og víggirt þannig, er sæma þótti höfuðborg Grikklands. Upp að háborginni lágu hín nafnfrægu súlnagöng (Propylæer) gjörð af marmara; en upp á henni stóð *Aþenuhof* (Parþenon), og þar var líkneski meygyðjunnar Aþenu eptir Fidías smið; frá borginni niður að *Píreus-höfn* við sjóinn gengu múrar miklir og ramgjörfir, var það lángur vegur, en þannig var bæði borg og höfn tengdar saman og víggirtar.

## Pelopseyjar ófriður.
(431—404).

Það bar til að í *Epídamnus*, er síðan hèt Dýrrakkíum, en nú á dögum Durazzo, kviknuðu óeyrðir milli höfðíngjanna og alþýðunnar. *Korinþuborg* gaf sig fram í óeyrðir þessar, en *Corcýra* (er nú heitir *Corfu*, og þaðan var Epidamnus bygð), er var ein af nýlendum Korinþuborgar, tók þau afskipti mjög óstint upp fyrir Korinþumönnum, og beiddi Aþenumenn liðveizlu. *Períkles*, er aldrei var seinn til taks þar sem hann sá, að Aþenumönnum var einhver hagur búinn, fekk því til leiðar komið, að þeir sendu herskip nokkur til liðs við þá á Corcýru. Um það leiti buðu Aþenumenn borgarmönnum í *Pótidæa*, er upphaflega var nýlenda frá Korinþuborg, en síðan Persa ófriðnum lauk var háð Aþenumönnum — að hætta öllum viðskiptum við Korinþumenn og setja sèr menn í gislíngu. Til þess voru Pótidæamenn allófúsir og færðust undan á marga vegu og leituðu á laun liðveizlu hjá Spartverjum; sendu Aþenumenn þá her manns á hendur þeim í Pótidæu. Hins vegar skoruðu Korinþumenn fastlega á Spörtu að skerast í leikinn, og sögðu þá Spartverjar Aþenumönnum stríð á hendur. Þannig hófst *Pelopseyjar-ófriðinn* (431 ári f. Kr.), og tók nálega alt Grikkland þátt í honum. Með Aþenuborgarmönnum stóðu: öll ríki á Grikklandi, er höfðu alþýðumanna stjórn, en í lið með Spartverjum gengu öll hin ríkin, þar sem höfðíngjastjórn átti heima. Bandamenn Aþenuborgarmanna voru á meginlandinu: íbúar Akarnaníu, Þessalíu, Plateu, Messeníumenn í Nápaktus, nýlendumenn á Litlu-Asíu ströndum, Þrakíu og Makedoníu, og eyjamenn á flestum eyjum í Grikklandshafi; Aþenumenn gátu með herskipum sínum haldið uppi

stöðugum samgöngum við eyjarnar. Með Spartverjum var: öll Pelopsey, nema Argos og Akkaía, sem voru með hverigum; en fremur því nær allar sveitir í Hellas. Spartverjar höfðu yfirburðina á landi, og hèldu þegar hernum til Attíku. *Arkídamus* Spartverjakonúngur hafði yfirstjórn hersins og fór herskildi um landið. Það var ráð *Períklesar*, að hætta eigi til höfuðbardaga við Spartverja, en hrinda harðlega af sèr hverju áhlaupi, sem þeir gerði á Aþenuborg; herskip sín lètu Aþenumenn einatt fara með Pelopseyjar ströndum, og gjöra óvinum sínum ónæði og skaða. Arkídamusi varð lítið ágengt í Attíku, landslýðurinn var því nær allur flúinn til Aþenu; Spartverjar liðu vistaskort og hèldu heim til sín. Árið eptir komu þeir að nýju með ófriði, og þá bættist það á, að drepsótt mikil gekk í Aþenuborg; en þar var saman kominn hinn mesti manngrúi. Períkles hèlt áfram uppteknum hætti, hvað sem alþýða manna sagði, að hann lagði ekki til orustu við Spartverja, heldur sendi að eins herskip til Lakóníu, er gjörðu landsmönnum þar mikinn óskunda; urðu þá Spartverjar öðru sinni að hverfa heim aptur við svo búið. En jafnvel þó hinn vanþakkláti lýður lýsti óánægju sinni yfir stjórn Períklesar, þá lèt hann það eigi á sig fá, en stýrði þjóðmálefnum Aþenumanna með sömu staðfestu og hyggindum sem áður, sagði þeim að láta eigi hugfallast og treysta herflota sínum, og væri honum laglega beitt þá myndi alt fá góðan enda. Períklesi auðnaðist að lifa það, að Pótidæa-borg var unnin; en umsátin um þá borg var ein af tildrögum ófriðarins. *Períkles* dó í sóttinni miklu 429 f. Kr., og hafði áður mist börn sín og marga frændur.

Það var ógæfa *Aþenuborgar*, að eptir Períkles liðinn kom enginn, er jafnazt gæti við hann í stjórnvísi. Sá hèt *Kleon*, er þá fekk hin æztu yfirráð. Hann var af lágum stigum, en hann var málsnjall maður, og með því móti hafði hann alþýðuna í hendi sèr, og með ýmsum brögðum kom hann því til leiðar, að hann varð foríngi hennar og átrúnaðargoð; en hann var eigi sá vitsmunamaður, að hann gæti stjórnað alsherjarmálum ríkisins eptir föstum reglum; hins vegar skorti hann eigi óskamfeilni, eða gort, eða smjaður, er lèt vel í eyrum alþýðunnar, og það alt til samans nægði til þess að halda honum í hávegum. Af þessu leiddi, að upp frá þeim tíma, er hann gjörðist leiðtogi alþýðunnar, voru mörg hryðjuverk háð, og öll sú grimd átti sèr stað, sem

er vön að fylgja innanlands óeyrðum. *Spartverjar* hèldu ófriðnum fram og herjuðu um *Hellas* og náðu *Platæu* á sitt vald, en Aþenumenn höfðu öll yfirráð á sjó, kúguðu höfðíngjana á *Lesbusey,* sem gengið höfðu í lið með Spartverjum, og lètu þá alla sæta þúngum refsíngum, er þeir fengu hönd á fest. Hinni sömu hörku beittu þeir á *Corcýru,* þar sem þeir skárust í leikinn milli alþýðu og höfðíngja; veittu þeir þar alþýðunni, svo að höfðíngjar urðu að lúta, en eyjan snerist í lið með Aþenumönnum, og var þeim það góður styrkur. *Demospenes* frá Aþenu vann *Pýlus* með vopnum, og vígirti síðan. Spartverjar komu þángað og freistuðu að ná aptur borginni, en þá kom nýtt lið frá Aþenuborg til hjálpar við sína menn; höfðu Spartverjar 400 manns á *Sfaktería-ey,* sem þaðan áttu að veita liðsafla þeim, er sátu um Pýlusborg; urðu nú þessi 400 manns nauðuglega staddir. Þó hèldu Spartverjar áfram umsátinni, og tóku vistir og áhöld að þverra fyrir liði Aþenumanna. Þá var það, að *Kleon* bauðst á þjóðfundi einum að leiða það mál til lykta, og var því boði hans að nokkru leiti tekið af lýðnum, þó menn reyndar fremur gerðu gaman að gorti hans en hitt, að menn treysti honum til slíkra hluta. Fór hann með nokkru liði þángað sem ófriðurinn stóð, og tókst þá svo til, að Aþenumenn náðu Sfakteríu með ráðum Demosþenesar; þó hèt það svo að Kleon hefði yfirstjórn; voru Spartverjar teknir þar á eynni 400 manns, og fluttir til Aþenuborgar. Nú sem Pýlus var alveg komin í hendur Aþenumönnum, varð hún Spartverjum til hins mesta ógagns, því að bæði var þar örugt vígi, þaðan voru einatt gjörðar árásir á Spartverja, og þángað flýðu margir af Helótum, af því að borgin var í nágrenni. En þegar Spartverjar leituðu friðarsamnínga, þá rèð *Kleon* Aþenumönnum það ráð, að þeir skyldi setja þvert nei fyrir alla friðarkosti.

En þegar hèr var komið, þá fór *Spartverjum* að gánga betur. Aþenumenn biðu mikinn ósigur fyrir Böiótíumönnum við *Tanagra,* og hinn spartverski hershöfðíngi *Brasídas* tók *Amfípolisborg* í Makedóníu. En hann var sendur þángað í land með her manns, til þess að vaka yfir óeyrðum, er þar höfðu kviknað, og nota þær Spartverjum til handa. *Púkydídes* er maður nefndur; hann var herstjóri Aþenumanna í Makedoníu um þær mundir; honum gáfu þeir að sök, að Spartverjar náðu Amfípolis, og ráku

hann í útlegð. En er hann var þannig orðinn laus af hernaðarstörfum, og hafði fengið næði, þá ritaði hann sögu Pelopseyjarstríðsins, og þykir hún eitt hið ágætasta rit, er menn hafa frá fornöld. *Kleon* fekk því áorkað, að hann var gjörður að foríngja yfir þeim her, er því næst var sendur til *Makedoníu*, til þess að ná aptur *Amfípolis* úr höndum Spartverja. Kleon komst norður þángað, en *Brasídas* tók svo á móti honum fyrir utan Amfípolis, að Aþenumenn biðu fullan ósigur. Þar fèllu þeir báðir *Kleon* og *Brasídas*. Þessu næst fekk sá maður, er *Nikías* hèt, hin æztu yfirráð meðal Aþenumanna; hann var sáttgjarn maður; Aþenumönnum tók þá og að leiðast styrjöldin. Spartverjar voru einnig fúsari til sátta en áður hafði verið; enda var hinn sigursæli hershöfðíngi Brasidas þá fallinn og friðnum eigi lengur til fyrirstöðu. Var því samið vopnahlè milli manna, er standa skyldi um 50 ár. Það var 422 árum fyrir Krists burð. Hvorirtveggja lètu það laust, er þeir höfðu náð meðan styrjöldin stóð; og ýmislegt var þá ákveðið til þess að tryggja friðinn sem bezt milli manna á Grikklandi.

## Alkibíades.

Eptir að Grikkir, eða þó öllu heldur *Spartverjar* og *Aþenumenn,* höfðu lánga hríð skipzt vopnum við og háð Pelopseyjar stríðið, lögðu þeir um síðir vopnin niður og gjörðu frið sín á millum, fremur af því, að þá skorti mátt til að halda ófriðnum áfram, en af því, að öfund sú væri undir lok liðin, er jafnan rikti þeirra í millum, og sem verið hafði undirrót ófriðarins. En það sem einna helzt kveykti og efldi allar óeyrðir á Grikklandi, var drotnunargirni einstakra manna, er jafnan hugðust að geta náð frægð og frama, þegar almennur ófriður geysaði innan lands, og þeim gafst færi á að reyna sig og sýna þjóð sinni hve miklu þeir gátu til vegar komið, og verið henni bæði sverð og skjöldur. Einn af þeim mönnum var *Alkibíades*. Hann er án efa einn af þeim mönnum, er flest hefir mátt til ágætis telja af þeim hlutum, er mönnum eru ósjálfráðir; enda kemst sagnaritari einn, er frá honum hefir sagt, þannig að orði: »það virðist svo, sem að náttúran hafi viljað freista þess á honum, hverju hún fengi orkað«; hann var kominn af hinum göfugustu ættum, — sagan segir, að hann væri í beinan legg kominn af *Ajanti* þeim, er

barðist við Trójumenn, og Hómer kvað um —; hann var hverjum manni fríðari sýnum, og fyrir því átti hann kenníngarnafn og var kallaður »hinn fríðasti«; hann var vel auðigur að fè og hélt sig ríkmannlega, var ör á fé við alþýðu og tók vinsældir hennar í móti; hann var gæddur afbragðs vitsmunum; gjörðist á únga aldri handgenginn *Sókrates* spekíngi og nam meðal annars af honum mælskufræði, er hann síðan beitti til þess að leiða alþýðuna eptir vild sinni. En þessir tveir menn áttu ekki skap saman og urðu að skilja, því að Sókrates stundaði spekina með kyrð og friðsemd, en Alkibíades var drotnunargjarn og leitaði uppheföar og yfirráða yfir öðrum; hann gjörði sèr ekki far um, að fræða landa sína um þá hluti, er væru heiðarlegastir og beztir, heldur um hitt, að leiða þá eptir sinni vildi. Svo er sagt, að hann hafi snemma sýnt bæði hug og áræði: einhverju sinni, meðan hann var barn að aldri, var hann í teníngsleik með öðrum smásveinum úti á strætum, þá bar að mann einn er vagni ók eptir strætinu, en þar var mjótt milli húsa. Alkibíades átti að kasta teníngnum í því er manninn bar að þeim, biður sveinninn hann bíða litla hríð, en maðurinn gaf að því engan gaum og heldur áfram; þá hræddust sveinarnir að vagninn kæmi yfir þá og hlupu undan, en Alkibíades lèt sèr eigi bilt við verða, fleygir sèr niður og legst um þvert strætið og biður hann nú að aka fram vagninum ef hann vilji; maðurinn vildi eigi vinna slys og stöðvaði vagninn. Þá er Alkibíades þroskaðist átti hann engan sinn jafníngja hvorki að andlegu atgjörfi nè í líkamlegum íþróttum. En ein var sú list, er hann vildi eigi nema, og þótti lítilsverð, það var að leika á hljóðpípu; því að slíkt afskræmdi andlitið sagði hann. *Hómer* var honum kærastur allra skálda. Einhverju sinni kom Alkibíades til bókakaupmanns og beiddi hann selja sèr kvæði Hómers. Kaupmaður kvaðst eigi hafa þau. Alkibíades laust hann kinnhest, og gekk út síðan.

Þegar Alkibíades talaði á mannfundum, varð honum lítið fyrir að sigrast á mótstöðumönnum sínum og leiða alþýðu manna eptir víld sinni. Þá voru eins og optar í *Aþenuborg* margir þeir menn, er vildu að lýðurinn einn hefði æztu völd (lýðstjórn); gjörðist *Alkibíades* foríngi þessara manna. Hins vegar voru aðrir, sem vildu að höfðíngjar og ríkismenn rèðu mestu (höfðíngjastjórn), eins og átti sèr stað í *Spörtu*, og í þeim fylkjum, er

Spartverjum lutu. Nokkru fyr (422) höfðu *Aþenumenn* og *Spartverjar* gjört samband sín í millum; en Alkibíades kom svo orðum sínum, að alþýðan hafði að vettugi þann hagnað, er af slíku sambandi gat leitt fyrir hvorutveggja. Um þessar mundir var það, að *Segestumenn* á *Sikiley* beiddust liðveizlu hjá *Aþenuborgarmönnum* gegn þeim í *Sýrakúsa;* en Sýrakúsa var nýlenduborg frá Korinþu. Nú þóttust menn skilja, að Spartverjum myndi standa stuggur af, ef Aþenumenn yrðu við liðsbón þessari, því að bæði myndu þeir þá auka skipaflota sinn og með því að leggja undir sig Sikiley, gríska ey og vellauðuga, fá meiri yfirráð á Grikklandi en nokkru sinni áður; var þá að því sem vísu að gánga að Spartverjar myndu sæta því lagi, að ráðast á Aþenuborg, meðan herflotinn væri í fjarlægð í framandi landi og borgin varnarlítil eptir. En *Alkibíades* fekk með málsnild sinni talið mönnum trú um, að ekkert væri ákjósanlegra en að leggja undir sig Sikiley, því að þá yrði Aþenumönnum margbættur allur sá skaði, sem þeir hefði beðið í styrjöldinni. Alþýðan rèði nú af, að gjöra út flota mikinn og urðu þessir fyrirliðar: *Alkibíades, Nikías* og *Lamakkus.* Og jafnvel þó Aþenumenn hefðu látið stórfè í styrjöld þeirri, sem nýafstaðin var, þá gjörðu þeir þó nú sitt sárasta til að búa flota þenna svo, að samsvarað gæti hinu stórkostlega áformi, er þeir höfðu þá fyrir stafni. Allur þorri vopnfærra manna bjóst til fararinnar, og þann dag, er flotinn skyldi leysa úr höfnum, var slíkur manngrúi samankominn niður við *Píreushöfn.* að vart varð tölu á komið. Þegar lúðurinn kvað við, sló þögn á alla; herinn gjörði áheit á guðina, eptir fornri venju, og færði þeim dreypifórn af gullskálum og silfurkerum til fararheilla sèr og sigurs. Því næst hófu menn upp hersönginn og hèldu af stað. Það var 415 árum f. Kr.

En litlu áður en flotinn sigldi á haf, hafði sá atburður orðið, er miklum tiðindum skipti bæði fyrir *Aþenumenn* og *Alkibíades,* Bæði á torgum og strætum Aþenuborgar stóðu goðalíkneskjur margar. Eina nótt voru flestar af goðamyndum þessum skemdar með ýmsu móti. Þótti þetta, sem það og var, hið mesta fólskuverk og ílsviti, eigi að eins vegna þess að helgum dómum var spilt, heldur og hins vegna, að glæpaverk þessi voru svo stórkostleg, að margir menn hlutu að vera hèr í vitorði, og gat því þjóðfèlaginu verið hin mesta hætta búin. Margir urðu

til að eigna *Alkibíadesi* þetta illvirki; þó þorðu menn eigi að gefa honum sök á því, meðan hann var þar í landi, því að menn óttuðust mælsku hans og vinsældir hjá hernum. En jafnskjótt sem flotinn var burt sigldur, þá risu sakargiptarmenn á fætur og báru sakir á hann; vitni voru til kvödd og þó þau skýrðu eigi öll frá atburðum á einn veg, þá gátu fjandmenn Alkibíadesar komið því til leiðar hjá hinum hviklynda lýð, að þegar var sent á eptir flotanum og Alkibíades boðið, að koma heim aptur og hreinsa sig af þessum glæp fyrir þjóðinni. Alkibíades lèt sèr lítið bregða við þau tíðindi og bjóst til heimferðar. En á leiðinni kom skip það, er flutti hann, við land á *Ítalíu* sunnanverðri; leyndist hann þá á burt, og kom fram í *Spörtu;* gjörðist hann þar brátt hinn skæðasti óvinur Aþenumanna. Honum fór þar sem í Aþenu, að hann fekk Spartverja alla á sitt mál; öllum þóttu þau ráð snjöllust, er hann lagði til, enda var honum svo kunnugt um hagi Aþenumanna, að hann vissi bezt hvar höggstaður fengist á þeim. *Spartverjar* voru, eins og áður er sagt, sparneytnismenn hinir mestu, og lifðu við harðan kost, átu byggbrauð og drukku soð; nú myndu fáir ætla, að *Alkibíades* gæti fellt sig við slíkt harðrètti; hann sem áður hafði haldið sig svo ríkmannlega í Aþenuborg, að enginn komst til jafns við hann í alskonar munaðarlífi; en Alkibíades vissi hvað Spartverjum kom og samdi sig alveg að siðum þeirra; varð hann lýðnum hinn kærasti sökum slíkra hluta. Nú er að segja frá þeim í Sikiley. *Aþenumenn* biðu þar miklar ófarir (415—413) og mest af völdum Alkibíadesar; eptir hans áeggjun sendu Spartverjar þángað her manns til liðs við þá í Sýrakúsborg. *Lamakkus* fèll í orustu; *Nikías* varð handtekinn og drepinn síðan. Var það hið mesta tjón, er Aþenumenn alt til þessa höfðu beðið í Pelopseyjar ófriðnum. Þegar hinir aðrir bandamenn þeirra sáu hvernig Spartverjum reiddi af, tóku þeir að slíta fèlagskap við Aþenumenn. En í Aþenuborg var *Alkibíades* dæmdur sekur um helgidómsspjöll og landráð; fè hans var gjört upptækt og prestum var boðið að lýsa banni yfir honum.

Eigi leið lángt um áður vináttan tæki að kólna milli *Alkibíadesar* og *Spartverja.* Höfðíngjarnir í Spörtu þóttust brátt skynja, að hann hugði mest á sjálfs síns hag og upphefð, og með því að hann var í miklu gengi hjá lýðnum, óttuðust þeir, að lýður-

inn yrði sèr fráhverfur, og álit sitt þannig fara mínkandi. Tóku þeir fyrir því ráð sín saman og vildu ráða hann af dögum. *Alkibíades* fekk njósn af þessari fyrirætlan þeirra, býr sig af landi burt og fer til *Persa.* En Persar voru svarnir óvinir Grikkja. Þá var *Tissafernes* jarl Persa konúngs yfir Litlu-Asíu; hann var slægvitur maður og illgjarn; hann hafði gjört Grikkjum alt til ógagns er hann kunni, meðan Pelopseyjar styrjöldin stóð, en aukið vald Persa eptir mætti; hann hafði látízt vera vinur Spartverja og veitt þeim að málum, fyrir því að honum stóð geigur af herskipum Aþenumanna, og hann sá að þeir gátu orðið skaðræðísmenn í nýlendum Persa á Litlu-Asíu ströndum. En hèr fór sem endranær, að enginn gat móti staðið Alkibíadesi. Hinn rembiláti *Tissafernes* var svo gagntekinn af orðum og háttalagi hans, að honum þótti ekki ráð nema *Alkibíades* rèði. Hann leiddi Tissafernesi fyrir sjónir, að nú væri að því komið, að Spartverjar fengi öll yfirráð á Grikklandi, en þá væri Persum hætta búin, þess vegna skyldu þeir liðsinna Aþenumönnum, svo að þeir gæti haldið sínum hlut fyrir Spartverjum, þá myndi þessi tvö ríki eigast íll eitt við og eyða hverir fyrir öðrum menn og fè, en þá gæti Persar haft ráð þeirra beggja í hendi sèr. Þetta þótti Tissafernesi þjóðráð og gjörðist upp frá því fráhverfur Spartverjum. En þrátt fyrir það þóttist *Alkibíades* enn sem komið var, eigi óhultur að koma til Aþenuborgar, því að margir voru þar enn þá hans óvildarmenn; hann vildi sjá Aþenumönnum betur borgið, og vildi eigi sækja þá heim fyr en hann hefði her manns og ætti sigri að hrósa; hugsar hann nú sitt ráð: hann lèt benda Aþenumönnum á, hversu áríðandi þeim væri að vingast við Persa, en það lèt hann segja þeim, að Tissafernes myndi að eins verða vinur þeirra fullkominn, með því skilyrði, að þeir ræki lýðinn frá völdum og tækju sèr höfðíngjastjórn. Þetta varð framgengt eptir miklar deilur og megnar óeyrðir. En þessu reiddist herlið Aþenumanna á *Samosey* og það hafði Alkibíades sèð fyrir. Herinn afrèð að hlýðnast als eigi höfðingjastjórninni í Aþenuborg, og kaus *Alkibíades* til foríngja yfir sig, því að mönnum var vel kunnugt, að hann hafði verið hinn lýðhollasti maður í Aþenu og stoð hans og stytta. Þannig fekk Alkibíades komið því til leiðar, er hann vildi, eptir að hafa svikið bæði Aþenumenn, Spartverja og Persa. Gjörðist hann nú að nýju foríngi Aþenumanna og átti margar orustur um

Grikklandshaf og vann jafnan sigur; hrukku Spartverjar fyrir honum bæði á sjó og landi og með ráðum og dáð efldi hann nú hag Aþenuborgar.

Litlu síðar en hèr var komið varð sú breytíng með Aþenumönnum, að höfðíngjar mistu yfirráðin, en alþýðan náði þeim aptur. Var það þá eitt hið fyrsta sem gjört var, að kalla *Alkibíades* heim aptur, og nú var svo komið, að hann þóttist óhultur geta stigið aptur fæti á feðrajörð sína. Árið 407 hèlt Alkibíades flota sínum inn á Píreushöfn; hafði hann þá mörg hertekin skip og ógrynni fjár. En er það spurðist, að *Alkibíades* væri kominn að landi, flyktust Aþenumenn niður til hafnar og fögnuðu honum sem þeir bezt kunnu. Síðan gekk *Alkibíades* á þíng og talaði lángt erindi og snjalt; mintist hann þar hraknínga sinna þau hin síðustu árin, en gaf þó eigi lýðnum sök á því, hins gat hann og, hversu ófriðurinn hefði nú snúizt til heilla Aþenumönnum; urðu menn þá svo hrifnir af orðum hans, að þeir settu blómhríng af gulli á höfuð honum, og gjörðu hann að einráðum hershöfðingja sínum bæði á sjó og landi; eignum hans var öllum aptur skilað, bannfæríng sú afmáð, er yfir honum hafði verið lýst, og súlum þeim varpað á sjó út, er á hafði verið ritað bannfæríngin. Eptir þetta fór *Alkibíades* aptur til hersins á *Samos-ey;* en litlu síðar varð hann að fara að hitta bandamenn sína og krefja þá um fè það, er hafa þurfti til hersins; setti hann þá þann mann, er *Antíokkus* hèt, til herstjórnar á meðan hann sjálfur var í fjarlægð. Maður hèt *Lýsander,* hann var hershöfðingi *Spartverja,* slægvitur maður og íllgjarn. Hann frèttir að *Alkibíades* er farinn frá hernum; leggur hann þá til orustu við Aþenumenn og fær sigur. Alkibíades brá skjótt við, er hann frèttir ófarir manna sinna, og býst að hefna ósigursins á Spartverjum; en Lýsandir gaf honum aldrei færi á sèr, og varð *Alkibíades* frá að hverfa við svo búið. Nú risu mótstöðumenn *Alkibíadesar* að nýju upp í Aþenuborg, og gáfu honum það að sök, að hann hefði fengið yfirráð hersins í hendur ónýtum manni, en setið sjálfur í sællífi og makindum austur í Asíu. Komu þeir svo sínum fortölum, að lýðurinn setti *Alkibíades* frá hervöldum, og fekk þau í hendur *tíu mönnum,* er kjósa skyldi á ári hverju til herstjórnar. En er *Alkibíades* spyr þau tíðindi, þá býst hann til ferðar og lèttir eigi fyr en hann kemur norður í *Prakíu,* hefir

hann þar liðsafnað og berst við viltar þjóðir, tekur þar kastala nokkura, safnar fè, og heldur hlífiskyldi yfir Grikkjum, er þar bjuggu, gegn árásum útlendra þjóða.

Nú leið að endalokum *Pelopseyjar-styrjaldarinnar* og höfðu þar ýmsir átt högg í annars garð. Við eyjar þær, er *Arginússæ* heita og liggja í *Æólishafi*, unnu hinir tíu foríngjar *Aþenumanna* sigur á *Spartverjum*, en þeir voru dæmdir til dauða fyrir þá sök, að þeir lètu farast fyrir að bjarga skipshöfnum af 25 skipum, er Spartverjar söktu í kaf. Eptir það fekk *Kónon*, og nokkrir aðrir með honum, yfirráð yfir skipaflota Aþenumanna. Þeir höfðu lagt flotanum norður í *Hellusund* (Hellespontos) framundan *Ægos-Potamoi* (Geitarfljóti); en Lýsander lá þar gagnvart þeim með Spartverjaflota; lá Lýsander kyr í höfn og lèt sem hann gæfi því engan gaum, þótt Aþenumenn skoruðu á hann daglega til orustu. Gjörðist þá lið Aþenumanna gálaust, hlýddi foríngjum sínum sljóflega, gekk á land á hverjum degi, og ugði als eigi að sjer. Þá kom *Alkibiades* þángað og leiddi hershöfðíngjum fyrir sjónir, að þeir færi ráðlauslega með sínum hag, og væri þeim hætta búin, að láta svo lengur standa; en hershöfðíngjarnir vissu, að Alkibíades vildi jafnan einn öllu ráða, og að þeirra yfirstjórn væri lokið, ef þeir færi að hans ráðum; kváðust þeir því myndu sínu fram fara, hvað sem hann legði til; lèt hann þó þess viðgetið, að hann á fárra daga fresti skyldi koma til liðs við þá, og annaðhvort neyða Spartverja til orustu, ellegar að öðrum kosti að láta skip sín. Það kom nú bráðum fram, er *Alkibíades* hafði fyrir sjeð. Einn dag gengu Aþenumenn af skipum sem optar og á land upp, og var fátt manna eptir á skipunum. Þá kom *Lýsander* og lagði þegar til orustu; lauk svo að hann vann flest skip þeirra, en *Kónon* flýði undan með nokkur, er af komust. Hèlt nú *Lýsander* viðstöðulaust til *Aþenuborgar* og tók hana litlu síðar (404). Fór hann með hinni mestu grimd. Þó voru Aþenumönnum gefin grið með þeim skildaga: að þeir skyldi láta af hendi allan skipastól nema ein 12 skip, að múrveggir þeir, er samtengdu Aþenuborg og Piræus, skyldu rifnir niður, og Aþenumenn gjörast sambandsmenn Spartverja. Lýðstjórninni var kollvarpað, og höfðingjar settir til valda sem í Spörtu; var 30 mönnum skipað í ráð (*þrjátýgi harðstjórar*), að spartverskum sið, hjá *Aþenuborgarmönnum*,

og drotnuðu þeir nú með harðri hendi þar, sem lýðurinn hafði litlu áður verið einvaldur.

Nú er *Spartverjar* höfðu brotið undir sig *Aþenumenn*, og fengið öll yfirráð bæði á sjó og landi, þá treystist *Alkibíades* eigi lengur að haldast við í *Þrakíu;* fór hann fyrir því yfir til Litlu-Asíu með það fè, er hann mátti með komast, og á fund *Farnabazus* jarls. Þaðan ætlaði hann austur í *Asíu* til *Artaxerxes* Persakonúngs *Mnemons,* og var það fyrirætlan hans, að fá liðveizlu hjá honum bæði fyrir hönd Aþenumanna og sjálfan sig. Honum var kunnugt, að *Cýrus,* bróðir Artaxerxes konúngs, hafði liðsafnað móti bróður sínum, og að Spartverjar voru í vitorði með Cýrusi og höfðu heitið honum sínu fulltíngi; myndi því Artaxerxes kunna sèr þakkir fyrir, ef að hann gjörði bert fyrir honum þessa ráðagjörð þeirra Cýrusar. En *Lýsander* hèlt njósnum um ferðir og fyrirætlun Alkibíadesar og skoraði á Farnabazus jarl, að taka hann af lífi. *Alkibíades* svaf í húsi einu; þar komu Persar um nótt og lögðu eld í húsið og fengu náð frá honum sverði hans. *Alkibíades* vaknaði við eldgánginn og saknar sverðsins, grípur hann þá rýtíng einn lítinn, er fyrir honum varð, og ræðst til útgöngu; bar hann klæði á eldinn og fekk út komizt. Eigi þorðu *Persar* að gánga að honum, því að þeim stóð ótti af vígfimi hans; skutu þeir örvum að honum álengdar og veittu honum bana; eptir það hjuggu þeir höfuð af Alkibíadesi og færðu *Farnabazi* jarli.

Hinir spartversku harðstjórar ríktu að eins eitt ár yfir Aþenumönnum. Þóttu yfirráð þeirra hin verstu fyrir sakir grimdar og ofstopa, enda lètu þeir ýmist taka menn af lífi, eður ráku þá í útlegð. Árið 403 náði *Prasýbúlus,* með aðstoð lýðsins, borginni úr höndum þeirra, rak harðstjórana burtu og setti þar aptur lýðstjórn, eins og áður hafði verið.

## Sókrates.

Snemma á öldum tóku grískir spekíngar að hugleiða sambandið milli heimsins, mannfólksins og guðs. Ýmsir heimspekíngaflokkar höfðu aðsetu í *Aþenuborg,* því að bæði voru þar margir fræðimenn saman komnir, og þjóðin var námfús og vel viti borin, og hlýddi á kenníngar þeirra með athygli. En það var einnig í Aþenuborg, að einskonar spekíngaflokkur, er menn

kölluðu *vitrínga* (Sófistar), reis upp, og þóttist hafinn yfir alla heimspekilega þekkíngu, og bar það fyrir sig, að skynsemin hefði engin föng til að skynja hrein og óyggjandi sannindi, og að sèrhvað eina væri satt, er menn gætu varið með álitlegum ástæðum. þessi vitrínga flokkur gaf sig allan við því, fyrir ærið fè, að kenna úngmennum í Aþenuborg allskonar listir og vísindi, t. a. m. söngfræði, skáldskaparlist, stærðafræði, stjórnarvísindi, og einkum mælskufræði, er kom sèr svo vel, og var svo áríðandi öllum úngum mönnum, er girntust að komast til vegs og metorða, og að geta leitt lýðinn á mannfundum eptir vild sinni. En kennendur þessir veittu lærisveinum sínum engan veginn þá þekkíngu, er á föstum grundvelli væri bygð, heldur gáfu þeir þeim að eins lauslegar hugmyndir um þær vísindagreinir, er þeir þóttust kenna þeim; þeir kveiktu lèttvægan sjálfsþótta hjá mönnum, en efldu eigi sannan vísindalegan dugnað, og eyddu þannig trúnni á hinu sanna og góða.

Gegn þessari skaðsamlegu stefnu vísindanna hóf *Sókrates* frá Aþenuborg kenníngu sína; hann var spekíngur að viti; hann var sonur myndasmiðs, og hafði í æsku numið íþrótt föður síns; en þegar hann eltist gaf hann sig allan við vísindum; því lengra sem hann komst í þeim, því ljósara varð honum alt hið fánýta í lærdómsgreinum vitrínganna; gjörði hann þá hvað hann kunni til að brjóta niður kenníngu þeirra og laða hina úngu menn að sèr. Um morgna kom hann þángað, sem hinir úngu menn lærðu leikfimi; þegar mannfjöldinn kom saman á torgum staðarins, þá var Sókrates þar; og hvar sem hann vissi, að margir voru saman komnir, þá var hann ætíð þar kominn; kynntist hann þannig alskonar mönnum af ýmsum stèttum, og aflaði sèr margbreyttrar þekkíngar, er hann síðan miðlaði öðrum og kendi allavegu út frá sèr; hann talaði löngum og hver sem vildi átti kost á að heyra kenníngu hans. Yrði einhver á leið hans, sem þóttist vera vitur, af því að hann hefði notið tilsagnar hjá vitríngunum, þá var Sókrares vanur að spyrja þann að, hvað hann hefði lært, og með því að þykjast sjálfur ekkert vita, látast þyggja tilsögn í stað þess að veita hana, leggja fyrir þá hina sömu einfaldar og greiðar spurníngar, þá gat hann smátt og smátt fengið þann, er hann átti orðastað við, eður þá tilheyrendur, til að játa, að sú hin hègómlega þekkíng væri vettugi verð, en að hver vitur maður

yrði að hafa ljósa hugmynd um lífið og um skyldur sínar, og að sönn vizka væri innifalin í guðsótta, rèttlæti, hófsemd og auðmjúkri viðurkenníngu þess, að mannlegt hyggjuvit næði skamt. Fyrir því hafa menn sagt um Sókrates, að hann hafi flutt spekina ofan af himnum, og leitt hana inn í borgir og bústaði manna; því að hann gaf sig ekki við ransóknum hinna fornu spekínga um upphaf og æfidaga heimsins, en hann varð fyrstur manna til að kenna öðrum siðalærdóminn.

Dagfar og breytni *Sókratesar* var samboðin kenníngu hans; hann lagði alt í sölurnar fyrir vini sína; hann var stiltur vel og þolinmóður við *Xanþippu* konu sína; hún var óhemja svo mikil, að höfð er síðan að orðtaki; *Sókrates* var manna sparneytnastur í mat og drykk, þrautgóður og öruggur í öllum mannraunum, hispurslaus í öllum klæðaburði, hugprúður maður í orustum og einbeittur á þjóðþíngum. Það var einhverju sinni, að Aþenumenn vildu, með einni atkvæðagreiðslu, sem þá var lögum gagnstæð, dæma tíu hershöfðíngja til dauða, fyrir því að þeir hefðu ekki, að fengnum sigri, verið nógu ötulir að bjarga mönnum á skipum nokkrum, er óvinir þeirra söktu; stóð þá svo á, að *Sókrates* átti að stýra atkvæðagreiðslunni; vildi hann með engu móti greiða atkvæði samkvæmt ósk lýðsins, enda þótt lýðurinn reiddist honum og hefði hótanir í frammi. Eins og við mátti búast af slíkum manni, var hann trúrækinn, en þó var hann laus við hjátrú alþýðunnar. Hann gjörði sèr þá hugmynd um guðina, að þeir rèði fyrir kjörum manna, væri alsvitandi og alstaðar nálægir, svo að þeir vissi gjörla orð og gjörðir og hugarfar manna; hann var sannfærður um, að einhver guð annaðist sig sèrstaklega, sem hefði verið sinn leiðtogi frá blautu barnsbeini, gæfi sèr góð ráð handa vinum sínum, og rèði sèr frá hinu illa, er hann vildi gjöra það.

En jafnvel þó *Sókrates* sýndi bæði í liferni sínu og lærdómi, að hann var einna vitrastur manna þeirra, er á Grikklandi hafa verið, þá hlaut hann þó einmitt vegna þess að styggja marga með kenningu sinni; þegar hann lagði spurníngar fyrir tilheyrendur sína, einmitt til þess að fræða þá um það, sem betur mátti fara, þá leit það stundum svo út, sem hann væri að gera gis að þeim; margir úngir menn, sem vildu líkjast honum, en náðu honum ekki að vizku, urðu dramblátir, lítilsvirtu aðra og fundu að því hvernig þjóðinni væri stýrt; þjóðin hèlt fast við fornan átrúnað á

guðunum, þótt hann í mörgum greinum væri hègiljur einar og hjátrú; menn ímynduðu sèr alment, að guðirnir væru háðir öllum mannlegum geðshræríngum, ætti að stríða við ástir og hatur og reiði, og væru að eins voldugri en mennirnir. *Sókrates* hafði þar á móti miklu æðri og glöggari hugmyndir um guðdóminn, og þess vegna sögðu menn, að hann færi með guðlast og leiddi únga menn í hina sömu villu. þar við bættist og, að *Sókrates* fann að ýmsum greinum í lýð-stjórn Aþenumanna, og fyrir því grunuðu þeir hann um þjóðhollustu og sögðu, að hann hèldi með öllu stórmenni og höfðingjum. Alþýðan reis því öndverð í móti honum, og leikskáldið *Aristófanes* átti eigi lítinn þátt í því, að gjöra *Sókrates* hlægilegan, með því að láta hann koma fram í leikritum sínum og herma eptir honum í leikhúsinu. En þeir, sem reiddust honum mest, voru þó *vitríngarnir*, af því að hann gjörði hina úngu menn fráhverfa þeim, og dróg skýluna af fávizku þeirra. þarf því eigi að undra, þótt mótstöðumenn hans bæri þá sök á hann fram fyrir lýðinn: »að Sókrates hefði drýgt óguðlegan glæp, þar sem hann bæði kendi mönnum að trúa á aðra guði en þá, sem þjóðin tignaði, og spilti úngum mönnum«. Hann varði sjálfur sök sína fyrir dómi á sama hátt, sem hann var vanur að tala endrarnær; hann sagði mótstöðumönnum sínum margt bituryrði og gjörði þá að athlægi í augum manna; hann sýndi með mestu rósemi fram á, að breytni sín og kenníng væri lýtalaus og ósaknæm, og sagði hreint og beint, að hann hefði sókzt eptir dygðinni og gjört samborgarmönnum sínum mikið gagn. Eptir siðvenju Aþenumanna, þegar einhver var kærður um sök, en lögin höfðu ekki ákveðið sèrstaka hegníngu fyrir, var honum boðið að tiltaka hegnínguna. það vildi hann eigi, heldur kvaðst hann eiga þau verðlaun skilið, er vant var að veita framúrskarandi mönnum þjóðarinnar. Slík varnarræða var sízt löguð til að mýkja skap óvina hans; var hann þá dæmdur dauða sekur, og skyldi drekka eiturblöndu. það er sagt, að atkvæði þeirra, er vildu dæma hann sýknan saka, hafi verið litlum mun færri. *Sókrates* varð vel við dauðadóm sinn, og kvað dauðann vera sèr bót en ekki böl, því að hann kvaðst sannfærður um, að annað betra tæki við en það, sem hèr væri slept. Á leiðinni frá dómhúsinu harmaði einn af vinum hans það, að hann yrði að láta

lífið saklaus. »Vildir þú þá heldur, að eg lèti lífið sekur», svaraði *Sókrates*?

Það var venja Aþenumanna, að senda á ári hverju hið helga skip, er svo var nefnt, með gjafir til Apollós-hofs á Delos-ey; mátti engan sekan mann taka af lífi áður það skip kæmi aptur. Nú vildi svo til, að degi síðar en *Sókrates* var dæmdur, lagði skipið af stað til eyjarinnar, og varð því *Sókrates* að sitja 30 daga í varðhaldi. Buðu þá vinir hans honum að leysa hann úr varðhaldi og koma honum undan á flótta, en hann setti þvert nei við því, og kvaðst hvorki vilja gjöra sèr minkun á gamals-aldri — hann var þá 69 ára — nè heldur brjóta lög þjóðarinnar. Hann beið því með kyrð og þolinmæði í dýflissunni, kendi vinum sínum og hughreysti þá; sjálfur þurfti hann engrar huggunar, en huggaði þar á móti lærisveina sína, er hörmuðu forlög hans.

Kvöldið síðasta sem hann lifði, beiddi hann að rètta sèr eitur-bikarinn. Einn af vinum hans sagði, að hann gæti enn látið dragast nokkrar stundir að taka eitrið, meðan sól væri á lopti, og sekir menn voru vanir að fá stundar frest; þá mælti *Sókrates*: »þeir geta haft sínar ástæður, eg hefi mínar». Varðmaður einn bar honum nú drykkinn; Sókrates spurði hann hvernig hann ætti að bera sig til; hinn svaraði, að hann skyldi fyrst gánga um gólf og síðan til hvílu, er honum færi að kólna á fótum. *Sókrates* tók við bikarnum og drakk í botn, bað guðina veita sèr góða burtför og líkti eitrinu við læknisdrykk. Vinir hans veittu honum nábjargir og kystu hið kalda andlit skilnaðarkossi. Það var 400 vetrum fyrir Krists burð.

Aþenumenn, hinn hviklyndi lýður, iðruðust þegar verksins, og bjuggust sorgarbúníngi í saknaðarskyni við hinn ágæta speking, er þeir höfðu af lífi tekið og reistu honum minníngarvarða, en ráku ákærendur hans (Meletos, Anýtos og Lýkon) af landi burt; þeir dóu illum dauða í útlegð.

Með *Sókratesi* hófst nýtt tímabil í heimsspekinni á Grikklandi, og lærisveinar hans stofnsettu hina nafnkendustu heimsspekíngaskóla. *Aristippus* frá Cýrenuborg stofnaði *Cýrenu-skólann*. Sá heimsspekínga flokkur áleit það mark og mið lífsins, að njóta unaðsemda þeirrar stundar er yfirstæði, og að afla sèr þeirrar hugarrósemi, er slík nautn veitti manni. *Antisþenes* átti aþenskan föður en frýgverska móður, hann var höfundur *kýnverska skólans;*

það var hans kenníng, að mannlegt frelsi væri í því fólgið, að vera sem minst háður líkamlegum þörfum. *Díógenes* frá Sinope, er lengi var í Aþenuborg, var einna nafnkendastur af þeim spekíngaflokki; þeir mötu einkis vísindi og listir, þjóðlíf og hjúskap. *Plató* stofnaði hinn *akademversku skóla;* hann ímyndaði sèr heiminn eins og sýnilega mynd guðs, og sagði að hið góða og fagra væri hið háleita takmark, er menn ættu að keppast að. Af lærisveinum hans var hinn fjölfróði og skarpskygni *Aristóteles* lángfrægastur; var Aristóteles höfundur þess spekíngaflokks, er nefndur er hinn *perípatneski.* *Zenó* hèt sá, er stofnaði *stóumanna* skólann, er einnig átti kyn sitt að rekja til kennínga Sókratesar. Sá heimsspekíngaflokkur kendi mönnum og krafðist af þeim alvarlegs siðvendis samkvæmt eðlisfari manna, og átti það eptir kenníngum þeirra einkum að fá vöxt og viðgáng undir frjálslegri stjórnarskipan.

## Styrjöld hin síðari milli Persa og Grikkja.
(401—387 f. Kr.).

*Daríus* Persakonúngur, hinn annar með því nafni, (að viðurnefni *nóþus),* dó um það leiti, er styrjöldinni lauk á Pelopsey (404). Eptir hann tók sonur hans, *Artaxerxes* annar, *mnemón,* við ríki (404—362). *Cýrus* hèt bróðir hans; hann var þeirra bræðra ýngri; hann var jarl Artaxerxes bróður síns yfir Litlu-Asíu. En Cýrus vildi eigi vera gefinn undir bróður sinn, og safnar liði og býst að steypa honum frá völdum, og fær liðsafla hjá Grikkjum, með því hann var vinur þeirra mikill síðan Pelopseyjar ófriðnum lètti af. Nú sem *Artaxerxes* fær njósn af þessum liðssafnaði bróður síns frá *Tissafernes* jarli, þá hefir hann liðsafnað á móti; varð fundur þeirra hjá *Cúnaxa* í Babýlonslandi, (401). *Cýrus* hafði því nær unnið bardagann, en svo lauk að hann fèll, og fekk *Artaxerxes* sigur. Artaxerxes skoraði á Grikki að gefast upp og selja vopn sín af hendi, en Grikkir svöruðu þannig: ef konúngur er vinur vor, þá þurfum vèr vopnanna honum til liðveizlu, en ef hann vill óvingast við oss, þá þurfum vèr þeirra til að verja oss sjálfa. Grikkir bjuggust því næst til heimferðar, var það afarlöng leið og um óvina lönd að fara, enda höfðu Persar vonzkufull vèlræði í frammi við þá, og var *Tissafernes* forsprakki þeirra vèlræða. Hann hèt þeim óhultri heimför,

varð þeim samferða með liði sínu, og einhverju sinni bauð hann foríngjum hins gríska herflokks til máltíðar í tjald sitt. Grikkir grunuðu hann eigi og gengu í tjald hans, en þá lèt hann drepa þá alla. það ræður að líkindum, hvernig liðinu hafi orðið við, er foríngjar þeirra voru svo sviksamlega af dögum ráðnir. En það vildi Grikkjum þá til frelsis, að úngur maður að nafni *Xenófon* frá Aþenuborg og lærisveinn *Sókratesar* var í liði þeirra, og þó hann væri eigi hermaður, þá var hann hinn mesti snillíngur og talaði kjark í liðið. Tóku þeir hann til foríngja yfir sig, og með ráðum og dáð kom hann þeim yfir fjöll og firnindi, um vegleysur og fram hjá grimmum óvinum, heilum á húfi heim til Grikklands. Hann hefir ritað fróðlega sögu um heimferð þessa, sú saga er enn til, og heitir *Anabasis.*

Eptir fall *Cýrusar* gjörðist *Tissafernes* jarl yfir Litlu-Asíu, og rèðist þá bráðum á nýlendur Grikkja þar á ströndunum, en þær leituðu sèr hjálpar hjá *Spartverjum,* því að þeir einir rèðu öllu á Grikklandi síðan Pelopseyjar styrjöldinni lauk. Spartverjar sendu her manns til Litlu-Asíu, en lítið varð ágengt, því að *Tissafernes* var slægvitur, fór undan í flæmíngi, samdi við þá um frið og dróg alt á lánginn. Loksins gaf *Lýsander* það ráð, að senda *Agesilás,* Spartverjakonúng, og setja hann yfir herinn á Litlu-Asíu. *Agesilás* var ágætur hershöfðíngi, stjórnsamur, snarráður og hraustur í orustum; hann sá við öllum svikum Tissafernesar og feldi hann einatt á sjálfs síns bragði. Hann fór um Litlu-Asíu svo að ekki stöðst við, og fekk ógrynni fjár. Loksins vann hann mikinn sigur á Persum við *Paktólusfljót* (394). Af þeim sigri reiddist Persakonúngur *Tissafernesi* ákaflega, og lèt taka hann af lífi. Nú kom þar, að Grikkjum þótti óþolandi yfirráð Spartverja, fengu þá Persar komið því til vegar með fèmútum, að íbúar *Korinþuborgar* og *Þebu, Argverjar* og *Aþenumenn,* bundust í fèlag til þess að halda yfirdrottnan Spartverja í skefjum Persum í hag. þá var *Lýsander* sendur með miklu liði til Böiótíu, en beið ósigur í orustunni við *Haliartus* (394), og fèll sjálfur. Hann var þá talinn fremstur maður meðal Grikkja, og frægur af stórvirkjum. Sáu þá Spartverjar þann kost einan, að boða *Agesilás* heim frá Asíu. *Agesilás* gjörði sem honum var boðið, og hèlt suður um þrakíu, Makedoníu og þessalíu til Böiotíu. En um þær mundir hafði *Kónon* verið landflótta austur

á *Kýprusey,* síðan ósigurinn við *Ægos Potamoi,* og hann hafði eigi sparað að gjöra uppgáng Spartverja iskyggilegan í augum Kýpreyjarkonúngs. Kom Kónon svo sínu máli, að hann var settur yfir persnesk og kýpversk herskip og sendur móti Spartverjum. Hitti hann flota Spartverja við *Knídus,* undir Litlu-Asíu ströndum; varð þar hörð orusta (394), og fekk Kónon sigur. Litlu síðar barðist Agesilás við bandamenn Grikkja, þá er áður voru nefndir, hjá *Kórónea* í Böiótíu (394), og fekk sigur, en Aþenumenn höfðu öll yfirráðin á sjó, og Kónon fór sigri hrósandi um hafið, og þegar hann kom til Aþenuborgar, var honum fagnað með mikilli vegsemd. Hann lèt reisa að nýju hina löngu múrveggi, víggirðíngar borgarinnar, er *Lýsander* hafði látið rífa niður. Sáu nú Spartverjar, að eini vegurinn til þess að geta náð hinum fyrri yfirráðum á Grikklandi, var sá, að gjöra samband við Persa. Sendu þeir þá *Antalkídas* til Persíu í þeim erindum; varð honum þar vel framgengt sökum kænsku sinnar, enda hèt hann Persum, að þeir skyldu fá yfirráð yfir nýlendum Grikkja í Litlu-Asíu. Var því næst friður saminn árið 387, með þeim skildaga, að nýlendur Grikkja í Litlu-Asíu skyldu háðar vera Persum, en allar aðrar grískar þjóðir vera sjálfum sèr ráðandi; skyldi Persakonúngur og þeir, sem þessa friðarkosti samþyktust, þröngva þeim, er eigi vildu að þeim gánga, til að samþykkjast þá. Friðargjörð þessi var kend við *Antalkídas;* en af friðnum leiddi það, að Spartverjar, fyrir tilstyrk Persa, urðu eins og áður einráðir yfir málum manna á Grikklandi, og biltu þar til og breyttu hverju einu eptir geðþótta sjálfra sin.

## Upphefð Þebumanna.

Það var áform *Spartverja* eptir Antalkídas-friðinn, að sporna við því, að smáríkin á Grikklandi gætu gjört samband sín á millum, og þannig reist rönd við yfirdrottnan þeirra, og orðið þeim hættuleg; enda verður eigi aunað sagt, en að Spartverjar hefðu allgilda ástæðu til þess, því að í friðarsamníngnum virtist svo að orði kveðið, sem Spartverjum væri gjört heimilt, að vaka yfir frelsi hvers einstaks smáríkis. *Olinpus* er nefnd borg ein í *Makedoníu;* þar var blómleg verzlun, borgin varð stórauðug og aðrar smærri borgir urðu henni mjög háðar. Spartverjum þótti úr hófi keyra, og sendu því herlið þángað norður til að tak-

marka uppgáng Olinþumanna. Á þeirri norðurleið kom herflokkur einn til *Þebuborgar* í Böiótíu. Flokksforínginn hèt *Föbídas.* Þá vildi svo til, að deilur voru með mönnum í *Þebuborg;* voru höfðíngjar öðrumegin en alþýðuflokkur stóð í móti þeim; höfðíngjarnir leituðu liðs hjá *Föbídasi;* þótti honum bera vel til veiðar, er hann sá, að Spartverjum gafst færi á að ná föstum fæti í Böiótíu. Með prettum náðu Spartverjar *Kadmeuvígi* í Þebuborg, og lèku alþýðuna sárt. Þegar fregn barst til Spörtu um aðfarir Föbídasar, lètu Spartverjar sèr fátt um finnast, en þó hèldu þeir Kaðmeuvígi eptir sem áður. Litlu síðar tóku Spartverjar *Olinþuborg,* og nú stóð enginn þeim á sporði á öllu Grikklandi, en bráðum kom það í ljós, að þeir grófu sjálfum sèr gröf með grimd sinni og yfirgángi.

Alþýðumanna flokkurinn í *Þebu* leitaði hjálpar hjá *Aþenumönnum* og tóku nú ráð sín saman til að reka af höndum sèr þá hina Spartversku harðstjóra í Þebu. Hinn helzti meðal Þebverskra manna, er voru í ráðagjörð þessari, hèt *Pelópídas.* Í vitorði með þeim var sá maður, er *Fyllídas* hèt; hann var skrifara foríngi hinnar Spartversku stjórnar í Þebuborg. Á ákveðnum degi lögðu bandamenn af stað frá Aþenuborg til þess að kollvarpa harðstjórunum í Þebu (378). Þá bar svo til að hátíð var í *Þebu,* og voru harðstjórarnir viðstaddir hátíðarhöldin. Þegar kvöld var komið gjörðust harðstjórarnir ölvaðir og voru vel kátir; lèt *Fyllídas* þá bandamenn ná inngöngu í höllina; voru þeir allir í dularklæðum og búnir sem söngmeyjar, og skyldu nú skemta mönnum með fögrum söng og hljóðfæraslætti. Þá fekk einn af harðstjórum brèf frá Aþenuborg og var þar á ritað alt um samsæri Þebumanna, en harðstjórinn hugði á gleði og gaman, og lagði brèfið hjá sèr með þeim orðum: »alvarleg störf skulu geymd til morguns.« En þann morgun sá hann aldrei. Meyjarnar köstuðu dularklæðunum, vopnin stóðu á harðstjórunum, og lètu þeir þar allir líf sitt. Þeir *Pelópídas* lýstu yfir frelsi Þebuborgar og skoruðu á alla góða menn, að reka Spartverja af höndum sèr. Kaðmeuvígi var bráðum tekið. Nú kemur maður til sögunnar er *Epamínondas* hèt; hann var frá Þebuborg; hann var stórvitur maður og hinn frægasti hershöfðíngi, allra manna ósèrdrægnastur og mælskumaður hinn mesti, og er svo sagt, að hann hafi verið einn hinn mesti ágætismaður, er nokkru sinni var uppi á Grikklandi.

Meðan *Epamínondas* var uppi, báru *Þebumenn* af öllum öðrum þjóðfylkjum á Grikklandi; þegar hans misti við, rann frægðarsól þeirra aptur í æginn og sást aldrei síðan. Þegar er Þebumenn höfðu ráðið harðstjórana af dögum, sögðu Spartverjar þeim strið á hendur, og fóru herskildi inn í land þeirra, en Þebumenn urðu vel við og ráku þá af höndum sèr. Aþenumenn skárust í lið með Þebumönnum; voru þeir *Kabrías* og *Tímóteus* foríngjar Aþenumanna, og gjörðu Spartverjum mikið ógagn bæði á sjó og landi; bundust þá allar borgir í Böiótíu í fèlagsskap undir forustu Þebumanna, og voru þeir bandamenn allir til samans eigi árennilegir; fór þá Aþenumönnum eigi að lítast á blikuna, og það því síður, sem Þebumenn höfðu skipaútgjörð mikla og flota fyrir landi. Þótti Aþenumönnum og Spartverjum það ráð snjallast, að leita um sættir og frið; var þá stefnt til fundar í Spörtu, en Persakonúngur reyndi að miðla málum og koma öllu í sama horf, sem á hafði verið kveðið í Antalkídas-friðnum. Þeir *Pelópídas* og *Epamínondas* sáu þegar, að Þebumenn myndu verða fyrir mestum halla, ef sambandsþjóðir þeirra yrðu aptur fullkomlega sjálfum sèr ráðandi, og varð því eigi af sættum. Ófriður tókst að nýju; *Kleombrótus* Spartverjakonúngur hèlt liði sínu til Böiótíu. Fór Epaminondas í móti honum og hafði lið miklu minna; varð fundur þeirra hjá *Leuktraborg* í Böiótíu (371); í þeirri orustu fekk Epaminondas sigur, en Kleombrótus konúngur fèll; er svo sagt, að *Epamínondas* hefði þá nýja fylkíngaskipun á liði sínu, er síðan varð mjög nafnkend meðal hermanna, og svo höfðu Þebumenn hermannaflokk þann á að skipa, er kallaður var »hin helga hersveit«; þann herflokk hafði Pelópídas myndað og kent öll vopnaviðskipti; hvorttveggja þetta veitti Þebumönnum sigurinn. Eptir þenna fræga sigur urðu Þebumenn öndvegisþjóð Grikklands. Aþenumenn gjörðust sambandsmenn Spartverja. *Epamínondas* hèlt hernum suður á Pelopsey, og þá var það, að spartverskar konur sáu fyrsta sinni leggja reyki í lopt upp af herbúðum óvina sinna. Þá myndi *Epamínondas* hafa tekið Spörtu, ef *Agesílás* hefði eigi verið nær staddur og varið hana með snarræði sínu; urðu Þebumenn frá að hverfa. Því næst leysti *Epamínondas Messeníumenn* undan ánauð Spartverja; varð þeim það hinn mesti ófögnuður; því að Messeníumenn víggirtu af nýju *Ípómu*-kastala, og fóru hershöndum inn á landamæri

Spartverja. *Epamínondas* fekk og komið því til leiðar, að íbúar *Arkadíu* bundust allir í fèlag, og reistu borg mikla þar í landi; sú borg hèt *Megalopolis*. Nú leituðu Spartverjar og Aþenumenn að nýju til Persakonúngs til að koma sættum á og friði, en *Pelópídas* var eigi heldur aðgjörðalaus; hann hitti Persakonúng að máli og ónýtti alla fyrirætlan þeirra; friðarkostir þeir sem voru settir, voru allir Þebumönnum í vil, og að þeim kostum vildu aðrir Grikkir eigi gánga; varð því eigi friði á komið að því sinni. Skömmu síðar reyndi Pelópídas að koma Þessalíu í samband Böiótíumanna, en rataði í ófrið við *Alexander* harðstjóra í *Feru;* í þeim ófriði fèll hinn ágæti Pelópídas (364). Þó gjörðust Þessalíumenn fèlagar Þebumanna gegn Spartverjum.

Hina síðustu herferð til *Pelopseyjar* fór *Epamínondas* árið 362 f. Krb. til liðs við Arkadíumenn gegn Spartverjum; gjörði hann þá árásir á Spörtu, en *Agesílás* var þar þá enn fyrir, og fekk *Epamínondas* eigi náð borginni. Það hið sama ár stóð orusta mikil hjá *Mantinea-borg* í Arkadíu, milli Böiótíumanna og Spartverja; orustan var hörð, og lengi tvisýnt hverir sigrast myndu; gjörði *Epaminodas* þá harða atlögu og særði sjálfur hinn spartverska herstjóra, en í þeirri atlögu varð hann sár til ólífis; fengu Þebumenn að sönnu sigur, en þeir mistu *Epaminondas.* Var þá lokið yfirráðum Þebumanna á Grikklandi. Litlu síðar var friður gjörður með þeim skilmálum, að öll fylki á Grikklandi skyldu vera sjálfráð; þá fengu og Messeníumenn frelsi sitt aptur. Voru öll þjóðfylki á Grikklandi þá svo aðþrengd af lángvinnum ófriði, að ekkert þeirra treystist að taka yfirráð yfir öðrum; hver hafði nóg með sig og sín málefni.

### Filippus í Makedoníu leggur Grikkland undir sig.

Grikkir voru nú mjög dasaðir af lángvinnri styrjöld; Aþenumenn höfðu reyndar enn, eins og til forna, yfirráðin á sjó, en einnig þau yfirráð þeirra fóru að forgörðum í *bandamanna*-stríðinu (358—355). *Kos, Ródus, Kios* og *Býzantíum* hófu stríð þetta til þess að koma sèr undan yfirgángi Aþenumanna. Þá var sá maður uppi hjá Aþenumönnum, er *Kares* hèt, hann var mjög áþekkur *Kleoni* þeim, er áður er nefndur, og hafði beitt ýmsum brögðum til þess að ná upphefð hjá lýðnum í Aþenuborg;

varð hann herstjóri Aþenumanna, en sú sýsla var honum ofvaxin, og loksins varð honum á sú glópska, að styggja *Artaxerxes þriðja,* Persakonúng. Hann hèt að viðurnefni Okkus, og ríkti frá 362—338; hótaði konúngur Aþenumönnum hörðu, kúgaði þá til friðar, og að láta bandamenn alla sjálfráða.

En meðan hinum grisku smáfylkjum þannig heldur fór aptur en fram, þá efldist *Makedonía* undir stjórn *Filippusar* konúngs, hins fyrsta, og það svo mjög, að Grikklandi var þaðan hætta búin, eins og bráðum kom betur í ljós. *Makedonía* hafði alt til þessa staðið lángt á baki öðrum fylkjum á Grikklandi í hverskonar mentun, og lítið komið við landssöguna. Í það mund er *Þebumenn* voru fremstir manna á Grikklandi, voru óeirðir miklar í *Makedoníu* um ríkisstjórnina millum sona *Amyntas* konúngs hins annars. Þángað kom *Pelópídas* frá Þebu, og fekk sefað menn um stundarsakir; hafði hann þaðan heim með sèr, sem gisl, *Filippus* son Amyntas konúngs. Filippus ólst upp í Þebu, og nam hernaðaríþrótt hjá *Epamínondas;* þeirri beitti hann síðan gegn Grikkjum. Óeirðir hófust að nýju í Makedoníu um ríkisstjórnina. Filippus vissi alt hvað heima gjörðist; hann var framgjarn og fann hjá sèr máttinn; leyndist hann þá burt frá Þebu og fór til Makedoníu; komst hann þar brátt til vegs og virðíngar, því að bæði var hann hygginn og herkænn og vel máli farinn; fyrst varð hann fjárhaldsmaður bróðursonar síns, er var barn að aldri (361), og eptir dauða hans fekk hann konúngstign. Nú lagði hann undir sig hinar helztu borgir í *Makedoníu,* ein á meðal þeirra var *Amfipolis,* nýlenda Aþenumanna; urðu þeir um þær mundir að gefa sig alla við *bandamannastríðinu,* og gátu eigi snúizt við Filippusi. Þegar *Filippus* hafði tekið Amfipolis, lagði hann undir sig hið gullauðuga land fram með *Strýmonsá,* síðan fór hann herskildi um *Þessalíu* og *Þrakíu* og braut lönd undir sig. Skömmu síðar urðu óeirðir manna suður á Grikklandi þess ollandi, að Filippus konúngur kom þángað, og skarst í leika og tók þar lönd. *Fókar* (íbúar Fókafylkis) höfðu yrkt land nokkurt, er lá undir *Apollós hof* í Delfis, og hafði *Amfiktyonsráðið* gjört þeim fjársekt á hendur fyrir það tilræði; en í stað þess að greiða sektagjaldið, hlupu *Fókar* upp til vopna, rændu hof *Apollós* og höfðu þaðan of fjár; en þegar fèð var

fengið þá skorti ekki liðsafla til ófriðar; þannig hófst *helga stríðið hið fyrra,* (356—346).

*Þebumenn, Lókrar* og fleiri fylki gjörðu nú samband sín á milli til að verja rèttindi guðsins og veita *Amfiktyonsráði* að málum þessum. Laust nú upp ófriði, og veitti *Fókum* betur með fyrsta, en þeim varð það á, að styggja *Filippus* konúng; þótti honum bera vel í veiðar, er honum gafst þannig færi á að skerast í málin á Grikklandi. Býr hann nú lið sitt, og hittir *Fóka* suðrá *Þessalíu,* leggur til orustu og vinnur sigur á þeim; heldur síðan tafarlaust fram ferðinni suður undir *Laugaskarð* (þermópýle). Þá var *Demosþenes* uppi, hinn mesti mælskumaður í fornöld, og hèlt ræður sínar fyrir Aþenumönnum; leiddi hann þeim fyrir sjónir, hverjir afreksmenn feður þeirra hefðu verið, og hvatti þá á margar lundir til vopna gegn harðstjóranum frá *Makedoníu;* skipuðust Aþenumenn við orð *Demosþenesar* og settust í Laugaskarð, og varð Filippus konúngur þar frá að hverfa. Litlu síðar tók Filippus *Olinþuborg,* og gjörðu Aþenumenn þá frið við hann, og að því búnu fór *Filippus* suður um Laugaskarð, og lagði *Fókaland* undir sig. Kúgaði hann þá landsmenn til að greiða skaðabætur, og svipti þá atkvæðarètti í Amfiktýonsráði, er hann sjálfur tók sèr. Síðan hèlt *Filippus* norður aptur til *Makedoníu,* og þóttist sjá fyrir, að sèr mundi bráðum gefast færi á að auka, enn meir en komið var, veldi sitt og yfirráð á Grikklandi. það er og sannast að segja, að Filippus sparaði hvorki að bera fè undir Grikki, eðr beita vopnum við þá, eptir því sem hann sá, að bezt hagaði. Gullnámurnar í Makedoníu veittu honum gnótt auðæfa, og þess var eigi lengi að bíða, að ýmsir meðal mælskumanna Grikklands væru honum alveg háðir.

þessu næst urðu þau tíðindi, að *Lókrar* yrktu land nokkurt, er guðinn í *Delfis* var eigandi að, eins og *Fókverjum* hafði áður orðið; var þá *Filippus,* sem rèði mestu í *Amfiktýonsráðinu,* og fyrir tilstilli *Æskínes* mælskumanns frá Aþenuborg, kosinn til herstjóra yfir lið það, er sent var móti *Lókrum,* þrátt fyrir tillögur *Demosþenesar;* þá hófst *helga stríðið hið síðara* (frá 340—338). Þegar hèr var komið, duldist Filippus eigi lengur þess, er honum bjó í brjósti; þá tók hann *Elateuvígi* í *Fókahèraði,* og sýndi berlega, að hann ætlaði sèr að leggja Grikkland undir sig. *Demosþenes* tókst enn einu sinni með málsnild sinni að vekja frels-

isást Grikkja: Aþenumenn og Þebverjar og nokkur fleiri fylki gjörðu samtök, og reyndu að verjast ófrelsi því, er yfir vofði. Varð þá orusta mikil hjá *Kæróneu* í *Böiótafylki* (338), og fekk Filippus sigur, því að herkænska hans mátti sèr meira en hreysti bandamanna. Eigi beitti *Filippus* konúngur hörku við Grikki eptir sigur þenna, en kjósa lèt hann sig til aðalforingja yfir allan Grikkjaher, og tók sèr fyrirsæti í *Amfiktýonsráði*, og á öllum hinum helgu þjóðhátíðum Grikkja; hvert fylki hèlt þeirri stjórnarskipan, sem það hafði áður haft, en setulið frá Makedoníu setti *Filippus* í *Kaðmeuvígi* í Þebu.

Þegar þessu var lokið, hugfesti *Filippus*, að fara herför móti Persum, og fá Grikkjum þannig nokkuð að starfa. Á þingi í *Korinþuborg*, þar sem sendiboðar af öllum fylkjum í Grikklandi voru samankomnir, kusu Grikkir Filippus af mikilli auðmýkt til yfirforíngja yfir herinn móti Persum; en þá kom dauðinn og kipti honum burtu frá öllum hans áformum og ráðagjörð. *Filippus* var veginn 336 f. Kr. í *Ægisborg* (*Ægæ*), er hann sat brúðkaup *Alexanders* konúngs í *Epírus* og dóttur sinnar; sá maður hèt *Pásanías*, er vo hann. Eigi vita menn með vissu, hver verið hafi frumkvöðull að vígi *Filippusar*; sumir eigna það Persum, en sumir eigna það óvinum hans á Grikklandi. En er þessi hinn vitri og herkæni konúngur var fallinn, var eigi annað sýnna, en að Grikkland mundi aptur rata í alt það stjórnleysi og allar þær hörmúngar, sem áður höfðu yfir það gengið.

## Alexander hinn mikli.

Þegar *Filippus* Makedoníukonúngur var veginn (336), tók *Alexander* sonur hans konúngdóm eptir hann bæði í *Makedoníu* og á *Grikklandi*; þá var hann því nær tuttugu vetra gamall, hafði fengið ágætt uppeldi og numið öll þau vísindi og allar þær íþróttir, er menn þá kunnu; hinir frægustu menn, er þá voru uppi, höfðu verið kennendur hans; af föður sínum, er þá var haldinn mestur hershöfðingi, nam hann hernaðaríþrótt, og um nokkur ár var hann lærisveinn *Aristótelesar*, þess er mestur spekíngur þykir verið hafa í fornöld. Þegar í æsku kynntist *Alexander* kvæðum *Hómers* skálds, og skildi þau aldrei við sig síðan, en *Akkilles* tók hann sèr til fyrirmyndar. Það ræður að líkindum, að við hirð *Filippus* konúngs föður hans hafi verið

sumir þeir menn, er tömdu sèr margskonar smjaðnr eigi síst við *Alexander,* er þeir vissu að erfa mundi ríki og konúngstign eptir föður sinn. Þessir menn höfðu nokkur áhrif á uppfæðslu Alexanders, og þeim er að nokkru leiti um að kenna dramb það og drotnunargirni, er jafnan fylgdi honum, svo að hann lèt sèr eigi nægja mannlega upphefð og hlutskipti, heldur sóttist jafnvel eptir að komast í guða tölu; það segja menn, að þá hann var á barnsaldri, hafi hann stundum sèst grátandi af því, að faðir hans vann svo margan sigur, og myndi sèr því enginn eptir skilinn.

Þegar er *Filippus* konúngur var dáinn brutust þjóðir þær, er bjuggu norður við *Dóná,* inn í ríki hans og herjuðu landið. *Alexander* brá skjótt við, og braut villiþjóðir þessar undir sig. Þá gaus sá kvittur upp á Grikklandi, að hann væri dauður; hugðust *Grikkir* þá að brjótast undan oki *Makedóníumanna;* urðu *Þebumenn* skjótastir og rèðust á setulið Alexanders þar í borginni, drápu hershöfðínga hans tvo, en liðið leitaði sèr hælis í *Kaðmeuvígi* og varðist þaðan. Í Aþenuborg gjörði *Demosþenes* hvað hann kunni til að eggja Aþenumenn til uppreistar móti Alexander. En fyr en nokkurn varði var *Alexander* kominn suður yfir Illyríu- og Þessalíufjöll og seztur um *Þebuborg;* urðu þar snögg umskipti, tók Alexander borgina, og reif hana niður til grunna, svo að ekki stóð steinn yfir steini; gjörði hann það til þess, að öðrum borgum skyldi standa ógn af því að gjöra uppreisn móti sèr. Gengu nú allir Grikkir á hans vald, og á þingi einu í *Korinþuborg* var hann tekinn til hershöfðíngja yfir herlið það, er Grikkir gjörðu út á hendur Persum, og sem *Filippus* konúngur faðir hans hafði ætlað að stýra, en entist eigi til.

*Alexander* hafði tekjur litlar af ríki sínu, og var fremur erfitt um fjárhaginn, er hann hóf austurför þessa (334 f. Kr.), og lið hafði hann eigi margt, að eins 35000 manns, en það var valið mjög að vopnum og hreysti. En *Alexander* treysti hugviti sínu og hamíngju, og gaf þegnum sínum í Makedoníu upp alla skatta, áður hann fór úr landi. Hann lèt og stofna til veglegra þjóðleika til virðíngar hinum 9 mentagyðjum, setti *Antipater* til landstjórnar á Grikklandi meðan hann sjálfur væri erlendis, og flutti að því búnu lið sitt austur yfir sundið (Hellespontus) frá *Sestus* í Európu til *Abýdus* í Litlu-Asíu; síðan hèlt hann liði sínu suður og austur með sjó. Hann kveykti hug og hvatti dug í mönn-

um sínum, með því að rifja upp fyrir þeim kvæði Hómers, og jafna herferð sinni saman við för Agamemnons, er hann fór með Grikkjaher til Trójuborgar; hèt *Alexander* á hina sömu guði, er Trójumönnum höfðu forðum verið óvinveittir, og í því skyni lèt hann færa guðunum vegsamlegar fórnir og halda leika með mikilli viðhöfn. Sjálfur var hann sem *Akkilles* endurfæddur, og *Hefæstion* vinur hans sem *Patróklus,* og hann lèt færa fórnir hjá haugum Grikkja þeirra, er fallið höfðu í Trójumannastríði.

Í það mund, er *Alexander* hóf austurför þessa, sat *Daríus Kódomannus* (336—330) að ríkjum í Persíu, og var þá nýkominn til valda. *Daríus* konúngur var allvel að sèr um marga hluti, en það var lángt yfir hans megn, að fást við slíkan hershöfðíngja sem *Alexander,* eða geta varið hið geysimikla Persaveldi móti slíkum foríngja eða slíkum hermönnum, sem Grikkir voru. Daríus hafði þann hershöfðíngja, er *Memnon* hèt, hygginn mann og herkænan; hann rèð konúngi að hætta eigi til orustu við Grikki, heldur hopa undan, eyða bygðina og ginna Grikki sem lengst austur í land. En svo er að sjá sem Daríus hafi lítils virt Alexander og liðsmenn hans, sökum þess hve fámennur Grikkja her var, og fyrir því gjörði Daríus jörlum sínum þau orð, að þeir skyldu taka höndum fíflið, son Filippusar frá Makedóníu, afhýða hann með öllu, en gjöra liðsmenn hans að þrælum. En nú er að segja frá *Alexander;* þá er hann kemur austur að *Graníkusfljóti* í Mysíuhèraði, voru Persar komnir á fljótsbakkann hinumegin, og höfðu yfir 100 þúsundir vígra manna, og ætluðu að verja honum yfirgöngu. *Alexander* gjörir áheit á guðina og leitar frètta hjá þeim, og að því búnu brýzt hann yfir fljótið, og er sjálfur fremstur sinna manna; tekst þar hin harðasta orusta; hætti *Alexander* sèr svo mjög, að hjálmur hans var höggvinn sundur, og honum var bani búinn, hefði *Klítus* vinur hans eigi komið þar að í því vetfángi og veitt honum lið. Svo lauk þeirri orustu, að *Alexander* fekk sigur (334); gekk þá öll vesturströnd Litlu-Asíu undir hann. Hvar sem *Alexander* kom, svipti hann harðstjórana í borgunum öllu valdi og fekk það alþýðunni í hendur; eyddi hann þannig yfirráðum Persa, því að harðstjórar þessir voru þeim háðir og fylgjandi þeim að hverju máli. Eptir þenna sigur hèlt *Alexander* austur um land, hið syðra með sjó fram til *Kilikíu* og þaðan norður í *Frygíufylki* til

*Gordíuborgar.* þar kom *Parmenió* hershöfðíngi til móts við hann með riddaraliðið og nokkra herflokka frá Makedóníu. Í Gordiuborg var geymdur vagn einn, er Frygíukonúngar hinir fornu höfðu átt; okið, er vagni þessum fylgdi, var fest við vagnstöngina með svo ramgjörðum hnúti og haglega riðnum, að enginn treystist að leysa; var sá hnútur allfrægur víða um lönd, og fylgdi sú sögn, að sá, er hnútinn leysti, myndi einvaldi verða allrar Asíu. *Alexander* sat sig aldrei úr færi til að styrkja menn í þeirri trú, að honum væri ætluð yfirráðin yfir *Asíu;* hann brá sverði og hjó hnútinn í sundur og sagði svo, að einn gilti með hverju móti hann væri leystur.

þessu næst heldur *Alexander* austur að fjöllum þeim, er gánga til suðurs milli *Kilikíu* að vestan og *Sýrlands* að austan. þar höfðu Persar dregið saman ógrynni liðs, alt að 600 þúsundum; þar á meðal voru 30,000 málaliðs vestan af Grikklandi. þar var *Daríus* konúngur sjálfur, kona hans og móðir, sonur hans og dætur tvær, og fjöldi kvenna austan af Persíu; þar var of fjár saman komið af gulli og gimsteinum, og skorti þar engan hlut þann, er hafa þurfti; en liðið vantaði hug og konúnginn kunnáttu. Kom það og bráðum í ljós, því að Persar fóru sjálfkrafa úr fjöllunum, þar sem þeir höfðu hið bezta vígi, og settist *Alexander* jafnskjótt á stöðvar þeirra; en Persar hèldu fyrst norður og svo vestur um skörð ofan á Kilikíu; sneri þá Alexander við og fór í móti þeim, og hittist herinn við *Issus* í *Kilikíu* (333). þar er óslètt land, og gat Daríus eigi komið öllu liðinu við, og varð honum ógreitt mjög til aðsóknar. þar vann *Alexander* frægan sigur, fèllu 60 þúsundir manna, en hitt liðið, sem af komst, lagði á flótta. Málaliðið hið gríska barðist hraustlega, en varð þó undan að síga. *Daríus* konúngur sat á vagni og horfði á viðureign manna; en er flótti brast í liði hans, hljóp hann af vagninum og á hest, og reið undan hvað hann kunni. þar fekk *Alexander* herfáng mikið og tók höndum drotníngu Daríusar, móður hans og börn, og fór vel með þau, eins og löngum var venja hans við hertekna menn. Eptir þenna sigur gekk Litla-Asía öll á vald *Alexanders;* eyjarnar í Grikklandshafi (Arkipelagus) gjörðu litlu síðar slíkt hið sama. *Memnon,* hinn ágæti hershöfðíngi, var dáinn litlu fyr en þetta varð; hann hafði viljað

fara til Grikklands og kveykja þar ófrið gegn Alexander. Memnon var ættaður frá *Ródusey*.

*Daríus* hafði flúið allar götur austur yfir *Evfrat;* þaðan ritaði hann *Alexander* brèf, og bauð honum ærið fè til útlausnar konu sinni og börnum, og alla Asíu austur að Evfrat, ef hann vildi taka sáttum og friði. »þetta boð myndi eg þekkjast, ef eg væri Alexander«, sagði öldúngurinn Parmenió. »það myndi eg og gjörá, ef eg væri Parmenió«, svaraði Alexander.

Ekki veitti *Alexander* Daríusi eptirför eptir orustuna við Issus, þótt hann vissi vel, að Daríus myndi safna liði að nýju og leita til hefnda, heldur þótti honum hitt varða mestu, að leggja undir sig sjáfarstrendur allar og *Kýprusey,* bæði til þess að eiga greiða götu til liðsafla að vestan, er hann þyrfti að auka herflokka sína, og til þess að eyða skipastóli Persa, því að honum var eigi ókunnugt, að sumir meðal Grikkja, og einkum hinir óróagjörnu *Prakíumenn,* litu jafnan vonaraugum þángað. þess vegna hèlt Alexander suður á *Sýrland;* gekk landsfólk alt honum til handa nema íbúar *Týrusborgar,* þeir bjuggust til varnar og voru eigi auðsóttir. Borgin stóð úti á eyju skamt undan landi. *Alexander* tók það ráðs, að hann lèt hlaða garð mikinn í sundið milli lands og eyjar, og sótti svo borgina bæði á skipum og á landi, og fekk loks náð henni eptir 7 mánaða umsát; átta þúsundir fèllu af borgarmönnum, en 30 þúsundir voru seldar mansali. þá lagði *Alexander* Gyðíngaland undir sig, en vægð sýndi hann Gyðíngum og leyfði þeim að halda trú sinni og helgum siðum; enda var það einkenni á Alexander, að hann raskaði aldrei trúarbrögðum eður helgum dómum þeirra þjóða, er hann lagði undir sig.

þegar *Alexander* hafði lokið störfum sínum á Gyðingalandi, hèlt hann vestur yfir *Suez*-eiði, er tengir saman Afríku og Asíu, inn í Egyptaland. það var hið frjófsamasta og auðgasta skattland, er Persakonúngur átti yfir að ráða. Alexander fekk enga mótstöðu á Egyptalandi; hèlt hann viðstöðulaust til hinnar nafnfrægu *Memfisborgar;* þar fyrir vestan skiptist *Nílá* í tvær kvíslar og myndar stóra ey (*Delta*). *Alexander* fór skipaleið ofan eptir ánni alt til sjáfar. þar lèt hann reisa borg þá, er hann nefndi eptir sèr, og heitir *Alexandría.* Stendur hún enn í dag, sem minnisvarði um hinn hugumstóra Alexander, er þannig vildi tengja saman verzlun og viðskipti og alla menníngu í þremur heims-

álfum: Európu, Asíu og Afríku; hann valdi borgarstæðið einmitt á þeim stað, þar sem bezt liggur við, og hægast er að álfurnar geti náð saman til hverskonar viðskipta; enda varð borg þessi nafnfræg af verzlun sinni um 18 hundruð ár, alt þángað til að menn fundu sjóleiðina til *Indlands,* og vegur allrar heimsverzlunar breyttist. Því næst fór Alexander vestur á *Libýu*-eyðimörk með sveit manna; það lið var valið mjög. Þar var á einum stað bygð (*Oase*)[1] á eyðimörkinni, er þá hèt *Ammoníum,* en nú heitir þar *Sívah.* Þar var afarfornt hof og vefrétt, og *Zevs Ammon* tignaður. Hofgoðinn tók *Alexander* með miklum virtum og nefndi hann son Zevs; lèt Alexander sèr það vel líka, með því hann sá, að slíkt myndi auka álit sitt í augum hinna fáfróðu þjóða, er hann þá átti viðskipti við og vildi undir sig leggja. En upp frá þeim tíma kviknaði vondur kur meðal liðsmanna hans; þeir brugðu honum um óheyrilegt dramb og hroka, er honum nægði ekki minna en að komast í guðatölu.

Þegar *Alexander* hafði skipað öllu svo fyrir á Egyptalandi, sem honum þótti við þurfa, breytt í engu siðum og háttsemi landsmanna, sett innlenda menn í ýmsar sýslur, og skipt hervöldum í landinu milli margra, þá hèlt hann þaðan burt af landi austur um *Suez* til fundar við Daríus Persakonúng; skyldi þá til skarar skríða með þeim. Segir ekki af ferðum *Alexanders* fyr en hann kemur austur yfir stórárnar *Evfrat* og *Tígris.* Þar voru borgir tvær norður í landi, þær hètu *Gauga-mela* og *Arbela,* og slèttur stórar á milli; þar var *Daríus* fyrir með óflýjandi her. *Alexander* hafði lið miklu minna. Það er sagt, að *Parmenió* hershöfðíngi hafi gefið Alexander það ráð, að gjöra atlögu að Persum á næturþeli. Það vildi konúngur eigi og mælti: »Það sæmir eigi Alexander að stela sigrinum«. Að morgni þess dags, er orustan stóð (1. okt. 331 f. Kr.), svaf Alexander svo fast, að *Parmenió* varð að vekja hann. »Þú sefur herra, sagði Parmenió, eins og þú hefðir þegar unnið sigur«. »Er eigi sigurinn unninn, mælti Alexander, er vèr höfum fundið óvini vora, og þurfum eigi lengur að leita þeirra um eyðimerkur?« Persar höfðu búizt við atlögu og staðið með vopnum alla nóttina, voru þeir því nokkrum mun ósnarpari en ella myndi. Þó veittu þeir harða

1) *Oaser,* eru stórir og smáir bygðir blettir og yrktir í eyðimörkum. Þá gætum vèr nefnt á vora túngu »Landbrot«.

viðtöku og börðust vasklega um daginn, en það kom fyrir ekki. Persar snerust á flótta, mannfallið varð ógnarlegt, *Alexander* vann frægan sigur og fekk geysi-mikið herfáng. *Daríus* flýði norður á sveitir. *Alexander* hèlt suður á bóginn til *Babýlonar*; luku bæjarmenn þar borgarhliðum upp fyrir honum, og fögnuðu komu hans og færðu honum gjafir; en hann hèt þeim í móti, að þeir skyldu halda trú sinni og fornum siðum. Höfuðborg Persaveldis, *Súsa* (sem nú heitir *Schuster*), gekk einnig á vald Alexanders, og fekk hann þar ógrynni fjár.

Meðan *Alexander* var í herför þessari, sem nú hefir verið nefnd, hafði hann sèð svo fyrir, að hin forna öfund og ósamlyndi milli Spartverja og Aþenumanna skyldi eigi útkulna, til þess að *Antípater* hefði ráð þeirra í hendi sèr, og yfirstjórnin á Grikklandi yrði honum auðveldari. Þannig sendi *Alexander* Aþenumönnum nokkuð af herfángi því, er hann fekk eptir bardagann við *Graníkusfljót;* en Spartverjum sendi hann alls ekki; í orustunni við Issus hertók hann nokkra sendimenn Grikkja, er verið höfðu í samníngum við Daríus; lèt hann sendiboða Aþenumanna þegar lausa, og sýndi þeim þar á ofan allan sóma, en sendiboðum Spartverja hèlt hann eptir í ríku varðhaldi. Þá var sá konúngur í Spörtu, er *Agis* hèt; hann safnar liði og fær ýms fylki á Grikklandi í fèlag með sèr og fer móti *Antípater;* en svo fóru leikar, að Antípater vann mikinn sigur á Agis konúngi og mönnum hans hjá *Megalopolis* á Pelopsey (330). Þar fèll *Agis* konúngur, en ríki *Alexanders* á Grikklandi var á óvaltara fæti eptir en áður.

Frá *Babýlon* og *Súsa* hèlt Alexander viðstöðulaust til *Persepolis.* Það var mikil borg og auðug í suður og austur frá Súsa; þar í nánd er nú borg sú, er *Schíras* heitir; þar hafði Alexander nokkra viðdvöl og gjörði ýmsa skipun á um alt hið mikla ríki, er hann þá átti yfir að ráða. Þaðan fer hann enn að leita Daríusar og heldur norður til *Ekbatönu,* hinnar fornu höfuðborgar í Medíu. En það er frá Daríusi að segja, að hann hafði verið handtekinn af einum af jörlum sínum; sá hèt *Bessus* og rèði fyrir Baktríu (þar heitir nú *Balkh* fyrir sunnan Amufljót eða Oxus, sem fellur í Aralvatn); fórst honum mjög ódrengilega við *Daríus,* og lèt leggja hann í gylta fjötra, honum til enn meiri skapraunar. En það var fyrirætlun Bessusar, að gjörast konúng-

ur yfir ríkinu og láta fjöll og torfærur þar í landi geyma sín fyrir Alexander. En Alexander fór yfir landið eins og fugl flýgi, og stóðst ekkert fyrir honum. Þá var það einhverju sinni, að herinn hafði ekkert til drykkjar. Menn höfðu lángt að flutt vatn í leðurbelgjum; sáu þeir að konúngur var þyrstur mjög og báru honum vatn í hjálmi. Alexander tók móti hjálminum, en er hann sá, að menn hans stóðu alla vegu út í frá honum og bárust lítt af sökum þorsta, þá mælti hann: »ef eg drekk einnsaman, þá missa þessir allir hnginn«; rètti hann svo hjálminn frá sèr, að hann drakk ekki í það sinn. Þegar þeir Bessus sáu, að þeir myndu eigi fá *Daríusi* komið undan, særðu þeir hann til ólífis (330). Litlu síðar kom *Alexander* þángað, var Daríus þá að bana kominn. Það er sagt að *Alexander* táraðist yfir honum, sveipaði lík hans purpurakápu, og sendi það til móður hans, til þess hann fengi þá útför, er konúngi hæfði. Síðan elti hann Bessus yfir fjöll og firnindi og eyðimerkur; ýmist fraus alt og gaddaði á fjöllum uppi, ýmist stiknaði alt af hita niður í dölunum, stundum skorti liðið vistir, en óvinasveitir jafnan annarsvegar með vopn og vèlræði. Á þeim tímum voru menn skamt á veg komnir í landafræði, og öll þau áhöld og tilfæríngar skorti, er vísindin hafa á seinni tímum veitt mönnum til að sigrast á slíkum torfærum; en Alexander varð aldrei ráðfátt og engin hætta óx honum í augum. Loks komst hann norður í *Baktríu* hèröð. Bessus flýði undan norður yfir Oxusfljót, en jarl sá, er þar rèði fyrir, lèt setja hann í höpt og fekk hann Alexander í hendur; galt Alexander Bessusi rauðan belg fyrir gráan og hefndi svo Daríusar. *Alexander* hèlt en um hríð norðaustur í land, yfir Oxus, fram hjá *Samarkand* og norður að *Sírfljóti* (forðum Jaxartes, nú *Sír Darja*). Alstaðar setti hann nýlendur á stofn og lèt reisa borgir, þar sem honum þótti líkur til, að koma myndi að liði verzlun þjóðanna, og margar af borgum þeim, er Alexander lèt þannig gjöra, eru, alt fram á þenna dag, hinir helztu verzlunarstaðir í þeim löndum. Við *Sír Darja* lèt hann efna til borgar og kallaði *Alexandríu;* þar er þjóðvegur mikill og vöruflutníngar milli landanna. Meðan *Alexander* stóð í öllum þeim stórvirkjum, sem nú voru talin, átti hann einnig við að stríða mótþróa sinna manna. Það var siðvenja í fornöld, að þjóðir þær sem sigur unnu, beittu alskonar ofríki og ójöfnuði við hinar, er ósigur biðu fyrir þeim,

komu sjálfum sèr undan öllum skylduskötium og álögum, en lögðu þá byrði alveg á hinar undirokuðu þjóðir; þær urðu að láta sèr lynda það, sem sigurvegaranum þóknaðist að leggja á þær. En slík aðferð, slíkt órèttlæti var fjarstætt *Alexander*. Hann vildi steypa saman öllum þeim hinum mörgu þjóðum, er hann hafði undir sig lagt, og sem bygðu hans hið víðlenda ríki; hann vildi sameina Grikki og Persa, gjöra eina þjóð af tveimur, og láta hverja fyrir sig verða hluttakandi í hinnar mentun. Þess vegna samdi hann sig í mörgu að siðum Persa, og bar persneskan klæðabúníng, þó hann væri grískur maður og hefði numið allar grískar mentir; þess vegna leiddi hann í sið við hirð sína alla þá viðhöfn, sem var tíðkanleg í Austurlöndum; hver sá, er tala vildi við konúng, varð að falla á knè fyrir honum; og þess vegna setti hann Makedoníumenn í hin æðstu hervöld, en í hin önnur embætti skipaði hann persneska valdsmenn. Þegar nú þar við bætist, að *Alexander* gekk alt til vegs, að hann ofmetnaðist af hamíngju sinni, og lèt sèr vart nægja mannlega upphefð, þá ræður að líkindum, að nóg hafi verið efni til ágreiníngs milli hans og Makedoníumanna, og að slíkur ágreiníngur hafi stundum fengið ómjúk endalok. *Alexander* var þar að auk, með öllum sínum mörgu og miklu mannkostum, ákaflega skapbráður, hneigðist til ofdrykkju á seinni árum sínum, og reiddist þá stundum svo, að hann rèði sèr ekki. Þannig lèt hann taka *Filótas* af lífi, fyrir þá sök, að hann hafði eigi gætt þess að segja *Alexander* frá samsæri gegn honum; og síðan lèt dann drepa föður hans, hinn ágæta hershöfðíngja *Parmenió*, svo að hann gæti eigi hefnt sonar síns. En það hefir mönnum þótt mestur blettur á breytni *Alexanders*, er hann vóg *Klítus* hershöfðíngja, hinn sama, er dugði honum bezt við Graníkusfljót; en vitaskuld er það, að Klítus gaf sjálfur tilefni til þess óhappaverks. *Alexander* vissi, að Makedoníumönnum var orðið miður til hans, en áður hafði verið, og að þeir voru vanir að lofa mjög *Filippus* konúng föður hans, en sjálfan hann miklu minna. Einhverju sinni sat konúngur yfir drykkju og hershöfðíngjar hans margir, gjörðust menn þá druknir, barst tal manna á Filippus konúng, og sagði þá *Alexander*, að hann ætti góðan þátt í afreksverkum föður síns, og hældi sèr mjög. *Klítus* var einn í boðinu, sneri sèr að sessunaut sínum, og mælti í hljóði fyrir munni sèr erindi eitt eptir

grískt sorgarleikaskáld; í orðunum lá skop, er heimfæra mátti til þess, er *Alexander* hafði þá sagt. Konúngur hafði eigi heyrt hvað þeir Klítus töluðu, en þóttist skilja, hvað vera myndi. Hann spurði, hvað þeir töluðu, en allir þögðu. Þá tók *Klítus* með mikilli ákefð og hámælgi að lofa hreystiverk *Filippusar* í Grikklandi, verja málstað *Parmeniós,* ásaka *Alexander* um það, að hann hefði lagt *Þebuborg* í eyði, og að hann hefði illa launað sèr góða fylgd. Konúngur skipaði honum að eins að gánga frá borðum, og nokkrir menn tóku *Klítus* og leiddu hann nauðugan út úr salnum, en *Klítus* kom að vörmu spori inn aptur, hafði upp aptur bríxlyrði þau, er hann hafði talað, valdi vefrèttinni háðugleg orð, er hún hefði kallað Alexander son Zevs, og hældi sèr af því, að hann væri miklum mun sannsöglari við konúng, heldur en guðinn væri, þessi faðir hans, er svo væri nefndur. Þá spratt *Alexander* á fætur, greip vopn úr hendi eins þeirra, er þar stóðu hjá, og óð fram að *Klítusi.* Hershöfðíngjarnir féllu til fóta *Alexander,* höfðu hendur á honum og reyndu að aptra honum. En konúngur var þá sem óður, og skipaði kallaranum að blása liðsmönnum til móts, því að konúngurinn væri í háska staddur. Síðan hljóp hann fram í hallargöngin þar sem gengið var út úr salnum. Menn hans gengu þegar á eptir, og *Klítus* þeirra síðastur; myrkt var í göngunum. Konúngur spurði hver þar færi; *Klítus* sagði til sín. Konúngur leggur til hans og í gegnum hann og mælti: »farðu nú að hitta *Filippus* og *Parmenió«.* Þessa verks iðraðist konúngur mjög, og segja menn, að hann neytti hvorki matar nè drykkjar í þrjá daga eptir vígið.

Nú hafði *Alexander* lagt undir sig alt Persaveldi, en þó virtist honum svo, sem enn væri lítið aðgjört, og vildi hann því fyrir hvern mun komast til *Indlands* og kanna lönd og þjóðir þar austur. Á Grikklandi gengu fornar sagnir og miklar af herferð *Bakkusar* (vínguðs) til Indlands, og *Alexander* hugsaði, að það sem *Bakkus* hefði gjört, það gæti hann einnig gjört. Árið 327 hèlt *Alexander* her sínum frá Balkh til Kandahar og þaðan til Kabúlelfar, og niður eptir þeirri á, alt þángað til hún fellur í Indus á móts við Attok. Síðan fór hann austur yfir Indus og kom í land það, er *Pendschab* heitir (um það land renna fimm ár, og falla vestur í Indus), þar bjuggu hraustar þjóðir; þar átti *Alexander* margar orustur og harðar, og komst opt í allmikla mannhættu, beitti hann

þar einatt hörku miklu meiri en hann hafði áður gjört, en þó fór honum vel við einn af konúngum þeim, er hann þar vann, og *Pórus* hèt, og varð vinur hans og undirkonúngur.

Það var vilji *Alexanders* að halda lengra austur og komast að vötnum þeim, er renna í *Ganges,* en liðsmenn hans gjörðust þá mótsnúnir honum, og sögðu að hann ætlaði með þá austur á heims enda, og kváðust eigi fara lengra. *Alexander* leitaðist við á marga vegu að telja þeim hughvarf, en þar kom, að hann varð aptur að snúa. En þar sem hann sneri aptur lèt hann hlaða tólf stöpla, eða turna, til merkis um ferðalok sín. Hann hèlt nú ekki sömu leið vestur aptur, sem hann hafði komið, heldur flutti hann mestan hlut hersins á skipum ofan eptir Behútfljóti; það er eitt af smáfljótum þeim, er renna í Indus; síðan fór hann eptir Indus alt til sjávar. Frá Indus-ósum lèt hann *Nearkus* sjóliðsforíngja sinn fara sjóleið með nokkurn hluta liðsins með landi fram eptir Arabaflóa vestur að Tígris og Evfrats-ósum. En sjálfur fór *Álexander* og meginherinn landveg vestur strandir; þar voru eyðimerkur stórar og torfærur ógurlegar; þjáðust menn hans mjög af þorsta og húngri og sólarhita, og lèt þá margur líf sitt þótt all hraustur væri. En frá *Kerman* gekk þeim ferðin greiðlega, var þá hin mesta viðhöfn og stórveizlur gjörðar í móti konúngi hvar sem hann kom; sögðu menn að þá kæmi *Bakkus* í annað sinni úr austurför og hefði lagt undir sig Indland.

*Alexander* gjörði Babýlon að höfuðborg í því hinu víðlenda ríki, sem hann hafði þá eignast, enda var borg sú einkar vel til þess fallin, þar sem hún var í mjög frjófsömu landi, en fljót og síki lágu frá henni og að í ýmsar áttir. Það var áform hans, að borg þessi skyldi vera aðalsamkomustaður og miðbik allrar mentunar og verzlunar þeirra landa, er þá voru kunn, og sem hann rèð fyrir. Margt hafðist *Alexander* að til þess að áform þetta gæti orðið framgengt; hann lèt kenna mörgum þúsundum persneskra manna gríska túngu og grísk fræði; hann lèt margar þúsundir af Grikkjum kvongast persneskum konum, og gaf þeim öllum stórgjafir þar á ofan. Sjálfur kvongaðist hann *Barsine,* dóttur *Daríusar* konúngs. Margt hugsaði *Alexander* um vegabætur og samgöngur milli þjóðanna í ríki sínu, og meðal annars ætlaði hann sèr að leggja undir sig alt Arabaland, til þess að greiða verzluninni veg til og frá Egyptalandi. Hann lèt kanna

strendur hins Kaspiska hafs og landið milli þess og Svarta hafsins; hann fór sjálfur upp og ofan eptir Evfrat, til þess að vita að hve miklu leiti hún væri skipgeng. En, þegar hèr var komið, þá var skamt eptir æfi hans. Um það leiti dó *Hefæstion*, aldavinur hans og mágur, og fèll honum sá hlutur mjög nær, enda var *Hefæstion* líklegastur allra manna til ríkisstjórnar eptir hann. Þegar *Hefæstion* dó, þá er sagt að Alexander hafi mælt þessum orðum úr Ilíukvæði Hómers skálds: »Þegar eptir dauða Patróklusar er þèr bani búinn«. Hann var þá sjálfur þrotinn að heilsu af sífeldri áreynslu og óaflátlegu erfiði, og svo segja sumir, að hann skemdi sig á ofdrykkju. *Alexander* tók sótt mikla í Babýlon þá er hann leiddi til bana. Hann hafði tvo vetur um þrítugt, er hann andaðist (323 f. Kr.), og er með sanni sagt, að enginn var hans jafníngi að afreksverkum fram til þeirra tíma.

## Ríki Alexanders mikla eptir hans dag, og fram að árinu 301 f. Kr.

*Alexander* konúngur hafði, áður hann lèzt, enga fyrirskipun um það gjört, hversu ríkinu skyldi stjórna eptir sinn dag. Eitt af tvennu hlaut að vera, annaðhvort að ríkið alt hèldist saman, eins og hann hafði skilizt við það, eður að það skiptist sundur í smærri ríki. Þegar um menn var að gjöra, er næstir stóðu til ríkisstjórnar, þá var einnig á tvent að líta, annaðhvort ættmenn Alexanders, eður hershöfðíngja hans. Ættmönnum þessum var svo varið, að enginn þeirra gat þá þegar tekið við ríkinu. Skömmu eptir dauða Alexanders ól drotníng hans (hún hèt *Roxane* dóttir Oxýartes Baktríu-jarls) sveinbarn, og hèt *Alexander* sem faðir hans; annan son átti hann með *Barsine* og hèt sá *Herkúles*, hann var þá barn að aldri; hálfbróður átti Alexander konúngur samfeðra, hann hèt *Arrhidæus* og naumast með fullu viti; þess utan voru og á lífi móðir Alexanders, *Olympías* kvennskörúngur mikill og skaphörð, systur hans tvær, *Kleópatra* og *Þessaloníka*, og föðursystir ein og hennar dóttir. Konur þessar gátu enga von gjört sèr um ríkisstjórn, nema því meiri brögðum væri beitt. Hershöfðíngjar Alexanders voru margir og misjafnir, og að líkindum ræður, að þeir þættust tilkall eiga til upphefðar, þar sem þeir höfðu verið styrktarmenn Alexanders til að vinna þjóðir og lönd undir hann og koma ríki hans á stofn; en bráðum

kom það í ljós, að hverjum þeirra einum var ofvaxið að stýra öllu ríki Alexanders mikla. Þegar hann var að kominn bana, rètti hann *Perdikkasi* hershöfðíngja hríng af hendi sèr. Perdikkas þóttist því kjörinn til yfirstjórnar og tókst hana á hendur. Var það fyrirætlun hans, að *Arrhidæus* og *Alexander* hinn ýngri skyldu konúngar vera yfir öllu ríkinu, en sjálfur ætlaði hann að hafa ríkisvarðveizlu á hendi hjá þeim; og til þess nú að þetta gæti friðsamlega farið, þá skipti hann ríkinu í jarlsdæmi milli hinna annara hershöfðíngja. Þannig fekk *Ptolemæus Lagusson* Egyptaland, *Antipater* Makedoníu og Grikkland, *Lysimakkus* Þrakíu, *Antigonus* vesturhluta Litlu-Asíu. En hèr var ekki um gott samkomulag að gjöra; friðurinn hèlzt skamma stund; styrjöldin löng og margbrotin.

Ófriðurinn hófst fyrst á Grikklandi. *Demosþenes* hinn málsnjalli var enn á lífi og taldi Grikki á, að brjótast undan oki Makedoníumanna; hlupu þeir þá upp til ófriðar eg kreptu svo að Antipater lítt viðbúnum, að hann varð fyrir að hrökkva og leita sèr vígis og varnar í *Lamiaborg;* var ófriður sá, síðan kendur við Lamiaborg, er Grikkir áttu við Antipater. En Grikkir áttu skamma stund sigri að hrósa. *Antipater* vann þá gjörsamlega í orustu einni hjá *Kranon,* og Demosþenes rèð sèr sjálfur bana á eitri, til þess að komast eigi á vald Antipaters, (322 f. Kr.). Það sýndi sig brátt, að *Perdikkas* leitaðist við að auka völd sín, og í því skyni fór hann herferð til Egyptalands móti *Ptólemæusi;* á þeirri leið var hann drepinn af liðsmönnum sínum (321). Þá tók *Antipater* að sèr yfirstjórn, urðu þá ný skipti á ríkinu, og *Selevkus* hershöfðingi fekk þá hin austlægu fylki til umráða, og skyldi hafa aðsetu í Babýlon. *Antipater* hafði þá konúngsfrændur í Makedoníu undir vernd sinni svo sem vott þess, að hann væri æðstur yfirstjórnari, en hann lifði skamma stund upp þaðan og dó 319 árum f. Kr. Áður hann lèzt hafði hann sett *Polýsperkon* hershöfðingja til eptirmanns eptir sig, en ekki son sinn, er *Kassander* hèt. Þótti Kassander sèr órèttur gjör í því; gjörði hann þá samband við *Antigonus,* og með hans tilstyrk rak Kassander Polýsperkon frá ríki í Makedoníu, en tók *Alexander* konúngsson og *Roxane* drotníngu móður hans og setti í varðhald, þar í móti hafði hann mikinn fagurgala í frammi við *Þessaloníku*

konúngssystur, því að hann vildi kvongast henni og auka þannig vald sitt og álit, og svo fór að hann fekk hennar.

Á meðan þetta gjörðist hafði *Antigonus* aukið ríki sitt í Litlu-Asíu; hann rak *Selevkus* út úr Babýlon og lagði undir sig Sýrland, Fönicialand og Palestínu. Gjörðu menn þá samnínga með sèr þannig, að Antígonus skyldi halda Asíu til þess, er Alexander konúngsson kæmi til lögaldurs (311), en Kassander skyldi ráða fyrir Grikklandi. En er sá tími kom lèt *Kassander* taka af lífi bæði konúngsson og móður hans Roxane, og kom því einnig til leiðar, að Herkúles sonur Alexanders var af dögum ráðinn í Pergamus borg, þar sem hann ólst upp; var Herkúles þá 17 vetra. Áður hafði *Olympías* móðir Alexanders mikla, látið drepa *Arrhidæus*, en litlu síðar var hún af lífi tekin eptir skipun Kassanders, og áður lángt liði voru hinir aðrir ættíngjar Alexanders mikla með ýmsu móti af dögum ráðnir og konúngs ættinni gjöreytt. Nú sem *Antígonus* var orðinn yfirráðandi yfir Asíu, vildi hann einnig ná Makedoníu undir sig, og sendi *Demetríus* son sinn, sem kallaður er borgabrjótur (Poliorketes) með herlið til Grikklands. *Demetríus* var hinn mesti kappi og vann því nær alt Grikkland norður að Makedoníu; hann vann og Kýprusey í sjóorustu mikilli undan *Ptolemæusi* (307); eptir þann sigur tók *Antigonus* sèr konúngsnafn, og slíkt hið sama gjörðu hinir aðrir landstjórar. Þegar þeir sáu, að mjög krepti að *Kassander*, og að þeir feðgar *Antigonus* og *Demetríus* myndu alt ætla undir sig að leggja, gjörðu þeir samband milli sín *Kassander, Lýsimakkus, Ptolemæus* og *Selevkus* (302) og fóru í móti þeim feðgum. Fundur þeirra varð hjá *Ipsus* í Frýgíu (301 f. Kr.), þar fèll *Antigonus* konúngur, en *Demetríus* flýði undan með fáar þúsundir manna. Þá skiptu menn löndum með sèr að nýju: *Kassander* hlaut *Makedoníu* og *Grikkland, Ptolemæus Egyptaland, Lýsimakkus* fekk *Litlu-Asíu* austur að *Taurusfjalli,* og *Selevkus Sýrland* og *Babýlonsríki;* síðan tók *Selevkus* lönd *Lýsimakkusar* vestur að sjó.

---

# Þriðji kafli.

## Ítalía.

Þess er áður getið, að af Evrópu gánga þrjú nes, og öll mikil suður í hafið. Hið austasta nesið er Grikkland, hið vestasta Spánn með Portugal, en það í miðið er *Ítalía*. Hún er þannig sægirt á þrjá vegu, en að norðan liggja *Alpes* eða *Mundíufjöll* að henni, eins og afarmikill skjólgarður. Frá Mundíufjöllum gengur fjallgarður til suðausturs eptir endilángri Ítalíu, og heitir sá *Apennínafjöll*. Sunnan í landið gengur *Tarentuflói*. Fyrir norðan hann skiptist fjallgarðurinn, gengur annar armur hans fyrir austan flóann og suður á *Apúlíu* (Púl) og *Calabríu*, en hinn um *Brúttía-sveitir* vestur að *Messína-sundi*, er greinir Ítalíu frá *Sikiley*. Sú ey er allmikið land, og fremur hálent og með fjöllum. Sumstaðar á Ítalíu er slèttlendi mikið milli fjallanna; þannig er *Pó-dalurinn* norður í landi milli Mundíufjalla og Apennína, fagurt land og frjótt frá alda öðlí; enn fremur hið *rómverska* flatlendi og *Campaníu-vellir*.

*Etrúskar* (Túskar) voru fyrir öðrum þjóðum á Ítalíu í fornöld. Þeir bygðu löndin fyrir norðan *Tiber-fljót* (Tifur) og vestur til sjáfar. Hinar helztu borgir þeirra voru *Veji*, *Cære*, *Falerii*, *Tarqvinii* og *Clúsíum* norður í landi. Etrúskar höfðu einskonar fèlagskap með sèr; þeir lögðu stund á akuryrkju, iðnað og verzlun, og yfirráð þeirra náðu lángt út fyrir þau lönd, er kend voru við þá og kölluð *Etrúría*. Þannig höfðu þeir lagt undir sig mikinn hluta Pódalsins, alt austur að *Adríahafi*.

Snemma á öldum brutust herskáar þjóðir norðan af *Gallíu*, suður yfir Mundíufjöll, og settust að í Pódalnum, því að þar voru landgæði meiri heldur en fyrir norðan fjöllin. Gallar voru illvígir menn og Etrúskum stóð geigur af þeim.

*Latínar* hètu fornþjóð ein á Ítalíu. Þeir bygðu *Latiuvelli*, og hálendið þar fyrir ofan. Það er sunnar en Etrúría. Hin helzta borg í löndum þeirra hèt til forna *Alba longa*. Hún var

í åsunum fyrir neðan *Alba-fjall* (*Mons Albanus*); það fjall hefir brunnið einhverju sinni, og er keilumyndað. Þar blótuðu allar kynkvíslir Latínumanna *Jupíter*, en tignuðu þó jafnframt önnur goð, t. a. m. *Marz* hernaðarguð og akuryrkju.

Á meðal fornþjóða Ítalíu eru og *Sabínar* nefndir. Þeir voru akuryrkjumenn, hermenn miklir og hinir harðfengustu; þeir bygðu fjalllendið milli fljótanna *Anió* (Teverone) og *Tíber*. Náskyldar þeim voru hinar aðrar þjóðir þar í landi, sem um er getið (Sabellar); ein þeirra var *Samnítar*, er bygðu *Samníum*, fyrir austan Latíum og Campaníu; þeir voru hraustir menn og vopndjarfir og gjarnir til ófriðar.

## Rómverjar.

### Upphaf Rómaborgar. Konúngar Rómverja.

Svo er sagt að upptök *Rómaborgar* væru þau, að *Númítor* hèt konúngur einn, er rèð fyrir *Alba longa*. *Amúlíus* hèt bróðir hans, er feldi hann frá ríki, drap son hans, en tók dóttur hans, er *Rhea Sylvía* hèt, og setti hana í tölu meyja þeirra, er þjóna skyldu eldgyðjunni *Vestu*, til þess að hún skyldi eigi börn eiga, en sèr sjálfum ríkið því vísara í hendi. Vestu-meyjar varðveittu eld þann, í hofi Vestu, er þar brann nætur sem daga, til heiðurs henni; það starf höfðu þær til elliára og máttu eigi giptast. En einhverju sinni bar svo til, að *Rhea Sylvía* var stödd í hinum »helga lundi« og jós vatn af lind gyðjuunar, þá birtist henni *Marz*, orustuguð, og hèt henni afkvæmi guðlegrar ættar. Ári síðar ól hún sveina tvo, þeir voru nefndir *Rómúlus* og *Remus*. Þá varð *Amúlíus* svo reiður, að hann lèt taka Rheu Sylvíu og drekkja henni í *Anióíljóti*, en sveinunum lèt hann kasta í *Tíber*. Þá er sagt að vargynja heyrði barnsgrátinn og barg hún þeim báðum sveinunum. Þannig fann fjárhirðir sá, er *Fástúlus* hèt, bræður þessa, hafði þá heim með sèr og ól þá upp. Hjá fóstra sínum vöndust þeir allri þeirri sýslan, er hirðum var töm í þá daga, bæði vörðu þeir hjarðir sínar fyrir árásum villidýra og ræníngja, eður þeir rændu aðra. Fástúlus grunaði hverrar ættar sveinarnir myndu vera og sagði þeim. En er þeir bræður fengu að vita ætterni sitt, safna þeir mönnum, fara að *Amúlíusi* og

drepa hann, en setja *Númitor* afa sinn aptur til valda. Síðan fengu þeir leyfi hans til að gjöra borg eina við *Tiber,* á þeim stað, er þeim fyrrum var í hana kastað; að borgargjörðinni störfuðu hjarðsveinar og verkamenn frá *Alba,* og þannig var grundvöllurinn lagður (753 f. Kr.) til borgar þeirrar, er seinna varð yfirráðandi alls heimsins. En þá er borgin var gjör, þá vildi hvor tveggja þeirra bræðra vera í fyrirrúmi fyrir öðrum; samþyktu þeir það þá með sèr, að guðirnir skyldu skera úr málum milli þeirra: skyldi sá þeirra, er fyr sæi 6 gamma innan tiltekins endimarks, gefa borginni nafn og ráða fyrir henni. *Remusi* birtust fyr þeir hinir 6 tilteknu fuglar, en er stund leið sá *Rómúlus* aðra 12; horfði nú þetta til miklu meira sundurþykkis en áður, því að hver þeirra fyrir sig þóttist sigrazt hafa. Svo lauk missætti þeirra, að *Remus* var drepinn. Aðrir segja svo, að *Remus* hafi hlaupið yfir borgarmúrinn, og gjört það til svívirðíngar við bróður sinn; og fyrir því hafi *Rómúlus* vegið hann og haft við þau ummæli: »að svo skyldi hverjum þeim fara, er hlaupa vildi yfir múra hans». *Rómúlus* gaf síðan borginni heiti og kallaði *Róma (Rómaborg)* af sínu nafni. Gjörðist hann þar höfðíngi yfir og hèlt sig að öllu sem konúngur; hann lèt tólf sveina gánga fyrir sèr, hvert er hann fór; báru þeir í höndum sèr bundin (*fasces*) af vöndum eða hrísgreinum og axir festar við, og skyldi það tákna konúngstign hans; sveinar þeir voru kallaðir *vandsveinar* (*lictores*). Síðan skipti hann Rómaborgarlýð í 3 *höfuðdeildir* (*Tribus*); skipaði hundrað manns í ráð (*öldúngaráð; Senatus*), og þrjú hundruð riddara í lífvörð sinn; það var upphaf *riddarastèttarinnar.* Til þess að fjölga mönnum í borginni, gjörði hann þá fyrirskipun, að þar skyldi vera griðastaður öllum, er þángað leituðu, hvort heldur væri þræll, eður frelsíngi, eður sekir menn. Þannig var kallmannafólk fengið í borgina, en konur vantaði. *Rómúlus* gjörði út menn til nágranna þjóðanna og beiddi dætra þeirra mönnum sínum til handa. Var þeirri beiðni hans synjað og svarað af háði: »að hann skyldi gjöra sèr griðastað fyrir konur, og veita þeim viðtöku hvernig sem þær væru, og myndu þær þá verða samboðnar mönnum hans». Þá kom Rómverjum til hugar, að beita þar brögðum sem bænir dugðu eigi. Lèt *Rómúlus* efna til dýrðlegra leika, til virðíngar við *Consus* guð þeirra, og var þángað boðið mönnum úr næstu hèruðum; komu þeir fjölmennir til leikanna með konur sínar og

dætur, og þótti þeim góð skemtun á að horfa. En er minst varði, hlupu úngir menn rómverskir þár að, sem konurnar sátu, og gripu þær höndum. Urðu þá skjót leikslok, og fóru gestirnir heim til sín daprir í huga, er dætrum þeirra var þannig rænt. Þjóðir þær, er orðið höfðu fyrir hrekkjabrögðum Rómverja, sögðu þeim því næst stríð á hendur, en biðu ósigur, af því að þær fóru ráðlauslega með sínum hag, allar nema *Sabínar*. Þeir voru hyggnir menn og hraustir. *Rómúlus* hafði gjöra látið víg eitt á *Capítólshæð* í borginni, en *Sabínar* náðu víginu með svikum *Tarpeiu*, dóttur vígisforíngjans, og gengu svo ofan í borgina til bardaga við Rómverja; en þá gengu dætur Sabína, er nú voru orðnar konur Rómverja á milli þeirra, og fyrir bænastað þeirra stöðvaðist bardaginn og varð friði á komið; tóku Rómverjar Sabína í fèlag með sèr, og skyldi *Títus Tazius* konúngur þeirra vera samstjórnarmaður Rómúlusar og jafn hönum að völdum og tign í Rómaborg; hver einstakur maður var kallaður Rómverji, en þeir allir til samans *Qvírites*, eptir *Cures*, höfuðborg Sabína hèraðs. Að nokkrum árum liðnum var *Tazius* konúngur veginn; varð Rómulus þá að nýju einvaldskonúngur Rómverja; jókust þeir nú að veldi og víðáttu, bæði við það, að Sabínar bættust þeim, og svo af því, að Rómulus átti ófrið við ýms fylki, hafði jafnan sigur og lagði þau undir sig; varð hann af þessu öllu mjög ástsæll þegnum sínum, en sagt er, að *ráðinu* væri miður til hans.

Það er sögn sumra manna, að *Rómulus* safnaði einhverju sinni liði sínu saman á velli þeim, er kallaður var *Marzvöllur,* eptir orustuguðnum föður hans. Þá varð sá atburður, að laust á ofviðri miklu, og fylgdi þar með bæði myrkur og eldíngar, en er aflètti var konúngurinn horfinn, og sást hann aldrei síðan. Öldúngar (ráðherrar) þeir, er næstir stóðu, sögðu svo, að konúngur hefði liðið í lopt upp, meðan ofviðrið gekk yfir, og horfið þeim að sýn. Þótti öllum það hin mesta jarteikn, og trúðu því, að *Rómúlus* konúngur þeirra væri kominn í guða tölu; kölluðu þeir hann *Qvírínus,* og höfðu Rómverjar átrúnað við hann og áheit lengi síðan. Sá kvittur gaus upp, að öldúngarnir hefðu vegið Rómúlus og skotið honum svo undan, en *Procúlus Július,* rómverskur maður, og merkur í máli, sagði svo, að Rómúlus hefði birzt sèr fagur og tignarlegur, og kveðið skýrt á, að hann skyldi vera verndarguð Rómverja, og að þeir myndu verða hverri þjóð

voldugri; eyddist svo sá kvittur. Rómulus dó 717 árum f. Kr. Eptirkomendur *Rómúlusar* báru konúngs nafn og voru kjörnir til ríkisstjórnar æfilángt. Þegar friður var, voru þeir æðstir valdsmenn með Rómverjum, stýrðu blótum og helgihöldum öllum; þegar ófriður var, höfðu þeir herstjórn á hendi. Á friðar tímum voru þeir takmarkaðir af *öldúngaráðinu*. Næstur konúngur eptir Rómulus, og eptir að verið hafði eins árs millistjórn, var *Núma Pompilíus*. Hann kom fyrstur helgum siðum og goðablótum Rómverja á fastan fót; var margt í þeim átrúnaði frá *Etrúskum,* er bjuggu skamt fyrir norðan Rómaborg. *Núma* var konúngur frá 715—672 f. Kr.

*Túllus Hostilius* hèt sá, er konúngur varð eptir Núma; hann vann um síðir *Alba longa,* borg þá, er áður var nefnd, og flutti íbúa hennar til Róms og veitti þeim borgmannarètt með Rómverjum. Hann var konúngur til 640 f. Kr.

*Ancus Marcius,* dótturson Núma Pompilíus kom þá til ríkis, og var konúngur Rómverja tuttugu og fjögur ár, frá 640—616 f. Kr. Hann vann ýmsar borgir af Latínumönnum, og náði Tíberá undir sig ofan til sjávar. Þar fengu Rómverjar höfn og lendíng við árósinn; sú höfn hèt Ostia (Ósar).

*Lúcíus Tarquiníus Priscus* (hinn gamli) frá Etrúríu, kom næstur eptir Ancus. Hann var hinn starfsamasti konúngur; hann lèt gjöra *höfuðtorgið* (forum) í Rómaborg; þar áttu borgarmenn þjóðfundi sína; hann lèt gjöra múrvegg um borgina, byrja að reisa Júpítershof á Capítólshæð, og hann lèt gjöra hin nafnfrægu *lokræsi* (Kloaker) undir Rómaborg. Um ræsi þessi rann alt vatn úr lægðum milli hæða þeirra eða hálsa, er Rómaborg stóð á, og öll óhreinindi úr borginni úti Tíber. Þau voru svo há og víð, að aka mátti eptir þeim háfermdum vagni; hlaðin voru þau úr grjóti furðulega vel og vandlega, og standa enn í dag. Hann sat að ríkjum frá 616—578 f. Kr.

*Servíus Túllíus* var konúngur Rómverja frá 578 til 534 f. Kr., og jók enn ríkið að nokkru. En hið merkasta er eptir hann liggur, er flokkaskipun sú hin mikla, er hann gjörði á þegnum sínum. Fyrst skipti hann Rómverjum utanborgar í 26 *sveitir* og innanborgar í 4 *sveitir* (*Tribus*). Sú flokka skipan var bygð á *bústöðum* manna og svæði því, er þeir bjuggu á. Síðan skipti konúngur þegnum sínum í 6 *deildir* (*Classes*) eptir *efnahag,* og hverri deild

aptur í aðrar smærri, eður deildarliðu (*Centuriæ*). Við þessa niðurjöfnun eptir efnahag manna, var hvorki farið eptir peníngum þeim, er menn áttu, nè eptir skuldum þeim, er öðrum þyrfti að lúka, heldur eptir því, hvað menn áttu í löndum, gángandi fè og þrælum. Á deildaskipun þessari voru bygð skattgjöld manna; þáttur sá meiri eður minni, er menn áttu í stjórn almennra mála; vopnabúnaður í stríði og fylkíngaskipun á mönnum í orustum.

## Lúcíus Júníus Brútus. Brottrekstur konúnga úr Rómaborg.

*Lúcíus Tarquiníus* hèt hinn sjötti konúngur Rómverja eptir Rómulus; hann var sonur Tarquiníusar hins gamla; hann rèð bana tengdaföður sínum Servíusi Túllíusi og brauzt þannig til konúngdóms, þótti dugandi hershöfðíngi og jók vald og álit ríkisins með viturleik sínum, en sárleikið gjörði hann öldúngaráðinu í meira lagi, og svipti marga þeirra lífi. Var hann því kallaður hinn *harðráði* (*superbus*). Hann var líkur mörgum harðstjórum fornaldarinnar í því, að hann var mjög gefin fyrir alls konar húsagjörð og stórsmíðar; hann lèt gjöra hof handa Júpíter og Júnó og Mínervu á Capítólshæð, og þröngvaði lýðnum til þeirra starfa; hann lèt og gjöra að fullu hið mikla *lokræsi* (*Kloak*) undir Rómaborg; hann var grimmur maður í skapi og hlífði engum, þegar því var að skipta, hvorki skyldum nè vandalausum, og svo er sagt, að systursonur hans, sá er hèt *Lúcíus Júníus*, gat því að eins umflúið bráðan bana, að hann lèzt vera vitfirríngur; tók þá konúngur undir sig eignir hans og þóttist vita, að hinn myndi aldrei eptir leita; var konúngs frændi þessi síðan kallaður »*Brútus*« (*hinn heimski*); gaf hann sig ekki að því, þótt hann væri svo nefndur, en beið þess tíma, að honum gæfist færi á að leysa þjóðina undan ánauð konúngsins. Það var einhverju sinni, að konúngur hafði þúngar áhyggjur af ískyggilegum fyrirburðum og vitrunum, og sendi menn austur i *Delfi* á Grikklandi til goðafrètta; voru synir hans í för þeirri og Brútus frændi hans; færðu þeir guðinum virðulegar gjafir, sem venja stóð til. Brútus gaf guðinum gullstaf, er fólginn var með miklum hagleik í rósviðarlegg. Þótti gjöfin lítilsvirði, því að gullið sást eigi, og kváðu menn það nýjan vott um vanvizku Brútusar;

en maðurinn var kænni en þeir hugðu, og var stafurinn hin mesta gersemi. En er þeir bræður höfðu lokið erindum föður síns, spurðu þeir guðinn, hver þeirra myndi konúngur verða í Rómaborg. Guðinn svaraði: »Sá yðar, sem fyrstur mynnist við móður sína, mun komast til hinna æðstu valda í Róm«. Á heimleiðinni töluðu þeir bræður um, að láta hlutkesti ráða, hver fyrstur skyldi kyssa móður sína. En Brútus sagði svo, að goðasvarið hefði með orðinu »móðir« táknað jörðina, því að hún væri rètt nefnd móðir allra; lèt hann þá sem sèr skryppu fætur, og fèll til jarðar og kysti hana.

Nú var þar komið, að konúngur og ættmenn hans höfðu fylt mæli ofstopa síns og íllgjörða. Maður er nefndur *Tarqvinius Collatinus;* hann var frændi konúngs og átti konu þá, er *Lúcrezia* hèt; hún var kvenna fríðust, og öllum þeim kostum búin, er prýða máttu rómverska húsfreyju á þeim tímum. *Sextus Tarqvinius,* einn af sonum konúngs, hafði í frammi slíkt óhæfuverk við þessa ágætiskonu, að hún vildi eigi lifa við smán, og rèð sèr sjálf bana. Þetta atvik notuðu höfðíngjarnir til að æsa lýðinn gegn konúngsvaldinu. *Brútus* kastaði nú fíflsgerfinu; bar líkama Lúcreziu fram á torgið öllum til sýnis, og eggjaði menn til hefnda. Um þær mundir sat konúngur með her manns um *Ardeuborg* í *Rútúlahèraði;* en er hann kom til Róms, og bjóst að sefa uppreistina, fekk hann eigi inngöngu í borgina, var hliðum borgarinnar lokað og honum sagt, að konúngdómi hans væri lokið, og væri einn kostur nauðigur, að fara í útlegð með alla ættmenn sína. Meðan þetta gjörðist í Rómaborg kom Brútus því til leiðar, að herinn hjá Ardeuborg snerist í lið með lýðnum; varð konúngur að fara landflótta til *Etrúríu* og beiddist þar styrks af mönnum móti þegnum sínum (509 árum f. Kr.).

*Tarqvinius Superbus* var síðastur konúngur í Rómaborg; hafði grimd hans gjört konúngs nafnið svo óvinsælt, að menn reyndu á allar lundir að eyða minníngu þess. Stjórnarskipun Rómverja varð frjáls upp frá því. Voru þá skipaðir tveir *ræðismenn* (*Consules*), er stýra skyldu öllum þjóðmálefnum i friði og stríði; voru þeir af flokki höfðíngjanna (*Patricii*), og skyldu hafa stjórn á hendi um eins árs tíma; en þá skyldi kjósa menn að nýju til þeirra embætta. Patriciar höfðu einnig hið æzta dóms-

vald í höndum. Þeir *Junius Brútus* og *Tarqvinius Collatínus*, maður Lucrezíu, urðu fyrstir ræðismenn.

Nú var þjóðveldið að vísu fengið, og öllu skipað á þann hátt, að frelsi hinnar rómversku þjóðar væri vel borgið; en þó voru þeir nokkrir, sem enganveginn geðjaðist að þessari stjórnarbreytíngu. Þar á meðal voru nokkrir úngir menn af göfugum ættum, og í þeim flokki nokkrir ættíngjar *Brútusar* og tveir af sonum hans, er eigi máttu heyra nefnt, að lögin skyldu ná jafnt yfir alla. Meðan konúngsstjórn átti sèr stað, gátu þeir haft ýmsa óknytti í frami að ósekju, sökum vináttu við konúngsættina, en nú var öðru máli að gegna; nú voru þeir dregnir fyrir lög og dóm, eins og hver annar, og eigi farið í manngreinarálit. Fyrir því höfðu menn þessir leynileg samtök sín í millum, til þess að geta komið *Tarqviníusi* aptur inn í borgina, og konúngsveldinu aptur á fót, og höfðu í vitorði með sèr sendimenn konúngs, er komnir voru til Róms í þeim erindum, að heimta honum til handa eignir hans og óðul. En þá vildi svo til, að þræll einn kom því upp um þá, urðu þeir sannir að sök, með því að brèf þau náðust, er þeir höfðu þar um ritað konúngi; voru þeir síðan dæmdir til dauða sem landráðamenn. *Brútus* varð sjálfur að vera viðstaddur líflát sona sinna, af því að hann var ræðismaður, og er svo sagt, að hann brygði sèr eigi við það; enda var honum frelsið fyrir öllu. Fyrir þá sök þótti honum nauðsyn til bera, að koma því til leiðar, að lýðurinn ræki *Tarqvinius Collatínus* í útlegð, fyr en ræðismannstíð hans þó var á enda, og enda þótt honum yrði eigi annað til sakar fundið en það, að hann var konúngs frændi og hèt því nafni sem hann hèt. Í hans stað varð *Públíus Valeríus* ræðismaður. Hann bar upp það nýmæli í lögum, að skjóta mætti dómum ræðismanna undir atkvæði lýðsins; hann lèt og, til virðíngar við lýðinn, *vandsveina* (lictores) sína drepa niður merkjum, þá er hann gekk niður á torgið, þángað sem lýðurinn var saman kominn. Fyrir því var hann kallaður *hinn þjóðholli* (*Poplícola*).

Það leið ekki á löngu áður *Tarqviníus* reyndi að ná aptur ríki sínu með herskildi; fekk hann liðveizlu hjá Veji- og Tarqviníuborgar mönnum. Rómverjar höfðu liðsafnað í móti og voru ræðismenn fyrir liðinu. *Brútus* fór fyrir hernum og stýrði riddaraliðinu. *Arúns* konúngsson var fyrir riddaraliði föður síns. Nú

sjá hverir aðra, og sem Arúns fær komið auga á Brútus heitir hann á goðin og hleypir hestinum fram í móti ræðismanninum; lýkur svo þeirra viðskiptum, að þeir falla báðir. Lèt *Brútus* þar líf sitt, og hafði hann varið því alla stund fyrir frelsi Rómverja. Eptir orustu þessa sneru liðsmenn þeir heim aptur til Etrúríu, er komið höfðu til hjálpar við Tarqvinius konúng, og höfðu farið erindisleysu.

*Tarqviníus* leitaði síðan liðs hjá *Porsennu* konúngi í *Clúsíum*. Fór Porsenna með her manns til Rómaborgar og fekk náð kastala þeim, er *Janícúlum* hèt. Rómverjar veittu harða viðtöku, og er einkum getið tveggja manna, er þá voru uppi, og þóttu bera af öðrum fyrir sakir hreysti og hugprýði. Annar þeirra hèt *Hórazíus Cócles.* Hann varði því nær einn brúna á *Tíber-á,* þar sem liðsmenn Porsennu sóttu að og vildu komast yfir og inn í borgina, en fengu eigi aðgjört; gátu Rómverjar höggvið af brúna, en Hórazíus Cócles komst óskemdur til sinna manna. Hinn hèt *Múcíus Scævola.* Hann tókst á hendur að ráða Porsennu konúng af dögum; fór hann í þeim erindum til herbúða konúngs og náði inngöngu í konúngstjaldið. En með því, að hann þekti eigi konúnginn, þá drap hann í misgripum annan mann, og varð hann því næst höndlaður og krafinn til sagna. Hann kvaðst kominn þángað til þess að drepa konúnginn, og þó að sèr hefði nú mishepnast það, þá væri þrjú hundruð annara úngra manna meðal Rómverja, er svardögum hefði með sèr bundið, að láta eigi fyr staðar nema, en þeir hefði náð lífi konúngs, enda skyldi hann eigi undan reka. *Porsenna* bauð að kasta honum á bál, ef hann segði eigi alt hið sanna af samsærismönnum. *Múcíus Scævola* lèt sèr eigi bilt við verða, og rèttir hægri höndina í fórnarbál mikið, er þar brann hjá þeim; höndin brann til kola, en *Múcíus* stóð kyr í sömu sporum, sem ekki væri að. Konúngur undraðist slíka kallmensku og gaf honum líf og heimfararleyfi. Segja sumir, að Porsenna hafi orðið skelkaður og haldið heim til sín. En aðrir segja svo frá, að Rómverjar hafi heldur farið halloka í ófriðnum fyrir Etrúskum. En hvort sem svo sannara er, þá er hitt víst, að Rómverjar rèttu hluta sinn aptur eptir skamma stund.

### Hið rómverska þjóðveldi og framför þess.

Eins og þegar er getið, var sú breytíng orðin á stjórnarskipun Rómverja, að konúngar voru burt reknir, en komnir í þeirra stað tveir *ræðismenn* af Patricía-flokki, er eigi sátu nema eitt ár í senn að völdum; *öldúngaráðið* (*Senatus*) hafði fengið meira vald í hendur en áður hafði verið, meðan konúngar stýrðu þjóðinni, en kjör alþýðunnar gagnvart höfðingjunum voru enn að öllu óbreytt. Höfðíngjarnir, eða aðallinn, áttu enn sem fyrri einir saman jarðeignir þær (þjóðjarðir = *ager publicus*), er Rómverjar höfðu undir sig náð frá óvinum sínum; höfðíngjar höfðu löggjafarvaldið í hendi sèr, klerkavaldið og öll embætti Öldúngaráðið fekk enn meiri þýðíngu en áður, fyrir þá skuld að, þegar einhver sèrleg vandræði báru að höndum, þá mátti *ráðið* kjósa einn mann, er hefði ótakmarkað veldi um 6 mánuði; hann var nefndur *Dictator* (*Vandræðastillir* eða *alræðismaður*); þeim dómum, er hann dæmdi, varð eigi skotið undir atkvæði lýðsins. Hann var auðkendur á því, hvar sem hann fór, að 24 *vandsveinar* (*Lictores*) gengu fyrir honum. (það var hèrumb. 500 á. f. Kr.).

Nú hófust deilur miklar með lýðnum (*Plebeji*) og höfðíngjunum (*Patricii*). Lýðurinn reyndi til á allar lundir að ná undir sig sömu rèttindum, sem hinir heldri menn höfðu. Þjóðjarðir allar voru, sem áður var sagt, í höndum höfðíngjanna, og hjá þeim voru auðæfin saman komin; lýðurinn átti ekkert í jörðum, var efnalítill, og á margan hátt háður auðmönnunum, og voru því kjör hans mjög óálitleg og erfið. Höfðíngjar lèku alþýðumenn svo hart, að þar kom um síðir, að þeim varð ekki vært; tóku þeir þá það ráðs, að þeir fóru hópum saman til *fjallsins helga*; það er við *Antófljót*; hlóðu þar víggirðíngar, tóku sèr fyrirliða, og lètu þar fyrirberast um nokkra mánuði. Það var 494 árum f. Kr. Voru nú ráðagerðir miklar með mönnum, en loks lètu þeir tilleiðast, fyrir viturlegar fortölur *Agrippu Meneníusar*, að snúa heim aptur til Róms, eptir að þeim var leyft, að kjósa valdsmenn af sínum flokki, þá er vernda skyldu rèttindi þeirra gegn ofríki höfðíngjanna. Valdsmenn þessir voru nefndir *alþýðuforíngjar* (*Tribuni plebis*); þeir voru friðhelgir menn (*sacrosancti*); þeir voru fyrst 5 að tölu, síðan urðu þeir 10. Þannig fekk lýðurinn hlutdeild í opinberum málefnum og stjórn Rómaveldis.

*Spúríus Cassíus* hèt maður einn rómverskur, ágætur maður; hann hafði komið því til leiðar, að *Rómverjar* og *Latínumenn* gjörðu samband sín í millum (493 á. f. Kr.). Þá er hann var ræðismaður hið þriðja sinni, bar hann það frumvarp upp, að alþýðumenn fengi nokkrar þjóðjarðir til umráða; þá reiddust höfðíngjarnir meir en frá verði sagt, og báru á hann þær sakir, að hann vildi komast til valda og verða konúngur; en slíkt þótti hin mesta óhæfa. Dæmdu þeir hann síðan til dauða og hrundu honum fyrir hamra niður (Tarpejuklett á Capitólshæð) 486 árum f. Kr. Nokkru síðar, en hèr var komið, rituðu *hinir tíu menn (Decem viri) tólftaflnalögin* (451—449), en alþýðan hafði lítinn hagnað af því starfi. Þar á móti batnaði hagur alþýðunnar á dögum þeirra *Valeríusar* og *Hóraziusar* ræðismanna, er það nýmæli var gjört (449): að alþýðan sjálf á *almennu móti* gæti sett þau lög, er skuldbundið gætu þjóðina alla. Fjórum árum síðar (445) kom alþýðuforínginn *Canulejus* því til leiðar, að það urðu lög, að karlar og konur af höfðíngja- og alþýðumannaflokknum mætti giptast saman; en slíkt hafði áður verið ólöglegt. Skömmu síðar (ár 443) voru settir nýir valdsmenn í Rómaborg, er eigi höfðu áður verið; þeir voru kallaðir siðgæzlumenn (*Censores*), og voru af flokki höfðíngjanna (Patricii); þeir voru tveir að tölu; þeir tóku manntal fimta hvert ár eptir þeirri sveitaskipan (*tribus*), sem *Servíus Túllíus* hafði sett; á slíku manntali voru skattgjöld og herþjónusta þjóðarinnar bygð. Valdsmenn þessir höfðu og tilsjón með almennu siðferði borgarmanna, og refsuðu mönnum fyrir ýmsar þær sakir, er lög náðu eigi til. Frá þessu tímabili, sem hèr ræðir um, tóku alþýðumenn í Rómaborg að krefjast hluttöku í yfirstjórn þjóðarinnar. Þeir æsktu þess, að þeir mættu kjósa ræðismenn af sínum flokki, en ráðið og höfðíngjarnir stóðu fast í móti. Þó höfðu alþýðumenn það fram, að ræðismannsnafnið lagðist niður um stundarsakir, og settir tveir yfirmenn yfir Rómverja, er nefndir voru *»liðsmannaforíngjar með ræðismannsvaldi«* (*tribuni militum consulari potestate*), og mátti kjósa þá af alþýðuflokki. Þessir menn stýrðu Rómverjum frá 444 til 367 f. Kr., eður því nær um 77 ár. Þó bar það stundum til, einkum öndverðlega á því tímabili, að þeir voru nefndir *ræðismenn*, er ríkinu stýrðu.

## Markus Fúríus Camillus.

Á þeim tímum, er ræðismanns nafnið lá niðri í Rómaborg, sökum styrjaldar milli lýðsins og höfðíngjanna, og liðsmanna foríngjar þeir, er áður voru nefndir, stýrðu ríkinu, var sá maður uppi með Rómverjum, er *Markús Fúríus Camillus* hèt. Hann varð frægur mjög af hernaði sínum norður í *Etrúska löndum*. Etrúskar voru nágrannar Rómverja, eins og áður er sagt; þeir voru voldug þjóð og vel að sèr um marga hluti, og það var lengi, að þeir stóðu Rómverjum nokkurnveginn jafnfætis í flestu. Veji-borg var einna syðst í Etrúskalöndum og næst Rómverjum; höfðu þeir því hugfast að ná henni, og settust um hana, en það gekk eigi greiðlega. Sátu Rómverjar um borgina á tíunda ár. Á því ári varð *Camillus* alræðismaður (*Dictator*) hjá Rómverjum, og þá fekk hann tekið borgina (396 árum f. Kr.). Það er sagt, að Rómverjar hafi unnið Vejiborg á þann hátt, að þeir gjörðu blótveizlu mikla og buðu goðum Vejimanna, og einkum *Júno*, er var verndargoð þeirra, að færa bygð sína þaðan og setjast að í Rómaborg; því næst lèt *Camillus* liðsmenn sína grafa leynígöng inn undir borgina og að hofi Júnónar; komust Rómverjar þannig í borgina og fluttu goðið til Róms og settu í hið nýja hof, er þeir helguðu gyðjunni; það hof stóð á *Aventínshæð* í Róm. Litlu síðar settist Camillus um *Faleríborg*. Þar var skólameistari einn í borginni, er hafði börn hinna helztu manna undir umsjón sinni. Einhverju sinni gekk hann með börnum þessum út fyrir borgina og að herbúðum Rómverja, og lèt sem það yrði af hendíngu einni; gekk til fundar við *Camillus* og bauð að selja af hendi við hann börnin, því að þá myndi foreldrar þeirra skjótt láta ljúka upp fyrir honum hliðum borgarinnar. En *Camillusi* stóð stuggur af slíkri vèl, lèt taka skólameistarann og binda hendur hans á baki, og sagði börnunum að reka hann undan sèr inn í borgina og lemja hann svipum. En Faleriborgarmenn, er þeir frèttu veglyndi Camillusar, þá gáfu þeir upp vörnina og gengu sjálfviljugir á vald hins rómverska ráðs. Það var 394 árum fyrir Krists burð.

Camillus var, eins og margir af höfðíngjum Rómverja, ráðríkur maður og fór eigi að því, hvort alþýðunni líkaði betur eða ver; hann tók því undir sig nokkuð af því herfángi, er liðsmenn hans áttu tilkall til, og sem tekið hafði verið, þá er Vejiborg var unnin; hann hafði heitið, að leggja það fè til *Apollóns* hofs á Grikklandi.

Liðsmenn hans undu því illa, að vera þannig afskiptir; skárust þá *alþýðu foríngjarnir* í málið fyrir þeirra hönd, og báru sakir á *Camillus*, og lauk svo, að hann fór í útlegð og til *Ardeuborgar*.

Í það mund gjörðu *Gallar* herhlaup mikið suður á Ítalíu, og hèt foríngi þeirra *Brennus*. Þeir rèðust á borg þá í Etrúríu, er *Clúsíum* hèt, en Rómverjar sendu þrjá menn únga að aldri, af ættkvísl *Fabíusar*, til fundar við Galla, til þess að leita um sættir. En þessir hinir úngu menn gjörðust oddvitar *Clúsíumanna* og rèðust á Galla. Þá urðu Gallar reiðir mjög og kröfðust, að Fabíusar þessir yrðu framseldir sèr í hendur; því neituðu Rómverjar. Tóku *Gallar* sig þá upp frá *Clúsíuborg* og stefndu til *Rómaborgar*. Varð fundur þeirra og Rómverja við *Allia*-fljót (18 dag júlí mán. 390 f. Kr.). Þar fengu Gallar sigur, en Rómverjar lögðu á flótta, og flýði meginherinn til Vejiborgar, en *öldúnga ráðið* og þeir, sem verjast vildu, fóru á Capitólshæð (*Capítolium*) í Rómaborg, og bjuggust þar fyrir í víginu. Öldúngar ráðsins vildu eigi lifa það, að Rómaborg yrði unnin og yfirráðum þeirra lokið; bjuggust þeir þá tignarklæðum sínum og biðu þannig óskelfdir heima í húsum sínum þess, er að höndum kæmi. Gallar tóku hús á þeim og drápu þá alla. Síðan lögðu Gallar eld í húsin og brendu borgina. Var nú eigi annað eptir af Rómaborg en vígið á Capitólshæð; settust Gallar um vígið og mundu hafa náð því, hefði atburður einn eigi borgið því. Svo bar til eina nótt, að Gallar klifruðust upp hamra þá, er umkríngja Capitólshæð, og urðu varðmenn eigi varir við; en þar voru heimgæsir í víginu, það voru helgir fuglar og eignaðir Júnó. Þær vöktu þó aðrir svæfi, og jafnskjótt sem þær verða þess varar, að menn eru komnir upp á bergið, hefja þær upp kvak mikið, og við það vaknar *Markus Manlíus* og hleypur til vopna, og keyrir þann ofan fyrir bergið, sem upp er kominn. Síðan þustu Rómverjar að, hver af öðrum, og ráku þá af höndum sèr, og náðu Gallar eigi uppgöngu í vígið. En þó kom þar, að húngrið svarf svo fast að Rómverjum, að þeir sáu eigi annað vænna, en gjöra svofeldan samning við Brennus: að hann hætti umsátinni og hèldi liði sínu burt, en Rómverjar greiddi honum ákveðið fè í gulli.

Meðan tíðindi þau gjörðust, er nú voru sögð, hafði *Camillus* eggjað *Ardeumenn* til að veita Göllum aðför, og Rómverjar þeir, er sátu í *Vejiborg*, höfðu tekið það ráðs, að senda til Camillus-

ar, gjöra hann að alræðismanni, og biðja hann takast aptur herstjórn á hendur móti Göllum. En *Camillus,* sem eigi þóttist þannig löglega til kvaddur, gjörði þeim þau orð, að hann færi hvergi frá Ardeu, fyr en *öldúngaráðið* leysti sig úr útlegð, og fengi sèr alræðismannsvöldin í hendur. Þá tókst maður einn frá Ardeu á hendur, að fara með þeim erindum til ráðsins, er sat í Capítólsvígi; maðurinn komst slisalaust þángað, eptir Tíberá, þótt það væri hin mesta glæfraför, og heim aptur, með þau skilaboð frá ráðinu, að *Camillus* væri laus úr útlegð, og falin alræðisstjórn á hendur.

Nú er það sögn Rómverja, að *Camillus* hafi komið til Róms, þegar á því stóð, að gullið var vegið í hendur *Brennusi.* Kvörtuðu menn um, að rángt væri vegið, en *Brennus* lagði sverð sitt á metaskálarnar og mælti: »sigraðir menn verða að gjöra sèr alt að góðu«. Þá reiddist *Camillus* og kvað hætta skyldi að vega gullið, enda væri mönnum sæmra að vinna aptur fósturjörð sína með stáli ēn með gulli. Býst *Camillus* þessu næst til orustu, og verða þau leikslok, að hann vinnur tvisvar sigur á Göllum, og Rómaveldi var borgið. Nú var Rómaborg öll í rústum eptir brennuna, og gáfu þá alþýðnforíngjar það ráð, að flytja þaðan alfarið og setjast að í Vejum og efna þar til höfuðborgar; alþýðunni þótti það þjóðráð, því að hún undi sèr ekki í Róm sökum þess, að þar var hún í litlum metum hjá höfðíngjunum (*Patricii*), og átti lítinn þátt í alþjóðlegum málefnum í samanburði við þá. En *ráðið* vildi það fyrir engan mun, og *Camillus* var þar fremstur í flokki; sögðu þeir, að það væri óhæfa, að flytja sig búferlum úr þeim stað, er goðin hefði sítt aðsetur, og sem svo margt væri til marks um, að verða ætti höfuðborg í víðlendu þjóðríki. Varð sú niðurstaða þess máls, að Rómverjar breyttu ekki um bústaðinn. Var þá tekið til starfa, og gekst *Camillus* fyrir því með ráðum og dáð, að *Rómaborg* reis upp aptur af rústum og varð á skömmum tíma mikil borg og glæsileg. Af þessu öllu saman varð Camillus frægur maður, og kölluðu Rómverjar hann »*föður fósturjarðar sinnar*“, og »*annan höfund Rómaborgar*«; en Rómulus var hinn fyrsti, eins og kunnugt er orðið.

Nú sem þessum tíðindum var lokið, og Rómverjar seztir að í borginni, brá mjög aptur til fornrar venju: að höfðíngja-

flokkurinn efldist, en alþýðan varð að lúta í lægra hald og sæta afarkostum; bæði herþjónusta og húsagjörðin í borginni, meðan á því stóð, lagðist þúngt á alþýðumanna flokkinn. Hann hafði neyðst til, að taka fè á leigu hjá auðmönnum, og gjalda afarháa vexti af, og eptir því sem lög stóðu þá til, urðu skuldunautar svo gjörháðir sínum lánardrotnum, ef þeir gátu eigi staðið í skilum, að nærri stappaði fullum þrældómi; þeir voru settir til ánauðugrar vinnu, eins og ófrjálsir menn, þeir voru seldir mansali, og þeir voru jafnvel rètt dræpir, ef svo bar undir. *Markus Manlíus*, sá er bezt hafði varið Capítólsvígi, og fyrir því var kallaður *Capítólínus*, var þá í miklum metum í Rómaborg; honum lèk næsta öfund á um virðíng *Camillusar*, og kepti við hann um völdin; var Manlíus alþýðumönnum hið mesta traust og bjargvættur; hann talaði máli þeirra fyrir dómí, leysti þá út með fègjöldum, er sátu í varðhaldi sökum skulda, og suma tók hann út með valdi. Varð hann af öllu þessu mjög vinsæll meðal lýðsins, og fekk því nær hverju máli framkomið, er hann vildi, á þíngum alþýðumanna. En alt um það, *Camillus* var þó með fylgi höfðíngjanna kjörinn að nýju *»liðsmanna fóríngi með ræðismanns valdi«*, Í hans skjóli urðu menn til, að bera þær sakir á *Manlíus*, að hann sæktist eptir konúngstign. Það er sögn manna, að *Manlíus* hafi verið feldur á þann hátt: sök hans var háð á *Marzvelli*, en þar blasti Capítólshæð við þíngheimi; *Manlíus* talaði sjálfur sínu máli, fór mörgum og fögrum orðum um hreystiverk sín á Capítólshæð, er frelsað hefði þjóðina, og talaði mönnum hughvarf, og dómendur kváðust eigi geta dæmt hann sekan. Þá var það ráð tekið, að færa þíngið af Marzvelli og þángað, sem eigi sást Capitólshæð. Þar höfðu óvinir Manlíusar sitt fram; hann var dæmdur til dauða og hrundið niður af Tarpeiu hamri, þar sem hæstir eru hamrar að Capítólshæð; lèt *Manlíus* þannig líf sitt á þeim stað, er hann hafði unnið sitt mesta frægðarverk. Hús það, er *Manlíus* átti, var rifið niður til grunna, og sett þar aptur hof eitt í staðinn. Ættmenn Manlíusar sömdu það með sèr, að enginn skyldi síðan bera nafn hans. Þannig er sagt frá afdrifum Manlíusar; en hvað sem satt er í þeirri frásögn, þá vita menn hitt með vissu, að hann lauk æfi sinni í óeirðunum milli höfðíngjanna og lýðsins í Rómaborg. En eptir hans daga fylgdu alþýðumenn miklu fastar fram sínum málum, og með

miklu meiri eindrægni en áður móti höfðíngjunum, til þess að geta náð fullri hlutdeild í stjórn alþjóðlegra málefna.

Höfðíngjaflokkurinn (*Patricii*) hèlt sínum málum fram á *deildarþíngum* (*Comitia centuriata, Centurieforsamlinger*), er sett voru samkvæmt flokkaskípun þeirri, er Servíus Túllíus hafði fyrrum gjört. Á þeim þíngum gekk atkvæðagreiðsla þannig, að borgarar þeir, er mestar áttu jarðeignir, gátu því nær einir ráðið löggjöf og valdsmannaskipan. En vegna þess að reynslan hafði þegar kent mönnum, skömmu eptir burtrekstur konúnganna, að öll þörf var á, að alþýðuflokkurinn sæi sèr farborða, þá er *Cn. Markus Córíólanus*, einn af höfðíngjum Rómverja og ákafamaður mikill, hafði mælt fast á móti því, að alþýða fengi korn til kaups við lágu verði, jafnvel þó harðæri mikið og bjargarskortur væri í borginni, en Coríólanus vildi kúga alþýðuna til hlyðni, — þá kvöddu alþýðuforíngjar búalýð allan til þíngsetu (þeir buðu búum öllum til setu). Þessi *búaþíng* eða *sveitaþíng* (*Comitia tributa, Tribusforsamlinger*) höfðu dómsvald (491); þar gátu jarðeigendur eigi ráðið mjög miklu; og þessi þíng náðu smásaman þeim ráðum undir sig, að þau kusu alla embættismenn alþýðunnar (471), og settu lög, og því valdi höfðu þau náð í hendur fyrir Camíllusar daga og fengið staðfest með lögum. Á þessum *búaþíngum* rèðu alþýðuforíngjar og alþýða lögum og lofum.

*Cajus Licinius Stolo* og *Lucius Sextius*, alþýðuforíngjar, báru ýms lagafrumvörp upp á þíngum, er hnigu að því, að bæta kjör lýðsins. Af frumvörpum þessum var það einkum eitt, er olli löngum og hörðum þíngdeildum, og það var þetta: *að jafnan skyldi kjósa annan ræðismanninn af alþýðuflokknum.* Það ræður að líkindum, hvernig höfðíngjunum hafi geðjast að slíku frumvarpi; en eigi auðvelt að standa í móti. Eptir rómverskum lögum höfðu menn einúngis eitt úrræði til að afstýra lagafrumvörpum, sem alþýðuforíngjar báru upp, að eigi yrði að lögum, og það var á þann hátt, að einhver af alþýðuforíngjum mælti í móti. Ef einn af þeim (en þeir voru tíu) setti blátt bann í móti, þá gat frumvarpið eigi orðið að lögum. Þetta vissi öldúngaráðið (*Senatus*), og þess vegna gaf það nokkrum af alþýðu foríngjunum fè til að lýsa yfir banni gegn frumvarpi þessu; og það gjörðu þeir. En Licinius lèt hart mæta hörðu, og setti þvert bann fyrir, að kosnir væru að nýju »liðsmanna foríngjar með ræðismanns valdi»; og þannig

var hann þess ollandi, að hin æztu embætti voru um stundarsakir afnumin. *Licinius* og *Sextius* voru hvað eptir annað kosnir alþýðuforíngjar, og rèðu þannig á þíngum alþýðumanna (húaþíngum) öllum alsherjarmálum Rómverja. Ráðið reyndi til að hrjóta alþýðumannaflokkinn undir sig með því, að fá *Camillusi* að nýju alræðismannsvöld í hendur. En alþýðuforíngjarnir neyddu hann til að leggja völdin niður með því, að fá það gjört að lögum: að svo framt alræðismaðurinn heitti valdi sínu í *þessu* málefni, þá skyldi hann svara ærnum fèhótum, er hann viki úr völdum.

Þessi hin mikla misklíð og flokkadráttur milli höfðíngjanna og alþýðunnar í Róm, stóð um tíu ár, og þar við hættist sífeld styrjöld við nágrannaþjóðirnar; var þá eigi annað sýnna, en að hin sundurlynda rómverska þjóð myndi líða undir lok. En ófriður sá var engan veginn ókær höfðíngjunum fyrir þá sök, að hann gaf þeim einatt líklega átillu til liðssafnaðar og útboðs, og fjarlægðust þá margir alþýðumenn horgina, þeir er helzt ollu óspektum. En hins vegar færðu alþýðumenn sèr vankvæðin opt í nyt á þann hátt, að þeir neituðu allri herþjónustu og sögðust hvergi fara, urðu þá höfðíngjar að vægja til við þá, því að öðrum kosti hefði verið úti með Rómverja.

Um þær mundir kom sú fregn til Rómaborgar, að Gallar væri á leiðinni og hefði her manns, fekk ráðið þá hið hezta tækifæri til að kjósa Camillus að nýju til *alræðismanns* (367 á. f. Kr.). Þótt hann væri þá aldraður mjög og hníginn að heilsu, tókst hann í fimta sinni embætti þetta á hendur, og er það ætlun manna, að hann hafi þá unnið sigur á Göllum, og rekið þá af höndum sèr.

Þá er *Camillus* kom heim aptur úr leiðángri þessum, lagði hann eigi niður aptur alræðismanns völdin, eins og þó var venja til; við það æstist lýðurinn svo, að til vandræða horfði, og sneri öllu hatrinu á Camillus; á þíngi einu, er þá var haldið, var afráðið að senda menn til að taka alræðismanninn höndum, og draga hann fyrir dóm alþýðunnar. *Camillus* sneri sèr að Capítólshæð og hèt á guðina, að láta góðan enda verða á öllum þessum óspektum, og snúa þeim Rómverjum til hags. Því næst gekk hann til öldúngaráðsins, kom aptur að litilli stundu liðinni og lýsti yfir því, að ráðið hefði lagt samþykki sitt á, *að annar ræðismaðurinn skyldi upp þaðan kosinn úr flokki alþýðunnar,*

(367 árum f. Kr.). Nú snerist alþýðunni hugur; varð nú mikill fögnuður meðal hennar, og allur lýður fylgdi *Camillusi* með mestu viðhöfn heim af þíngi og að húsi því, þar sem hann átti heima. Litlu síðar var *Lúcíus Sextíus*, annar þeirra manna, er bezt hafði stutt mál alþýðunnar gegn höfðíngjunum, kosinn ræðismaður; var hann sá fyrsti af alþýðumannaflokki, er komst til þeirra valda. Á því hinu sama ári (366), en litlu síðar, andaðist hinn ágæti öldúngur *Camillus*. Hann dó einna fyrstur manna í drepsótt þeirri hinni miklu, er þá gekk í Rómaborg og nokkur ár þar á eptir.

Þegar höfðingjarnir sáu, að annað ræðismanns embættið gekk úr greipum þeim, og að alþýðan gat kosið mann til þess úr sínum flokki, þá fengu þeir því komið til leiðar, að nýtt embætti var stofnað, og skyldi til þess kjósa mann af þeirra flokki. Sá var kallaður *lögsögumaður* eða *dómstjóri* (*prætor*), er i það embætti var skipaður; var með fyrsta svo til ætlað, að ræðismenn, þegar þeir lögðu niður ræðismannsvöldin, skyldu takast á hendur þetta lögsögumannsembætti. Prætor var næst á eptir ræðismönnum æðstur valdsmaður með Rómverjum. Hann hafði hið æzta dómsvald á hendi. En er frá leið náði einnig alþýðan hlutdeild í þessu embætti, og þar kom, að af hennar flokki voru einnig kosnir menn til hinna æztu valda t. a. m. *siðgæzlumenn* (*Censores*), *alræðismenn* (*Dictatores*); jafnvel *prestar* voru kjörnir af alþýðumannaflokki eptir að frumvarp það, sem kent er við *Ogulnius* alþýðustjóra, náði lagagildi (300 árum f. Kr.). Árið 326 var það numið úr lögum, að hneppa menn í þrældóm fyrir skuldir; og frá árinu 286 fengu samþyktir þær, sem gjörðar voru á *búaþíngum* (Tribusforsamlinger), fullkomið lagagildi. Lög þau, er skipuðu þessu síðastnefnda atriði á fastan fót, eru kend við *Hortensíus* (Hortensíusarlög), er þá var alræðismaður. Þá komst löggjafarvaldið algjörlega í hendur alþýðunnar, og þar með var styrjöldinni milli hennar og höfðingjanna lokið.

## Rómverjar vinna Mið-Ítalíu og Suður-Ítalíu.

Ófriðurinn um yfirráðin á Ítalíu, er stóð um frekan 70 ára tíma, eður frá 343 til 272 á. f. Kr., leiðir oss fyrir sjónir, hverjum ráðum og hverri aðferð Rómverjar beittu til þess að leggja undir sig, eptir því sem tímar liðu fram, mestan hluta þeirra

þjóða, er þá voru kunnar. Rómverjar beittu margopt brögðum og slægð í viðskiptum við þær þjóðir, er þeir áttu í höggi við, gjörðu þær viðskila hverjar við aðrar, og unnu þær þannig einar sèr; en á hinn bóginn má segja það um Rómverja, að þeir lètu aldrei hugfallast eða yfirbugast, þó vandræði og hörmúngar dyndu yfir þá; þeir lögðu eigi vopnin niður, nema þeir hefðu hag af því. Hinn helzti ófriður, er Rómverjar áttu á tímabili því, sem hèr ræðir um, var við *Samníta, Latverja* (Latínumenn eða Latíumenn, en sveitin hèt Latium) og *Tarentumenn.* Við *Samníta* áttu Rómverjar *þrisvar* í ófriði, á tímabilinu frá 343 til 290 f. Kr., og leið skamt á milli hvers ófriðar. Samnítar voru hraust þjóð, mannmörg og auðig, og áttu Rómverjar fult í fángi við þá, og fóru stundum halloka fyrir þeim. Þannig biðu Rómverjar mikinn ósigur árið 321, í kleyfum (skörðum) nokkrum, sem kendar eru við *Caudium.* En svo lauk með þeim, að Rómverjar báru hærra hlut og lögðu *Samníta* undir sig.

Um þessar mundir áttu Rómverjar einnig mikinn ófrið við *Latverja,* frá 340 til 338 f. Kr., er reis af því, að Latverjar, er voru nokkurskonar sambandsmenn Rómverja, vildu komast í fullkomið þjóðfèlag við þá, og njóta jafnrèttis með þeim, en Rómverjar voru drambsamari en svo, að þeir vildu veita þeim það, og laust þá upp ófriðnum milli þeirra. Hinir rómversku ræðismenn, er þá sátu að völdum, hètu *Títus Manlíus Torqvatus* og *Publíus Decíus Mús;* voru þeir fyrirliðar fyrir hernum, eins og lög gjörðu ráð fyrir. Óregla og uppreisn, sem hafði átt sèr stað tveim árum áður í nokkrum rómverskum herflokkum, kom ræðismönnum þessum til þess, að hafa strángan aga yfir liðsmönnum sínum; settu þeir meðal annars þá reglu, að enginn mætti án þeirra leyfis eiga vopnaviðskipti við nokkurn mann af óvinaliðinu, nema undir merkjum og í fylkíngu; hver, sem á móti bryti, var dauða sekur. Nú bar svo til, að sonur *Manlíusar* var sendur lítinn spöl frá hernum við fáa menn, til þess að njósna um hagi óvinanna; mætir hann þá riddaraflokki þeirra Latíumanna. Foríngi þess flokks skorar Manlíusi ýngra til hólmgöngu. Fekk Manlíus eigi staðizt eggjunarorð hans, og ræðst í móti honum, og veitir honum bana; snýr því næst aptur til sinna manna. En sem faðir hans vissi það, lèt hann taka son sinn og aflífa. Sýnir það, hve ríkt Rómverjar hinir fornu gengu eptir því, að lögun-

um væri hlýtt, og hversu stjórnsamir þeir voru. Skamt frá *Vesúvíusfjalli* stóð orusta milli Rómverja og Latíumanna. það var hin snarpasta orusta, og svignaði fylkíng Rómverja í þann arminn, er *Decíus Mús* var fyrir. Slíkt eignuðu menn í þá daga reiði goðanna, og þá var það vitaskuld, að menn urðu að blíðka þau með fórnum sèr til sigurs. *Decíus* ræðismaður tók því það ráðs, að fórna sjálfum sèr, til þess að guðirnir veittu Rómverjum sigur. Brauzt hann þá fram í lið óvinanna, og fèll með mikilli hreysti, en Rómverjar fengu sigur. Ófriði þessum lyktaði svo, að Rómverjar lögðu undir sig Latíufylki, 338 árum fyrir Krists burð.

Hinn síðasti ófriður, er nokkuð kvað að, sem Rómverjar áttu á Ítalíu, áður þeir náðu yfirráðum yfir henni allri, var við *Tarentumenn.* Tarentuborg var á sunnanverðri Ítalíu; hún var til forna bygð frá Grikklandi og var bæði mikil borg og auðug. Tarentumenn sáu ofsjónum yfir uppgángi Rómverja og gripu fegins hendi tækifæri til ófriðar við þá, þá er það bauðst. Nú bar svo við einhverju sinni, að nokkur rómversk skip komu að landi við Tarentuborg. Tarentumenn tóku skipin og lögðu sum í eyði, en drápu skipverja. Rómverjar kröfðust skaðabóta af Tarentumönnum, en þeir brugðust ílla við og neituðu öllum bótum. þá hófst ófriðurinn. Tarentumenn fengu líðveizlu hjá *Pyrrusi* konúngi. Hann rèð fyrir *Epírus.* það er fyrir austan Hadríahaf. Hann var hinn mesti herkonúngur; varð hann vel við liðsbón þeirra og kemur þegar til Ítalíu með miklu liði; hann hafði fíla meðferðis, er hann hafði vanið við orustur, en Rómverjar höfðu eigi sèð þá, og gjörðu fílarnir þeim mikið ógagn. *Pyrrus* vann sigur við *Herakleuborg* (árið 280), en sigurinn varð honum ærið dýrkeyptur, því að Rómverjar voru manna hraustastir, og svo sagði *Pyrrus,* að ef hann ætti Rómverjum að stýra, þá treysti hann sèr til að leggja undir sig allan heiminn. Eptir sigurinn við Herakleu snerust ýmsar þjóðir á Ítalíu í gegn Rómverjum og gengu í lið með *Pyrrusi.* En alt um það vildu Rómverjar ekki taka þeim friðarkostum, sem *Pyrrus* bauð þeim, og kom þar fram sem optar þrek þeirra og þolgæði. það er mælt, að ráðgjafi Pyrrusar, sá er *Cineas* hèt, og sem konúngur sendi til Róms með friðarkostina, hafi sagt, þá er hann kom aptur, að sèr hafi virzt *öldúngaráðið* í Róm vera líkast því, sem í því sætu konúngar einir. þá var

og sá maður með Rómverjum er *Fabricius* hèt; hann var sendur til *Pyrrusar* að semja við hann um útlausn hertekinna manna; tók konúngur honum einkar vel og vildi gefa honum góðar gjafir, en *Fabricius* vildi eigi þyggja. Daginn eptir vildi Pyrrus reyna hann á annan veg. Meðan þeir konúngur sátu á tali, hafði konúngur látið leiða þángað fíl einn afarmikinn vexti, en tjald var í milli þeirra og fílsins, svo að ekki sá dýrið. Lèt konúngur þá er minnst varði bregða frá tjaldskörinni, en fíllinn teygði ranann yfir *Fabricius* og rak upp öskur mikið. Fabricius hafði aldrei sèð fíl, en ekki brá honum við að heldur, og brosti við og mælti: »dýr þetta hræðist eg eins litið í dag, eins og gersemar þær fengu á mig í gær, er þú vildir þá gefa mèr». Nokkru síðar fekk *Fabricius* brèf frá lækni *Pyrrusar* þess efnis, að læknirinn bauðst til að gefa konúngi eitur, ef Rómverjar vildu vel launa. *Fabricius* sendir Pyrrusi brèfið. Pyrrus undraðist göfuglyndi Fabriciusar, og er sagt að hann hafi komizt svo að orði: »það er hægra, að leiða sólina burt af braut sinni, en Fabricius af vegi rèttvísinnar».

Í *Sýracúsborg* á *Sikiley* höfðu lengi gengið óeirðir miklar, og hugðist *Pyrrus* konúngur, að hafa gagn af þeim og leggja eyna undir sig, með því hann sá, að sèr varð litillar framgöngu auðið á Ítalíu, enda þótt hann hefði fengið sigur í orustum þeim, er hann hafði átt við Rómverja. Honum tókst og að leggja undir sig nokkurn hluta eyjarinnar; en Sikileyíngum þótti hann vera helzt til dramblátur og mislyndur, og urðu honum svo fráhverfir; varð hann þá að fara þaðan og til meginlands aptur, og taka þar til óspiltra málanna við Rómverja, sem hann hafði áður hætt. En nú voru Rómverjar orðnir vanir hernaðar aðferð hans, og höfðu ýmislegt af honum lært; þeir höfðu einvala lið, en liðsmenn hans voru mjög misjafnir. *Manius Cúrius Dentatus,* ræðismaður, var þá fyrir Rómverjum, og var með herinn hjá borg þeirri, er *Beneventum* hèt í Samnía-sveit. *Pyrrus* vildi eigi bíða þess, að hinu ræðismaðurinn kæmi með meiru liði, og lagði til orustu; en svo lauk, að hann beið þar fullan ósigur. Það var 275 árum f. Kr. Eptir það sneri *Pyrrus* konúngur austur á Grikkland og hugði þar til fjár og frægðar. Hann gjörði atlögu að borg þeirri, er *Argos* hèt og fèll þar. Það var um nótt. Rómverjar unnu *Tar-*

*entuborg* árið 272 f. Kr.; fáum árum síðar höfðu þeir lagt undir sig alla Ítalíu.

## Hið fyrsta púnverska stríð.
(frá 264 til 241 f. Kr.).

Þá er Rómverjar voru orðnir einvaldar að Ítalíu, urðu þeir bráðum nágrannar *Kartagóborgarmanna,* er um lángan tíma höfðu haft fótfestu á *Sikiley;* það var því hægt fyrir að sjá, að þessum tveim þjóðum myndi innan skams lenda saman í ófriði, því að hvorirtveggja vildu eiga sitt og seilast til yfirráða, hvar sem þess var kostur. Tildrög til ófriðarins milli Rómverja og Kartagóborgarmanna voru þessi: *Agaþókles* harðstjóri einn á Sikiley og tengdafaðir Pyrrusar þess, er áður er nefndur, hafði haft hersveit eina af Ítalíu á mála um nokkur ár; hermenn þessir hètu *Mamertínar.* Eptir lát Agaþókles unnu Mamertínar *Messanaborg* (*Messína*), og settust þar að, og lifðu við hernað og rán. Sýrakúsverjar og einkum Kartagóborgarmenn gjörðu þeim árásir og vildu reka þá þaðan, en Mamertínar leituðu liðs hjá Rómverjum. Voru Rómverjar um hríð í efa um, hvort þeir skyldi veita ræníngjum þessum hjálp eður eigi; en af því þeir þóttust vita, að Kartagóborgarmenn myndu verða yfirsterkari og taka *Messanaborg,* ef þeir lèti þá eigast eina við, þá rèðu þeir það af, að skerast í leikinn. Þessu næst fór *Appíus Claudíus* ræðismaður (264 f. Kr.) með her manns á skipum frá Tarentuborg yfir til Sikileyar á hendur Kartagóborgarmönnum og *Hieró* konúngi í Syrakúsa, bandamanni þeirra. Alt virtist lúta að því, að Kartagóborgarmenn myndu verða drjúgari í þeim viðskiptum: þá skorti eigi fè, þeir höfðu skipaflota mikinn, voru sjógarpar hinir mestu, og varð gott til liðveizlu víða um Sikiley. Hins vegar voru Rómverjar fátækir og skorti marga þá hluti, er til slíkra stórræða þurfti, sem þeirra, er hèr voru fyrir hendi. Þeir áttu engan skipaflota, og þó þeir væri hraustir menn og vanir landorustum, þá var eigi annað sýnna, en að það myndi koma að litlu haldi, þar sem hèr var alt undir því komið, að kunna vel til allrar hermensku á sjó. En herlið Rómverja á Sikiley var valið mjög, og eigi annað en rómverskir borgarar, sem höfðu það hugfast, að þeir börðust fyrir ættjörð sína og frægð Rómalýðs; herlið Kartagóborgarmanna, er þeir höfðu tekið á mála, var frá

ýmsum löndum; þó þeir menn fèlli, var skaðinn eigi svo mjög tilfinnanlegur, af því þeir voru útlendir menn, meðan nóg fè var fyrir hendi til þess, að taka aðra í þeirra stað, en ef fjárhyrzlur Kartagóborgarmanna eyddust, þá gat þeim verið hætta búin.

*Appíus Claudíus* vann sigur á mótstöðumönnum sínum, Kartagóborgarmönnum og Syrakúsverjum hjá Messanaborg, og litlu síðar keypti *Hiero* konúngur sèr grið og frið af Rómverjum, og gjörðist sambandsmaður þeirra; voru Rómverjar fúsir til þess sambands, því að það var siðvenja þeirra, að komast upp á milli óvina sinna, gjöra þá viðskila hvora við aðra og sundra þeim, og ná þannig yfirráðum yfir þeim. Að sönnu náðu Rómverjar undir sig mestum þeim hluta Sikileyjar, er Kartagóborgarmenn höfðu áður kastað eign sinni á, en með því að *Kartagó* var alt af ofjarl þeirra til sjáfar, og gjörði einalt árásir hèr og hvar á ströndum Ítalíu, þá sáu Rómverjar, að þeir myndu aldrei geta yfirstígið þá, nema þeir hefði skipaflota. Kartagóborgarmenn mistu herskip eitt við Ítalíustrendur, mikið skip og með fimm áraröðum. Rómverjar höfðu það til fyrirmyndar og smíðuðu hin fyrstu herskip sín eptir því, og á sextýgi dögum komu þeir sèr upp skipaflota, 100 fimmraða skipum og 20 þríraða skipum; æfðu fyrst menn sína við róður og önnur sjávarstörf upp í landsteinum, en síðan lètu þeir í haf til þess að mæta fjandmönnum sínum á rúmsjó. Skip Kartagóborgarmanna voru gángskip betri, og miklu liðugri í snúníngum en Rómverja, og gekk Rómverjum mjög illa, er þeim lenti fyrst saman. En sem *Cajus Dúilíus*, ræðismaður, tók við yfirstjórn flotans, tók hann það ráð upp, að við hafa stafnljái, og með þeim dró hann að sèr skip óvinanna, og hèlt þeim föstum meðan bardaginn stóð, og kom það þeim þá ekki að liði, þó þau væri liðugri í snúníngum en skip Rómverja. *Dúilíus* vann hinn fyrsta sigur á Kartagóborgarmönnum í sjóorustu norðurundan Sikiley, 260 árum f. Kr. Til heiðurs við Dúilíus, lètu Rómverjar gjöra súlu eina af marmara, og er enn nokkuð af henni til sýnis í Rómaborg, að því sem sagt er. Fjórum árum síðar átti *Marcus Atilíus Regúlus*, ræðismaður, fræga sjóorustu fyrir sunnan Sikiley við Kartagóborgarmenn; höfðu Rómverjar 330 skipa, en Kartagóarmenn 350; í þeirri orustu mistu Kartagóborgarmenn 114 skipa. Eptir þann sigur hèlt Regúlus suður um haf til Afríku, gekk þar á land og fór herskildi

yfir landið, alt þar til er hann var kominn í nánd við sjálfa Kartagóborg. þóttust borgarmenn eigi færir til mótvarnar og buðu sættir; en Regúlus setti þeim svo harða friðarkosti, að eigi var gángandi að þeim, og kusu þeir þá heldur, að verja hendur sínar. Regúlus bjóst að setjast um borgina. þá var þar í borginni maður einn spartverskur, sá hèt *Xantippus*, ágætur fyrirliði; hann gjörðist forríngi Kartagóborgarmanna, og á skömmum tíma hafði hann með ráðum og dáð komið þar fótum undir álitlegan her og öruggar varnir; lagði því næst til orustu við Rómverja og vann sigur og fekk tekið Regúlus höndum (255 f. Kr.). Frásagan um *Regúlus* og afdrif hans, eins og hinir rómversku sagnaritarar segja hana, er, ef til vill, eigi með öllu hin áreiðanlegasta, en þó gefur hún oss hugmynd um Rómverja, eins og margir þeirra merkustu menn voru á hetjuöld þjóðarinnar; ættjarðarástin var heit, trúin á goðina sterk, kjarkurinn óbifanlegur. það er sagt, að Kartagóborgarmenn hafi æskt friðar og sent menn til Róms, og *Regúlus* einn á meðal þeirra, til þess að semja um friðinn, en látið hann áður sverja þann eið, að hann skyldi aptur hverfa til Kartagóborgar, ef sættum yrði eigi á komið. Sendimenn komu til Róms og báru upp erindi sín, og hið rómverska ráð vildi taka sættum; en þá eggjaði *Regúlus* ráðherrana að sættast eigi, og sýndi fram á, að Kartagóarmenn væri þegar þrotnir að efnum, og ílla færir um, að eiga lengur í ófriði; kom hann svo sínum fortölum, að ráðið hafnaði öllum sáttaboðum. En *Regúlus* vildi eigi rjúfa eiða sína og sneri aptur til Kartagóborgar, hvað sem vinir hans og vandamenn sögðu, og þótt hann vissi, að hann ætti þar kaldri komu að fagna; er svo sagt, að þar hafi hann látið líf sitt við mikil harmkvæli.

Nú varð eigi hlè á ófriðnum fyrir það, þó Rómverjar færu óför þessa og mistu Regúlus, heldur var barizt sem áður, bæði á sjó og landi, og veitti ýmsum betur. En skömmu eptir þetta (249), beið *Claudíus Pulcher*, ræðismaður, mikinn ósigur í sjóorustu við Kartagóborgarmenn. Eignuðu Rómverjar það reiði goðanna; því að, áður en bardaginn hófst, leitaði ræðismaður að fornum sið frètta hjá hinum »helgu hænsnum«; þau vildu ekki eta, og þá er sagt, að Claudíus hafi reiðst og kastað þeim útbyrðis með þeim orðum: »vilji þau ekki eta, svo skulu þau þó drekka«. Nú voru Rómverjar því nær skipalausir, fjárhirzlur

ríkisins tómar, og enginn kostur að koma upp aptur skipaflota á þann hátt; en þá tóku einstakir menn það ráðs, að skjóta fè saman og koma nýjum flota á stofn, og sýndu Rómverjar þá sem optar mikla ættjarðarást og atorku og samheldi. Sá hèt *Lútazíus Catúlus*, og var ræðismaður, er settur var yfir flotann. Hann hitti herskip Kartagómanna fyrir vestan Sikiley við *Ægates*-eyjar, og vann þar frægan sigur (242). Voru Kartagóborgarmenn svo aðþrengdir, að þeir urðu að taka þeim friðarkostum, sem Rómverjar settu. Komst þannig friður á ári síðar (241), en skilmálar voru þessir: Kartagóarmenn skyldu rýma Sikiley og allar eyjar milli hennar og Ítalíu, láta *Hieró* konúng í Sýrakúsborg óáreittan, skila aptur öllum rómverskum mönnum herteknum, án alls endurgjalds, og greiða Rómverjum þar á ofan ærna mikið fègjald. Þannig varð mestur hluti Sikileyjar rómverskt skattland undir yfirstjórn hins rómverska ráðs (*senatus*); að eins Sýrakúsborg hafði um tíma eins konar sjálfsforræði. Skömmu síðar (235) tóku Rómverjar *Sardinarey* frá Kartagóborgarmönnum, er þá gátu eigi við snúizt, sökum óeirða heima fyrir, sem málalið þeirra hafði vakið. Þá náðu og Rómverjar *Korsíkuey* undir sig, og af öllu því, er nú var sagt, var það auðsèð, að hið fyrsta púnverska stríð, sem nú var á enda kljáð, var að eins upphaf þeirrar ógna-miklu styrjaldar, er lykta skyldi með því að sýna mönnum, hverjir vera skyldu einvaldar á Miðjarðarhafinu og yfir löndum þeim, er að því liggja öllumegin.

## Viðburðir milli hins fyrsta og annars púnverska stríðs.

1. *Ófriður við Íllyríumenn* (230—228 f. Kr.). Landið fyrir austan Adríahaf gagnvart Ítalíu, sunnan frá Epírus og norður að hafsbotni, hèt *Íllyría*. Landsmenn voru víkíngar miklir, og veittu Grikkjum og Rómverjum þúngar búsifjar. Um þessar mundir stýrði drotníng sú landi þessu, er *Tevta* hèt. Rómverjar sendu menn til fundar við hana, og beiddust þess, að víkíngar af ríki hennar gerðu sèr engan óskunda, en fengu litla áheyrzlu, og einn af sendimönnum var veginn í þeirri för. Þótti Rómverjum sèr misboðið með þessu, sem von var, og sögðu Íllyríumönnum stríð á hendur; lauk þeim ófriði þannig, að drotníng misti mikinn hluta ríkisins undir Rómverja, gjörðist þeim skattskyld, og varð

að heita þeim því, að Íllyríumenn skyldu láta af allri víkíngu og ránskap. þessi sigur Rómverja á Íllyríumönnum vakti mikla eptirtekt Grikkja á Rómverjum.

2. *Ófriður við þjóðir í Gallía cisalpína* (226—222 f. Kr.) Norðantil á Ítalíu bjuggu gallverskar þjóðir, er komnar voru norðan um fjöll (Alpes eða Mundíafjöll), og sezt höfðu að í hinum fögru og frjófsömu hèruðum fyrir sunnan fjöllin. þegar tímar liðu fram, tóku þessar gallversku þjóðir að gjörast afskiptasamar um málefni manna á Ítalíu, og stóð Rómverjum eigi alllítill stuggur af því; voru þeir einkum hræddir við, að veldi sínu og yfirráðum í Etrúríu væri hætta búin. Rómverjar höfðu áður tekið lönd undan *Senóna-Göllum* (það er austur undir Adríahafi), og þar vildu þeir nú setja rómverska nýlendumenn, til þess að vera jafnan til taks til þess að halda Göllum í skefjum. En sem Gallar vissu það, hugðu þeir að Rómverjar myndu vilja rýma sèr alveg burtu af Ítalíu, og gripu til vopna móti Rómverjum, og fengu liðsafla mikinn hjá Göllum frændum sínum fyrir norðan fjöllin. Nú var bæði, að Gallar voru mjög voðalegir, og hins vegar jókst veldi Kartagóborgarmanna vestur á Spáni, svo að undrum gegndi, enda höfðu Rómverjar stórkostlegan viðbúnað, að því er sagnaritendur segja. Laust þá upp ófriðnum með Rómverjum og Göllum; fóru Gallar halloka, en Rómverjar unnu mest öll lönd undan þeim fyrir sunnan fjöllin. Hinir rómversku hershöfðíngjar *Cajus Flaminíus* og *Marcus Claudíus Marcellus* urðu þá frægir af framgöngu sinni. Til þess að tryggja landið, settu Rómverjar þar á stofn tvær nýlendur, í *Placentía* og í *Cremóna*. En öllum þeim hèröðum, er þeir þá unnu undan Göllum, gáfu þeir eitt nafn, og kölluðu *Gallía cisalpina* (hèðari Gallía).

## Hanníbal.

(Hið annað púnverska stríð, 218—201 f. Kr.).

þess er áður getið, að ófriðnum milli Rómverja og Kartagóborgarmanna (hinu fyrsta púnverska stríði) lauk svo, að Rómverjar báru hærra hlut, en Kartagóborgarmenn urðu að lúta þeim. En vegur og viðgángur Kartagóborgar var allur undir því kominn, að verzlun hennar gæti þrifizt, og meðan því fór fram, og meðan hún gat eflzt að nýlendum, og verzlunin þannig aukizt, þá gátu Kartagóborgarmenn alt af gjört sèr von um, að geta staðið

jafnfætis Rómverjum. Fyrir því sneru þeir huga sínum til Spánar, og þóttust þar mundu geta unnið það aptur að fullu, er þeir höfðu mist, þar sem bæði Sikiley og Sardinía voru undan þeim gengnar. Á Spáni höfðu *Föniciumenn*, forfeður þeirra, átt mikla og arðsama verzlun, og Kartagóborgarmenn höfðu fyrir löngu sett þar nokkrar nýlendur, og auðgast talsvert af verzlunarviðskiptum við Spánverja. Um þessar mundir var sá maður uppi í Kartagóborg, er *Hamilcar* hèt, hann þótti ágætur hershöfðingi, og var frægur orðinn af viðureign sinni við Rómverja í hinu fyrsta púnverska stríði. Hann gjörðist yfirforingi Kartagóarmanna á Spáni, og lagði allan hug á, að leggja alt landið undir sig, enda fekk hann mikið aðgjört þau níu ár, er hann hafði þar herstjórn (237—228). En þá fèll hann í orustu. Dótturmaður hans *Hasdrúbal*, einnig hinn nýtasti maður, tók þá við herstjórn og hèlt hinu sama fram, sem formaður hans, og lagði margar sveitir undir sig á Spáni og bygði borg þá, er hèt *Kartagó hin nýja* (Carthagena); þar voru námar miklir í nánd, og fengu Kartagóborgarmenn þaðan ógrynni silfurs. Nú fór Rómverjum að lítast ílla á yfirgáng Kartagóborgarmanna, en áttu þá einmitt í ófriði við Galla og höfðu fult í fángi; gátu því eigi öðruvísi við snúizt en svo, að þeir gjörðu svofeldan samníng við Hasdrúbal: að Kartagóborgarmenn skyldu eigi leggja lönd undir sig á Spáni lengra norður en að Ebrófljóti, og eigi heldur áreita *Saguntborg* (nú *Murviedro* í Valenzía); þar bjuggu bandamenn Rómverja. Á þeim tímum var flokkur manna uppi í Kartagóborg, er fylgdi því fastlega fram, að sá eini vegur til þess að geta átt blómlega verzlun og auðgast til muna væri, að eiga í ófriði við Rómverja og geta yfirstigið þá; leituðu þeir því allra bragða til þess að geta fengið höggstað á þeim. Helztu oddvitar þessara manna voru þeir mágar, Hamilcar og Hasdrúbal. Þá er Hamilcar fór yfrá Spán var *Hannibal* sonur hans níu vetra gamall; er þá sagt, að hann hafi beðið föður sinn, að hann mætti fylgjast með honum, og hafi Hamilcar leyft honum það með því skilyrði, að sveinninn skyldi áður fyrir altari guðanna sverja þann eið: að hann skyldi vera óvinur Rómverja til dauðadags. Hannibal fór nú með föður sínum, og ólst upp við herinn, og vandist þar snemma við þrautir og mannhættur. Eptir fall föður síns sneri hann heim aptur til Kartagóborgar, en bráðum komu þau

boð frá Spáni, að Hasdrúbal mágur hans, þyrfti hans þar við. Fór Hannibal þá aptur norður þángað til hersins, þó að hinir gæflyndari menn í Kartagó vildu það síður, því að þeim leizt svo á Hannibal, sem hann myndi verða ærið framgjarn, og þótti þeim þá lítil von kyrðar og friðar. Nú kom það fyllilega fram, sem þá grunaði. Hinn úngi maður varð brátt átrúnaðargoð herliðsins, enda hafði hann alla þá kosti til að bera, er prýða mega ágætan hershöfðíngja. Hann var allra manna hugprúðastur, en í hversu miklum háska, sem hann var staddur, þá varð honum aldrei ráðafátt; það var eins og hann þyldi allar þrautir og alla áreynslu bæði á líkama og sálu; hvort það var brennandi hiti, eða bitur kuldi, stóð honum á sama; sællífi og munaður höfðu engin áhrif á hann; í hvaða þrautir sem liðsmenn hans komust, þá tók hann jafnan þátt í með þeim; enginn gat ætlað á, hvenær hann svæfi eða vekti; margopt svaf hann úti undir berum himni meðal varðmanna sinna; lagðist hann þá til svefns á jörðina, þar sem hann var staddur, og hafði eigi annað yfir sèr en kápu sína; af klæðaburði þektist hann eigi frá liðsmönnum sínum, en hestur hans og vopn lýstu því einúngis, að hann var hershöfðíngi. Hann var jafnan fremstur, er orusta tókst, og síðastur af vígvelli, er orustunni var lokið. Þannig lýsir hinn rómverski sagnaritari *Livíus* manni þessum, er verið hefir einn hinn ágætasti hershöfðíngi, frá því er sögur hófust. En Hannibal var engu minni maður í friði en stríði; hann var afbragðs stjórnvitríngur, og alt litur að því, að hann hafi verið fremstur sinna samlanda í öllum vísindum. Þegar hann átti í sem mestum kröggum og mannraunum á herferðum sínum á Ítalíu, þá lagði hann sig eptir grískum bókmentum af miklum áhuga.

Nokkrum tíma eptir að Hannibal var kominn til Spáns, var Hasdrúbal mágur hans veginn af gallverskum manni. Hannibal var þá vart 25 ára, og kaus herinn hann jafnskjótt til yfirforíngja, en sú kosníng var þegar samþykt í Kartagóborg.

Það hafði verið ráð föður hans, að hefja engan ófrið beinlínis gegn Rómverjum, fyr en alt væri áður vel undir búið, og alt annað vel trygt á Spáni. Þessu ráði fylgdi Hannibal dyggilega. Og með því nú, að Kartagóborgarmenn höfðu lagt alt land á Spáni undir sig norður að Ebrófljóti, þá rèðst Hannibal á Sagúntsborg, er var fyrir sunnan fljótið. Rómverjar sendu þegar

menn á fund hans, og vildu telja hann af því; en Hannibal gaf því engan gaum og tók borgina eptir 8 mánaða umsát. Rómverjar leituðu því næst skaðabóta í Kartagó, en það kom fyrir ekki. Í ráðinu í Kartagóborg hafði sá flokkurinn öll yfirráðin, sem helzt vildi ófrið við Rómverja. Þannig hófst *hið annað púnverska stríð* (218—201 f. Kr.).

Það var ráð Hannibals, að brjótast austur um Gallíu og gjöra Rómverjum sjálfum heimsókn á Ítalíu. Það var djarft ráð, en Hannibal samboðið. Leiðin var bæði löng og erfið: yfir tvo hina hæstu fjallgarða í Norðurálfu (Pyreneafjöll og Alpafjöll); yfir stórar ár og straumharðar; um eintómar vegleysur, í alsendis ókunnum löndum, þar sem óvinveittar þjóðir voru til beggja handa. Þessi leið þykir jafnvel á vorum dögum allerfið, eptir alt sem gjört hefir verið, til að kynna mönnum löndin, og gjöra samgöngur greiðari milli þjóðanna. Um sumarið (218 árum f. Kr.) lagði Hannibal upp frá Nýju-Kartagó með 50000 fótgönguliðs, 9000 riddara og 37 fíla, en setti *Hasdrúbal* bróður sinn til landvarnar á Spáni. Mestur þorri liðsmanna hans var óvanur frosti og kulda, og þoldi hvorttveggja ílla; fílarnir stirðir til snúnínga, og ílla farandi með þá nema á slèttlendi; veturinn fór í hönd. Alt þetta hlaut að gjöra slíka för mjög torsótta og hættulega; en Hannibal lèt engar torfærur aptra sèr. Með því að fara þessa leið, en ekki aðra, sá hann, að hann mundi geta komið á óvart Rómverjum, og hleypt hinum hergjörnu Göllum upp til ófriðar móti þeim; og tækist honum að vinna Ítalíu, þá var yfirráðum Rómverja lokið, en Kartagóborgarmenn orðnir fremstir allra þjóða. En þó hann berðist við Rómverja vestur á Spáni, og þó hann ynni sigur á þeim þar, þá þóttist hann litlu nær fyrir það. Nú heldur Hannibal liðinu öllu norður yfir Pýreneafjöll og austur á Gallíu; komu þar ýmsar þjóðir á móti honum, og vildu banna honum leið, en hann barði þær allar af höndum sèr. En sem Rómverjar frèttu til ferða Hannibals, sendu þeir hershöfðingja þann, er *Públíus Cornelíus Scipió* hèt, með her manns til Gallíu, og skyldi hann gjöra Hannibal fyrirsát; en Hannibal komst fram hjá Rómverjum, og mistu þeir hans þannig. Því næst hèlt hann austur yfir *Rhódanusfljót,* og upp með á þeirri, er *Íser* heitir, og fellur í Rhódanus. Eptir það lagði hann upp á Alpafjöll; eru þau bæði afarhá og eptir því brött og ill yfirferðar, en jöklum

þakin hið efra; var það hin mesta mannhætta fyrir menn og skepnur, að brjótast áfram um slíkur vegleysur í íllviðrum og frosthörkum; fèllst þá öllum hugur nema Hannibal einum, enda týndist þar margt manna af liði hans. Fimtán daga var hann á leiðinni yfir fjöllin. En er hann komst niður í dali á Ítalíu, voru 5 mánuðir liðnir frá því, er hann lagði upp frá Nýju-Kartagó á Spáni. Kannaði hann nú liðið, og voru þá orðnar einar 26000 manns eptir af 59000, en fílar hans því nær allir dauðir. Eptir fárra daga hvíld rèðist hann á þjóð þá, er þar bjó fyrir í landinu, og hètu *Taurínar,* vann sigur á þeim og tók höfuðborg þeirra *Túrín;* þótti landsmönnum vogestur mikill kominn í bygðina, og hrukku undan víðs vegar, en sumir gengu honum til handa.

Nú er að segja frá Rómverjum. Þá er Scipió hershöfðíngi varð þess vísari, að Hannibal var kominn fram hjá honum í Gallíu, hèlt hann tafarlaust aptur sjóleið til Ítalíu, og sameinaði sig herflokkum þeim, er Rómverjar höfðu norður við *Pófljót,* og bjóst þar fyrir til þess að taka móti Hannibal, þá er hann kæmi suður yfir Alpafjöllin. Varð fundur þeirra við *Ticínusfljót* (*Tessin*), skamt þaðan sem *Pavíaborg* stendur (218 f. Kr.). Riddaralið Hannibals sótti þar fram, er bogmenn Rómverja stóðu fyrir, og snerust þeir þegar á flótta. Fekk Hannibal þar ágætan sigur, en Scipió varð mjög sár, og hefði verið hertekinn, ef sonur hans 16 ára, sá er seinna varð svo frægur í stríði þessu, hefði eigi borgið honum. Eptir þessa orustu gengu ýmsar þjóðir Galla á Norður-Ítalíu til liðs við Hannibal. Lètu Rómverjar nú undan síga suður fyrir *Trebíafljót.* Þar höfðu Rómverjar aðra herflokka, og stýrði *Tíberíus Semprónius Longus,* ræðismaður, þeim liðsafla. Hannibal hèlt þegar suður þángað til móts við þá. Hinir rómversku hershöfðíngjar urðu eigi ásáttir; vildi Scipió eigi að svo stöddu leggja aptur til orustu við Hannibal, en Semprónius vildi fyrir hvern mun berjast, og vinna sèr til frægðar, áður Scipió væri gróinn sára sinna. Það var einmitt eins og Hannibal vildi. Með brögðum fekk hann gint Semprónius úr herbúðum sínum norður yfir *Trebíafljót*; tókst þar orusta með þeim, og vann Hannibal mikinn sigur á Rómverjum (218). Þar við fljótið lèt Hannibal fyrirberast um veturinn, og gjörði sèr alt far um, að komast í vinfengi við hinar ítölsku þjóðir, og gjöra þær Róm-

verjum fráhverfar; tókst honum það aðdáanlega vel; en sú var fyrirætlan hans, að gjöra Rómverja viðskila við alla þeirra bandamenn, og síðan kúga að fullu hina dramblátu Rómaborg, er hún stæði ein uppi, og hefði engrar hjálpar að vænta frá öðrum þjóðum. Jafnskjótt sem veður leyfði, hèlt hann liði sínu suður á *Etrúríu-sveitir,* og valdi þá leiðina sem skemri var austur með *Arnófljóti,* og fyrir norðan það; voru þar mýraflóar miklir og mjög íllir yfirferðar, og týndust þar bæði margir menn og hestar í þeim foræðum, en Hannibal sjálfur varð blindur á öðru auga, og kendu menn það volki og vosbúð og óheilnæmu loptslagi á mýrlendinu. Suður við *Trasímenus-vatn* (Lago di Perugia) hitti hann rómverskt herlið. Foríngi þess hèt *Cajus Flaminíus,* ræðismaður, mikill óvinur öldúngaráðsins og höfðíngjanna í Rómaborg, en vinur lýðsins, og vildi sem hann enda allan ófrið við Hannibal með einni stórorustu; en Hannibal var ekki hans meðfæri. Hann lèt Hannibal ginna sig inn í dal þann, er Trasimenusvatn er í, og luktur er háfum fjöllum; þar kvíaði Hannibal Rómverja og barðist við þá; vörðust þeir af mikilli hreysti, en svo lauk, að Flaminíus fèll og nálega hver maður með honum. Meðan bardaginn stóð, varð jarðskjálfti mikill í því bygðarlagi, en enginn veitti honum eptirtekt; svo börðust menn af miklum ákafa (217 f. Kr.).

En þrátt fyrir allar þessar ófarir lètu Rómverjar eigi hugfallast, því að það var einkenni þeirra, að þegar hættan þrengdi hvað mest að þeim, þá lögðu þeir fram allan þann þjóðmetnað, alt það þrek og þol, sem þeim var gefið, og sem leiddi til þess, að þeir urðu að lokum yfirdrotnar allra þjóða. Fyrir því tóku þeir nú það til bragðs, sem vant var að gjöra, þegar stórkostleg vandræði bar að höndum, og það var, að taka *alræðismann* (*Dictator*) yfir sig. Sá maður hafði fullkomið einvald yfir öllum málefnum þjóðarinnar, og meðan hann sat að völdum gætti eigi annara embætta; þau láu sem í dái á meðan; allur flokkadráttur hvarf, og alt sameinaðist undir stjórn hans eins, gegn þeirri þjóðhættu, er yfir vofði. Ráðið kaus nú til þeirra valda mann þann, er hèt *Qvintus Fabius Maximus;* hann var kunnur að dugnaði og viturleik og stillíngu, og þeim kostum varði hann ágætlega í þarfir fósturjarðar sinnar. Jafnskjótt sem hann hafði tekið við völdum, gaf hann Rómverjum það ráð, að leita hjálpar

og trausts hjá hinum ódauðlegu guðum, hèt sjálfur að færa þeim ríkuglegar fórnir, og gekk hvervetna á undan löndum sínum með fögru eptirdæmi. því næst sneri hann sèr að Hannibal, en á alt annan veg, en fyrirrennarar hans höfðu gjört. þeir höfðu, að því er honum þótti, farið að öllu af-rasanda ráði, en það var ekki að hans skaplyndi. Hann sá glögt hverjum brögðum Hannibal hafði beitt; hann sá þá fyrirætlan hans, að vèla alla bandamenn burt frá Rómverjum, og að hann hafði vaxið í augum þeirra við hvern sigur, er hann hafði unnið; hann sá, hver afbragðshershöfðingi Hannibal var, og að sèr var ofvaxið að jafnast við hann að herkænsku; fyrir því vildi hann aldrei leggja til orustu við hann. þegar Hannibal hèlt kyrru fyrir, sat Fabíus í herbúðum sínum víggirtum og bærði ekki á sèr; þegar Hannibal hreifði sig eitthvað, veitti Fabius honum eptirför með mestu hægð og varúð, og fór hið efra með fjöllum; en hvenær sem hann sá sèr fært, gjörði hann Hannibal alt það ógagn, er hann kunni. Með þessari aðferð jókst mönnum Fabiusar hugur, en álit Kartagóborgarmanna tók heldur að þverra meðal þjóðanna á Ítalíu, því að þegar alt gekk í þessu þófi fyrir Hannibal og hann vann eigi sigur, þá þótti þeim sem honum færi nú aptur; hins vegar týndu hinir fornu og margþvældu liðsmenn hans smámsaman tölunni, í sífeldum smáorustum og við sífelt andstreymi og áreynslu, en nýjir og óreyndir menn komu í þeirra stað. Hannibal sá þetta alt fullvel og reyndi á allar lundir, að ginna Fabíus ofan úr fjöllunum til orustu við sig; og allflestir meðal Rómverja gjörðu gis að Fabíusi og kölluðu háttalag hans ragmennsku og ýmsum háðslegum nöfnum; en Fabius lèt sem hann heyrði eigi slíkt, og fór sínu fram, hvað sem hver sagði. Menn gáfu honum kenningarnafn og kölluðu *Cunctator* (þ. e. hægfari). Í þessu þófi áttu þeir lengi Hannibal og Fabius. Einhverju sinni var það, að Hannibal ætlaði yfir fjöllin milli Campaníu og Samnium. Fabius vissi þá sem optar hvað honum leið, og var þar fyrir með liði í skarði því, er Hannibal ætlaði að fara, og vildi banna honum leiðina. Þá tók Hannibal það til bragðs, að hann lèt smala nautahjörð mikilli; þegar nótt var komin, lèt hann binda hrísbirðar ofan á milli horna nautunum, leggja síðan eld í hrísið og reka nautin í skarðið. þeir, er í fyrirsátinni voru, sáu eldinn og ætluðu að

þar mundi Hannibal geysa fram, og snerust allir þángað, en á meðan slapp Hannibal fram hjá þeim yfir skarðið.

*Minúcius* er maður nefndur, hann gekk næstur Fabíusi að völdum og stýrði riddaraliði hans (magister equitum), ötull maður og framgjarn; hann fekst einna mest um seinlæti Fabíusar, og lýðurinn í Rómaborg var honum samdóma að því leiti, og loks kom þar, að Fabíus varð að leggja af við Minúcius hálf herveldin. En er Minúcius hafði fengið þau yfirráð í hendur, lagði hann jafnskjótt til orustu við Hannibal; sneri þá brátt mannfallinu í lið Minúciusar, og myndi útgjört um hann, ef Fabius hefði þá eigi komið honum til liðs. Lèt Hannibal þá undan síga, en sagði svo: »mig grunaði lengi, að úr sorta þeim, er jafnan hefir legið á fjöllunum, myndi fyr eða síðar koma íllviðri«. En það er frá Minúciusi að segja, að hann fekk Fabíusi aptur í hendur þann hluta hervaldsins, sem hann hafði eigi kunnað með að fara, og lèt sèr síðan nægja þau yfirráð, er hann áður hafði.

Þá er Fabíus hafði verið alræðismaður Rómverja um ákveðinn tíma lagði hann völdin niður, en þó var þeirri hernaðaraðferð fylgt um stund, sem hann hafði fyrstur upp tekið gegn Hannibal. Árið 216 f. Kr. urðu þeir ræðismenn, *Æmilíus Paulus* og *Terentíus Varró*. Hinn fyrri var frægur af hernaði sínum á Íllyríu, og hafði unnið það land undir Rómverja; hann var vitur maður og stiltur vel, og vildi haga öllu sem líkast því, er Fabíus hafði gjört; hinn síðari var ákafamaður mikill og framhleypinn. Ræðismenn þessir hèldu nú suður á Apúlíu (Púl) til móts við Hannibal, og höfðu 80000 fótgönguliðs og 6000 riddaraliðs; var það miklu meiri liðsafli, en Hannibal hafði, en þó hann væri liðfærri, þá var sá munurinn, að bæði var það Hannibal, sem hernum stýrði sín meginn, og svo voru ræðismennirnir mjög sundurþykkir sín í milli, og tvískiptist þannig herstjórn Rómverja. Hannibal hafði nýtekið nokkur forðabúr frá Rómverjum, en þó tóku vistir að þverra fyrir honum, og vildi hann því gjarnsamlega, að til orustu kæmi. Honum var kunnugt um ákafa og framhleypni Varrós, enda beitti hann öllum brögðum til þess, að koma honum til að berjast við sig. En hversu fastlega sem Æmilíus Paulus stóð á móti því, að barizt væri, þá varð það þó framgengt sem Varró vildi, og Rómverjar fylktu liði sínu til orustu á völlum nokkrum hjá *Cannæ-þorpi*. *Hannibal*

gjörði þá fylkíngaskipan á liði sínu, að hann setti liðsmenn frá Afríku, þá er hann treysti bezt, í báða fylkíngararma, en fylkíngarbrjóstið lèt hann vera þunnskipað. Þessu næst tókst hin víðfræga orusta. Rómverjar rèðust á fylkíngarbrjóst Hanníbals og rofnaði það þegar fyrir, en þá gjörðu fylkíngararmar hans hart áhlaup á báðar hliðar Rómverjum, og riddaralið Hannibals geystist fram að baki þeim; gjörðist þá ógurlegt mannfall í liði Rómverja, og svo lauk, að þar fèllu 45000 Rómverja, þar á meðal 80 riddarar og fjöldi manna af hinum göfugustu ættum í Rómaborg; höfðu Rómverjar aldrei beðið slíkan ósigur. Það er mælt, að eptir þessa orustu hafi Hannibal sent til Kartagóborgar tvö mæliker full af gullhríngum þeim, er hinir rómversku höfðíngjar höfðu borið. Þar fèll *Æmilíus Paulus* hershöfðíngi við ágætan orðstýr, en Varró ræðismaður komst á flótta undan við nokkra riddara.

Eptir orustuna við *Cannæ* var vegur Hannibals sem mestur; flokkur sá í Kartagó, er jafnan hafði kosið frið fremur en ófrið, varð nú að draga sig í hlè, og Hannibal var nú loksins heitið liðsafla þeim, er hann svo lengi hafði um beðið. Mörg fylki og borgir á Ítalíu gjörðust nú vinir og sambandsmenn Hannibals, — þar á meðal hin auðga *Capúaborg,* — og nú var eigi annað sýnna, en að hann myndi þá og þegar setjast um Rómaborg. En hann átti hèr í höggi við þá þjóð, er aldrei var óttalegri en þá, er að henni þrengdi sem mest. Þegar Varro kom af flóttanum til Róms, gekk ráðið í móti honum og þakkaði honum, að hann hefði eigi örvænt um efni þjóðarinnar. Sendiboðar þeir, er Hannibal sendi til Róms í þeim erindum, að semja um útlausn hertekinna manna, voru ekki virtir viðtals; friðarkostum þeim, er hann bauð, var enginn gaumur gefinn; alræðismaður var að nýju kosinn; þrælar voru teknir og vopnaðir og sendir til hersins; og, til þess engu væri gleymt, þá var mönnum fórnað í því skyni að mýkja reiði guðanna. Þó var, eins og að líkindum lætur, ráð margra mjög á reiki í borginni um þessar mundir, en henni varð það, ef til vill, helzt til bjargar, að Hannibal rèðst eigi þá þegar á hana, því að honum þótti enn eigi tími til þess kominn. Ófriðnum gegn Hannibal var því haldið áfram eins og áður, og smásaman fóru Rómverjar, að venjast hernaðaraðferð hans og, betur en áður, að sjá við kænskubrögðum hans.

9

*Claudius Marcellus* hèt einn ágætur rómverskur hershöfðíngi, er frægur var orðinn af framgöngu sinni móti Göllum; og hefir hann verið kallaður sverð Rómverja, en *Fabíus* skjöldur. Rómverjar sendu Marcellus með her manns til *Sikileyjar* fyrir þá sök, að *Sýrakúsborg* hafði skorizt úr sambandi við þá, eptir lát *Hierós* konúngs, og gjörzt vinveitt Hannibal; varð borgin Rómverjum eigi auðunnin, og sat Marcellus um hana svo árum skipti. Hinn nafnfrægi spekíngur *Archimedes* var uppi á þeim tímum og þar í borginni; hann styrkti borgarmenn á marga vegu með valslöngum og margskonar vígvèlum, er hann bjó til af hugviti sínu, og sem gjörðu Rómverjum mikið ógagn. Loks náði Marcellus borginni (212 f. Kr.), og leyfði liðsmönnum sínum, að rupla hana og ræna. Þá er sagt, að einn rómverskur hermaður kæmi þar að, er *Archimedes* var að draga upp myndir í sandi á gólfinu, og hafi þá spekíngurinn sagt: »hirð eigi að skemma hrínga mína«! en maðurinn veitti honum banasár. Skömmu síðar náðu Rómverjar *Capúaborg,* þrátt fyrir allar tilraunir Hannibals að sporna við því. Tók honum nú að veita erfitt uppdráttar á Ítalíu, einkum fyrir þá skuld, að hann fekk enga liðveizlu, hvorki frá Spáni eða heiman frá Kartagó. Lèt hann nú fyrirberast sunnantil á Ítalíu, en sökum mannfæðar og skorts á öllu, er hafa þurfti til hernaðar, var nú svo komið, að miklu fremur mátti kalla vörn en sókn af hans hendi.

Af því, sem nú var sagt, er það auðsèð, að Rómverjum var farið að vegna mun betur en áður heima á Ítalíu, en þó kvað miklu meira að framkvæmdum þeirra og framgöngu á Spáni. Þar var kominn nýr hershöfðíngi til sögunnar, *Públius Cornelius Scipió,* sá er fyr er getið að bjargaði föður sínum í orustunni við Ticínusfljót. Með afbragðs viturleik og hreysti tókst honum að sigrast á Kartagóborgarmönnum á Spáni, og með mildi sinni og mannúð varð hann mjög vinsæll þar í landi. Á árunum 211—206 f. Kr. vann hann því nær allan Spán af Kartagóarmönnum undir Rómverja. Sigursæld Scipiós á Spáni olli því, að Kartagómenn sáu sèr eigi fært að senda þaðan lið til styrktar við Hannibal, svo mjög sem hann þó þurfti þess við, fyr en seint og síðar meir, að *Hasdrúbal* bróðir hans brauzt með allmiklu liði, því nær sama veg sem Hannibal hafði farið, en þó á skemri tíma, austur á Ítalíu; komst hann klaklaust suður yfir Alpafjöll og alt

suður á Úmbríusveitir; það er skamt fyrir norðan Rómaborg; var nú við sjálft búið, að þeir bræður myndu eptir mörg ár hittast á Ítalíu og sameina lið sitt; en það átti eigi að verða. Rómverjar höfðu í það mund aðalherinn á tveim stöðum. Annar herinn var norður í Úmbríu, undir forustu *Livíusar* ræðismanns, og átti að koma í opna skjöldu Hasdrúbal, er hann kæmi að norðan. Hinn var suður á Apúlíu og gætti Hannibals; fyrir þeim hernum var *Claudíus Neró,* ræðismaður; var því ærið lángt milli hverratveggja. Þá var það, að Neró hugsaðist það snjallræði, að fara til móts við Livíus með liði sínu, og ráðast þannig með öllum liðsafla þeirra beggja á Hasdrúbal og vinna á honum að fullu, áður hann næði að sameinast við Hannibal. Lætur Neró nokkurn hluta liðsins vera eptir, til þess að villa sjónir fyrir Hannibal, en heldur sjálfur með meginherinn norður í land, og fer náttfari og dagfari, og hittir þá Livíus að fárra daga fresti, og komu Hasdrúbal engar njósnir af ferðum hans eða fyrirætlan. Tókst því næst orusta mikil með Rómverjum og Hasdrúbal, og lauk svo að Rómverjar fengu sigur, en Hasdrúbal fèll og mestur hluti hans manna. Var hann sagður ágætur hershöfðingi og líkur föður sínum og bróður að vitsmunum og hreysti. Það var í nánd við borg þá, er Sena hèt, er þeir börðust (209 árum f. Kr.). Sagt er að Rómverjar hafi fært Hannibal höfuð bróður sins, og hafi hann þá komizt svo að orði: »nú sè eg forlög Kartagóborgar«!

Litlu síðar en tíðindi þau urðu, er nú voru sögð, sneri *Scipió* heim til Róms, eptir að hafa unnið sigur á Kartagóborgarmönnum vestur á Spáni, og náð því landi undir yfirráð Rómverja. Gaf hann þá það ráð, að sendur væri her manns suður til Afríku, og sótt heim Kartagóborg, myndi þá Hannibal verða tilneyddur að fara burt af Ítalíu. Reynslan hafði áður sýnt, að slík heimsókn var Kartagóborgarmönnum mjög hættuleg; þar var liðfátt fyrir, en eigi auðgjört í snöggu bragði að safna að sèr leiguliði. Scipió hafði og, meðan hann var á Spáni, gjört samband við *Masínissa* Númidíukonúng, mikinn óvin Kartagóborgarmanna, og taldi sèr vísa von öruggrar liðveizlu af hans hendi, ef ráðizt væri á Kartagóborg. En þeir, sem þá rèðu mestu í Rómaborg, tóku á því ólíklega og kölluðu óráð; og *Fabius* gamli (*Cunctator*), sem jafnan vildi fara gætilega, stóð manna fastast í móti þessari fyrirætlan Scipiós. Þó kom þar að

Scipió var fengin Sikiley til forráða, og mætti hann þaðan fara herför til Afríku, ef til hags þætti vera fyrir Rómverja, en á-byrgjast skyldi hann sjálfur öll afdrif af för þeirri.

Þegar Scipió hafði búizt svo fyrir á Sikiley, sem honum þótti viðþurfa, hèlt hann liði sínu (204 f. Kr.) til Afríku, en Masínissa konúngur kom til móts við hann með allmiklu liði. Kartagómenn sendu þegar lið í móti þeim; varð þar orusta og fekk Scipió sigur; sveimaði hann nú yfir landið og fóru landsmenn alstaðar halloka fyrir. Sló nú ótta miklum á Kartagóborgarmenn, og kom að því, er Scipió hafði sagt, að þeir urðu að gjöra Hannibal orð og biðja hann koma sem skjótast, því að þar var nú öll þeirra von sem hann var. Hann sat kyr, eins og áður er sagt, á Ítalíu. Og svo liðfár sem hann var og fèlaus og aðþrengdur á allar hliðar, þá stóð þó Rómverjum svo mikill ótti af honum, að aldrei þorðu þeir á hann að ráða; og þó liðsmenn hans væri samtíníngur af ýmsum þjóðum, er hver var annari ólík að túngumáli, vopnaburði, siðum og trúarbrögðum, skorti tíðum mála og jafnvel vistir, og þar á ofan í óvina landi; þá er þess aldrei getið, að nein hin minsta uppreist yrði í herbúðum hans. Má af slíkum hlutum ráða hvílíkur afbragðsmaður Hannibal hefir verið. En nú var störfum hans lokið á Ítalíu, og, eptir að hafa verið þar 16 ár, sneri hann aptur heim á leið til Kartagóborgar dapur í huga. Hann mætti Scipió í nánd við bæ þann, er *Zama* heitir; þaðan eru því nær 5 dagleiðir til Kartagóborgar. Hanníbal sá, að ef hann biði ósigur, þá myndi útgjört um ættjörð sína, fyrir því vildi hann freista, hvort sættum yrði eigi komið á með þeim Scipió; mæltu þeir þá mót með sèr til viðtals. Þegar fundi þessara tveggja manna bar saman, er hvorigur hafði annan áður sèð, og sem eflaust voru hinir mestu afbragðsmenn allra þeirra manna, er þá voru uppi, þá er sagt, að þeir hafi virt hver annan fyrir sèr um hríð og ekki talað orð. *Hannibal* tók fyr til máls og leiddi *Scipió* fyrir sjónir, hve brígðlynd hamíngjan væri, og sannaði með því, er fram við hann sjálfan hefði komið, og rèð honum til að taka sættum og gánga að þeim friðarkostum, er hann nú vildi bjóða honum, og sem vel mátti kalla góða fyrir Rómverja. En *Scipió* vildi eigi þeim kostum taka, því að honum bjó það eitt í skapi, að yfirlykí með þeim, og að Kartagóborg yrði til fulls á knè komið; var

þá engi annar kostur en að berjast; tóku nú hvorirtveggju að fylkja liði sínu. *Scipió* fylkti þannig sínum mönnum, að þeir stóðu í smáflokkum og alstaðar bil á milli, til þess að fílar Hannibals gætu gengið þar inn á milli, og mætti þannig umkríngja þá, án þess að rjúfa fylkíngar. Hannibal setti hið ítalska málalið í öndverða fylkíngu, er taka skyldi móti hinu fyrsta áhlaupi Rómverja; en í hinni aptari fylkíngu stóðu Afríkumenn, er hann treysti betur en málaliðinu, og sem áttu að stöðva málaliðið, ef það snerist á flótta. Því næst tókst hin nafnfræga orusta við *Zama* 201 f. Kr. Rómverjar æptu heróp og gjörðu herblástur mikinn, urðu þá fílar *Hannibals* hræddir, sneru við aptur og hlupu á riddarafylkíngar hans svo þær riðluðust; hið ítalska málalið stóðst eigi áhlaup Rómverja og hopaði á hæl, og hversu hraustlega sem Kartagóborgarmenn börðust, og hversu ágæt sem fyrirsögn og framgánga *Hannibals* var þann dag, að sögn *Scipiós* sjálfs, þá urðu þó þær lyktir á orustunni, að Rómverjar unnu sigur, en *Hannibal* komst á flótta undan við fáa menn. Voru Kartagóborgarmenn þá svo að þrotum komnir, að *Hannibal* sá eigi annað fært, en taka þeim friðarkostum, er *Scipió* vildi setja. Komst þá friður á með þeim skildaga, að Kartagóborgarmenn skyldu að eins halda því landi, er þeir áttu í Áfríku, en láta alt annað laust, greiða ærnar skaðabætur og hernaðarkostnað, gefa lausa alla hertekna menn rómverska, og framselja alla strokumenn, láta af hendi öll herskip og alla fíla, gjöra Masinissu konúngi, bandamanni Rómverja, engar ónáðir, og ekki heyja stríð án vilja og vitundar Rómverja. Þannig lyktaði hið annað púnverska stríð.

Nú var svo komið fyrir Kartagóborg, að hún var orðin undirlægja Rómverja; þó fann *Hannibal* af viturleik sínum ýms ráð til að bæta hag hennar aptur; hann breytti mörgu í landstjórninni til mikilla bóta, auðæfi tóku að vaxa í Kartagó, og þjóðin að blómgast að nýju, svo að Rómverjum fór að standa ótti af. Kröfðust þeir þá, að Hannibal væri framseldur, en hann forðaði sèr undan og flýði til Asíu. Eltu Rómverjar hann land úr landi, og loksins komst hann til *Prúsías* konúngs í Biþyníu, og var þar um hríð svo að fáir vissu; en konúngur var það lítilmenni, að hann sagði Rómverjum til *Hannibals* og sveik hann þannig í trygðum. *Hannibal* var við þessu búinn, og hafði látið gjöra

margar dyr á húsi sínu, svo að hann kæmist út á einum stað, þótt eigi gengi á öðrum. Rómverjar tóku hús á *Hannibal*, og er hann sá, að þeir höfðu skipazt fyrir allar dyr, og að ekki var undanfæri, þá tók hann eitur, sem hann jafnan bar á sèr, og er sagt hann hafi dáið með þau orð á vörum: »nú vil eg leysa Rómverja af þessum ótta«. Það var 183 árum fyrir Krists burð.

## Uppgángur Rómverja eptir hið annað púnverska stríð til ársins 133 f. Kr.

### 1. Egyptaland.

*Ptolemæus Lagusson*, einn af hershöfðíngjum Alexanders mikla, tók sèr konúngs nafn skömmum tíma eptir orustuna við Kýpurey (307), og stýrði Egyptalandi hartnær um 40 ár af miklum dugnaði og viturleik. Hann efldi stórum verzlun landsins og iðnað, listir og vísindi, enda var hann sjálfur vísindamaður og ritaði sögu Alexanders mikla. Hann kaus til ríkisstjórnar eptir sig son sinn hinn ýngra, *Ptolemæus Fíladelfus*, en setti þann hjá, er eldri var, og hèt *Ptolemæus Ceraunus* og var hinn vesti maður; hann flýði síðan burt af Egyptalandi til Lysimakkus konúngs mágs síns og hugði á íllt eitt.

*Ptolemæus annar, Filadelfus* (283—246 f. Kr.), var ágætur konúngur, og studdi af alefli listir, vísindi og verzlun, sem faðir hans hafði gjört á undan honum.

Næstur honum kom til ríkis sonur hans, *Ptolemæus þriðji, Evergetes* (246—221); hann var hermaður mikill og rak hernað alt austur að Indusfljóti. Um hans daga náðu yfirráð Egyptalands um mikinn hluta Sýrlands og um Litlu-Asíustrendur; eyjar í Grikklandshafi og Miðjarðarhafi, og þar á meðal hin auðuga Kýpurey, lutu þá einnig Egyptalandi; verzlunarstaði áttu Egyptalandsmenn með *hafinu rauða*, og er það vottur þess, að ríki þeirra hafi þá náð alt að suðurströndum Arabíu.

Um daga konúnga þeirra, er nú voru nefndir, var Egyptaland hið voldugasta ríki á þeim tímum. Verzlunin var aðalfótur undir allri velmegun og blóma ríkisins, í landinu ox gnægð korns og baðmullar, svo það gat jafnvel miðlað af til annara þjóða; jafnframt verzluninni var iðnaður þar í góðu lagi, einkum alskonar vefnaður og málmsmíði. Egyptalandi var svo í sveit komið,

eins og Alexander mikli hafði sèð fyrir, þá er hann reisti fyrst *Alexandríu*, að það var einskonar miðbyk allrar verzlunar þá á tímum. Verzlunin streymdi til Alexandríu af öllum Miðjarðarhafsströndum, og þaðan aptur suður eptir hafinu rauða og austur á Indland, og hins vegar suður og vestur til *Æþíópíu* og Libýu. *Ptolemæarnir* voru miklir vinir og verndarmenn lista og vísinda, og fyrir þá sök sóttu grískir vísindamenn til Alexandríu og flyktust þar saman; bæði skáld, heimspekíngar og málvitríngar voru við hirð konúnga þessara og breiddu ágæti þeirra út um löndin. Einkum þróaðist í Alexandríu heimsspekíngaskóli sá, er *Plató* hafði stofnað, og hafði kenníng hans mikil áhrif á alt mannvit og mentalíf þeirra tíma.

Afkomendur og eptirmenn Ptólemæanna voru dáðlausir og sællífir konúngar; dugleysi og deilur þeirra eyddu afli og velmegun ríkisins; þar kom, að Rómverjar voru beðnir að miðla málum í erfðaþrætum þeirra á milli. Rómverjar voru fúsir til þess, en stjórnkænska þeirra og slægleikur svipti Egyptaland öllum sjálfsforráðum (hèr um bil 160 f. Kr.).

## 2. *Litla-Asía og Sýrland.*

Eptir orustuna við *Ipsus* (301) rèði *Lýsimakkus* fyrir *Þrakíu* og *Litlu-Asíu*, en *Selevkus Níkator* (hinn sigursæli) fyrir *Babýlon* og nyrðri hluta *Sýrlands*. *Ptólemæus Ceraunus*, er flúið hafði til Lýsimakkusar mágs síns, kom sèr í mikinn kærleik hjá honum, og taldi hann á ýms hryðjuverk, svo að hann varð mjög óvinsæll af. Þá var það, að *Selevkus* hugfesti, að ná undir sig löndum hans í Litlu-Asíu. Þeir Lýsimakkus voru þá tveir einir eptir af hershöfðíngjum Alexanders mikla, annar 77, hinn 80 ára. Þeir börðust við *Korúpedíum* í Litlu-Asíu (281); fekk *Selevkus* sigur en *Lýsimakkus* fèll. Að því búnu fekk *Selevkus* syni sínum, þeim er *Antiochus* hèt, lönd sín í Asíu til yfirstjórnar, en fór sjálfur til *Evrópu* í þeim erindum, að sameina aptur öll þau lönd, er Alexander mikli hafði ráðið fyrir. En *Ptólemæus Ceraunus* drap *Selevkus* með svikum, og reyndi sjálfur til um stundarsakir, að halda yfirráðum í Þrakíu og Makedoníu (280).

*Antióchus* I. († nálægt 260 f. Kr.) efldi ríki sitt í Asíu eins og faðir hans hafði gjört á undan honum; breiddust grískar mentir mjög út um þau lönd, og studdu einkum að því borgir þær, er

faðir hans hafði reist víðs vegar um ríkið, og voru fjölskipaðar grískum mönnum. Austur við *Tígrisá* stóð *Selevkia,* allmikil borg, og dró drjúgum verzlun til sín frá hinni fornu Babýlon. Höfuðborg ríkisins *Antiochia* við *Orontesá* gjörðist aðseturstaður verzlunar og auðæfa og grískra vísinda.

En svo fór Selevkus ættmönnum sem mörgum öðrum, að þeir úrættust; ósiðir og kveifarskapur spilltu konúngsættinni, og sundurþykkja og deilur út af konúngserfðum komu ríkinu á heljarþröm. Á því tímabili gengu ýms skattlönd undan og gjörðust sjálfum sèr ráðandi, t. a. m. *Pergamum, Pontus* og *Biþynía.* Hinir herskáu *Partar* settu þá einnig ríki á stofn, er *Arsaces* frá *Skyþíu* varð konúngur yfir (250). Eptirkomendur hans stýrðu Persíu um lángan tíma.

*Antiochus* III. (*hinn mikli,* 224—187) lèt sem hann myndi sameina að nýju alt ríki Selevkus forföður síns og stýra því með afli og orku. En Rómverjum þótti nóg um aðfarir hans, og þegar þar við bættist, að *Hannibal* höfuðóvinur þeirra flýði til hans og settist þar að, þá hófst ófriður milli *Antiochus* og Rómverja. *Hannibal* gaf konúngi það ráð, að hann skyldi þegar halda liði sínu til Ítalíu, og berjast þar við Rómverja, en *Antiochus* hlýddi eigi ráðum hins mikla hershöfðingja, heldur fór að eins til Grikklands til liðs við *Ætóla,* er kvartað höfðu undan yfirgángi Rómverja. Sýndi konúngur lítinn dug eður djörfúng í herför þeirri; en Rómverjar lögðu fram í móti honum allan dug og fylgi, sem þeirra var venja. *Antiochus* konúngur hèlt her sínum til *Þermopyle* (Laugaskarð), og settist þar að, en Rómverjar hröktu hann þaðan, enda var *Antiochus* allur annar maður en *Leónídas* forðum; flýði konúngur austur á Asíu, en Rómverjar fylgdu þegar á eptir (190), því að flota þann, er *Antiochus* hafði fyrir landi, til þess að banna Rómverjum austurför yfir hafið, lögðu þeir í eyði, og bandamenn þeirra frá Rhódusey og Evmenesi konúngi í Pergamum. Á því sama ári (190) vann *Lúcíus Scipió (Asiaticus)* mikinn sigur á *Antiochus* hjá *Magnesíaborg* við *Sipýlus* [Lfjall] í *Lýdíu.* Hinn ágæti hershöfðingi *Públíus Scipió,* sá er vann *Hannibal* við *Zama,* hafði fylgt bróður sínum til Asíu, en lá veikur um þær mundir sem bardaginn stóð, og tók fyrir því engan þátt í honum; en *Hannibal* var suður á *Föníkalandi,* sendur þángað af Antiochus konúngi. Er það allmerkilegt, að

hvorigur hinna nafnfrægu manna skyldi vera viðstaddur orustu þessa, og vera þó báðir þar eystra og við ófrið þenna bendlaðir. En er *Antiochus* hafði beðið þenna ósigur, fèlst honum allur hugur og beiddist friðar, og fekk hann með þeim kostum: að hann lèti laus við Rómverja öll lönd í *Litlu-Asíu* austur að *Taurusfjöllum* og að *Halýsfljóti,* öll herskip og alla fíla, gildi ærnar fèbætur, seldi þeim Hannibal og fleiri nafnkenda menn í hendur, og setti þeim son sinn í gislíngu. Þannig höfðu Rómverjar fengið fótfestu í Asíu, og með því þeir voru jafnan sjálfum sèr líkir, þá juku þeir drjúgum veldi bandamanna sinna, *Rhódeyínga* og *Pergamums-manna,* því að á þann hátt sáu þeir, að þeir sjálfir gætu haft ráð og málalyktir Asíumanna í hendi sèr.

### 3. *Makedonía og Grikkland.*

Þá er *Demetríus borgabrjótur* (*Poliorketes*) flýði til Grikklands eptir orustuna við *Ipsus* (301 f. Kr.), fekk hann miðlúngi góðar viðtökur, einkum í *Aþenuborg,* en með því að hann var öruggur að skipaliði, þá tókst honum að ná yfirráðum að nýju yfir Aþenu og miklum hluta Grikklands, og jafnvel Makedoníu eptir dauða Kassanders (297); en *Pyrrus* konúngur í *Epírus* og *Lýsimakkus,* er að síðustu varð einvaldur í Makedoníu, ráku Demetríus frá völdum. Einnig varð Pyrrus að rýma lönd fyrir Lýsimakkusi, og þá fór Pyrrus til Ítalíu til þess að berjast við Rómverja og freista hamíngjunnar þar í landi. *Demetríus* setti son sinn *Antigonus Gonatas* til ríkisstjórnar á Grikklandi, en hèlt sjálfur skipaflota til Asíu, til þess að leggja undir sig ríki *Lýsimakkusar.* En honum vanst lítið á í Litlu-Asíu, og á endanum varð hann að gefast upp fyrir Selevkusi; hafði Selevkus hann í mjúku varðhaldi, og þar lagðist Demetríus í svall og sællífi, og stytti aldur sinn á því (284).

Um þessar mundir komu *Gallar* norðan um *Þrakíu* og *Makedoníu* til Grikklands, og fóru herskildi yfir landið. *Ptólemæus Ceraunus,* sá er myrti Selevkus, fèll í orustu móti þeim; brutust þeir alla leið til Delfi; en þaðan voru þeir reknir burt, og fór allur þorri þeirra til Litlu-Asíu, og settu þar nýtt ríki á stofn, sem síðan var kallað *Galataland (Galatía)* 278 f. Kr.

Eptir burtför útlendínga þessara fekk *Antigonus Gonatas* með hyggindum og dugnaði lagt undir sig *Makedoníu* og *Grikk-*

*land.* Við *Pyrrus* frá *Epírus,* er þá var heim kominn frá Ítalíu, átti hann í ófriði um nokkurn tíma, en þess var eigi lengi að bíða áður Pyrrus væri drepinn í *Argosborg,* í áhlaupi einu, er hann gjörði þar á næturþeli, (272 f. Kr.), og hèlt *Antigonus Gonatas* þannig yfirráðum þeim, er hann hafði, og stofnaði ríki í *Makedoníu* fyrir ættmenn sína[1]; hann deyði 243 f. Kr. og þótti hafa verið ágætur konúngur.

Til þess að sameina Grikki gegn útlendum árásum, og viðrètta aptur forna frægð, gjörðu fylkin i *Akkæu* (280) samband að nýju sin í milli, og tóku til foringja yfir sig mann þann, er *Aratus* hèt. Sýndi hann þegar, að hann var all vel til foríngja fallinn, enda vóx hið *Akkverska samband* að afli og áliti, og hin helztu fylki á Grikklandi gengu í það; en til þess að þrýsta *Spörtu* til fèlagskapar þessa, fekk *Aratus* til liðs við sig *Antigonus 2. Doson* Makedoníu konúng (233—221) og bróður son *Antigonus Gonatas;* og var það eigi hyggilega gjört af Aratus. Reyndar gátu þeir kúgað Spörtu (222), en þegar Makedoníumenn voru komnir inn á Grikkland, þá fór *akkverska* sambandinu að hnigna. Annað bandamanna fèlag á Grikklandi hafði einnig verið stofnað, er kennt var við *Ætólíu,* og kallað *hið ætolska samband. Æ*tólar voru hreystimenn miklir, en fremur þótti þeir óvandir að siðum, og hugðu mest á hagsmuni sjálfra sin; var nú horfin hin forna frelsisást, sem áður hafði sameinað Grikki, þá er þeir voru allir sem einn maður gegn yfirvofandi hættu. *Aratus,* sem vildi sameina alla Grikki, leitaði í annað sinn liðs hjá Makedoníumönnum. Var *Filippus hinn 3.* þá konúngur þeirra, og úngur að aldri; hann var ófriðsamur og metorðagjarn og varð glaður við, er honum gafst færi á að skèrast í mál manna á Grikklandi. *Filippus*



kúgaði *Ætolíumenn*, en fyrir því, að hann óttaðist álit það, er *Aratus* hafði hjá Grikkjum, þá gaf hann honum eitur, og lèt Aratus þannig líf sitt (213), en Filippus þótti maður að verri. Með því að Rómverjar fóru að gjörast afskiptasamir um hagi manna á Grikklandi, þá gjörðist *Filippus* konúngur bandamaður *Kartagóborgarmanna í hinu öðru púnverska stríði* (214—204), en Rómverjar fengu *Spartverja* og *Ætóla* í lið með sèr; þótti þá *Filippusi* ráðlegast að semja frið, jafnvel þó *Akkear* stæðu með honum og hefðu ágætan fyrirliða þar sem hershöfðíngi þeirra *Filopömen* var. Það hefir verið sagt um hann: að eins og *Milziades* var hinn *fyrsti,* er vann *öllu* Grikklandi gagn, eins hafi *Filopömen* verið hinn *síðasti,* er það gjörði. *Epamínondas* var fyrirmynd hans, enda var hann honum líkur í mörgu. Þegar *Aratus* var fallinn frá, varð *Filopömen* Akkeum og sambandsmönnum þeirra bæði sverð og skjöldur og vann mörg frægðarverk. Hann var um síðir handtekinn í *Messeníu* og dó þar af eitri (183 f. Kr.)[1]. Eptir að Filippus konúngur hafði samið frið við Rómverja, reyndist hann þeim þó ótryggur, og beitti vopnum við þá. En er Rómverjar höfðu lokið *hinu öðru púnverska stríði* sendu þeir lið til Grikklands; hèt foríngi fyrir því liði *Títus Quinctíus Flaminínus,* hinn vaskasti maður; vann hann sigur á *Filippusi* við *Kynoskefalæ* í *Þessalíu* (197 f. Kr.) og kúgaði hann til að játa því, að Grikkland skyldi vera frjálst, eða með öðrum orðum, að Filippus tæki setulið sitt burt úr borgunum á Gríkklandi, til þess að Rómverjar gætu sjálfir sett þángað aptur setulið. Þegar *Ætólar,* sem lengi höfðu verið bandamenn Rómverja, snerust í móti þeim og fengu *Antiochus* 3. Sýrlands konúng í lið með sèr, þá var þeirra frelsi lokið, og þeir urðu einnig Rómverjum háðir (189 f. Kr.).

Eptir *Filippus 3.* kom sonur hans *Perseus* til ríkis í *Makedoníu* (179—168). Hann var engu minni óvinur Rómverja, en faðir hans hafði verið, og sagði þeim stríð á hendur, þegar hann sá sèr fært. Varðist hann þeim 4 ár af miklum dugnaði, og vann nokkrum sinnum sigur á þeim i orustum. Loks sendu Rómverjar til Makedoníu *Æmilíus Paulus* hershöfðíngja, son þess hins nafn-

---

1) Það er víst, að þeir Hannibal og Filopömen önduðust á einu og sama ári, og sumir sagnaritendur segja, að Publ. Corn. Scipio hafi þá einnig dáið, en aðrir telja það óvíst.

kenda ræðismanns, er fèll í orustunni við *Cannæ* móti Hannibal. þessi Æmilius Paulus var ágætur maður sem faðir hans, og skipti fljótt um þegar hann var tekinn við herstjórn móti Perseusi. Fundur þeirra varð hjá Pydnaborg (168) og fengu Rómverjar þar sigur, en Perseus flýði út í eyjar; þar var hann handtekinn og settur í fjötur og fluttur til Rómaborgar. Var haldin vegleg sigurhelgi í borginni, þá er Æmilius Paulus kom heim aptur; sat Perseus þar í fángelsi og dó skömmum tíma þar eptir; en Makedonía komst undir yfirráð Rómverja. Nokkru síðar reis sá maður upp í Makedoníu, sem *Andriskus* hèt, og var skilmíngamaður; hann þóttist vera sonur Perseus konúngs, og vakti óeirðir í landinu; en sá varð endir þar á, að *Qvintus Cæcilius Metellus* (*Macedoníeus*), vann sigur á honum og handtók hann, og gjörði *Makedoníu* að *rómversku skattlandi* (148 f. Kr.).

Hin *akkversku bandafylki* höfðu engan þátt tekið í ófriðnum milli Rómverja og Makedoníumanna, og gátu því búizt við að lifa í friði óáreitt af Rómverjum. En Rómverjum stóð stuggur af samheldi *Akkea* og fèlagsskap og þóttust sjá fyrir, að hinn forni manndómur Grikkja mundi vakna aptur og þjóðin brjótast undan annarlegum yfirráðum; þess vegna beittu þeir öllum brögðum til þess að kæfa til fulls og alls þann litla neista, sem enn lifði eptir af grískri frelsisást og grískri manndáð. þannig boðuðu Rómverjar alla hina helztu menn og merkusta meðal *Akkea,* þúsund að tölu, til Rómaborgar, til þess að gjöra þar grein fyrir gjörðum sínum meðan ófriðurinn stóð við Makedoníumenn. *Akkear* gjörðu eins og fyrir þá var lagt og fóru til *Ítalíu,* var hinn nafnkendi gríski sagnaritari *Polybíus* einn á meðal þeirra; var nú bæði sagnafróðleikur og önnur vísindi á fallanda fæti hjá Grikkjum, eptir því sem þjóðfrelsi þeirra fór hnignandi og Rómverjar bældu þá undir sig. þegar *Akkear* komu til Ítalíu, sviku Rómverjar þá í trygðum og höfðu þá í varðhaldi, og að seytján árum liðnum fengu þeir loksins heimfararleyfi til Grikklands, sem þá lifðu eptir, og voru ein þrjú hundruð manna. En meðan á þessu stóð, höfðu Rómverjar gjört alt sem þeir gátu, til þess að glæða og ala úlfúð og sundurlyndi með *Akkeum* sín á milli; kom þeim það nú í góðar þarfir, að margir af Grikkjum voru sèrplægnir menn og skorti hreina og fölskvalausa ást á ættjörðu sinni; og sá ókostur Grikkja kom fósturjörðu þeirra um síðir á kaldan

klaka. Þegar tími þótti til kominn lètust Rómverjar myndu miðla málum milli *Spörtu* og *Akkea,* en voru þá svo harðir í kröfum af Spartverja hendi, að eigi var hugsandi til sætta. *Metellus* hèlt her manns inn í landið frá Makedoníu og var sigur sæll, en árið 146 f. Kr. tók *Lucius Múmmius,* ræðismaður, við herstjórn eptir Metellus, og hann vann fullan sigur á *Díæusi* herforíngja Akkea í nánd við *Korinþuborg.* Sú borg var þá fjölmennust og auðigust allra borga á Grikklandi, en Múmmius lagði hana í eyði með báli og brandi, drap karla, en seldi konur og börn mansali, og rændi þaðan og flutti til Rómaborgar ógrynni af gulli og gersemum og alskonar litmyndum og steinmyndum, er þar voru saman komnar, en sem Múmmius manna sízt hafði vit á að meta, eins og sjá má af því, að hann skipaði mönnum sínum, ef nokkurt af þeim listaverkum, er þeir þá fluttu burt, skemdist á leiðinni, þá skyldu þeir láta gjöra annað jafn gott í staðinn. Þetta hið sama ár var Grikkland gjört að *rómversku skattlandi* og kallað *Akkaja.* Þannig var frelsi Grikklands liðið undir lok, en leifar hinna fornu vísinda og lista, sem fyrrum gjörði Grikki svo fræga, voru þá enn eptir í hinu rómverska skattlandi og höfðu mjög mikil áhrif á mentun sigurvegaranna.

### 4. *Eyðíng Kartagóborgar.*
(Hið þriðja púnverska stríð, 149—146 f. Kr.).

Meðan þau tíðindi gjörðust á Grikklandi, er nú voru sögð, var nýr ófriður kviknaður með Rómverjum og *Kartagóborgarmönnum.* *Masínissa* Númidíukonúngur var mikill vin Rómverja, eins og áður er sagt, og skákaði í því hróksvaldi, og svældi lönd undan Kartagóborgarmönnum; kærðu þeir þann yfirgáng fyrir Rómverjum, en fengu enga rèttíng á sínum málum. Þar kom um síðir, að Kartagóarmenn freistuðu að reka rèttar síns sjálfir, og áttu vopnaviðskipti við *Masínissa;* en þó hann væri þá hníginn á efra aldur — hann var þá níræður — þá varð hann þeim yfirsterkari, og gjörðist þá svo umsvifamikill í Afríku, að Rómverjum þótti nóg um aðfarir hans og rèðu það af, að skerast sjálfir í leikinn. Hinn forni fjandskapur til Kartagóborgar kviknaði að nýju hjá Rómverjum, og þó nokkrir hinir hygnari menn í Rómaborg, og þar á meðal *Scipió Nasíca* fremstur í flokki, teldu það óráð, að leggja Kartagóborg í eyði, fyrir því að Rómverjar myndu

falla til aðgjörðaleysis og sællífis, er óvinir þeirra væru allir að velli lagðir, þá fylgdi hinn skapharði, ósveigjanlegi öldúngur *Markús Porcíus Cató* (*Censoríus*) því svo fast fram, að Kartagóborg væri eydd með öllu, og allur þorri manna var honum samdóma, að afráðið var, að svo skyldi vera, sem þeir *Cató* vildu. Voru nú sendir tveir ræðismenn með mikinn her og flota til *Útíca;* sú borg er lítið eitt norðar en Kartagó; gjörðu þeir Kartagóborgarmönnum þaðan orð, og buðu þeim, að selja af hendi öll vopn og hernaðaráhöld. Kartagóborgarmenn þorðu eigi annað en gjöra sem fyrir þá var lagt, og fengu Rómverjum í hendur vopn sín og skipaflota allan. En Rómverjar létu sèr það eigi lynda, heldur buðu þeim þar á ofan, að flytja bygð sína um 2 mílur inn í landið og taka sèr þar bólfestu, með því að afráðið væri, að rífa Kartagóborg niður til grunna. *Að* svo harðýðgislegum kostum gátu Kartagóborgarmenn með engu móti gengið, og kusu heldur, að verjast meðan auðið yrði og falla með drengskap. Varð nú þjóðin öll sem einn maður bæði að vilja og að framkvæmdum; konur og karlar, gamlir menn og úngir hjálpuðust að, og gjörðu sèr verjur og vopn, og það með slíkum ákafa og eljan, að á skömmum tíma voru þeir orðnir allvel byrgir að hvorutveggja, þótt þeir hefðu áður látið vopn sín af hendi til Rómverja. Nú laust upp ófriðinum (149 f. Kr.). Rómverjar sóttu að borginni með ógrynni liðs, bæði á sjó og landi. Borgarmenn tóku djarflega í móti og hröktu Rómverja af höndum sèr, hvað eptir annað. Gekk svo á þriðja ár, þar til er sá maður tók við herstjórn, er hèt *Públíus Cornelíus Scipió,*[1] sonur *Æmilíus Paulus* þess, er vann Makedoníu, en kjörsonur Scipios, sonar þess, er vann Hannibal við Zama. Hann var þá úngur að aldri, en reyndist brátt hinn vitrasti maður og mesti hershöfðíngi. Hann settist nú um Kartagóborg, og sótti hana af miklu kappi. Borgin stóð við sjó á nesi einu framanverðu. *Scipió* lèt setja garð mikinn þvert yfrum nesið fyrir ofan borgina, til þess að banna alla aðflutnínga þángað af landi ofan, og annan garð lèt hann hlaða fyrir ofan hafnarmynnið, til þess að eigi yrðu heldur vistir fluttar sjóleið til borgarinnar; en jafnskjótt grófu borgar-

1) Hann er optast nefndur Scipió Æmilianus, og Scipió Afrícanus *hinn ýngri* (*minor*), til aðgreiníngar frá Scipió Afrícanus *hinum eldra* (*major*), er vann Hannibal við Zama.

menn skurð á öðrum stað fram til sjáfar, og gátu þannig dregið að sèr vistir frá fjarlægum stöðum, því að alt land umhverfis borgina var í höndum *Scipiós*. Borgin var girt þreföldum múrveggjum; í henni miðri var hæð nokkur og þar á kastali, er hèt *Byrsa*. Eptir lánga umsát og ótal atlögur náðu Rómverjar inngöngu í borgina; vörðust borgarmenn sem óðir væru, og varð þar ógurlegur aðgángur úti á strætum og inni í húsum; þá bauð Scipió að bera eld að húsum og kveikja í borginni; læsti eldurinn sig um alla borgina, og þannig var barizt í sex daga og sex nætur, svo aldrei varð hlè á; á hinum sjöunda degi voru Rómverjar loksins komnir að kastalanum; varð þá enn ógurlega hörð hríð til þess er 50 þúsundir manna, er í kastalann höfðu flúið, gáfust upp og beiddu sèr griða, voru þeir síðan seldir mansali, en annar borgarlýður var fallinn fyrir báli eður brandi; er það sagt, að í Kartagóborg hafi alls verið um 700 þúsundir manna, áður Rómverjar komu. Borgin brann til ösku á 14 dögum. Hið rómverska *ráð* bauð *Scipió*, að láta jafna yfir allar rústir, svo að eigi sæist, að þar hefði nokkru sinni menn búið er borgin stóð; segja menn, að *Scipió* hafi svo gjört, en lagzt hafi það í hann, að þegar Rómverjar hefðu eigi lengur útlenda óvini að hræðast, þá myndu óspektir kvikna innanlands meðal sjálfra þeirra; og kom það fram síðar. Þannig leið hin auðuga og víðfræga *Kartagóborg* undir lok, og þjóð sú, er þar hafði búið, hvarf með öllu úr augsýn lifandi manna (146 árum f. Kr.).

### 5. *Ófriður við Viríatus og við Numanzíumenn.*

Það var siðvenja Rómverja, að stýra skattlöndum sínum heiman frá Rómaborg og senda þángað valdsmenn eða skattlandsstjóra, eptir því sem þurfa þótti. Valdsmenn þessir kúguðu skattlöndin stórum og fèflettu þau á allar lundir. Frá skattlöndunum heimtuðu Rómverjar fjölda manns til liðs við sig í allar orustur; en hins vegar höfðu skattlendíngar lítil eða engin rèttindi gagnvart Rómverjum; hvernig sem með þá var farið, sáu þeir engan kost á að ná rètti sínum, því að dómaravaldið var í höfðíngjanna höndum í Rómaborg, og engan rètt hjá þeim að hafa. Þau einu úrræði, er þeir þannig höfðu, voru, að grípa til vopna gegn Rómverjum og verjast yfirgángi þeirra og rángindum, meðan auðið varð.

Bæði undan og eptir að Rómverjar lögðu Kartagóborg í eyði, áttu þeir í ófriði miklum vestur á *Spáni* og í *Lúsitaníu*, (er nú heitir *Portúgal*), og lögðu þar undir sig lönd og borgir; og þó þeir beittu alstaðar brögðum og svikum, þá var það, ef til vill, hvergi eins og þar vestur. Einn af hershöfðíngjum þeirra, sá er hèt *Galba*, fór ófarir miklar fyrir *Lúsitaníumönnum* (151); en Rómverjar hefndu sín ári síðar og kreptu svo að landsmönnum, að þeir beiddust friðar. Galba vildi nota sèr neyð þeirra og hefna sín, hefir fagurgala mikinn í frammi og segir þeim, að það sè ófært að þeir búi í svo hrjóstrugu og ófrjófu landi, og vísar þeim til bólfestu þrjú hèröð, eigi samföst, heldur nokkuð lángt hvert frá öðru; þar voru landkostir miklu betri. Fèllust menn á það, og urðu margar þúsundir manna til að flytja sig þángað og setjast þar að; en er þá varði sem minst kom Galba þángað með her manns og drap hvern á fætur öðrum, sem hann náði til. *Cató* gamli, er jafnan var vinveittur *Spánverjum*, kærði Galba í Rómaborg um þetta níðíngsverk, en eigi er þess getið, að hann fengi refsíngu fyrir.

Einn af þeim fáu Lúsitaníumönnum, er undan komust, þá er Galba sveik þá sem mest, hèt *Viriatus;* hann gjörðist nú foríngi landa sinna, og varð Rómverjum einhver hinn skæðasti mótstöðumaður og sárbeittasti, er þeir áttu nokkru sinni við að skipta. Hann var öllum þeim kostum búinn er prýða ágætan foríngja, og hinir rómversku hershöfðíngjar fóru hverja óförina á fætur annari fyrir honum; gekk svo í 10 ár, þar til er *Servilíus Cæpíó*, ræðismaður, loksins lèt myrða hann sviksamlega (140 f. Kr.).

Um þær mundir hófst ófriður Rómverja við borg þá, er *Númanzía* hèt, og sem er fræg orðin af vörn sinni gegn þeim. Sú borg var norðarlega á *Spáni* (í Kastilíu sem nú heitir), og heldur fámenn. Rómverjar höfðu þar upptökin sem víða annarstaðar. Árið 137 f. Kr. umkríngdu Númanzíumenn hinn rómverska ræðismann *Hostilíus Mancínus* og alt hans lið (20000 manns) þar í fjöllunum, og hefði þar verið útgjört um þá alla, ef Númanzíumenn hefðu eigi af göfuglyndi gefið þeim líf og grið eptir beiðni þeirra. En ráðið í *Róm* vildi eigi heyra talað um grið eða frið; var þá *Scipíó Æmilíanus* sá, er Kartagóborg hafði unnið, og þótti þá frægastur allra manna, sendur vestur á Spán til að jafna á þeim. Hann settist um *Númanzíu* og varnaði borginni að-

flutnínga; en er húngrið þrýsti að borgarmönnum fyrirfóru þeir sèr allir, til þess að komast eigi á vald Rómverja, og *Scipíó* hitti þar engan mann á lífi, er hann tók borgina 133 árum f. Kr. Þannig leið *Númanzía* undir lok eptir 5 ára vörn.

## Tíberíus Semprónius Gracchus.

Forðum höfðu höfðíngjar Rómverja (Patricii) því nær einir ráðið öllum hinum helztu málefnum hins rómverska þjóðveldis, en eptir margar og miklar óeirðir var þeim yfirráðum höfðíngjanna lokið. Lýðurinn (Plebeii) hafði fengið mikil völd í hendur, og á þíngum var atkvæði hins fátæka eins gilt og gott eins og atkvæði hins ríka. Mismunur sá, er fyrrum hafði átt sèr stað milli höfðíngjanna og alþýðunnar, var þannig orðinn næsta þýðíngarlítill; en hins vegar kom aptur upp meðal Rómverja annar og nýr höfðíngja flokkur, er nefndist *Nobiles* eða *Optimates* (*eðlibornir menn, aðalsmenn*). Það voru þeir menn, er voru afkomendur hinna æztu embættismanna hjá Rómverjum, bæði af Patricia- og Plebejaflokki. Þeir, sem vildu komast til hárra embætta og metorða, urðu að halda stórveizlur og leika, og verja til þess ærnu fè, því að alþýðan heimtaði slíkt með sjálfskyldu af hverjum þeim, er vildi ná hylli hennar og atkvæði á þíngum, þegar til kosnínga kom. Þannig höfðu auðmennirnir, sem gátu staðizt þenna mikla kostnað, bæði ræðismannsembættið og önnur hin æztu völd eingöngu í höndum sèr, og með því nú að auðurinn var hinn helzti og beinasti vegur til upphefðar, þá lögðu þessir menn mesta stund á að safna honum; þeir fèflettu þau skattlönd, er þeir voru yfirskipaðir, og höfðu þjóðjarðir allar (*ager publicus*) í höndum sèr. Gagnvart auðmönnum þessum var hinn efnalitli alþýðumanna flokkur, er óðum fór vaxandi; því að hinir fátækari jarðeigendur urðu smátt og smátt sökum skulda að láta af hendi jarðir sínar til hinna ríku, flosnuðu síðan upp og komust á vonarvöl. Í Rómaborg var saman kominn fjölmennur alþýðumanna flokkur, er enga atvinnu hafði, og lifði af því, sem að hendi barst í það eður það skipti af hendíngu einni, ellegar af því, sem höfðíngjarnir (Optimates) gáfu honum, er þeir vildu fá atkvæði hans á kjörþíngum; þessi múgur manna, sem engu hafði fyrir að fara, var auðfenginn til hverra stórræða sem vera skyldi, ef hann hèlt að kjör sín myndu þá batna á einhvern veg. Þannig

var veitíng allra hinna æztu embætta, bæði heima í Rómaborg og úti um skattlöndin, orðin að eins konar kaupum og sölu; alt var undir því komið, hver bezt gat unnið alþýðu múgann með fagurgala og fèmútum; en þegar svo var komið, þá lá eigi annað beinna við, en að öll þjóðmálefni enduðu annaðhvort með stjórnleysi eða með einvaldsdæmi, hvenær sem einhver maður með nógum auði og nógum vitsmunum risi upp, er hefði lag á að hagnýta sèr hylli og fylgi alþýðunnar. Einu úrræðin til þess að koma þjóðmálefnum Rómverja aptur í rètt horf og löglegt, virtust reyndar vera þau, að takmarka nokkuð auð og veldi höfðíngjanna, en hefja og efla alþýðumannaflokkinn með því, að veita honum hlutdeild í þjóðjörðunum, enda virtist öll sanngirni mæla með því, að svo væri gjört.

Það voru þessi úrræði, sem *Tíberíus Semprónius Gracchus* vildi grípa til, þá er hann hafði hugfest að endurbæta kjör Rómalýðs. Hann var eðliborinn maður og þannig einn af höfðíngjaflokknum. Móðir hans hèt *Cornelia* og var dóttir hins nafnfræga *Scípios,* þess er vann *Hannibal* við Zama; hún var eitthvert hið mesta kvennval á sinni tíð, og það er sagt, að einn af Egyptalands konúngum hafi beðið hennar, en hún synjað þeim ráðahag, til þess hún gæti því betur stundað uppeldi sona sinna, þessa sem nefndur var og hins, er *Cajús* hèt og var ýngri þeirra bræðra; hún hafði verið gipt manni þeim, er *Tíberíus Gracchus* hèt, ágætum höfðíngja í Rómaborg; systir þeirra bræðra hèt *Semprónía,* hún var gipt *Scipió Æmilianus* þeim, er vann Kartagóborg. Tíberíus Semprónius Grachus fór úngur í hernað og fekk ágætan orðstýr; hann var vitur maður og vel talaður á þíngum, manna göfuglyndastur, og ástsæll mjög af allri alþýðu. Með öllum þessum mannkostum gat hann búizt við, að komast til hinna æztu valda og metorða í Rómaborg, en göfuglyndi hans og mannúð knúði hann til að freista endurbótar á ástandi ríkisins og kjörum landa sinna, þótt hann sæi fyrir, að slikt myndi valda sèr hinu mesta hatri af öllu stórmenni og hinum ríkari mönnum, og jafnvel ofsóknum og dauða.

Árið 134 f. Kr. varð hann *alþýðuforíngi (tríbunus plebis),* og úr því hann hafði fengið það embætti á hendur, þá var það skylda hans að vaka yfir rèttindum alþýðunnar gegn höfðíngjavaldinu. Bar hann þá jafn skjótt upp það lagafrumvarp, að gjöra

jafnari skipti á öllum þjóðjörðum. Þetta nafnkenda frumvarp hans var kallað: *akralögin* (*lex agraria*). Eptir frumvarpi þessu mátti enginn borgari hafa meira land af þjóðjörðum til umráða en sem svaraði 500 daga plóglandi; en það sem þá varð afgángs, skyldi nákvæmlega mælt af nefnd manna, og síðan skyldi því skipt með hinum fátækari borgurum, en ríkissjóðurinn endurgjalda þeim, er mistu nokkurs í við þá tilbreytni. Nú urðu ríkismennirnir, en einkum *öldúngaráðið*, uppvægir. Alþýðan hinsvegar tók hörðum höndum í móti, og lèt engan bilbug á sèr finna, svo að höfðíngjarnir tóku það eina fángaráðs, er þeir höfðu, til þess að frumvarp Gracchusar yrði eigi að lögum, og það var, að fá einn af alþýðu foríngjum, þann er *Octavíus* hèt, í lið með sèr til að mæla í gegn frumvarpinu. Gracchus leitaðist við á allar lundir, að fá hann til að skiljast eigi við sig í þessu velferðar málefni þjóðarinnar; en Octavíus var ósveigjanlegur. Nú er Gracchus sá, að hann gat engan veg þokað Octavíusi, þá greip hann til þess óyndisúrræðis að brjóta lögin: hann bar fram þá uppástúngu, að svipta Octavíus alþýðuforíngja valdi. Það var reyndar einí vegurinn til þess að frumvarpi hans yrði framgengt, en það var lagabrot engu að síður. Var þá stefnt þíng, og á því þíngi var Octavíus sviptur völdum. Því næst var frumvarp Gracchusar í lög tekið, og menn kvaddir í nefnd til að skipta löndum; voru þeir bræður *Tíberíus* og *Cajus* oddvítar í nefndinni. Ráðið og ríkismennirnir gjörðu hvað þeir gátu til þess að spilla vinsældum Tíberíusar hjá alþýðunni; varð hann fyrir þá sök, að bera upp fleiri frumvörp til nýrra laga, til þess að missa eigi hylli alþýðunnar, sem einatt hefir reynzt næsta stopul. Þannig stakk hann upp á því, að auður sá hinn mikli, er *Attalus* hinn þriðji, konúngur í *Pergamum*, hafði gefið Rómverjum eptir sinn dag (ásamt með ríki sínu), skyldi tekinn úr ríkissjóði, og fenginn hinum efnaminstu borgurum, til þess að kaupa sèr fyrir ýms áhöld og akuryrkju tól; og fleiri nýmæli hafði hann í hyggju að bera fram, er bæta skyldu kjör hinna fátæku meðal lýðsins. Til þess að koma öllu þessu í kríng, og fá þá stjórnarbót leidda til lykta, er Tiberíus hafði byrjað á, var honum því einkar áríðandi, að geta haldið alþýðuforíngja völdum næsta ár. Sá dagur kom, að kosnir skyldu alþýðuforíngjar að nýju. Hinn fyrsta dag, er kosið var, fór allt vel og Tíberíus fekk flest atkvæði, en þá lýstu

10*

mótstöðumenn hans yfir því, að kosníngar væru ógyldar, og varð þá að hætta við svo búið. Tíberíus sá að óvinir hans voru til als búnir; gekk hann þá meðal lýðsins, og hafði börn sín með sèr, og hèt á menn til fylgdar við sig og liðveizlu. Daginn eptir var aptur gengið til kosníngar, var þíngið allvel sótt, en þó voru margir af vinum Tíberíusar við kornhirðíngu á landsbygðinni og eigi viðstaddir. Þíngið var háð undir berum himni fyrir neðan *Capitolium,* en öldúngaráðið sat á fundi þar allnærri og heyrði alt, er fram fór á þínginu. Þeir sem voru mestir ákafamenn meðal ráðherranna skoruðu á ræðismanninn, að neyta valdsins og hleypa upp þínginu, en hann kvaðst eigi vilja stofna til vandræða. Þá stóð upp sá maður, er *Scipió Nasíca* hèt, og var æzti prestur (*pontifex maximus*) Rómverja og mælti: »ræðismaðurinn svíkur lýð og land; fylgi þeir mèr, sem vilja frelsa hvorttveggja!« Þustu nú ráðherrarnir og þeirra föruneyti þángað sem þíngið stóð, og allir voru vopnlausir fyrir, en ráðherraflokkurinn hafði kylfur og ýms barefli að vopnum. Tvístraðist allur þíngheimur, en 300 manns fèllu og *Tíberíus Gracchus* einn á meðal þeirra (133 f. Kr.); var líki hans kastað í Tíberá, eins og hann hefði verið óbótamaður. Scipió Nasíca varð eigi vært í Rómaborg eptir þessi tíðindi, og andaðist litlu síðar austur í Asíu.

Það ræður að líkindum, að slíkt glæpaverk sem þetta, að drepa alþýðuforíngja, er eptir rómverskum lögum var »heilagur og friðhelgur«, myndi eigi sefa heldur æsa þann flokkadrátt, er átti sèr stað í Rómaborg, og sem svo mikil brögð voru að, að til mestu þjóðvandræða horfði. *Höfðíngjarnir* hètu hverir öðrum að fylgjast enn betur en áður að hverju máli; undir því var allur hagur þeirra kominn. Þeir höfðu enn, því nær einir, í höndum sèr öll hin æztu embætti, ríkistekjur, skattlöndin og dómsvaldið, og það var einkum þetta síðast nefnda, er olli því, að hvað sem þeir höfðust að, þá var þeim aldrei refsað, því að dómendur voru allir af þeirra flokki. En hins vegar efldist einnig *alþýðuflokkurinn* í Rómaborg og jókst stórum við það, að fjöldi manna af Ítalíu og úr skattlöndunum, sem þótti sèr misboðið af yfirdrotnan höfðíngjanna, gekk í lið með honum og fekk á ýmsa vegu hlutdeild í borgararèttindum hans.

*Scipió Æmilíanus* var oddviti alls stórmennis í Rómaborg um þær mundir, og víðfrægur af sigri sínum yfir *Kartagóborg*

og *Númanzíu;* hann var alþýðunni mjög mótsnúinn, og er hann frètti lát Tiberíusar Gracchusar mágs síns, þótti honum það orðið að maklegleikum. Eptir að hann kom heim til Róms frá Númanzíu, kom hann því til leiðar, að menn gáfu frá sèr að skipta þjóðjörðunum eptir frumvarpi Gracchusar; en því starfi hafði verið haldið fram, þó Gracchus sjálfur væri látinn. Skömmu síðar fundu menn *Scipió* einn morgun veginn í rekkju sinni (129 f. Kr.).

Það var þessu næst, að *Cajus Gracchus,* bróðir Tíberíusar, hófst upp til mótstöðu við höfðíngjaflokkinn í Rómaborg, og tók þar til óspiltra málanna, er bróðir hans hafði orðið frá að hverfa. Ráðherrarnir höfðu mikinn ótta af *Cajusi,* fyrir því, að hann var enn meiri ákafamaður en bróðir hans og allra manna málsnjallastur. Þess vegna var hann sendur til *Sardínareyjar* (126), og var þar fèhirðir (*Quæstor*) við herinn. Ári síðar bar *Markús Fulvíus Flaccus,* ræðismaður, og mesti alþýðuvín, það frumvarp fram, að *allir búendur á Ítalíu fengi rómverskan borgararètt;* en öldúngaráðið í Róm kom Fúlvíusi af sèr um tíma, með því að senda hann með lið til Massilíu í Galliu, er hafði beðið Rómverja liðveizlu gegn árásum Galla þar í nágrenninu; gekk honum sú för allgreiðlega, og frá þeim tíma var það, að Rómverjar eignuðust suðurhluta Gallíu, næstan Alpafjöllum, er þeir kölluðu *skattlandið* (*Provincia*). Óeirðirnar heima í Rómaborg mínkuðu eigi fyrir það, þó þessir menn væru sendir burtu; og þegar minst varði, kom Cajus Gracchus heim frá Sardínarey, og hafði tekið heimfararleyfið hjá sjálfum sèr. Varð hann nú *alþýðuforíngi,* tvö árin, hvert eptir annað (123, 122), og gekk fast fram í því, að eyða ofríki höfðíngjanna. Hann fekk ýmsum nýjum lögum til leiðar komið, er miðuðu til að bæta kjör alþýðunnar; hann tók *dómsvaldið* frá ráðinu, og fekk *riddurunum* það í hendur; og urðu þeir upp frá því einskonar stètt út af fyrir sig, mitt á milli alþýðunnar og ráðsins; þó voru þeir öllu fremur höfðíngjunum háðir; þeir höfðu ríkistekjurnar að lèni og guldu leigu af, höfðu þeir jafnan ærið fè undir höndum, og máttu sín þess vegna mjög mikils hjá þjóðinni.

Öldúngaráðið sá nú, að eigi mátti svo búið standa, fyrir því beitti það brögðum, og fekk einn af alþýðu foríngjum, þann er *Markus Livíus Drúsus* hèt, til þess að gánga enn frekar í uppástúngum sínum, en *Cajus Gracchus* hafði gjört. Þannig vildi

Cajus láta stofna tvær rómverskar nýlendur, alþýðunni til gagns, en þá fór Drúsus því á flot, að stofnaðar yrðu 12 nýlendur. Alþýðan, sem allajafna var hviklynd og skamsýn, snerist þá frá Cajusi, og kaus hann eigi til foríngja síns næsta ár, og þá var ekki vandfarnara við hann úr því, en hvern valdalausan mann. *Ópímíus* ræðismaður, og mesti óvinur Cajusar, tók til þess valds, er hann þá hafði, lèt menn vopnast, og veitti þeim *Fúlvíusi* og *Cajusi* aðgöngu. Þar fèll Fúlvíus og 3000 manna með honum. *Cajus Gracchus* flýði undan og lèt einn af þrælum sínum veita sèr bana (121). Höfðíngjarnir fögnuðu mjög sigri þessum, og Ópimíus lèt í minníngu hans reisa hof mikið, sem eignað var gyðjunni *Concordíu* (eindrægnisgyðju); en hèr mátti segja sem optar: að skamma stund verður hönd höggi fegin.

## Cajus Maríus.

*Cajus Maríus* hefir maður heitið; hann var frá borg þeirri, er *Arpínum* hèt; það er skamt fyrir sunnan Róm. *Maríus* var lítillar ættar og ólst upp við fátækt og harðrètti, og fór allrar þeirrar fræzlu á mis, sem þá var títt að veita ríkra manna börnum. Frá barnæsku kyntist hann allri þeirri ánauð og niðurlægíngu, er alþýðan mátti sæta af höfðíngjunum; snemma var hann ákafamaður mikill í skapi, metorðagjarn, harðgjör í öllu, og ól ramma heipt í huga til höfðíngjanna. Hans er fyrst getið við hernað á Spáni, undir forustu *Scipiós*, þá er Númanzía var unnin; fekk hann þar svo mikið orð á sig af hreysti sinni og framgöngu, að Scipió lèt sèr þau orð um munn fara, að sá tími mundi koma, að *Maríus* kæmi í sinn stað og yrði æztur hershöfðíngi Rómverja. *Maríus* festi þau orð í huga sèr. Hann varð þvínæst *alþýðuforíngi*, og meðan hann hafði þau völd á hendi, undraðist margur það þrek og þann dugnað, er hann þá lagði fram, því að ekki var við smámenni að etja, þar sem höfðíngja flokkurinn allur stóð í móti. Þó tókzt honum smátt og smátt, að komast til hinna æðri valda, hversu sem höfðíngjarnir reyndu að afstýra því, þángað til að *ócirðirnar við Júgarta* (frá 112—106) veittu honum sigur yfir þeim.

Nú víkur sögunni suður til *Afríku*. *Masínissa* konúngur hinn gamli var fyrir löngu liðinn undir lok; *Mícipsa* konúngur, sonur hans, var og dáinn, en eptir hann voru komnir til ríkis synir hans

tveir og bróður sonur sá, er *Júgúrta* hèt; hann var einhver hinn mesti ódrengur; hann vildi einn ráða ríki í Númidíu og lèt því myrða báða þá frændur sína. Rómverjar höfðu átt viðskipti við Númidíu konúnga síðan á dögum púnverska stríðsins, og skárust þess vegna í málið. Rómverskur her var sendur til Númidíu, en *Júgúrta* mútaði hershöfðingjum og samdi frið við þá með góðum kostum (111 f. Kr.). Þá reis sá maður upp, er *Memmius* hèt og var alþýðuforíngi; hann leiddi mönnum fyrir sjónir, hversu svívirðilega höfðíngjunum færist; þeir lèti *Júgúrta* múta sèr og gjörðu þjóðinni hina mestu vanvirðu; krafðist *Memmius*, að *Júgúrtu* væri boðið, að koma til Rómaborgar og segja, hverjir þeir væru, er dirfst hefðu að þyggja mútur. *Júgúrta* kom til Róms, sem honum hafði verið boðið, en þar tókst þá eigi betur til en svo, að hann kom fèmútum fyrir sig, og ekki varð af ransókn yfir þeim mönnum, er grunaðir voru um að mútur hefðu þegið. Snèri *Júgúrta* við það heim aptur í ríki sitt, og mælti, þá er hann fór úr Rómaborg: »þessi borg er föl, hvenær sem einhver vill kaupa». Rómverjar sendu reyndar lið að nýju suður til Númidíu, til þess að hafa gætur á *Júgúrtu*, en það fór þá eigi betur en svo, að *Júgúrta* krepti þannig að því liði, að hinn rómverski hershöfðíngi varð að þyggja líf og grið af honum (110). Nú var Rómverjum nóg boðið, og sendu þeir ári síðar *Qvintus Cæcilius Metellus* (*Numidícus*), ræðismann, með nýju liði á bendur Júgúrtu. *Metellus* var ágætur hershöfðíngi og enginn fèdráttarmaður. *Cajus Maríus* var foríngi (*Legatus*) í liði hans. Urðu nú mikil umskipti í Númidíu, er þessir menn komu til herstjórnar; fór Júgúrta alstaðar halloka fyrir þeim, og loksins krepti svo að honum, að hann hrökk undan og flýði til *Bokkusar* konúngs í *Mauritaníu*, tengdaföður síns.

En jafnvel þó þeir *Metellus* og *Maríus* væru mörgum hinum sömu kostum búnir, óvingaðist þó brátt með þeim. *Metellus* var einn af höfðingjaflokknum, og sem hann varð þess vísari, að *Maríus* vildi verða *ræðismaður*, lagði Metellus fæð á hann, og það var lengi, að hann vildi eigi leyfa honum að fara til Róms í þeim erindum; en eptir lögunum varð hver sá, er sækja vildi um ræðismannsembættið, að vera sjálfur viðstaddur í Rómaborg. Metellus gjörði jafnvel gis að Maríusi, er tilrætt varð um þetta efni, og sagði: »að nægur tími væri fyrir hann að sækja um ræð-

ismannsvöldiu, þegar sonur sinn færi að sækja um þau«. En sonur Metellusar var þá í liði föður síns og á tvítugsaldri; en enginn mátti sækja um ræðismannsembættið ýngri en 42 ára. Við þetta óx hatrið enn meir en áður hjá *Maríusi* til höfðíngjanna; hann fyrirleit kveifarskap þeirra og fègirni, virti litils mentun þeirra og kunnáttu í grískum fræðum. Hann sagði: »að það sem þeir hefðu lesið í bókum, það hefði hann þegar framkvæmt í verkinu; hann hefði að vísu fyrstur sinna ættmanna beðizt eptir ræðismannsembætti, en slíkt hið sama hefðu hinir fyrstu ættfeður höfðíngjanna gjört«. Hann kom sèr því næst í mikinn kærleika hjá liðsmönnum sínum, var þeim mildari og eptirlátari en áður; sagði, er hann átti tal við þá, að *Metellus* væri fègjarn maður, og lèti af ásettu ráði ófriðinn dragast lengur en þörf krefði, einúngis til þess að geta sem lengst setið í hervöldum; væri sèr fengin í hendur yfirstjórn hersins, þá skyldi hann sýna mönnum, hvort eigi mætti leiða ófriðinn til lykta á skamri stundu og ná æskilegum friði. Loks fekk hann leyfi að fara til Rómaborgar, en er hann var þar kominn, varð hann þess bráðum vísari, að öll alþýða borgarmanna var honum vinveitt, og átti hann það að þakka brèfum þeim, er gengið höfðu milli hersins á Afríku og borgarmanna í Róm. *Maríus* flutti ræðu eina, og fór mörgum og djörfum orðum um dramb og ágirnd og bleyðuskap höfðíngjanna; þótti mönnum honum segjast vel, og var hann til *ræðismanns* kjörinn; og þó *ráðið* hefði lengt herstjórnarvöld Metellusar um eitt ár, þá var *Maríusi* þrátt fyrir það af alþýðunni falin á hendur yfirstjórn hersins í Afríku (107 f. Kr.). Jók nú *Maríus* liðsafla sinn, ekki einúngis með rómverskum borgurum, eins og ætíð hafði verið venja, heldur með mönnum af hinum lægstu stèttum, er ekki höfðu rómverskan borgmannarètt; hann tók jafnvel þræla til hersins; því að hann leit einúngis á hitt, að draga að sèr dugandi menn, hverrar stèttar sem þeir væru, og einkum þess háttar, er hann mætti síðan treysta til að brjótast móti höfðíngjunum.

Litlu áður en *Maríus* kom aptur til Afríku og tók við herstjórn, var Metellus farinn þaðan, og var honum gramt í geði yfir því, að annar maður skyldi þannig leiða ófrið þenna móti Júgúrtu til lykta, er hann sjálfur hafði því nær á enda kljáð, og njóta alveg uppskerunnar af því, sem annar hafði niðursáð.

Skömmum tíma þar á eptir kom sá maður til *Maríusar,* og gjörðist fèhirðir liðsins, er hèt *Lúcíus Cornelíus Súlla.* Hann var af hinni nafnkendu *Cornelíusar-ætt,* er svo marga ágæta menn hafði talið meðal Rómverja. Þeir *Maríus* og *Súlla* voru mjög ólíkir menn um marga hluti. Sagnaritarinn *Sallústíus,* sem hefir ritað ágæta sögu um óeirðir *Júgúrtu,* lýsir Súlla á þessa leið: »Súlla var jafnvel að sèr í bókmentum Grikkja sem Rómverja, hann var háfleygur í anda, hneigður til munaðar, en þó miklu fremur til metnaðar. Þegar hann hafði lítið að starfa var hann sællífur, en aldrei lèt hann sællífið tefja sig frá störfum. Hann var málsnjall, slægvitur, vinsæll, og allra manna lægnastur á að dylja fyrrætlan sína fyrir öðrum, fèmildur, og þó að hann væri hinn hamingjusamasti áður en borgarastríðin hófust, þá yfirsteig hamíngjan aldrei gjörfugleika hans, og er því torvelt að segja, hvort vísa skuli til fyrirrúms hreysti hans eður hamíngju». Þá er *Súlla* kom til Afríku var hann óvanur hernaði, en á skömmum tíma tók hann miklum framförum í þeirri ment; hann varð hvers manns hugljúfi í hernum, og *Maríusi* sjálfum fanst mikið til um hann og varð vel til hans.

Þá er *Maríus* var tekinn við herstjórn krepti óðum að *Júgúrtu. Bokkus* sá einnig sitt óvænna og lèt á sèr skilja, að hann myndi selja fram Júgúrtu, ef til þess kæmi. Maríus fól Súllu á hendur, að semja við Bokkus um það efni; var það að vísu glæfraför, en Súlla leysti erindið svo vel af hendi, að Bokkus seldi honum fram Júgúrtu; var Júgúrta settur í fjötra og flutti Maríus hann þannig til Rómaborgar og hèlt dýrðlega sigurför inn í borgina, en Júgúrta gekk fyrir vagni hans (106). Júgúrtu var því næst kastað í dýflissu, og dó hann þar litlu síðar. En er sá orðrómur lagðist á, að *Súllu* væri engu síður en Maríusi að þakka hin góða endalykt, sem stríðið hefði fengið, þá fyltist Maríus að nýju heipt og hatri til höfðíngjanna og einkum til Súllu, er honum virtist kasta rýrð á sig og þá sæmd, er hann hafði til unnið.

Meðan Rómverjar áttu í höggi við Júgúrtu suður á Afríku, báru ný og óheyrð vandræði að höndum heima á Ítalíu, úr alt annari átt. Norðan af *Germaníu* (*þjóðverjalandi*), er Rómverjar þektu þá að eins að nafni, komu ókunnar þjóðir, er menn nefndu *Cimbra* og *Tevtóna,* og stefndu suður til Ítalíu. Þessir menn voru miklu meiri vexti og ófrýnilegri, en aðrir menn, er Rómverjar höfðu

nokkru sinni fyrr sèð, og önnur höfðu þeir vopn og búnað og háttalag; svo var mannfjöldinn mikill á suðurgöngu þessari, að nema mundi 300 þúsundum; var þar samankomið bæði karlar og konur og börn. Ekki er mönnum kunnugt um ferðalög þessara þjóða, fyr en að *Cimbrar*-koma fram suður undir Alpafjöllum austarlega. Þar kom *Papíríus Carbo,* rómverskur ræðismaður, í móti þeim með allmiklu liði og barðist við þá, en fekk ósigur. Það hèt *Noreja* á landamærum Íllyríu, er þeir börðust 113 árum fyrir Krist. Nú liðu svo nokkur ár, að menn urðu eigi varir við *Cimbra,* fyr en árið 109 f. Kr.; þá eru þeir komnir vestur á *Gallíu,* og krefjast þar bústaða. Þá fór *Júníus Sílanus,* ræðismaður, til móts við þá og átti við þá orustu; fór það á sömu leið, að hann fekk ósigur. Tveim árum síðar (107) rèðst *Cassius Longínus* ræðismaður í móti þjóð þeirri, er *Tígúrínar* hètu, og voru frá *Helvetíu,* en höfðu slegizt í för með *Cimbrum;* svo fóru þeirra viðskipti, að Longínus beið ósigur, og fèll sjálfur. Þó fóru engir meiri ófarir fyrir þjóðum þessum, en hinir rómversku hershöfðíngjar *Manlíus Maxímus* og *Servilius Cæpio* (105); þeir höfðu um 80 þúsundir manna og börðust við *Germani* (þjóðverja) nálægt *Rhódanus* fljóti; fèll þar nálega hver maður af Rómverjum, og alt, sem þeir höfðu meðferðis, komst í heudur sigurvegaranna. Nú var eigi annað sýnna, en að vogestir þessir myndu halda viðstöðulaust til Rómaborgar; ríkið var í voða og menn sáu eigi önnur úrræði, en að gjöra *Maríus,* þótt hann væri þá fjærverandi og suður á Afríku, að ræðismanni, og senda hann norður móti þessum afarmennum, er nú vofðu yfir landi og lýð; og af því ófriður þessi dróst svo lengi, þá var hann hvað eptir annað kjörinn ræðismaður, og hèlt því embætti um 4 ár í sífellu, frá 104—101 f. Kr. Það er og sannast að segja, að Rómverjar áttu eigi um þær mundir völ á öðrum manni, er betur væri til þess fallinn fyrir margra hluta sakir, heldur en *Maríus,* að gánga í móti jafn tryltum þjóðum, sem *Cimbrar* voru og *Tevtónar.* Nú heldur Maríus liði sínu norður yfir Alpafjöll og vestur að Rhódanus fljóti í Gallíu, setur þar herbúðir og víggirðir þær hið bezta. En það er að segja af þeim norðurþjóðunum, að þær höfðu þá skipt sèr í tvær sveitir; hèldu *Cimbrar* suður um *Týról* og ætluðu þann veg ofan á *Ítalíu;* en *Tevtónar* vildu berjast við Maríus í *Gallíu.* Þess var heldur eigi lengi að bíða, áður Tevtónar kæmi að herbúðum Maríusar og

byði honum orustu; höfðu þeir óflýjandi her og fóru með ópi miklu og óhljóðum. En Marius fór að engu óðlega, en lèt liðsmenn sína venjast við að sjá og heyra til þessa óþjóðalýðs; gekk svo um hríð. Tevtónar gjörðu áhlaup á herbúðir Maríusar, en urðu frá að hverfa við svo búið. Leiddist þeim nú þóf þetta, tóku sig upp þaðan og hèldu öllu liðinu ofan með fljótinu, spurðu Rómverja svo sem í skopi: hvort þeir ætttu eigi að bera kveðjur konum þeirra í Rómaborg, því að nú ætluðu þeir að fara þángað. Maríus lèt þá fara leiðar sinnar, en hèlt í humótt á eptir þeim, til þess er þeir voru komnir í nánd við borg þá, er hèt *Aquæ Sextiæ* (nú *Aix* á Frakklandi). þar setti Maríus herbúðir sínar, og segja menn, að hann hafi valið þar herbúðastæðið, er mjög var lítið um vatn. En er liðsmenn hans kvörtuðu um vatnsskortinn, benti hann þeim á herbúðir óvinanna og mælti: »þarna getið þið fengið nóg vatn!» þessu næst tókst orustan og stóð í tvo daga. Tevtónar börðust af mikilli hreysti og hugprýði, en hvorigt var einhlýtt gegn herkunnáttu Rómverja og ráðkænsku Maríusar; vann hann þar frægan sigur (202). Um 200 þúsundir segja menn fallið hafa af Tevtónum, en 80 þúsundir verið handteknar, og þar á meðal konúngur þeirra *Teutobokk*. Koma Tevtónar aldrei síðan við sögur. þegar Maríus færði guðunum þakkarfórnir eptir sigurinn, komu sendimenn til hans frá Rómaborg með þá orðsendíngu, að hann væri í fimta sinn kjörinn ræðismaður, því að *Cimbrar* voru enn eptir óunnir.

Nú víkur sögunni til *Cimbra*. Veturinn næsta eptir fall *Tevtóna* lögðu þeir suður Alpafjöll og rendu sèr á skjöldum ofan eptir jöklum, og komu svo niður í bygð á Ítalíu. *Lútazius Catúlus*, rómverskur hershöfðíngi, kom til móts við þá norður við *Adige*-fljót, en varð að hopa fyrir þeim; er sagt þeir hafi fært stèttir í ána, bæði grjót og stórar eikur, og komizt svo suður yfir hana. Skömmu síðar kom *Maríus* vestan úr Gallíu með sína menn til liðs við *Catúlus;* var þá allur liðsafli þeirra beggja til samans 55 þúsundir vígra manna; þóttust Rómverjar nú viðbúnir að berjast við Cimbra. *Cimbrar* höfðu enn eigi frètt ófarir Tevtóna og sendu menn til herbúða Rómverja þess erindis, að biðja þá veita sèr og fèlögum sínum (*Tevtónum*) land til íbúðar. *Maríus* varð fyrir svörum og mælti: »verið eigi hugsjúkir um bræður yðar, þeir hafa þegar fengið jarðnæði, og munu

halda því um aldur og æfi«. En er *Cimbrar* heyrðu þessi tíðindi, þokuðu þeir liðinu nær og tóku að fylkja því á völlum nokkrum (*Campi Raudii*) skamt frá *Verónaborg* (101). þeir höfðu járnhlífar og hvíta skjöldu, sverð og spjót að vopnum; þá, sem fremstir stóðu í fylkíngu, höfðu þeir fjötrað saman, til þess að enginn einstakur maður skyldi flúið geta og fylkíngin þannig rofna. *Maríus* fylkti liði sínu þannig, að Cimbrar áttu að vega móti sólu og moldryki því, er vindurinn feykti upp á völlunum; fylkíngum Catúlusar hafði hann skipað þar, sem ólíklegt var, að þær myndu geta komið að miklu haldi, og bendir það til þess, að Maríus vildi einn hafa sæmd af sigri; en það tókst öðruvísi til: þegar orustan hófst, varð rykið svo mikið á völlunum, að Maríus misti sjónar á Cimbrum og reikaði svo um hríð aptur og fram um völluna, að hann fann þá eigi; en þegar hann loksins rak sig á Cimbra var *Catúlus* því nær búinn að vinna sigur á þeim. Cimbrar börðust með fyrsta sem óðir væru, en brátt urðu þeir yfir komnir af mæði, var bæði að sólar hitinn var mikill og fjötrar þeir, er þeir höfðu lagt á sig, voru þeim til hins mesta meins; sneri þá mannfallinu ákaflega í lið þeirra; en er konurnar sáu fall manna sinna, rèðu þær sèr sjálfar bana og börnum sínum, svo að þær yrðu eigi handteknar af Rómverjum. Sagt er að 140 þúsundir af *Cimbrum* hafi fallið í orustu þessari, en 60 þúsundir verið handteknar. Hèr fór fyrir Cimbrum, sem Tevtonum árið áður, að þeir hverfa úr sögunni eptir þenna dag. En það má segja Maríusi til lofs, að með því að sigrast á Tevtónum og Cimbrum, þá frelsaði hann ekki einúngis Rómalýð frá eyðileggíngu, heldur og einnig mentir og vísindi hinna suðlægu þjóða. Eptir þessi afreksverk hèlt hann heim til Rómaborgar, tók lýðurinn á móti honum með hinum mestu virktum, og kallaði hann *hinn þriðja höfund Rómaborgar*.

En jafnskjótt sem Rómverjar voru lausir orðnir þeirra vandræða, er nú var frá sagt, hófust aptur innbyrðis óeirðir meðal sjálfra þeirra. það gat aldrei um heilt gróið milli þeirra tveggja flokka, höfðíngjanna og alþýðunnar, eins og opt hefir verið á minnst. þó Maríus væri hinn ágætasti hershöfðíngi, þá var hann sizt sá maður, er lagaður væri til þess, að eyða flokkadráttum innanlands, eða sameina og friða borgarmenn heima í þjóðmálefnum þeirra. Hann var þvert í móti hinn ákafasti flokksforíngi,

og nú, þegar hèr var komið, var honum mest um það hugað, að geta orðið ræðismaður hið sjötta sinni, en til þess varð hann að út býta miklu fè á báðar hendur. Höfðíngjarnir, og *Metellus* í broddi þeirra, stóðu fast í móti honum, en Maríus fekk í fylgi með sèr tvo menn, er voru ákafir alþýðuvinir: *Appuleius Satúrnínus* og *Servilíus Glaucía;* varð hinn fyrnefndi *alþýðuforíngi,* en hinn síðarnefndi *dómstjóri* (*Prætor*) árið 100 f. Kr. *Satúrnínus* bar þegar upp frumvarp til nýrra laga um þjóðjarðaskiptíngu, líkt því er *Gracchus* hafði áður komið fram með, en þá, sem í móti mæltu, lèt hann drepa; *Metellus* varð að fara af landi burt. Urðu nú svo miklar óeirðir millum manna í Rómaborg, að Maríus sá, að lokið mundi virðíngu sinni, nema hann skildi við Satúrnínus; en sú varð endalykt þess manns, að höfðíngjar gripu til vopna; Satúrnínus flýði til *Capítólíum-vígis* og var drepinn síðan. En af öllu þessu hnignaði vinsældum *Maríusar,* og litlu siðar hófst *Bandamannastríðið* og uppgángur *Súllu,* er gjörðist hans skæðasti mótstöðumaður, og varð honum yfirsterkari að síðustu.

þessir sèrplægnu menn, Satúrnínus og hans kompánar, er mestu rèðu árið 100 f. Kr., höfðu einúngis hugsað um það, að seðja drotnunargirni sína, en ekki um hitt, að ráða bót á meinsemdum þeim, er þjáðu Rómverjalýð; en þær voru: hinn mikli mismunur á efnahag manna, hlutdrægni dómendanna, og óánægja bandamanna á Ítalíu. Meðan ráðherrarnir (Senatores) voru dómendur, urðu skattlandsstjórarnir ætíð sýknir saka, hversu sem þeir svo höfðu fèflett skattlöndin; en síðan riddarar höfðu fengið dómsvaldið í hendur, þá átti hið gagnstæða sèr stað, þeir sem reyndu að afstýra því, að skattlöndin væru fèflett, þeir voru nú dæmdir, en hinir sluppu óhegndir. Bandamenn Rómverja á Ítalíu höfðu margopt fengið von um, að geta öðlast rómverskan borgmannarètt, en jafnan verið prettaðir; og árið 95 f. Kr. voru allir þeir víðsvegar af Ítalíu, sem náð höfðu rómverskum borgararètti, nákvæmlega aðgreindir frá Rómverjum, og við það óx óánægjan sem mest.

Árið 91 f. Kr. bar *Markús Livíus Drúsus,* alþýðuforíngi, upp þau lagafrumvörp: að breyta skyldi kornlögunum og skipta þjóðjörðum jafnar, til þess að bæta kjör hinna fátæku; að breyta skyldi dómsvaldinu þannig, að bæði væru kvaddir til dómenda menn úr öldúngaráðinu og af riddaraflokknum; að friða skyldi banda-

menn á Ítalíu með því, að veita þeim öllum jafnrètti með Rómverjum. Hin tvö frumvörp, er fyrst voru nefnd, urðu að lögum, fyrir því að alþýðan og meiri hluti öldúngaráðsins fèllst á þau, en hinu þriðja frumvarpinu var hrundið; og þegar Drúsus lèt eigi huginn bila fyrir þá skuld, heldur gjörði hvað hann kunni til þess að fá einnig því framgengt, þá var hann myrtur. Fèllu því næst allar hans rèttarbætur um koll. En er Ítalir sáu, að Rómverjar vildu eigi veita þeim jafnrètti með sèr, þá gjörðu þeir samtök móti Rómverjum, og sögðu þeim stríð á hendur; þannig hófst *bandamannastríðið* (*bellum sociale*), er stóð frá 91—88 f. Kr. Gengu flestar hinar ítölsku þjóðir í samband þetta, en helztar þeirra voru *Marsar* og *Samnítar*. Bandamenn þessir settu stjórnarskipan hjá sèr líka þeirri, er Rómverjar höfðu, og gjörðu borg þá, er *Corfiníum* heitir, í Sabínalöndum, að höfuðborg sinni. Fyrst framan af veitti bandamönnum öllu betur en Rómverjum, en er fram í sótti, varð *Súlla* drjúgastur og vann margan ágætan sigur. *Maríus* hafði einnig herstjórn á hendi í ófriði þessum, en bæði tók nú elli og heilsubrestur að sækja á hann, og svo var hann bandamönnum fremur meðmæltur undir niðri; þess vegna beitti hann sèr ekki að neinu ráði, en fór hægt og gætilega með sínum herflokkum. Bandamenn voru hreystimenn miklir og vanir orustum með Rómverjum, er þeir jafnan höfðu verið skyldir til að fylgja þeim, hvar sem þeir áttu ófrið við aðrar þjóðir; hershöfðíngja höfðu þeir örugga, svo að ósýnt var hverjir sigrast myndu; hèr við bættist það og, að *Miþrídates hinn mikli*, konúngur í *Pontus*, vofði yfir Rómverjum austur í Asíu; leiddi þetta hvorttveggja til þess, að ráðið í Róm lèt smátt og smátt tilleiðast, að veita *bandamönnum rómverskan borgmannarètt*. Þó voru þeir eigi teknir í tölu hinna 35 sveita (tribus), er Rómverjum var skipt í frá fornöld, heldur var þeim skipað í 8 nýjar sveitir. Og þannig fengu þeir ekki fullkomið jafnrètti til móts við hina fornu Rómverja. Var því enn nokkur kur í mönnum, þó ófriðnum lètti af. Sagt er, að um 300 þúsundir manna hafi fallið á Ítalíu í þessu bandamannastríði af hvorumtveggja til samans.

Þegar ófriðurinn hófst austur í Asíu gegn *Miþridatesi* (*Miþridatesarstríðið hið fyrsta*, frá árinu 88 til 84 f. Kr.), er síðar mun getið, vildu báðir verða hershöfðíngjar, *Súlla* og *Maríus*. Höfðíngjarnir í Róm lètu það berast út, að Maríus væri orðinn

ófær til herstjórnar sökum elli og heilsubrests; en Maríus, sem ekki lèt ellina aptra sèr, gekk á hverjum degi út á *Marzvöllu,* þar sem úngir menn af Rómverjum áttu leika og vopna æfíngar, og gekk að öllum leikum með þeim, til þess að sýna mönnum, að hann væri enn þá fær um að taka upp á sig alla þá væst, er herþjónusta hefði í för með sèr. En samt sem áður fól öldúngaráðið *Súllu,* er þá var orðinn ræðismaður, herstjórn á hendur gegn Miþridatesi; var Súlla um þessar mundir með her sinn suður á *Campaníu.*

Nú unir *Maríus* illa þessum málalyktum, og vill eigi láta svo búið standa; fær hann þá í lið með sèr *Públíus Súlpicíus* alþýðuforíngja, ákafamann mikinn og málsnjallan, og með hans fylgi og framgöngu koma þeir því til leiðar, að hinir nýju borgarar (bandamenn, sem áður höfðu verið) eru teknir inn í hinar 35 fornu sveitir Rómalýðs. Þannig fekk alþýðuflokkurinn allmikinn vöxt og viðgáng, og gat nú ráðið úrslitum málanna á þíngum; enda kom það nú þegar fram; var herstjórnin tekin frá *Súllu,* hvað sem *ráðið* sagði, og fengin *Maríusi* í hendur.

Þegar Súlla fær þessi tíðindi, er hann skjótur til úrræða og heldur öllu liðinu til Rómaborgar, voru menn þar alllítt viðbúnir komu hans og varð lítið um mótstöðu. *Maríus* og nokkrir hinir helztu menn af hans flokki voru gjörðir útlægir, varð Maríus að flýja úr borginni, en *Súlpicíus* fèll. *Súlla* setti því næst höfðíngjana til þeirra valda aptur, er þeir höfðu mist, og ónýtti lög Súlpicíusar. Til ræðismanna voru kosnir *Octavíus,* einn af höfðíngjaflokknum og vinur Súllu, og *Cornelíus Cinna,* einn af Maríusarflokki; varð *Cinna* að sverja *Súllu* þann eið, að hann skyldi ekkert aðhafast ríkinu til skaða, meðan Súlla væri í austurför sinni. Eptir það fór Súlla úr borginni, og hèlt liði sínu austur í heim til móts við *Miþrídates* konúng.

En það er frá *Maríusi* að segja, að hann hèlt suður á Ítalíu, og fór jafnan huldu höfði og duldist á mýrum nokkrum, skamt frá *Míntúrnuborg;* varð þó fundinn og varpað í dýflissu þar í borginni; var þá fenginn þræll einn til að vega að honum. En er þrællinn kom inn þar sem Maríus sat, hvesti *Maríus* augu móti honum og mælti: »þorir þú þræll, að drepa Cajus Maríus?« þrælnum fèlst hugur, því að Maríus var ekki frýnilegur, og kastaði vopnunum og hljóp á burt. Maríus komst litlu síðar yfir til

Afríku, og hafðist við um hríð í því bygðarlagi, er Kartagóborg hafði áður verið; komu þar nokkrir af fèlögum hans til móts við hann, og biðu svo þess að færi gæfist til hefnda á óvinum sínum.

þessa þurfti heldur eigi lengi að bíða. Jafnskjótt sem Súlla var farinn austur, þóttist *Cinna* laus allra mála, og tók að breyta því, er Súlla hafði fyrirskipað, svipta höfðíngjana því, er þeim hafði verið í hendur fengið, og veita það aptur lýðnum. Urðu nú miklar óeirðir í Rómaborg, því að hinn ræðismaðurinn, *Octavíus*, stóð með höfðíngjaflokknum. Svo lauk með þeim, að *Cinna* varð undan að láta og flýja úr borginni, en fallnar áður 10 þúsundir manns af hans flokki; fór hann þá suður í land og safnaði liði. það frèttir *Maríus*, og heldur sem hvatast til Ítalíu, skorar á alþýðu manna, að grípa til vopna og verja fjör og frelsi; hittast þeir nú aptur *Cinna* og *Maríus*, og halda öllu liðinu til Róms. *Octavíus* ræðismaður vildi komast hjá mannavígum, og tók að semja við þá *Cinnu* og *Maríus;* hèt *Cinna* að hann skyldi þyrma borgarmönnum, en eigi vildi hann binda það loforð föstum svardögum. Var þá lokið upp borgarhliðum; gekk *Cinna* með sína sveit í borgina, en Maríus beið fyrir utan og kvaðst eigi fyr myndi inn gánga, en hann væri með lögum úr útlegð leystur. Meðan lýðurinn átti fund að þessu á torginu, kom Maríus og hans liðsmenn inn í borgina, og að því búnu lètu þeir *Cinna* vopnin ríða að mönnum; tókst þar hið mesta mannfall; voru þar drepnir vinir og fylgdarmenn Súllu allir, er þeir Maríus gátu til náð. þar fèll *Octavíus* ræðismaður; *Markús Antóníus,* er þá var frægastur mælskumaður í Róm; *Catúlus,* er vann á *Cimbrum* með Maríusi, og margir fleiri ágætir menn af ráðinu og riddaraflokknum. það er og sagt, að *Maríus* hafi þá gjörzt svo grimmur og óður, að *Cinnu* þótti úr hófi keyra, og hafi honum þó ekki ofboðið alt. Var nú Súlla gjörður útlægur, en *Maríus* gjörðist ræðismaður í sjöunda sinni (86). En er hèr var komið, átti hann skamt eptir ólifað. Um þetta leyti fóru frèttir að berast af framgöngu og afreksverkum *Súllu* austur í Asíu; voru Maríusi það litlar gleðifrèttir. Lagðist hann nú í sótt af þessu öllu saman, elli og hugsýki og ofdrykkju, og dó sjötugur að aldri, eptir að hafa verið 17 daga ræðismaður í sjöunda sinni.

## Stríðið hið fyrsta við Miþridates. Einveldi Súllu.

Nú víkur sögunni austur til *Litlu-Asíu.* það land er, eins og menn vita, afarmikið nes eður skagi, er gengur vestur af Asíu milli *Svartahafs* að norðan og *Miðjarðarhafs* að sunnan, en að vestan er Grikklandshaf, er skilur heimsálfurnar. Í Litlu-Asíu voru um þessar mundir mörg ríki og smá og ýmsir konúngar yfir. Eitt af ríkjum þessum hèt *Pontus;* það er norður við Svartahaf og þó austarlega. þegar hèr var komið sögunni, rèð þar fyrir sá konúngur, er *Miþrídates* hèt, og er nefndur *hinn mikli,* enda hafði hann margt til þess nafns; hann var maður stórvitur, og er svo sagt, að hann mælti á 22 túngur; að því skapi var hann drotnunargjarn, slægvitur og grimmur, og skorti aldrei hug nè áræði hvað sem í skarst; hreystimaður hinn mesti og þoldi manna bezt hvers kyns volk og þrautir. Hann hafði á æskuárum sætt ofsóknum af þeim, er þá stýrðu ríkinu hans vegna, og orðið að fara huldu höfði um fjöll og firnindi. En er hann kom til ríkis, lèt hann varpa móður sinni í fángelsi og síðan taka af lífi, og svo bróður sinn. Var nú hugur hans allur sá, að færa út ríki sitt og leggja undir sig lönd og lýði. *Rómverjar* voru, eins og áður er sagt, búnir að ná öllum yfirráðum undir sig sunnan og vestan á Litlu-Asíu; urðu þeir því von bráðar á vegi Miþrídatesar, og þarf því eigi að sökum að spyrja þó þeim lenti saman, þar sem hvorirtveggja vildu öll lönd undir sig brjóta. *Miþrídates* lagði á skamri stund undir sig alla Litlu-Asíu, og lèt það boð út gánga, að drepa skyldi alla rómverska menn í þeim löndum á einum og sama degi; var því boði dyggilega fylgt, því að Rómverjar voru þar ílla þokkaðir, og segja menn, að 80 þúsundir Rómverja hafi þannig verið drepnar. því næst sendir *Miþrídates* hershöfðíngja sinn, er *Arkelás* hèt, yfir á Grikkland, til þess að hleypa Grikkjum upp til ófriðar, og ná landinu undan Rómverjum (88 f. Kr.). *Aþenumenn* tóku fegins hendi móti Arkelási, og flestar grískar borgir og hèruð gengu í lið með honum; var nú eigi annað fyrir að sjá, en að lokið mundi yfirráðum Rómverja á Grikklandi.

En nú er þar til að taka, að *Súlla* kemur til Grikklands (87 f. Kr.); sezt hann þegar um Aþenuborg, og fær tekið hana eptir

nokkurn tíma, og fer með ránum og manndrápum um borgina, en lætur sèr þó um munn fara: »að hann hlífi hinum lifandi mönnum fyrir sakir hinna dauðu«. Arkelás hèlt sjóleið undan norður með landi, er hann fekk eigi varið Aþenuborg; hittast þeir *Súlla* því næst í Böiótíu, og berjast hjá borg þeirri, er *Chæronea* heitir, og fekk Súlla sigur en Arkelás flýði út í eyjar; kom þó litlu síðar aptur til Böiótíu og átti enn orustu við *Súllu* hjá *Orkómenosborg;* stóð bardaginn svo um hríð, að eigi mátti á milli sjá, hverjir sigrast myndu, en er að því var komið, að flótti mundi bresta í liði Rómverja, hleypur Súlla af baki hesti þeim, er hann reið, grípur merkið af merkismanninum og brýzt fram í lið óvina sinna með þeim orðum: »hèr vil eg falla við góðan orðstýr; en ef þèr verðið að spurðir, hvar þèr svikuð hershöfðingja yðvarn, þá segið, að það hafi verið við *Orkómenos!*« En er liðsmenn Súllu heyrðu það, stóðust þeir eigi frýjunarorð hans, og gjörðu svo harða hríð, að Arkelásar menn snerust á flótta, og fekk Súlla þar frægan sigur. Var nú Grikkland alt á hans valdi. Eptir það fekk Súlla sèr skip og hèlt austur á Litlu-Asíu; þrengdi þá svo að Miþrídatesi konúngi, að hann varð að taka þeim friðarkostum, sem Súlla setti (84 f. Kr.), en þeir voru svo látandi: að Miþrídates slepti öllum þeim löndum aptur, er hann hafði unnið, og hèlt eigi eptir nema Pontus, svo varð hann að láta öll herskip sín af hendi, og greiða Rómverjum ærið fè (2000 talentur) í hernaðarkostnað. Meðan Súlla átti í óeirðum þessum við Miþrídates, hafði *Cinna* og hans flokkur sent her manns frá Rómaborg til Grikklands til að taka hervöldin af Súllu, en sá leiðángur varð að engu, og gekk það lið alt Súllu til handa og gjörðust hans menn. Skattlöndum Rómverja í Litlu-Asíu, er gengið höfðu í lið með Miþrídatesi, hegndi Súlla á þann hátt, að hann lèt þau greiða sèr ærin fègjöld, en eigi lèt hann drepa þar menn fyrir þá sök.

Þegar *Súlla* hafði þannig lokið störfum austur á Litlu-Asíu, snýr hann þegar aptur heim til Rómaborgar (83); voru þar þá orðin mikil umskipti meðan hann var eystra. *Maríus* var dáinn; *Cinna* hafði ætlað að verja Súllu land á Ítalíu, en var drepinn af liðsmönnum sínum. Voru þannig fallnir tveir hinir helztu oddvitar alþýðunnar, og geigvænlegustu mótstöðumenn Súllu. En þeir sem nú voru komnir í þeirra stað, og helztir foríngjar al-

þýðu flokksins voru þessir: *Papirius Carbó,* sonur þess, er ósigurinn beið hjá Nóreja móti Cimbrum; *Cajus Maríus* hinn ýngri, er sumir segja son en aðrir bróðurson hins, er vann Cimbra og Tevtona; *Ponzíus Telesínus* Samnítaforíngi, dugandi hershöfðíngi, og *Qvintus Sertóríus,* er var þeirra merkastur maður. En þó að þessir menn hefðu liðs-afla mikinn yfir að ráða, og miklu meiri en þann, er *Súlla* hafði, þá var bæði, að hann hafði einvala lið en þeir ekki, og svo var þeim ofvaxið í alla staði að eiga vopna viðskipti við hann, nema ef vera skyldi *Sertóríus,* sem í öllu var hið mesta mikilmenni, en hann var þá farinn vestur til Spánar, og var þar síðan. *Súllu* veitti því næsta auðvelt að sigrast á hinum, er eptir voru, og beitti hann þá, eins og hann var vanur, bæði kænsku og karlmensku; því sagði *Carbó* um hann: »að þar væri bæði ljóni og ref að mæta sem Súlla væri, og yrði þó refurinn jafnan skæðari«. Eptir að *Súlla* vann *Telesínus* í mannskæðri orustu hjá Rómaborg, var honum engin mótstaða veitt á Ítalíu, og upp frá því tók hann sèr nýtt nafn, og lèt kalla sig *alræðismann* (Dictator). *Maríus* var fallinn áður, en *Carbo* flúinn til Afríku, og var þar drepinn. Mætti menn nú ætla, að Súlla hefði farið með vægð nokkurri, er hann hafði fengið yfirráðin öll í sínar hendur; en því fór svo fjærri, að hann var aldrei eins grimmur og þá. Það var hans mark og mið, að gjöreyða og uppræta jafnvel hinn minsta snefil af alþýðuvaldinu, en efla öldúngaráðið sem mest. Þess vegna lèt hann drepa hópum saman menn af alþýðuflokknum, og enginn var sá óhultur um líf sitt, er Súlla hafði nokkurn grun um, að væri sèr ótryggur, hverrar stèttar sem hann var. Sem dæmi til þess hve *Súlla* var grimmur, er það eitt: honum þótti sem aldrei myndu *Samnítar* verða sèr tryggir; allur fjöldi þeirra hafði fallið ásamt með Telesínus foríngja þeirra í bardaganum við Róm, nokkrir komust þó lífs af; nú lèt hann smala þeim saman sem eptir voru öllum á einn stað, og urðu það um 6000 manna; þessa lèt hann alla höggva. En á meðan þeim manndrápum fór fram, sátu ráðherrarnir á fundi þar allnærri, og *Súlla* þar hjá þeim og flutti ræðu. Veinið í þeim, sem verið var að lífláta, heyrðist þángað sem fundurinn var, og spurðu ráðherrar, hvað um væri að vera. Súlla lèt sèr eigi bregða og mælti: »það eru að eins nokkrir þorparar, sem eg læt hegna!« Hann lèt semja *nafnaskrár* yfir alla þá menn, er hann vildi ryðja úr braut sinni; eigur þeirra gjörðar upptækar, og börn

þeirra svipt allri von um embætti. Margur kom sá á þessar skrár, er eigi hafði til sakar unnið annað en það, að hann var ríkur, og að vildarmenn Súllu lángaði í fjármuni hans. Margar borgir á Ítalíu, jafnvel hèröð, mistu alt það er þau áttu, og eignum þeirra var skipt milli liðsmanna Súllu. Yfir 100 þúsundir hermanna settust þannig í eignir manna á Ítalíu, og dreifðust út um alt land; hvarf þannig að mestu eður öllu leiti, alt hið einkennilega, er alt þángað til hafði auðkent eitt fylki frá öðru þar í landi. Enginn rómverskur hershöfðíngi hafði áður þannig beitt hervöldum sínum gegn þjóðinni, sem Súlla, og varð þetta fyrirkomulag hans upphaf að því, að einvaldar þjóðanna fóru síðan að hafa stöðuga herflokka í ríkjum sínum undir vopnum, er jafnan voru búnir til þjónustu við þá, er völdin höfðu og sem gátu goldið þeim góðan mála. Súlla tók löggjafarvaldið frá *alþýðuþíngunum* eða *búaþíngunum (comitia tributa)*, og fekk það í hendur *deildarþíngunum (comitia centuriata)*, og þar áttu ræðismenn að bera upp lagafrumvörp; en svipti þar á móti alþýðuforingjana rètti þeim, er þeir höfðu haft til þess, að stýnga upp á nýjum lögum; hann jók tölu ráðherranna og fekk þeim aptur dómaravaldið í hendur. Ýms lög setti *Súlla*, er miðuðu til þess að tryggja rèttindi manna, og einkum eru sakamannalög þau, er hann setti, talin sem undirstaða undir þá grein hinna víðfrægu rómversku laga. Þegar Súlla hafði þessu lokið lagði hann niður *alræðisvöldin* (79), og flutti sig úr Róm til Púteóli, til þess að geta lifað þar í næði og sællífi, það sem eptir var æfinnar. Tók hann nú að semja æfisögu sína; en sem hann hafði lokið hinni tuttugustu bók, sýktist hann og dó af slæmum sjúkdómi, og var þá sextugur að aldri (78 f. Kr.). Lík hans var flutt til Rómaborgar með mikilli viðhöfn og brent þar að fornum sið.

Þegar er *Súlla* var dauður, leitaðist *Æmilíus Lepídus*, ræðismaður, við að kollvarpa því öllu, er hann hafði fyrir skipað. En hinn, sem þá var ræðismaður ásamt honum, *Lútazíus Catúlus*, sonur þess, er barðist við Cimbra, vitur maður og merkur, fekk afstýrt því fyrirtæki. Safnaði Lepídus þá liði og hóf ófrið, en varð ofurliði borinn og flýði undan út í Sardínarey og lèt þar líf sitt litlu síðar. Það sem eptir var af hans flokki, leitaði síðan undan vestur á Spán undir forustu þess manns, er *Perperna* hèt, og gekk í lið með *Sertóríusi*. Hafði *Sertóríus* eflzt þar að liði

og var mjög vinsæll orðinn þar af landsmönnum. Var hann bæði hinn göfuglyndasti maður og svo ágætur hershöfðíngi, að Spánverjar líktu honum jafnan við *Hannibal*. Hann vildi gjöra Spánverja sem mest samrýnda Rómverjum, setti þar þjóðskóla mikinn, þar sem hèt í *Osca* (Huesca), og lèt kenna úngum mönnum grísku og latínu og ýmsar aðrar mentir. Af rómverskum mönnum, er hjá honum voru, skipaði hann 300 í ráð, og kvað sína stjórn vera lögmæta rómverska stjórn, en við Súllu yfirráð vildi hann aldrei kannast. Hvorki *Metellus* (sonur *Metellusar* er barðist við Júgúrtu) eða *Pompeius*, er síðar mun getið, sem báðir höfðu verið sendir móti *Sertóríusi*, gátu unnið bug á honum, og gekk svo í 6 ár, og óvíst er hve lengi hann hefði varizt árásum Rómverja, ef *Perperna* hefði eigi svikið hann í trygðum og látið myrða hann (72 f. Kr.). Tók Perperna því næst við yfirráðum í stað hans, en *Pompeius* vann þegar sigur á honum og lèt drepa hann. Var svo lokið óeirðum á Spáni að því sinni.

## Hið annað og þriðja stríð við Miþrídates.

Við friðarsamníng þann, er *Miþrídates* hafði gjört við *Súllu*, hafði hann reyndar mist öll þau lönd, er hann hafði undir sig lagt, en als eigi ríki það (Pontus), er hann upphaflega rèði fyrir; hann var því að vísu nokkuð lamaður, en hvergi nærri brotinn á bak aptur, og hafði jafnan hugfast, að hefna sín á Rómverjum. Meðan Súlla var á dögum og einvaldur í Róm hófst ófriður að nýju austur í Litlu-Asíu milli Miþridatesar og Rómverja; (menn nefna þann ófrið: ***hið annað stríð við Miþrídates***, frá 83—81 f. Kr.). Sá hèt *Múrena*, er þá var hershöfðíngi Rómverja þar austur, og sem þann ófrið vakti í von um fè og frama, en Súlla bauð honum að hætta, og höfðu hvorugir gagn eður ógagn af þeim ófriði. *Miþrídates* beið nú þess, að betra færi fengist á Rómverjum, bjó herlið sitt sem hann bezt kunni, jók ríki sitt norður með Svartahafi, og gjörði samband við *Sertóríus*, og þegar *Nikomedes hinn þriðji, Biþyníu* konúngur, er deyði 75 f. Kr. hafði arfleitt Rómverja að ríki sínu, þá þóttist Miþrídates svo vel viðbúinn, að hann gæti bannað Rómverjum nábýli við sig, sendir því her manns til Biþyníu og leggur landið undir sig (74 f. Kr.. ***Hið þriðja stríð við Miþrídates***). En sú ferð varð honum eigi til fjár. Rómverjar höfðu um þær mundir þann hershöfðíngja fyrir liði

sínu í Asíu, er sýndi að hann var maður til að mæta Miþrídatesi. Hann hèt *Licinius Lúcullus*, ræðismaður, einn af höfðíngjaflokki Rómverja, ágætlega vel mentaður maður og góður vinur Súllu. Lúcullus rak Miþridates út úr Biþyníu og hèlt síðan inn í *Pontus;* vann þar hvern sigur á fætur öðrum, og lagði alt það land undir sig; varð Miþrídates þá að flýja til *Tígranes* konúngs í *Armeníu,* dótturmanns síns; hann var ríkur konúngur og svo dramblátur, að hann nefndi sig »konúng konúnganna». Hann skarst nú í lið með Miþrídatesi móti Rómverjum, en *Lúcúllus* hèlt liði sínu austur í Armeníu til móts við konúngana, og þó hann hefði miklu minna lið en þeir, vann hann þó frægan sigur á þeim hjá *Tígranócerta* (69), og síðan hjá *Artaxata* (68). En bæði var það, að *Lúcúllus* þótti vera harður og refsíngasamur við liðsmenn sína, fègjarn í meira lagi, og svo hötuðust riddararnir í Rómaborg við hann, vegna þess, að þeir gátu ekki komið sèr eins við að fèfletta lönd og lýði í Asíu, meðan hann hafði þar völd á hendi, eins og áður; rægðu þeir hann síðan á allar lundir í Rómaborg, en liðsmenn hans tregðuðust við að fylgja honum; var honum því boðið að leggja hervöldin niður, en sá maður settur til herstjórnar í hans stað, er hèt *Glabríó,* og var ónýtur hershöfðíngi. *Miþrídates,* sem aldrei þreyttist, vann ríki sitt skjótt aptur og stökti Rómverjum þaðan burtu, og drap þá margt manna.

Nú víkur sögunni aptur til *Ítalíu.* Hartnær um sömu mundir sem Rómverjar áttu í ófriði við *Miþrídates* konúng, og þegar er getið, mættu þeim tvær aðrar styrjaldir, er hver um sig voru næsta viðsjárverðar, en það var *þrælastríðið* og *víkíngastríðið.*

Það var siður með Rómverjum, að þeir settu fjölda af þrælum í skóla, og lètu kenna þeim skilmíngar, og sem þeir voru fullnuma í þeirri íþrótt, voru þeir látnir skemta lýðnum með því að skilmast, og var það einatt blóðug skemtan. Einn af skilmíngamönnum þessum hèt *Spartacus,* ættaður úr *Þrakíu,* hafði verið hertekinn og seldur mansali til *Capúaborgar.* Hann var hraustur maður og hugstór, og undi illa að lifa við slíka ánauð. Tekur hann það ráðs, að hlaupast á burtu þaðan, og með honum nokkrir af stallbræðrum hans. En er þetta frèttu aðrir þrælar á Suður-Ítalíu, streymdu þeir til hans hvaðanæfa, og urðu að lyktum saman margar þúsundir. Vildi hann þá halda burt af Ítalíu til fornra átthaga, en þángað vildi múgurinn ekki fylgja

honum og kusu heldur, að hafast við á Ítalíu og lifa við rán og gripdeildir. Rómverjar sendu þegar her manns í móti stigamönnum þessum; átti Spartacus við þá margar orustur og hafði jafnan sigur, til þess er sá maður var sendur í móti honum, er *Licinius Crassus* hèt. Varð fundur þeirra við *Silarus-á* (í Lucaníufylki) 71 f. Kr. Þar fèll Spartacus með mikilli hreysti eptir ágæta vörn, og mestur hluti hans manna; nokkrir voru handteknir og voru þeir allir krossfestir; en 5000 einar komust undan á flótta og leituðu norður til Alpafjalla; en þá tókst eigi betur til en svo, að *Cneius Pompeius,* er þá kom vestan af Spáni og hafði feldan Perperna, kom þeim í opna skjöldu; veitti hann þeim þegar atgöngu og drap þá alla. Þannig var *prælastríðið* til lykta leitt.

Ári síðar (70 f. Kr.) urðu þeir *Crassus* og *Pompeius* ræðismenn, skorti þó Pompeius 7 ár til þess, að geta hafizt til þeirrar tignar að lögum. Hvortveggja þessara manna var hinn metorðagjarnasti, og reyndu því á marga vegu að vingast við alþýðuna, þó að báðir væru af höfðíngjaflokknum; en þeir vissu sem var, að ef þeir hefðu alþýðuna í fylgi með sèr, þá ættu þeir alskostar við öldúngaráðið, og þá var engin fyrirstaða til hinnar æztu tignar. *Crassus* var allra manna auðugastur og átti sèr kenníngarnafn og var kallaður: *hinn auðgi* (*dives*); en sagt er, að auður hans hafi eigi verið sem bezt fenginn. Hann hèlt alþýðunni veizlur og lèt menn sitja við 10000 borð; hann gaf öllum snauðum mönnum nóg kornföng til 3 mánaða; hann þótti dugandi hershöfðíngi, og sýndi það bæði, þá er hann barðist með Súllu í borgarastríðum, einkum í orustu þeirri, er Telesínus fèll í, og síðan, þá er hann vann Spartacus. *Pompeius* var einhver hinn frægasti hershöfðíngi fyrir margra hluta sakir, er nokkru sinni var með Rómverjum; hafði Súlla gefið honum kenníngarnafn, þá er Pompeius hafði sigrazt á þeim *Carbo,* suður á Afríku, og kallað hann: *hinn mikla* (*magnus*), og hèlt hann því nafni síðan. *Pompeius* kom sèr nú í mjúkinn hjá alþýðunni með því að breyta í ýmsu skipan þeirri, er Súlla hafði gjört, þó honum sjálfum væri það engan veginn að skapi. Þannig fengu nú *alþýðuforíngjarnir (tribuni plebis)* aptur þau völd, er Súlla hafði af þeim tekið; dómendur skyldu nú kosnir bæði meðal ráðherra og riddara, og nokkrir meðal alþýðunnar; en það vald hafði Súlla

fengið ráðherrunum í hendur, og þeir farið illa með. En nú er að minnast á *víkíngastríðið*.

Eptir að Rómverjar höfðu lagt undir sig flestar þjóðir, er bjuggu umhverfis Miðjarðarhafið, eytt herskipaflotum þeirra og kúgað þær á ýmsa vegu, og einkum eptir það, að Sýrland var undirokað, fóru að koma upp víkíngar, er gjörðu kaupmönnum hinn mesta óskunda; jókst sá óaldarflokkur svo mjög ár frá ári, að þegar hèr var komið sögunni, segja menn, að verið hafi um 1000 víkíngaskip víðsvegar um Miðjarðarhafið. Aðalheimkynni víkínga þessara var austur í *Ciliciu, Ísauríu* og á *Krítey*. Gjörðust þeir nú nærgöngulir Rómverjum, ekki síður en öðrum, svo að þeir einatt tóku kornbirðínga, er komu frá Egyptalandi, Sikiley eða Sardiníu og fara áttu til Ítalíu, og jafnvel gengu þeir á land á sumum stöðum á Ítalíu, tóku menn og rændu fè. Skömmu eptir lát Súllu höfðu Rómverjar sent mann þann, er *Servilíus* hèt, til þess að eyða víkíngum, og varð honum að vísu nokkuð ágengt, en þó virtist mönnum svo, sem víkíngar færu vesnandi, og stóð öllum hinn mesti ótti af þeirra athæfi. Árið 67 f. Kr. bar *Gabiníus*, alþýðuforíngi, upp það frumvarp, að einum manni skyldu fengin völd í hendur um þriggja ára tíma, til þess að hreinsa Miðjarðarhafið og strendur þess, 10 mílur á land upp, fyrir víkíngum; og þó sumir mæltu í móti, að fá einum manni slík yfirráð i hendur, þá varð sú endalykt á, að *Pompeius* var af lýðnum til þessa starfs kjörinn; voru honum fengin 200 skip til umráða og menn og fè, eins og hann þóttist við þurfa. En það er til merkis um traust það, er menn þá höfðu á *Pompeiusi*, að jafnskjótt sem hann var orðinn foríngi leiðángurs þessa, þá fèll öll matvara í verði, þar sem hún áður var orðin afardýr. Það er og sannast að segja um Pompeius, að hann brást mönnum þá eigi. En á viðureign sinni við víkínga hafði hann þessa tilhögun: hann skipti liði sínu í 13 staði, og sagði hverri skipadeild fyrir það svæði á Miðjarðarhafinu, er hún skyldi hreinsa, lèt síðan gjöra víkíngum atlögu í eina og sömu mund á öllum stöðum; urðu þá víkíngar ofurliði bornir, en þeir flýðu undan til Ciliciu, er færastir voru. *Pompeius* elti þá þángað og barðist við þá og hafði sigur; tók hann öll skip þeirra, ógrynni fjár og um 20000 manna; fór hann vel með þá og fekk þeim jarðir upp til sveita bæði í Litlu-Asíu og á Grikklandi, svo að þeir skyldu

hyggja af sjóferðum, en leggja alla stund á landbúnað. Að 3 mánuðum liðnum hafði *Pompeius* lokið starfi þessu, og varð ekki mein að víkíngum eptir það.

Nú var bæði, að Pompeius hafði mikið aðgjört, enda vildu Rómverjar láta sjást, að þeir kynnu að meta afreksverk hans; þá var það, að *Manilíus* alþýðuforíngi gjörði þá uppástúngu (66 f. Kr.), að *Pompeiusi* yrði falin öll herstjórn á hendur í *Austur heimi,* til þess að leiða til lykta stríðið gegn Miþrídatesi, því að *Glabríó* hafði þar engu áorkað, eins og áður er drepið á; varð þeirri uppástúngu *Maniliusar* framgengt meðfram fyrir tillögur hins nafnfræga *Markúsar Túllíusar Ciceròs,* og tók Pompeius við hervöldum Rómverja í Asíu, og sýndi í þeirri herstjórn sinni, að hann var hið mesta mikilmenni; snerist hann nú þegar við Miþrídatesi. Leitaðist Miþrídates við um þær mundir að fá konúnginn í *Partíu* til liðs við sig, en Pompeius eyddi þeirri fyriræltun hans; *Tigranes* konúngur gat þá eigi heldur viðsnúizt um liðveizlu, fyrir því að sonur hans hafði gjört uppreist móti honum. Miþrídates hèlt því undan og vildi komast hjá orustu, en *Pompeius* elti hann og náði honum austur undir Evfratfljóti eg rèðist þar á hann á næturþeli; fekk Pompeius þar sigur, en Miþrídates flýði til Armeníu og fekk þar illar viðtökur hjá Tigranesi, því að hann hugði, að hann myndi vera í vitorði með syni sinum; varð því Miþrídates að halda þaðan norður yfir *Kákasusfjöll* og norður á *Krímskaga;* þó lèt konúngur eigi huginn bila fyrir þessar ófarir, heldur ásetti sèr að brjótast þaðan vestur með Svartahafi, og alla leið til Ítalíu og berjast þar við Rómverja. Tígranes, sem vantaði kjark og karlmensku Miþrídatesar, sá nú sitt óvænna, og jafnskjótt sem Pompeius kom inn í lönd hans, fór konúngur til fundar við hann og beiddist miskunar; en Pompeius, sem jafnan var mildur, lèt hann halda ríki sínu, en gjalda Rómverjum ærið fè til friðar sèr. Þessu næst hèlt Pompeius norður eptir Miþrídatesi, og barðist þá nálega á hverjum degi við ýmsar þjóðir, er bjuggu á leið hans; komst hann alt norður að *Kaspiskahafi* (65 f. Kr.), en þar sneri hann aptur, því að líttfært var menskum mönnum sakir vegleysu; hèlt hann þá suður til Armeníu og þaðan vestur í Litlu-Asíu til borgar þeirrar, er *Amísus* hèt, og tók þar til að skipta niður ríkjum og löndum í Asíu (64 f. Kr.). Sagt er að þar hafi komið til fundar við hann

tólf konúngar og ótal margir höfðíngjar víðsvegar að úr Asíu; rak hann þá suma frá völdum og lagði lönd þeirra undir forræði Rómverja, en suma staðfesti hann í tign sinni, er reynzt höfðu Rómverjum hollir og trúir. þessi urðu þá hin helztu skattlönd Rómverja þar austur: *Biþynía* (með Pontus), *Cilicía* (með Pamfylíu), *Sýrland, Kappadokía* og *Galazía;* náði þá Rómaveldi austur að Evfratfljóti.

Árið eptir (63 f. Kr.) hèlt *Pompeius* liði sínu suður á *Palæstínu* (Gyðíngaland). Um þær mundir sátu *Makkabear* þar að völdum, og höfðu nokkru áður tekið sèr konúngsnafn. Bræður tveir af þeirri ætt, *Hyrkanus* og *Aristóbúlus* keptu þá um völdin, og leitaði hver um sig liðs hjá Pompeiusi. Hann veitti Hyrkanusi, en Arististóbúlus settist með sína menn í musterið helga í *Jórsalaborg,* og varðist alldjarflega; varð þar mikið mannfall áður Rómverjar fengi náð musterinu og handtekið Aristóbúlus. Pompeius skipaði Hyrkanus höfuðprest yfir Gyðínga, en af tók konúngstign hjá þeim, og gjörði þá skattgilda undir Rómverja.

Meðan *Pompeius* var á Gyðíngalandi, kom honum sú gleðifrètt, að *Miþrídates* konúngur væri látinn. þessi óþreytandi maður safnaði liði af nýju og ætlaði herferð vestur á Ítalíu, en þá gjörði *Franaces* sonur hans uppreisn í móti honum, og segja sumir, að hann hafi látið myrða föður sinn, en aðrir, að *Miþrídates* hafi sjálfur ráðið sèr bana. *Farnaces* hitti síðan Pompeius og fekk að halda ríki því, er faðir hans hafði undir sig lagt fyrir austan og norðan Svarta hafið. Árið eptir (62) hèlt *Pompeius* heim til Ítalíu; þótti þá enginn maður jafnfrægur sem hann.

### Samsæri Catilínu.

*Sergíus Catilína* hefir maður heitið; hann var rómverskur og af góðum ættum; vel að sèr um flesta þá hluti, er mönnum eru ósjálfráðir, en alt i frá barnæsku leikinn í alskonar klækjum. Hann hafði verið handgenginn Súllu, og gengið þá vel fram í ránum og manndrápum og eignast auð fjár; síðan hafði hann sóað bæði sínum auði og annara í svalli og saurlifnaði, haft þó öll hin æztu embætti á hendi með Rómverjum, nema ræðismannsembættið. Nú þegar hèr var komið, vildi hann ná því og bæta svo efnahag sinn að nýju. Árið 63 f. Kr. sótti hann um að verða ræðismaður, því að hann sá gjörla, að tækist honum

að komast til þeirra valda, þá var honum innanhandar að losast úr öllum skuldum, bæta hag stallbræðra sinna og jafnvel gjörast einvaldur, ef svo vildi verða. En svo var þá orðið ástatt hjá Rómverjum, og svo voru þá siðir margra orðnir spiltir, að margur hugði gott til, ef Catilínu tækist að gjöra byltíngar í borginni. Margir af höfðíngjum höfðu sóað eignum sínum, og vildu auðgast að nýju; þess vegna urðu allmargir af ráðherrunum skjótir til að gánga í lið með Catilínu, t. a. m. *Lentúlus*, er þá var dómstjóri (Prætor), og hafði áður verið ræðismaður; þeir sem orðið höfðu fyrir ofríki af Súllu og mist eignir sínar; enn fremur þeir, sem þá höfðu á svipstundu eignast auðæfi með ýmsu móti, en eytt þeim jafnskjótt aptur; allir þessir menn væntu sèr fjár og frama af nýjum óeirðum og nýjum tilbreytíngum.

En er menn fengu pata af fyrirætlun Catilínu, tóku margir sig saman um, að kjósa hann eigi til ræðismanns, heldur þann mann, er þá var einn nýtur meðal þeirra, er í kjöri voru; en það var *Markús Túllíus Cíceró*. Hann var frá *Arpínum*, sömu borg sem *Maríus*, og var þá þegar orðinn frægur af málsnild sinni; þar að auk var hann af öllum haldinn hinn heiðarlegasti maður. Hann varð því ræðismaður í þetta skipti, og sá maður, er *Antóníus* hèt, en Catilína komst eigi að. En það er frá honum að segja, að hann fyltist heiptarhug, einkum gegn Ciceró, og einsetti sèr, að ráða hann af dögum, en fekk því eigi fram komið. Þá tók einn af fèlögum Catilínu, sá er Manlíus hèt, að safna liði um *Etrúríu*, og hóf þar uppreisn. Þóttust menn þá sjá, hvað verða vildi. Alt um það var Catilína svo ókærinn og djarfur, að kann sótti fundi ráðherranna, og lèt sem ekkert væri um að vera. En þar tók *Cíceró* á móti honum með ræðu, er svo var mergjuð, að Catilína hèlzt ekki lengur við í borginni og hrökk undan norður í land til Manlíusar. Nokkrir af fèlögum hans og samsærismönnum, þar á meðal *Lentúlus*, urðu eptir í Rómaborg, og áttu þeir á ákveðnum tíma að leggja eld í borgina á tólf stöðum, og í öllu því uppnámi, er þá yrði, fyrst og fremst drepa Cíceró og svo ráðherrana, og síðan koma til fundar við Catilínu og hans flokk. Þeir *Lentúlus* reyndu nú þessu næst að fá fleiri menn í borginni í flokk með sèr, og þar á meðal sendimenn nokkra frá *Allóbrógaþjóð* í Gallíu, er þá voru staddir í Róm; en þeir sögðu einum vini sínum frá hvað til stæði, og sá maður

sagði þegar Cíceró. Með ráðum og dáð fekk hann nú safnað svo gögnum og vitnum gegn samsærismönnum, að hann lèt þegar taka 5 af foríngjum þeirra og setja í höpt. Síðan bar hann undir ráðherrana hvað við þá skyldi gjöra. Sá er fyrstur varð fyrir svörum, og *Silanus* hèt, gaf það atkvæði, að þá skyldi af lífi taka, og slíkt hið sama sögðu allir, til þess er *Júlíus Cæsar* var að spurður; hann kvað eigi hyggilegt nè löglegt, að drepa mennina eptir dómi ráðherranna einna saman, með því slíkum dómi ætti einnig að skjóta til atkvæða þjóðarinnar, enda mætti hitt nægja, að setja þá æfilángt í fángelsi, og gjöra upptækar eigur þeirra. Mörgum þótti það ráð er Cæsar mælti, enda sagðist honum vel, og orð hans jafnan mikils metin. En þá tók Cíceró sjálfur til máls og leiddi mönnum fyrir sjónir, að nauðsyn krefði, að þessir menn væru þegar af lífi teknir, og *Markús Porcíus Cató hinn ýngri* (*Cató eldri* var lángafi hans) studdi mál hans af miklu afli; urðu þá flestir á því, að þeir væru til dauða dæmdir, og lèt *Cíceró* taka þá af lífi þann sama dag.

Meðan þetta gjörðist heima í Rómaborg, var *Antóníus* ræðismaður, sendur með her manns móti *Catilínu;* varð fundur þeirra norður í *Apennínafjöllum* hjá bæ þeim, er *Pistória* hèt; hafði Antóníus verið einn af góðkunníngjum Catilínu, og vildi því eigi bera vopn í móti honum, en setti í sinn stað herforíngja þann fyrir liðið, er *Petrejus* hèt; tókst nú bardagi með þeim; þar fèll *Catilína* og því nær allir hans menn eptir hina hraustustu framgöngu; er svo sagt, að þar lægi hver maður fallinn, er hann hafði uppi staðið í fylkíngu, og hefði enginn þeirra sár á baki. Þessi atburður varð á öndverðu ári 62 f. Kr. Urðu Rómverjar fegnir þessum málalyktum, og þóttust leystir af miklum háska fyrir viturleik og harðfylgi *Cicerós,* og kölluðu hann »*föður fósturjarðarinnar*«. Þó voru sumir illviljaðir menn, er hötuðust við hann fyrir þessar sakir; þótti þeim hann hafa sýnt í því öllu saman svo mikið gjörræði, að þjóðfrelsinu væri hætta búin. En þá reyndist *Cató,* sem áður var nefndur, honum beztur drengur; enda var Cató ólíkur maður flestum sem þá voru uppi meðal Rómverja; hann var allra manna siðvandur og ósèrplægnastur og einbeittastur; hann studdi Cíceró manna bezt móti Catilínu, af því að hann hataði alla siðleysíngja og illræðismenn, og hann

stóð seinna fast á móti Pompeiusi og Cæsari, af því að hann unni þjóðveldinu, og þoldi eigi að því yrði hætta búin.

## Cajus Júlíus Cæsar.

Nú kemur sá maður til sögunnar, er frægastur þykir verið hafa með Rómverjum, og hèt *Cajus Júlíus Cæsar.* Hann var fæddur 100 árum f. Kr., og sex árum ýngri en *Pompeius;* hann var af fornum höfðíngjaættum, en *Maríus* hafði átt föðursystur hans, og sjálfur var Cæsar tengdasonur *Cinnu.* Meðan *Súlla* var í almætti sínu, ofsótti hann alla vini og vandamenn Cinnu og Maríusar. Hann bauð því *Cæsari,* að segja skilið við konuna, en *Cæsar* kvaðst eigi myndi gjöra það að nokkurs manns vilja, að segja skilið við þá konu, sem hann unni hugástum. Þessu reiddist Súlla og ætlaði að láta taka *Cæsar* af lífi; varð hann þá að flýja úr Rómaborg, en einhverjir urðu til að biðja honum lífs og griða, og fyrir bænastað þeirra veitti Súlla honum hvorttveggja, en sagði um leið: »eg skal veita yður bæn þessa, en það segi eg yður fyrir, að þar mun koma, að hann kollvarpar höfðíngjunum; því að í Cæsari þessum búa margir Maríusar«. *Cæsar* hèlt austur í Asíu og var þar fyrst í hernaði; þaðan ætlaði hann til *Rhóduseyjar,* og nema þar málsnildarlist hjá nafnfrægum kennara í þeirri fræði, en á þeirri leið var hann handtekinn af víkíngum, því að Pompeius hafði þá enn eigi eytt þeim. Víkíngar gjörðu honum þann kost, að leysa sig út með 20 talentum. Cæsar gabbaði þá fyrir það, að þeir skyldu eigi kunna að virða hann betur en svo, og bauð þeim 50 talentur. Hann hafði eigi alt það fè hjá sèr, og varð að senda eptir því í annan stað, en á meðan var hann í varðhaldi þeirra; en þó var hann svo þar, að enginn gat annað hugað, en að hann væri foríngi þeirra. Þegar hann vildi sofa, bauð hann þeim að hafa hljótt um sig; þegar hann las þeim eitthvað, er hann hafði samið, og þeir gáfu því lítinn eða engan gaum, kallaði hann þá þussa, er ekki bæru skynbragð á það, sem fagurt væri, og kvaðst mundi láta krossfesta þá, þegar er hann væri laus orðinn. Nú er fèð kom, galt Cæsar þeim 50 talentur, eins og hann hafði heitið, og fór svo leiðar sinnar. En jafnskjótt sem hann var kominn til *Míletusborgar* (í Litlu-Asíu), fekk hann sèr skip og menn, og fór að víkíngum og fekk tekið þá höndum, og lèt krossfesta þá, eins

og hann hafði sagt. Eptir það sneri hann heim til Rómaborgar; var *Súlla* þá dauður. *Cæsar* var við alþýðuna ljúfur og lítilátur, studdi málefni hennar, þegar svo bar undir, með mælsku sinni, og gjörði sèr marga að vinum af hennar flokki, og meðan hann bjó yfir djúpsettum ráðum, fekk hann svo ágætlega dulizt fyrir höfðíngjunum, að þeir grunuðu hann með engu móti. Hann var þessu næst (68 f. Kr.) sendur til *Spánar* sem fjárstjóri (Qvæstor) þess skattlands. Þá var það einhverju sinni, að hann kom til *Gadesborgar* (Cadix) þar í landi, og sá líkneskju Alexanders mikla í Herkúleshofi; fekk sú sýn honum svo mikillar áhyggju, að hann mælti þessum orðum: »þegar Alexander var á aldur við mig, þá hafði hann lagt undir sig allan heiminn, en eg hefi enn ekkert aðhafzt«. Eptir þetta hafði Cæsar ýms embætti á hendi í Rómaborg, og er orð á því gjört (einkum meðan hann var *Ædil*), hve örlátur hann hafi þá verið á fè við alþýðuna, og þess vegna varð hún honum fylgjandi í öllu, sem hann vildi hafa fram, og studdi hann til vegs og valda. Hins vegar dró hann valdið með skarpskygni og kænsku úr höndum ráðsins og höfðíngjanna; þannig studdi hann drjúgum að upphefð Pompeiusar, til þess að fjarlægja hann frá ráðinu, og koma ríg á milli hans og höfðíngjanna, og hann hafði *Crassus* hinn ríka svo í hendi sèr, að þegar Cæsar varð skattlandsstjóri (61 f. Kr.) á Spáni, þá gjörðist Crassus borgunarmaður hans fyrir öllum skuldum, og voru þær þó ákaflega miklar. Það er sagt að á leiðinni til Spánar kom *Cæsar* við í þorpi einu, og varð þá tilrætt um það með förunautum hans, hvort kepni og deilur um völd og metorð mundu eiga sèr stað í svo litlu þorpi. Þá mælti Cæsar: »hvað mig snertir, kýs eg heldur að vera æztur maður í þessu þorpi, en næstur hinum æzta í Rómaborg«.

Um þessar mundir kom *Pompeius* heim úr austurför sinni. Þá er hann kom til Ítalíu leysti hann liðsmenn sína af herþjónustu og gaf þeim öllum heimfararleyfi, því að honum kom þá eigi til hugar, að brjótast til einveldis í Rómaborg, en við hinu bjóst hann, að geta ráðið þar mestu að lögum, sakir hins mikla álits, er hann hafði fengið af frægðarverkum sínum. En sú von brást honum. Þegar hann æskti þess, að allar ráðstafanir sínar í Asíu yrðu staðfestar og að liðsmenn sínir fengi jarðir, þá risu mótstöðumenn hans í ráðinu upp í móti honum; voru þeir *Cató,*

*Lúcúllus* og *Crassus* hinir helztu meðal þeirra. *Cíceró* gjörði hins vegar hvað í hans valdi stóð, til þess að saman gengi með Pompeiusi og ráðinu, en það kom fyrir ekki; hvorugir vildu fyrir öðrum vægja, og voru nú hinar mestu viðsjár með mönnum í Rómaborg. Þá kom *Cæsar* heim vestan af Spáni í þeim erindum, að sækja um ræðismannsembættið. Hann sá þegar hvernig alt var umhorfs, og var þá sem jafnan, skjótur til ráðs; hann hafði búizt svo um, að hann mátti treysta alþýðunni, og þá var hitt eptir, að tvístra höfðíngjunum, og fá þá á sitt mál, sem mest áttu undir sèr af þeirra flokki; fyrir því sættir hann þá *Crassus* og *Pompeius*, og gjörir samband við þá, að hver þeirra þriggja skuli annan styðja og efla til vegs og virðíngar; var þetta á engra manna vitorði annara. Þessi samtök þeirra, er menn hafa kallað *þrístjóraveldið hið fyrra*, hófst 60 vetrum fyrir Krist. *Cæsar* varð viðstöðulaust ræðismaður árið eptir (59), en hinn, er þá varð ræðismaður um leið, hèt *Bíbúlus*. Nú fór það bráðum að koma í ljós, að þeir þrír bandamennirnir rèðu einir öllu, en ráðinu hnignaði að því skapi; gjörðist *Cæsar* nú umsvifamikill og framkvæmdarsamur í stjórn sinni sem ræðismaður, en Bíbúlusar var að engu getið; enda sögðu nokkrir kímnir menn í Rómaborg, að það ár væru þeir ræðismenn *Júlíus* og *Cæsar* (en ekki *Bíbúlus* og *Cæsar*). Hann setti þá ýms lög, þar á meðal ein, er nefnd voru *akralög*, og skyldi eptir þeim skipta þjóðeignum öllum í *Campaníu* meðal fátækra borgara; hann lækkaði afgjald af ríkistekjunum, en því afgjaldi áttu riddararnir að svara, er höfðu tekjurnar að lèni; urðu þeir honum vinveittir eptir það; hann lagði fult samþykki á alla stjórnarskipan, sem Pompeius hafði gjört í Asíu. Það var venja, að ræðismennirnir fengu eitthvert skattland til forráða, þá er þeir lögðu niður ræðismannsvöldin. Nú vildi *Cæsar* eigi verða landstjóri í því skattlandi, sem ráðið hafði ætlað honum, og fyrir því lèt hann alþýðuna veita sèr landstjóravöld í *Gallía cisalpina* (Gallía fyrir sunnan Alpafjöll) og *Íllyríu* um 5 ára tíma. Ráðið varð forviða, og fekk honum þar að auki *Gallía transalpína* (Gallía fyrir norðan Alpafjöll) til umráða, því að það vildi vita hann sem fjærstan sèr. Ekkert var *Cæsari* kærara, en að komast í þá sýslu. Rómverjar áttu þá eigi nema litla sneið af Gallíu fyrir norðan fjöll; þar var útrými mikið og nóg að vinna, og hið bezta tækifæri að koma upp nýj-

um hersveitum og eflast að liði; á vetrum gat hann setið í *Gallía Cisalpina* fyrir sunnan fjöllin, og haft veður af öllu, sem fram fór í Rómaborg. Til þess að búa sem bezt um alt sèr í hag, gipti hann *Pompeiusi* dóttur sína *Júlíu,* og fekk komið þeim manni í alþýðuforíngja tign, er hèt *Clódíus,* einhverjum hinum vesta manni og ósvífnasta í Rómaborg um þær mundir. Clódius var svarinn óvinur *Cícerós,* og þar eð nú Ciceró hèlt fast við þá stjórnarskipun sem verið hafði, og vildi eigi raska henni, en þeir, sem þá höfðu æztu völdin í höndum sèr (Pompeius, Cæsar og Crassus), höfðu beyg af hans miklu málsnild, þá var þeim það ekki fjarri skapi, að Clódíus ofsótti *Cíceró* á allar lundir, og fekk komið því til leiðar, að hann varð að fara í útlegð, en hús hans rifið niður til grunna og jarðir lagðar í eyði. En er Clódíus snèri ofstopa sinum móti Pompeiusi sjálfum, þá varð Pompeius feginn að fá *Cíceró* til liðs við sig, og kom hann því heim aptur úr útlegðinni eptir eitt ár (57 f. Kr.). og fekk skaða sinn bættan eptir úrskurði ráðsins. Um þetta leiti var *Cató* einnig vikið í burt um stundarsakir, þó eigi hèti það útlegð; hann var sendur til *Kýpruseyjar* þess erindis, að setja þar frá völdum *Ptolemeus* konúng, er hafði stygt *Clódíus,* og leggja eyjuna undir Rómverja. Konúngur rèð sèr sjálfur bana; Rómverjar köstuðu eign sinni á eyna, og *Cató* flutti mikið fè þaðan í hina rómversku þjóðfjárhirzlu, og dró, sem hans var siður til, engan pening í sinn sjóð.

Nú var *Cæsar* kominn til sýslu sinnar í *Galliu* (58 f. Kr.) og tekinn þar til starfa. Að undanskilinni hinni litlu sneið, sem áður er nefnd, og sem Rómverjar höfðu umráð yfir, var Gallía um þær mundir engum útlendum þjóðum háð, og þar bjuggu þá þrjár aðalþjóðir: *Akvítanir* milli Pyreneafjalla og Garonnefljóts, *Keltar* eða *Gallar* frá Garonne norður til Signu (Seine), og *Belgir* frá Signu til Rínar. Þessar þrjár þjóðir voru greindar í marga smá flokka, er hètu ýmsum nöfnum, og áttu einatt í illdeilum hverir við aðra. En allir voru Gallar herskáir og hviklyndir og gjarnir á nýúngar; aðallinn og prestarnir (Drúidar) rèðu þar mestu. Hin fyrsta þjóð, sem *Cæsar* átti í höggi við á Gallíu, voru *Helvetar,* keltnesk þjóð, er bjó í dölunum austur af Gallíu, þar sem nú er Svissaland (Schweiz). Helvetar undu eigi heima í sínu landi, brendu bæi sína og borgir, og hèldu með öllu sínu skuldaliði vestur á Gallíu og vildu setjast þar að, því að þaðan

voru sagðir landkostir betri en austur í dölum; er sagt að Helvetar hafi verið til samans í vesturför þessari 370 þúsundir manna. En sem allur þessi manngrúi kemur vestur á Gallíu, leita þeir, er fyrir þeim urðu, til *Cæsars* og biðjast hans liðveizlu. Þótti honum nú bera vel í veiðar og fer í móti Helvetum og vinnur sigur á þeim; fellur þar meiri hluti þeirra, en hinir, sem af komust, hèldu aptur heim á fornar stöðvar (58 f. Kr.). Þessu næst fór *Cæsar* móti *Ariovistusi* konúngi, er kominn var austan af *Germaníu* með miklu liði, og hafði náð fótfestu í Gallíu, og gjörzt þar ráðríkur mjög við ýmsar þjóðir; átti Cæsar við hann orustu og fekk sigur, en Ariovistus flýði austur yfir Rinâ (58 f. Kr.). Ári síðar (57) vann hann *Belgi*, og lagði síðan hverja þjóð undir sig af annari. Eptir það áttu þeir allir fund með sèr í *Luccaborg, Cæsar, Pompeius* og *Crassus* (56 f. Kr.); áskildi Cæsar sèr, að landstjórnarvald sitt yrði lengt um 5 ár, og veittu þeir konum það ári síðar, þá er þeir voru ræðismenn (55).

*Cæsar* hafði nú unnið alla Gallíu, en hann lèt eigi þar við lenda, og fór tvisvar austur yfir Rín til *Germaníu,* til þess að skjóta Germönum skelk í bríngu og venja þá af því, að fara herferðir til Gallíu og vekja þar ófrið; hann fór einnig tvær ferðir yfir á *Bretland* (55 og 54 f. Kr.), en í hvorugu þessu landi náðu Rómverjar föstum fæti á *Cæsars* dögum. *Gallar,* sem höfðu mist frelsi sitt, gjörðu nokkrum sinnum uppreisn til þess að ná því aptur, og árið 52 f. Kr. gjörðu því nær allar þjóðir á Gallíu samtök milli sín, til þess að brjótast undan Rómverjum, og höfðu fyrirliða þann, er *Vercingetorix* hèt, hinn vaskasta mann; en þá sýndi *Cæsar* hver afbragðshershöfðíngi hann var, og liðsmenn hans, hve hraustir og vígkænir þeir þá voru orðnir. Viðureign þeirra Cæsars og Galla var þá bæði löng og hörð; loks settist Vercingetorix í borg þá, er *Alesía* hèt, en *Cæsar* settist um borgina. Þá komu Gallar að með óvígan her og umkríngdu Cæsar; varð hann þá að verjast á tvær hendur, bæði þeim, er í borginni sátu, og hinum, er að utan komu, og var þar ærinn liðsmunur. En þó fóru svo leikar með þeim, að Cæsar vann sigur, en Vercingetorix gafst upp og gekk á vald hans. Á sjö árum hafði Cæsar þannig til fulls og alls unnið Gallíu, og fríðað þar allar þjóðir; bætti hann nú stjórn þeirra á margan hátt og var þeim

hinn mildasti, enda var þess eigi lengi að bíða, að mentun Rómverja tæki að ryðja sèr til rúms á Gallíu.

Meðan því fór fram á Gallíu, sem nú hefir verið sagt, og *Cæsar* jókst bæði að frægð og völdum, var ástand hið vesta í Rómaborg. Eptir að þeir þríveldismennirnir höfðu hizt að máli í *Lúcca* og endurnýjað sambandið milli sín, urðu þeir *Pompeius* og *Crassus* ræðismenn í annað sinn (55 f. Kr.), og brutust til þeirra valda með ofríki og kúgan. En þegar ræðismenska þeirra var á enda, varð Pompeius skattlandstjóri á *Spáni*, en Crassus á *Sýrlandi;* en Pompeius lèt aðra menn stjórna skattlandinu fyrir sína hönd, og sat sjálfur heima í Rómaborg til þess að vera jafnan við hendina hvað sem í skærist. *Crassus* var þá sextugur maður að aldri, og vildi fyrir hvern mun austur til Asíu og vinna *Partaríki* undir Rómverja og afla sjálfum sèr auðs og frægðar. En Partar reyndust eigi svo auðveldir viðureignar, sem Crassus hafði hugsað; þeir voru hraustir menn og harðfengir, ágætir reiðmenn, skutu manna bezt af boga og höfðu þá hernaðaraðferð, er rómversku fótgönguliði var ókunn og hin skæðasta. *Crassus* hèlt liði sínu austur yfir Eufrat (54 f. Kr.), setti þar setulið í nokkrar borgir í *Mesópotamíu,* og hvarf svo aptur vestur á Sýrland, og gekk vel fram um veturinn að ræna þar hof og hörga. En árið eptir (53) lèt hann lokka sig austur á slèttlendið í Mesópotamíu; umkríngdi riddaralið Parta hann þar á völlunum og drápu fjölda af Rómverjum; hörfaði Crassus þá undan, en Partar náðu honum litlu síðar, lètust myndu semja við hann grið og frið, en drápu hann í þeim umsvifum. Rómverjar mistu um 30 þúsundir manna á þeirri herferð. *Caíus Cassíus,* sem var herfjárvörður Crassusar, varði *Sýrland* svo hreystilega, að Partar fengu eigi náð því.

Nú er þessu næst að segja frá því, sem gjörðist heima í Rómaborg; þar jókst flokkadráttur með mönnum dag frá degi, svo að til baráttu kom og manndrápa; fjármútur gengu fram úr öllu hófi; ræðismenn urðu eigi kosnir svo missirum skipti; þínghelgi og friði var raskað af óróagjörnum alþýðuforíngjum, sem *Pompeius* studdi undir niðri, því að honum var allkært að vandræðin yrðu sem mest, til þess hann yrði beðinn að koma aptur á friði og spekt, og fengin til þess hin æztu völd í hendur. Þar kom og að öldúngaráðið *(senatus)* sá eigi annað fært, en að

fela Pompeiusi *einum* ræðismenskuna á hendur (52 f. Kr.). Nú var hann einvaldur í Rómaborg, en hèlt þó samt sem áður skattlandsstjórn yfir Spáni beint á móti lögum; alþýðuna í Róm leitaðist hann við að gjöra sèr vinveitta með því að láta reisa leikhús, og skemta henni með alskonar gleðileikum. En nú var vináttan milli þeirra *Cæsars* og *Pompeiusar* farin að dofna, því að *Júlía* var dáin (54) og *Crassus* var fallinn. Höfðingjarnir hræddust *Cæsar* og hötuðust við hann, og sögðu, að þar væri Maríus kominn aptur og orðinn úngur í annað sinn. þeir fyltu því allir flokk *Pompeiusar,* og gjörðist hann nú þeirra foringi, sem hann í upphafi hafði verið. þóttist nú höfðingjaflokkurinn og þjóðveldismenniruir til samans hafa nógan liðsafla, til þess að hefja fullan fjandskap gegn *Cæsari,* og taka af honum bæði hervöld og skattlandsstjórn. En *Cúríó* alþýðuforíngi, slægvitur maður og mælskur og mikill vin Cæsars, er hafði goldið allar skuldir fyrir hann, kom fram með þá uppástúngu, að báðir skyldu leggja niður hervöldin Cæsar og Pompeius (50 f. Kr.). Ráðið fèllst á uppástúngu þessa; en *Claudíus Marcellus,* ræðismaður, sagði ráðssamkomunni slitið, og skoraði á *Pompeius,* að vera viðbúinn að verja fósturjörðina. *Cæsar* bauðst til að leggja hervöldin niður, ef Pompeius gjörði slíkt hið sama; en ráðið svaraði því svo, að væri Cæsar eigi búinn að leggja niður herstjórn og dreifa liðinu á öndverðu næsta ári (í janúarmán. 49), þá yrði hann talinn í fjandmannaflokki (vargur í vèum). *Markús Antóníus* alþýðuforíngi, er verið hafði gjaldkeri hjá *Cæsari,* og fleiri af Cæsars flokki í Róm, sem mæltu í móti þessari ráðsályktun, urðu að forða sèr við meiðslum og flýja til Cæsars; slíkt hið sama gjörði *Curió,* sem áður er nefndur; skoruðu allir þessir menn fast á Cæsar, að vernda rètt alþýðuforíngjanna gegn ófriði sinna mótstöðumanna. Sá eini maður, sem nokkuð kvað að, og reyndi að miðla málum, var *Ciceró;* hann sá, að hèr var ekki lengur að gjöra um þjóðveldið, því að þjóðveldið átti nú fáa vini, heldur um hitt, hver þeirra tveggja, *Cæsar* eða *Pompeius,* ætti að ná einveldinu undir sig; af tvennu íllu, sem honum þótti, kaus hann heldur að fylgja flokki Pompeiusar og sagði um sjálfan sig: »að sèr færi nú eins og dýrunum, þau væru vön að gefa sig í þann flokk, sem væri sömu tegundar og þau sjálf«.

þegar *Cæsar* sá, að ráðið og Pompeius vildu enga tilslökun

gjöra, þá hugsar hann sèr að verða skjótari til bragðs en þeir; kveður hann þá menn, er hann hafði hjá sèr til málstefnu, og var það lítið lið, því að meginherinn var í Gallíu; segir þeim í hvert efni komið sè, og skorar á þá til drengilegrar fylgdar og liðveizlu; rómuðu allir vel hans mál. Því næst heldur *Cæsar* suður að *Rúbícófljóti;* þángað náði skattland það, er hann var yfir skipaður, en suður yfir fljótið mátti hann eigi halda hersveitum. Þegar hann er kominn að fljótinu, nemur hann staðar og hugsar sitt mál, en að litilli stundu liðinni mælti *Cæsar*: »teníngunum er kastað (*jacta est alea*)!« og heldur yfir fljótið (49 f. Kr.); mætti hann hvergi mótstöðu svo teljandi sè, og hèlt viðstöðulaust til Rómaborgar. En það er frá Pompeiusi að segja, að þá er hann frèttir til ferða Cæsars, var sem honum hyrfi garpskapur allur og áræði, og flýr hann burt úr Róm, og allur þorri ráðherra og höfðíngja með honum, og suður á land, og þaðan yfir til Grikklands. Veitti Cæsar honum eigi lengri eptirför en til *Brúndisíuborgar.* Sú borg er á sunnanverðri Ítalíu. Lagði *Cæsar* því næst alla Ítalíu undir sig, og hafði lokið því starfi á tveim mánuðum, er þess eigi getið, að þá hafi orðið mannavíg. En áður hann færi yfrá Gríkkland til móts við Pompeius, vildi hann eyða her þeim, er Pompeius hafði vestur á *Spáni;* voru þeir höfðíngjar fyrir liðinu: *Afraníus, Petreius* (sá sem vann *Catilína*) og *Terentíus Varró,* hinn lærðasti maður; sagði Cæsar svo um sína ferð: að hann ætlaði sèr fyrst að vinna herinn höfuðlausa (ɔ: herinn á Spáni), en þar næst hershöfðíngjann liðlausa (ɔ: Pompeius).

Frá *Brúndisíum* hèlt Cæsar aptur til Rómaborgar og átti þar þíng við menn, bæði alþýðuna og ráðherra þá, sem eptir höfðu orðið í borginni; var hann hinn mildasti við alla, og lèt jafnvel mótstöðumenn sína halda öllum þeirra eignum. Þegar Pompeius flýði, hafði hann látið eptir í Róm fjársjóðu ríkisins; þá vildi Cæsar taka, en einn alþýðuforíngi mælti í móti, og kvað það vera gagnstætt lögum að taka fèð; *Cæsar* kvað stríðið þurfa vopna við en ekki laga; og er maður þessi vildi varna Cæsari að ná fènu, kvaðst Cæsar mundi láta drepa hann, og bætti við þessum orðum: »það skalt þú vita úngi maður, að mèr fellur þýngra að segja þetta, en að láta gjöra það«. Þar næst hèlt *Cæsar* liði sínu vestur á Spán; allar tálmanir sem honum mæta, veðráttu,

vatnsföll, matarskort, og hvað sem heitir hefir, yfirstígur hann og sigrast á, og á fáum dögum hefir hann teflt svo við Pompeiusarmenn, að allir verða að gefast upp fyrir honum, og landíð er alt á hans valdi; að því búnu snýr hann aptur heim á leið, tekur *Massilíuborg* (Marseille) í Gallíu á leiðinni, er gjörður að *alræðismanni* (Dictator) í Róm, leggur það vald niður að fáum dögum liðnum, og verður ræðismaður, fer síðan til Brúndisíum og austur um haf og tók land í *Epírus* (í janúar 48 f. Kr.).

*Pompeius* hafði, á meðan þessu fór fram sem nú var sagt, haft viðbúnað mikinn á Grikklandi; höfðu ýmsir konúngar og höfðíngjar úr austurlöndum komið til móts við hann með liðsafla, og var þar saman komið mikið lið. Við *Dyrrhachium* (í Íllyríu) bar fundum þeirra fyrst saman; ætlaði Cæsar að halda Pompeiusi þar i herkvíum, en tókst eigi, því að Pompeius brauzt út; veitti Cæsari þar miður og hèlt þaðan til *Þessalíu*. Pompeius hèlt þegar á eptir honum, til þess er hvorirtveggja námu staðar í nánd við *Farsalusborg*. Það var fyrirætlan Pompeiusar, að berjast eigi að svo stöddu við Cæsar, heldur hitt að þreyta hann með umsátrum og vistaskorti; en höfðíngjum þeim og stórmenni, sem voru saman komnir í herbúðum Pompeiusar, líkaði það stórilla, og vildu þegar leggja til orustu, því að þeir þóttust eiga sigurinn vísan, enda höfðu þeir meira lið en Cæsar. Pompeius lèt um síðir tilleiðast; varð þar orusta mikil, og lauk svo, að *Cæsar* vann frægan sigur (20 Júlí 48 f. Kr.); fèll margt lið af Pompeiusi, en sumt var handtekið, og sumt flýði víðs vegar undan. Í stað þess að leita til skipa sinna, sem *Cató* hafði þá undir yfirstjórn sinni, flýði *Pompeius* til Egyptalands, því að hann þóttist þar eiga von góðrar heimkomu hjá *Ptólemæus Díonysusi* konúngi, er hann hafði áður styrkt föður hans til ríkis. En ráðgjafar konúngs þorðu hvorki að veita Pompeiusi móttöku eður synja honum hennar, og hugðu að sèr mundi hollast, að ráða hann af dögum, og að þeirra ráðum lèt konúngur myrða Pompeius í því hann steig þar fæti á land. Konúngur átti systur þá, er *Cleópatra* hèt; hún var kvenna fríðust, en blendin mjög. Þau systkyn deildu um ríkisstjórn á Egyptalandi. Litlu síðar kom *Cæsar* þar við land og harmaði mjög forlög Pompeiusar. Skarst hann nú í málið með þeim konúngi og systur hans, og kvað hana vera rètt borna til ríkisstjórnar með honum, eins og

faðir þeirra hefði fyrir mælt í erfðaskrá sinni. Þessu reiddist sá flokkur manna svo mjög, er stóð með konúngi, að þeir gripu til vopna og veittu *Cæsari* aðför; en þótt hann hefði engan liðsafla móti landsmönnum, þá var það eigi á þeirra færi að deila ílldeildum við Cæsar, enda fóru svo leikar með þeim, að hann átti alskostar við þá og rèði einn öllu á Egyptalandi. Konúngur týndist í *Nílá*, en *Cleópatra* fekk landstjórn á Egyptalandi, því að kærleikar miklir voru þá með þeim Cæsari og henni. Ófrið þann, er þá var þar í landi, hafa menn kallað *Alexandríu-stríðið*, eptir *Alexandríu* eða Alexandersborg, höfuðborg landsins (48—47 f. Kr.).

Meðan *Cæsar* dvaldist á Egyptalandi var hann kjörinn til *alræðismanns* um eins árs tíma heima í Romaborg; en hann fór þó eigi til Róms að því sinni, fyrir því að honum kom hersaga austan af *Asíu*. En því var svo varið, að *Farnaces* konúngur Miþrídatesson hins mikla hafði vakið ófrið þar austur, þá er hann frètti, að styrjöld væri byrjuð með Rómverjum sjálfum; ætlaði hann sèr nú að vinna aptur ríki það, er faðir hans hafði orðið að láta fyrir Rómverjum, og lagði undir sig nokkur fylki áður Cæsar kom þar og barðist við hann. Urðu þar skjót umskipti; Cæsar fekk sigur, en Farnaces flýði og var drepinn skömmu síðar. Var þeim ófriði lokið með þeirri einu orustu; enda þótti Cæsari sá atburður hafa orðið með svo skjótri svipan, að hann ritaði vinum sínum í Rómaborg þessi þrjú alkunnu orð: *veni, vidi, vici* (eg kom, eg sá, eg sigraði), 47 f. Kr. Þegar *Cæsar* hafði skipað öllu svo fyrir í Asíu, sem honum þótti við þurfa, hèlt hann tafarlaust vestur um Grikkland til Rómaborgar, og jafnaði þar þegar og eyddi öllum flokkadráttum með viturleik sínum og mildi; hann gaf öllum grið, veitti vinum sinum stórgjafir, lètti sköttum af alýðunni, og bjóst nú til ferðar suður á *Afríku* móti hershöfðíngjum Pompeiusar þeim, er þángað höfðu flúið og stýrðu þar miklu liði. Hinir helztu af fyrirliðum þessum voru þeir: *Labienus, Petreius, Metellus Scipió* tengdafaðir Pompeiusar, *Júba* konúngur í *Númidíu* og *Cató*. En er að því var komið, að *Cæsar* færi af stað, gjörði herinn, sem sat því nær allur í herbúðum suðrí Campaniu, uppreist og krafðist með mikilli frekju launa þeirra, er honum höfðu áður verið heitin. *Cæsar* sá sèr eigi fært að svo stöddu, að verða við ósk liðsmanna sinna, og

sendi *Crispus Sallústíus* (hinn nafnfræga sagnaritara), er þá var *dómstjóri* (*prætor*) í Rómaborg, til móts við þá með þeirri orðsendíngu, að þeim skyldi öllum veitt ríkugleg laun, er ófriðnum á *Afríku* væri lokið. Liðsmenn urðu að æfari og drápu tvo ráðherra, en Sallústíusi hèlt við meiðíngum. Því næst hèlt allur herinn til Rómaborgar og lèt allófriðlega. *Cæsar* þorði eigi að senda lífvörð sinn móti uppreistarmönnum, því að honum þótti uggvænt um trúleika hans, tók hann því það ráð, að gánga sjálfur í móti þeim. Þeir kröfðust þá eigi launa, heldur hins, að verða lausir við alla herþjónustu. *Cæsar* lèt sèr eigi bilt við verða, og svarar þeim svo: »þèr skuluð þegar lausir vera við alla herþjónustu, og þar á ofan skuluð þèr fá þau laun, sem eg hefi yður heitið, þegar eg hefi unnið sigur með öðrum liðsmönnum, og haldið sigurför inn í borgina». Nefndi hann þá *»kviríta«*, eins og menn voru vanir að ávarpa Rómverja á friðartímum; en hermenn nefndu menn aldrei því nafni. Við þessi orð *Cæsars* brá liðsmönnum svo mjög, að þeim fèll allur ketill í eld, og margbeiddu hann að mega fara för þessa með honum. Veitti nú *Cæsar* þeim þann hlut eins og af mildi sinni, er hann sálfur hafði hvað mest eptir þráð. Þessu næst býr *Cæsar* lið sitt og heldur þegar um haustið (47 f. Kr.) til Afríku, því að þá bjuggust mótstöðumenn hans hvað sízt við komu hans þángað. *Cæsar* fekk veður mikil í hafi og leysti sundur skipaflotann; tók hann sjálfur land við *Adrúmetum* (sú borg var litið eitt sunnar en Kartagó); en er hann gekk á land, skruppu honum fætur svo að hann fèll. Þá mælti Cæsar hátt svo að menn hans heyrðu: »þar hefi eg þig Afríka!« (*teneo te Africa!*); en það þótti óheillamerki að falla. *Cæsar* var miklu liðfærri en mótstöðumenn hans, en þó rèðist hann á þá við *Thapsusborg* (46) og vann sigur. *Cató* var eigi í orustu þessari, heldur í borg þeirri, er *Útíca* hèt, og þar rèði hann sèr sjálfur bana, litlu eptir orustuna við Thapsus, því að hann vildi fyrir engan mun lifa þegar þjóðveldið var dáið, og þyggja grið af Cæsari. Þeir *Scipió, Petreius* og *Júba* konúngur gjörðu slíkt hið sama sem *Cató*. *Númidía* var gjörð að rómversku skattlandi, og *Sallústíus,* sá sem áður var nefndur, settur þar til yfirstjórnar. Hinu afríkanska stríði hafði *Cæsar* þannig lokið á 5 mánuðum, og nú þegar hann kom aptur til Rómaborgar, var þar haldin hin veglegasta sigurhátíð, eins og siður var til

hjá Rómverjum, er hershöfðíngjar þeirra komu heim eptir unnin stórvirki og sigur á útlendum þjóðum, en öldúngaráðið kjöri *Cæsar* til *alræðismanns* um 10 ára tíma. Cæsar var, eins og hans var venja til, mildur við sína fornu mótstöðumenn; alþýðunni gaf hann stórgjafir bæði í korni og öðrum aurum, og nú lèt hann sèr mest um það hugað, að bæta í sem flestum greinum hag og ástand þjóðarinnar með viturlegum lögum og fyrirtækjum; hann veitti öllum íbúum Gallíu fyrir sunnan fjöllin rómverskan borgararètt, sömuleiðis börnum allra þeirra manna, er *Súlla* hafði svipt borgararètti; efldi vísindin, enda var hann sjálfur hinn mesti vísindamaður, og einn hinn frægasti rithöfundur í fornöld. Eitt af því, sem hann þá gjörði, var, að hann leiðrètti hið rómverska tímatal. Rómverjar höfðu alt í frá dögum Núma konúngs, talið tímann eptir túnglárum, 355 daga í ári hverju, og skotið svo mánuðum inn í annað og þriðja hvert ár, til þess alt kæmi heim; síðan var þessu nokkuð breytt, en þó var sá ruglíngur á kominn alt tímatal, að opt varð til ógagns. *Júlíus Cæsar* unni stjörnufræði sem öðrum vísindagreinum, og fekk *Sósigenes* stjörnufræðíng frá Egyptalandi til aðstoðar við sig í þessu starfi. Til þess að ná fastri undirstöðu tímatalsins var nú bætt dögum við árið 46 fyrir Krists fæðíngu svo mörgum, að í því urðu 445 dagar. Með hinu næsta ári hófst hið nýja tímtal sem kennt er við *Júlíus Cæsar* (Julianske Calender); er þar talinn tími eptir sólarárum, og stendur svo enn í dag að eins með litlum breytíngum, sem gjörðar hafa verið nú á síðustu öldum.

En *Cæsar* fekk skamma stund næði til friðsamlegra starfa. Skattlandsstjóri Cæsars á Spáni, sá er *Qvintus Cassius* hèt — frændi *Cajusar Cassíusar,* er varði Syríu eptir fall Crassusar, og sem síðar verður getið — hafði kynnt sig þar mjög ílla sökum hörku og fègirni, svo að landsmenn þar, er jafnan mintust Pompeiusar mikla til als góðs, tóku fegins hendi móti sonum hans *Cneiúsi* og *Sextusi;* söfnuðust nú allir vinir Pompeiusar, er þá voru á lífi, þángað undir merki þeirra bræðra; var sá flokkur bæði mikill og harðsnúinn. Cæsar sá, að eigi var til setu boðið og bjó sig sem fljótast til Spánar. Fundur þeirra varð hjá *Mundaborg* á Spáni (í marzmán. 45 f. Kr.). Varð þar hin harðasta orusta; sýndi *Cneiús Pompeius* að hann var ágætt foríngjaefni. Það er sagt, að bardaganum tók að halla á Cæsar; hljóp hann

þá af baki, brauzt fram í fylkíngar og eggjaði menn sína með þessum orðum: »gjörið yður eigi þá svívirðíngu, að framselja hershöfðíngja yðvarn í hendur drengjum þessum»! Gjörðu nú menn hans hina hörðustu hríð; stóð bardaginn alt til kvölds. Þá varð Cæsari litið þángað er riddaraflokkur einn þeirra óvinanna reið burtu frá hernum. En því var svo varið, að *Labienus* hershöfðíngi í liði þeirra bræðra sendi þá menn til að verja herbúðir sínar, er ein sveit af liði Cæsars hafði ráðizt á. Cæsar notaði þegar þetta atvik og kallar svo menn hans heyra: »þessir flýja!« þessum orðum trúðu hvorirtveggja, bæði Cæsars menn og óvinir hans; hertu hinir þá áhlaupið, en lið þeirra bræðra tók að riðlast, og því næst brast flótti í liði þeirra; fekk Cæsar sigur, en 30 þúsundir manna fèllu af þeim bræðrum. Þar fèll *Cneius Pompeius* og *Labienus,* og margir aðrir hershöfðíngjar, en *Sextus Pompeius* flýði, að því er sumir segja, en aðrir segja að hann væri ekki í þessari orustu. Svo sagði *Cæsar,* að þessi orusta væri hin skæðasta, er hann hafði nokkru sinni í komið, og að hann berðist þá fyrir lífi sínu en eigi til sigurs sèr sem endrarnær.

Þegar *Cæsar* kom heim aptur frá Spáni hèlt hann sigurför inn í borgina; þótti mörgum það ílla tilfallið, enda lýsa ofmetnaði hans, með því að það voru landar hans og samborgarmenn, er hann hafði sigrazt á. En *ráðið,* sem nú var orðið mjög ólíkt því, er það hafði verið til forna, sýndi nú auðmýkt sýna og undirgefni við Cæsar á margan hátt, og þar á meðal með því, að fá honum alræðismanns völd í hendur æfilángt; líkneskjur voru gjörðar eptir honum og settar bæði við hlið hinna fornu konúnga og í goðahofin; það var ákveðið, að hann væri heilagur og friðhelgur og svo mikið kvað að allri þeirri viðhöfn og dýrð, að sumir hafa ætlað, að jafnvel fjandmenn *Cæsars* hafi átt þar hlut í, til þess að kveikja öfund og hatur gegn honum. *Cæsar* lèt sem sèr líkaði þetta allvel, en hins vegar hafði hans óþreytandi starfsemi margt fyrir stafni: hann lèt gjöra ýmsa þjóðvegu um löndin, grafa sýki og skurði, þurka mýrarflóa, reisa stórkostleg hús, og til þess herinn hefði eitthvað að starfa, var það áform hans, að fara herferð austur til *Partalands,* leggja þá þjóð undir sig, halda síðan norðan um Svartahaf til *Germaníu,* vinna hana alla og koma síðan heim að því búnu.

En þetta átti eigi svo að verða. Þó að *Cæsar* væri sá af-

bragðsmaður, sem allir urðu að játa, og þó að hann einn væri fær um að stýra Rómaveldi og ráða bót á því, sem aflaga þótti fara, og þó að hann væri allra manna mildastur sínum mótstöðumönnum, — þá gátu sumir þeirra aldrei sætt sig við yfirráð hans. Þeir gátu eigi sèð, að hann væri annað eða meira en beinn ofríkismaður og rèttur ránsmaður að frelsi þjóðarinnar. Og það þótti þessum mönnum verst, að alt laut að því, að hann myndi taka sèr konúngs nafn; ýmsum meðal höfðíngjanna sveið það og sárt, að völdin voru gengin úr greipum þeim og í hendur eins manns, er þeir nú urðu að lúta. En fáir eða engir voru þeir, er sæi að aldarhátturinn var nú orðinn allur annar en áður, og Rómaveldi var nú svo komið, að einveldið hlaut að ryðja sèr þar til rúms og ráða fyrir lýð og landi, en þjóðstjórn sú hin forna átti þar eigi lengur við. Þá var það, að 60 manna í Rómaborg bundu það svardögum með sèr, að taka *Cæsar* af lífi; voru sumir þeirra vínir *Cæsars*, en þó unnu þeir þjóðfrelsinu, sem þeir nefndu svo, meir en honum. *Cajus Cassíus*, sem áður er nefndur, var frumkvöðull þessa samsæris; hann var dulur maður í skapi og þykkjuþúngur; hann hafði áður verið með Crassusi og síðan Pompeiusi, en þegið grið af Cæsari eptir fall Pompeiusar. Hann sagði nokkrum vinum sínum frá fyrirætlan sinni, að hann vildi Cæsar af dögum ráða, en þeir kváðust því að eins vilja eiga þátt í með honum, að hann kæmi *Markúsi Júníusi Brútusi* í samsærið. *Brútus* var systurson *Catós* og kvæntur dóttur hans, og honum líkastur um marga hluti. Pompeius hafði látið taka af lífi föður hans, þó fylgdi Brútus Pompeiusi fyrir því, að honum þótti málstaður hans rèttari en *Cæsars;* en á vígvellinum við *Farsalus* hafði Cæsar bjargað lífi Brútusar og tekið hann að sèr, og gengið honum í föðurs stað; enda sögðu sumir menn að Cæsar væri faðir hans. En bæði það, að Brútus unni þjóðveldinu um fram alt, eins og Cató hafði gjört, og svo hitt, að hann taldi ætt sína til *Brútusar* þess, er forðum vann að burtrekstri konúnganna og var hinn fyrsti höfundur þjóðveldisins í Rómaborg, nægði til þess, að allir samsærismenn höfðu einkum augastað á Brútusi, og vildu fyrir hvern mun koma honum í samsærið með sèr, og þar kom, fyrir þeirra eggjan og fortölur, að Brútus lèt leiðast til þessa óheillaverks. Þeir *Cassíus* og Brútus voru báðir dómstjórar (*Prætores*) þetta sama ár.

Hinn 15. dag marzmánaðar árið 44 f. Kr. var ákveðið að halda skyldi samkomu mikla í höll einni í leikhúsi Pompeiusar, og bjuggust menn þá við, að *Cæsari* yrði veitt konúngsnafn, er hann skyldi bera á herferð sinni móti *Pörtum*, og hvervetna annarstaðar en á Ítalíu; en þar skyldi hann heita alræðismaður. þenna dag rèðu samsærismenn með sèr, að þeir skyldu vinna á Cæsari. þeir vissu, að þann fund mundi hann sækja án þess að hafa lífvörð sinn um sig. En við sjálft lá, að hann kæmi eigi á ráðssamkomuna þann tiltekna dag. Cæsar hafði sjálfan dreymt, að hann liði um loptið og rètti Júpíter höndina, og konu hans hafði dreymt ílla drauma, svo að hún beiddi hann, að fara ekki á ráðstefnu þessa þann dag. En einn af samsærismönnum, sá er *Decimus Brútus* hèt, hershöfðíngi, og í miklum kærleikum við Cæsar, taldi hann mjög á að fara, og Cæsari þótti ekki mark að draumum, og fór sem hann hafði ætlað til fundarins. Hann hafði jafnvel verið varaður við þessum degi, og á leiðinni til ráðsins fekk maður einn honum skjal í hendur, þar er á voru rituð nöfn samsærismanna, en Cæsar las það aldrei og gekk svo til hallarinnar. Samsærismenn flyktust þar utan um hann, og beiddu hann með miklum auðmýktarsvip og mjúkum orðum, að gefa mann þann, er *Públíus Cimber* hèt, lausan úr útlegð. *Cæsar* neitaði því; einn af þeim dró þá kápuna ofan af herðum Cæsars, og sá maður, er *Casca* hèt, lagði knífi á honum, og varð Cæsar sár á herðum. Cæsar brást við fast og greip hann höndum og mælti: »vitskerti Casca, hvað hefst þú að?« þá þustu að morðíngjarnir og sóttu að Cæsari, en hann varðist um hríð. En er hann sá *Brútus* meðal þeirra, mælti hann: »og þú barnið mitt Brútus!« Gaf *Cæsar* þá upp vörnina, og sveipaði að sèr kápunni; en þeir særðu hann 23 sárum áður hann fèlli. Lèt *Júlíus Cæsar* þannig líf sitt, hinn mesti afbragðsmaður, er verið hefir með Rómverjum. *Brútus* gekk fram og ætlaði að tala til ráðsins, en á ráðherrana sló óhug miklum og felmtri, og hrukku þeir allir út úr höllinni, en lík *Cæsars* lá þar eitt eptir undir líkneskjustöpli Pompeiusar.

## Endalok hins rómverska þjóðveldis.

Banamenn Cæsars höfðu gjört sèr vissa von um, að dauði hans mundi aptur vekja þjóðstjórn og þjóðfrelsi til lífs; þeir

hugðu, að þegar Cæsar einn væri frá, þá þyrfti eigi aðra að óttast; þjóðstjórnin myndi þá svo sem af sjálfri sèr ryðja sèr til rúms. Þess vegna vildu þeir ekki, eins og *Cíceró* þó rèði þeim til, sjálfir taka stjórntauma ríkisins í hendur, meðan alt var í ráðleysu eptir víg Cæsars; þess vegna vildi Brútus ekki að *Markús Antóníus*, er var ræðismaður árið 44 með Cæsari, væri drepinn. En vonin brást þessum skammsýnu mönnum algjörlega, og hlaut að bregðast þeim, því að þjóðstjórn og þjóðfrelsi gat þá eigi lengur átt sèr stað; til þess var aldarhátturinn orðinn of spiltur hjá Rómverjum. *Markús Antóníus*, er var dugandi hershöfðíngi, en að öðru leiti hinn óhlutvandasti maður, færði sèr ástandið, eins og það var þá, mjög kænlega í nyt. Hann komst yfir fjárhirzlu ríkisins, eigur Cæsars og skjöl hans öll, og var með fyrsta mjög auðveldur þeim Brútusi. Ráðið staðfesti lög Cæsars, en bæði banamenn hans og aðrir, sem í sökum áttu, voru allir í grið teknir, og eigi var annað að sjá, en að allir flokkar væru nú nokkurn veginn sáttir og sammála. Af samsærismönnum fengu þeir *Júníus Brútus* Makedoníu, *Cassíus* Sýrland og *Decímus Brútus* Gallíu cisalpina til forráða sem skattlandstjórar, eins og Cæsar hafði verið búinn að ákveða. En þá er *Antóníus* kunngjörði mönnum erfðaskrá Cæsars, og einkum er hann flutti líkræðu við útför hans, og sýndi mönnum kápu hans blóðuga og gegnumstúngna, þá æsti hann alþýðu manna svo mjög, að þeim Brútusi varð eigi lengur vært í Rómaborg, og urðu að flýja þaðan. Eptir það safnaði Antóníus að sèr vopnuðum mönnum og hafði sterkan lífvörð um sig, bilti sèr í völdum, eins og honum bezt líkaði, og lèt ýms lög út gánga, er hann kvaðst fundið hafa í skjölum Cæsars.

En nú kemur sá maður til sögunnar, er hèt *Cajus Júlíus Cæsar Octavíanus*. Hann var systurdóttursonur *Júlíusar Cæsars* arfleiddur af honum og þá 18 vetra, er hèr var komið. Þegar Júlíus Cæsar var veginn var *Cæsar Octavíanus* austur í *Apollóníuborg* á Grikklandi við bóknám. En er hann frètti lát frænda síns brá hann skjótt við og fór til Rómaborgar. *Antóníus* tók honum illa og vildi ekki greiða honum erfðafèð, en *Octavíanus* tók það til bragðs, að selja eignir sínar, og gat þannig svarað því fè út til alþýðunnar, sem Cæsar hafði ánafnað henni í erfðaskrá sinni. Af þessu varð Cæsar Octavíanus mjög vinsæll, og meðan

Antóníus fór norður í land til þess að reka *Decímus Brútus* frá skattlandsstjórn, þá flyktust hinir fornu hermenn *Cæsars* til Octavíanusar og gengu undir hans merki. Hann hafði þegar mætt mótspyrnu af *Antóníusi*, og þótti því ráðlegast, að hylla að sèr þjóðveldismennina til þess að komast til valda fyrir þeirra aðstoð; en hinsvegar sáu þjóðveldismenn, að þeim var full þörf á liðveizlu Cæsars Octavíanusar til þess að steypa Antóníusi. Einkum var það *Ciceró*, er með mælsku sinni studdi fast að því í ráðinu, að Antóníus væri sviptur þeim völdum, er hann fór svo ódrengilega með[1]. Þannig komst á einskonar samband milli *Cæsars Octavíanusar* og þjóðveldismanna, þó óeðlilegt væri. Meðan þetta gjörðist settist *Antóníus* um *Mútínaborg* (Modena), en *D. Brútus* sat í borginni með liði sínu. Árið 43 sagði öldúngaráðið *Antóníusi* strið á hendur, og var þvínæst sendur her manns móti honum; voru ræðismennirnir báðir, *Hirzíus* og *Pansa*, fyrir liðinu og svo *Cæsar Octavíanus*. Fundur þeirra varð hjá *Mútinaborg*; beið *Antóníus* þar ósigur, en ræðismennirnir fèllu báðir, og *Cæsar Octavíanus* var þannig einn eptir sem æzti hershöfðingi. Ráðið sem hafði beyg af því, að hann mundi eigi vera þar allur, sem hann var sèður, vildi aptra honum frá völdum og fól þess vegna *D. Brútusi* á hendur yfirráð hersins á Ítalíu, en *Sextusi Pompeiusi* öll hervöld á sjó. En *Cæsar Octavíanus* hèlt til Róms og þegar honum var synjað þar um ræðismanns völdin, þá kúgaði hann ráðið með liðsafla þeim, er hann hafði, og varð þannig ræðismaður. Fengu nú liðsmenn hans ríkugleg laun úr þjóðfjárhirzlunni; allir, sem verið höfðu í samsæri móti *Cæsari* eða í vitorði með þeim, voru dæmdir í útlegð; leituðu allir þeir menn sèr trausts og hælis hjá *Cassiusi* og *J. Brútusi*. Upp frá þessu kom það berlega í ljós, að það var mark og mið *Cæsars Octavíanusar*, að yfirstíga þessa tvo menn og alla aðra þjóðveldismenn. Og til þess, að geta sigrazt á þeim, þótti honum snjallast ráð, að gjöra samband við *Antóníus*. En það er frá *Antóníusi* að segja, að eptir ósigurinn við *Mútína* hafði hann flúið til *Gallíu* og gengið í fèlag við *Lepídus*, er hafði þar herstjórn á

1) Hinar orðlögðu ræður, er *Ciceró* hèlt þá móti *Antóníusi*, er nefndar »filippsku ræðurnar«, af því að þeim er líkt við ræður *Demosþenes* hins gríska gegn *Filippusi* konúngi í Makedóníu, föður Alexanders mikla.

hendi. Lepídus sá var sonur þess, er gjörði óspektirnar í Rómaborg árið 78; hafði fylgt Cæsari og orðið æzti prestur (*pontifex maximus*) að honum látnum, en var að öðru leiti enginn atkvæðamaður. Þegar *Decímus Brútus* sá hvað verða vildi, leitaði hann á fund frænda síns Júníusar Brútusar, en varð handtekinn á leiðinni og drepinn að boði Antóníusar.

Þeir *Antóníus* og *Lepídus* hèldu því næst öllu liði sínu til borgar þeirrar norðantil á Ítalíu, er *Bónónía* hèt (nú Bólogna), og þar kom *Cæsar Octavíanus* til móts við þá með engu minni liðsafla. Áttu nú þessir 3 menn fund með sèr á eyju einni lítilli í fljóti því, er *Rhenus* hèt, þar hjá borginni; gjörðu þeir þá samband sín á millum, og urðu ásáttir um að skipta völdum með sèr um 5 ára tíma, og efla hver annan til að eyða þjóðveldismönnum og brjóta þá undir sig; voru þeir nefndir: *þríveldismenn hinir síðari* (*Triumviri reipublicæ constituendæ;* þ. e. þríveldismenn til að skipa fyrir um þjóðveldið). Þetta þriggja manna veldi var að því leiti ólíkt hinu fyrra (Pompeius, Crassus, Cæsar), að þessi hin síðari samtök voru á allra manna vitorði, og síðan með lögum staðfest í Rómaborg, er þrístjórar þessir komu þángað. Það var nú þessu næst ákveðið, að *Cæsar Octavíanus* og *Antóníus* skyldu fara í móti þeim *Brútusi* og *Cassíusi*, en *Lepídus* verða eptir í Róm sem ræðismaður. En nú var það tvennt, sem þeim þrístjórunum lá þýngst á hjarta, það var að eyða öllum sínum óvinum og að seðja græðgi allra þeirra herflokka, er þeir höfðu í sinni þjónustu, þess vegna tóku þeir það til bragðs, sem *Súlla* hafði forðum gjört, að þeir sömdu útlegðar-skrár (Proscriptíonslister) yfir alla þá menn, er þeir vildu úr braut ryðja. Hófust nú ofsóknir og manndráp í Rómaborg, að því skapi meiri og verri en á dögum Súllu og Maríusar, sem morðenglarnir voru nú þrír saman. Svo segja sagnaritendur, að 300 ráðherra og 2000 riddara hafi þá verið teknar af lífi eða ráðinn bani. Einn á meðal þeirra var *Cíceró*, prýði þjóðarinnar. Hann var staddur á búgarði sínum skamt frá Róm, er honum kom fregnin um dauðadóm sinn; rèði hann þá af að forða sèr undan og fara til Makedoníu á Grikklandi og komst alt til sjáfar; en morðíngjarnir náðu honum þar og unnu á honum (43 f. Kr.); var *Cíceró* þá 64 ára, er hann var líflátinn. *Qvintus* bróðir hans var þá einnig tekinn af lífi, og hafði verið ágætur maður. Sumir þeirra manna, er þá

var ætlaður dauði, komust undan og leituðu sèr skjóls hjá þeim *Brútusi* og *Cassíusi* austur í löndum, eða hjá *Sextus Pompeiusi*, er lá með flota sinn fyrir Sikiley.

Nú er að segja frá þeim *Brútusi*. Þeir höfðu þegar (árið 44) farið austur og sezt að í skattlöndum þeim, er þeim voru ætluð, og dregið þar lið að sèr. Cassius lèt skattlönd þau, er hann rèð fyrir, leggja óspart fè til stríðskostnaðar, en Brútus hlífði mönnum í því efni hvað hann kunni, og sjálfur var hann fátækur jafnan, þótt honum væri innanhandar að auðgast. Þegar þeir *Cæsar Octavíanus* og *Antóníus* höfðu lokið hinum mestu manndrápum á Ítalíu hèldu þeir austur á Grikkland með mikið lið til móts við þá *Brútus*. Varð fundur þeirra hjá *Filippsborg* í Makedóníu (42 f. Kr.). Þeir *Brútus* og *Cassíus* vildu eigi þegar berjast, en Antóníus gat með dugnaði sínum og herkænsku komið því svo fyrir, að orusta tókzt með þeim. *Cæsar Octavíanus* fylkti liði sínu móti *Brútusi*, en *Antóníus* móti *Cassíusi*. Varð sú endalykt þeirrar orustu, að Brútus vann sigur og náði herbúðum Octavíanusar, en Cassíus flýði fyrir Antóníusi, og með því hann hugði, að Brútus hefði þá einnig beðið ósigur, þá rèð hann sjálfum sèr bana. Nú var það áform Brútusar, að berjast eigi að sinni, því að hann vissi, að hagur óvina sinna vesnaði dag frá degi. Og ef honum hefði borizt fregn af því, að lið það, er þeim *Cæsari Octavíanusi* var sent frá Ítalíu, var sama daginn, sem bardaginn stóð við Filippsborg, gjörsamlega unnið á sjó af þjóðveldismönnum, þá hefði Brútus eigi breytt áformi sínu. En þá fregn fekk hann eigi, og liðsmönnum hans leiddist biðin og vildu fyrir hvern mun berjast. Tuttugu dögum eptir hina fyrri orustu barðist Brútus að nýju og beið þá ósigur, og er hann sá sitt óvænna, og að lokið var öllu þjóðfrelsi, þá vildi Brútus eigi lifa, og lagði sig sverði í gegnum og lèt svo líf sitt.

Eptir orustu þessa hèlt *Antóníus* austur á *Asíu*, til þess að eyða þeim sem eptir voru af þjóðveldismönnum og leggja þar lönd undir sig, en þá komst hann í viðkynningu við *Cleópötru* Egyptadrotningu, er hann hafði boðað á sinn fund til *Tarsusborgar*. En úr því að þau höfðu hizt, gat Antóníus ekki við bana skilið og fór með henni til Egyptalands, og lagðist þar í svall og ómensku. *Cæsar Octavíanus* sneri aptur til Ítalíu, og tók að skipta þeim verðlaunum meðal hermanna sinna, er þeim

höfðu verið heitin, en það voru 18 hinar beztu borgir á Ítalíu með öllu sem í þeim var. Urðu nú þeir, sem ójöfnuður þessi kom niður á, óvægir eins og við var að búast, og gripu margir þeirra til vopna; en *Fúlvía* kona *Antóníusar* þrístjóra, ákafakona og ófyrileitin, og *L. Antóníus* ræðismaður, bróðir hins, þóttust taka málstað þessara manna, og hófu ófrið og ætluðu sèr að hrinda *Cæsar Octavíanusi* úr völdum. Sendi hann þegar hershöfðíngja sinn *Vipsaníus Agrippa* með liði á móti þeim; umkríngdi hann L. Antoníus í *Perúsíaborg,* og lauk svo með þeim, að Antóníus varð að gefast upp. Þessa styrjöld hafa menn kallað: *Perúsíu-ófriðinn,* (*bellum Perusinum*) 41—40 f. Kr. Að því búnu kom *Markús Antóníus* heim frá Egyptalandi; lá þá við sjálft, að til vandræða horfði með þeim Cæsari *Octavíanusi,* en sættir komust á milli þeirra í *Brúndisíuborg* (40); skiptu þeir þá löndum milli sín þannig: *Antóníus* skyldi hafa öll austurlönd, *Cæsar Octavíanus* vesturlöndin, *Lepídus* Afriku. Til þess nú að tryggja friðinn sem bezt, gekk Antóníus að eiga *Octavíu* systur *Cæsars Octavíanusar,* ágæta konu; Fúlvía var dáin skömmu áður.

Eptir að þeir *Brútus* og *Cassíus* voru fallnir, átti þjóðveldið (Republiken) engan forvígismann eptir nema *Sextus Pompeius* (son Pompeiusar mikla). Hann hafði skipalið mikið og hafði lagt undir sig margar eyjar á Miðjarðarhafi, og þrístjórarnir höfðu orðið að viðurkenna yfirráð hans á eyjum þessum og samið frið við hann. En sá friður stóð eigi lengi. Þeir *Cæsar Octavíanus* og *Sextus Pompeius* kendu hver öðrum um sáttarof, og ófriður hófst að nýju milli Pompeiusar og þrístjóranna; en þeir höfðu nú lengt þrístjórnarvöld sin um önnur 5 ár. Eptir ýms óhöpp, sem *Cæsar Octavíanus* varð fyrir, vann *Agrippa* loksins mikinn sigur í sjóorustu yfir Sextusi Pompeiusi (36 f. Kr.); flýði Pompeius þá til Asíu, og þar var hann síðan drepinn að ráðum Antóníusar. *Lepídusi,* er jafnan þóttist fara halloka í viðskiptum við hina tvo þrístjórana, kom þá til hugar, að ná yfirráðum yfir eyjum þeim, er Pompeius hafði haft hönd yfir, en *Cæsar Octavíanus* ginnti með kænskubrögðum frá honum alla liðsmenn hans. Varð *Lepídus* þá að biðja hann lífs og griða og fekk það. Cæsar Octavianus tók lönd hans undir sig, en *Lepídus* varð æzti prestur, sem hann hafði áður verið, og er hann úr sögunni.

Nú hafði *Cæsar Octavíanus* fengið yfirráð yfir öllum vestur

löndum og stýrði þeim vel og viturlega. Vinir hans og ráðgjafar *Agrippa* og *Mæcenas*, hinir ágætustu menn, gengu honum til annarar handar, og styrktu stjórn hans í öllum greinum; mörg mein voru grædd og mörgu hrundið í rètt horf, er aflaga hafði farið í óeirðunum. Hins vegar hafðist *Antóníus* það eitt að, er honum var sjálfum til óvirðíngar og Rómverjum til skapraunar. Hann var öllum stundum á Egyptalandi hjá Cleópötru; þó fór hann herför eina móti *Pörtum*, en á þeirri leið misti hann 24000 manns og komst sjálfur nauðulega undan; hann gaf Cleopötru og börnum þeim, er hann átti við henni, ýms rómversk skattlönd; hann lýsti yfir því, að *Cæsarion*, elzti sonur Cleopötru, væri sonur Júlíusar Cæsars; *Octavíu* konu sína, er ætlaði á fund hans og losa hann við þá vanvirðu, er hann var kominn í á Egyptalandi, vildi hann hvorki sjá nè heyra, og rak hana heim aptur til Rómaborgar. Nú var eigi við að búast, að fèlagsskapur gæti lengur staðið milli þeirra *Antóníusar* og Cæsars Octavíanusar. Hið rómverska ráð svipti Antóníus öllum þeim völdum, er hann hafði; honum sjálfum vildu menn eigi beinlínis boða stríð, af því að hann hafði marga rómverska menn með sèr, en Cleópötru var sagt stríð á hendur. *Antóníus* skildi hvert þetta miðaði, og safnaði liði um alla Litlu-Asíu, en í stað þess, að halda þá þegar liði sínu til Ítalíu sumarið 32 f. Kr., þá eyddi hann tíðinni í svalli og sællífi, meðan *Cæsar Octavíanus* bjó her sinn sem bezt hann kunni og hafði fyrirhyggju um hvívetna. Árið eptir (31 f. Kr.) hèlt *Cæsar Octavíanus* flota sínum austur um haf til *Actíuhöfða* í Akarnaníufylki á Grikklandi; þar lá fyrir Antónius og Cleópatra, og höfðu lið mikið bæði á sjó og landi; voru skip þeirra bæði fleiri og stærri en Octavíanusar, en liðsmenn óhraustari. Antóníus treysti sèr betur að berjast á landi en á sjó, en Cleópatra kaus heldur sjóorustu, og varð það framgengt. Tókst nú hin nafnkenda sjóorusta við *Actíum* (2. dag sept. 31 f. Kr.). Agrippa var fyrir skipaliði Cæsars Octavíanusar. En er orustunni tók að halla á Antóníus, flýði Cleópatra og alt hennar skipalið; og sem Antóníus sá það, hèlzt hann eigi lengur við, og flýði á eptir henni; stóð bardaginn enn um hríð, en svo lauk, að *Cæsar Octavíanus* fekk þar mikinn sigur. Landher Antóníusar beið hans þar nokkra daga, en er hann kom eigi, gekk alt það lið Octavíanusi til handa og gerðust hans menn.

Ári síðar en þessi tíðindi urðu hèlt *Cæsar Octavíanus* til Egyptalands. Lèt Cleópatra þá allan her sinn gánga á vald hans, og leitaðist á allar lundir við að þóknast honum, en hirti ekki um Antóníus. En Octavíanus lèt eigi ginnast, því að honum var einúngis um ríki Cleópötru og hin miklu auðæfi hennar að gjöra. Hann lèt taka *Cæsaríon* af lífi. Antóníus sá nú að í öll skjól var fokið, og lagði sig sverði í gegnum; og lauk svo hans æfi. Litlu síðar lèt *Cleópatra* eiturorm granda sèr, að sumra manna sögn, en aðrir segja, að hún stýngi sig með eitruðum nálum til bana. *Cæsar Octavíanus* gjörði Egyptaland að rómversku skattlandi og setti riddara þann, er *Cornelíus Gallus* hèt, þar til landgæzlu (30 f. Kr.).

---

Hèr um bil 200 árum fyrir Kristsburð náði *Rómaveldi* að eins yfir Ítalíu, eyjar þær sem þar liggja fyrir landi, og yfir nokkurn hluta af Spáni, en síðan þá tið, og fram að þeim tíma, er hèr var komið (30 f. Kr.), höfðu Rómverjar lagt undir sig öll lönd og allar þjóðir umhverfis Miðjarðarhafið. Allar þjóðir, vestan frá Atlantshafi austur að Evfrat-fljóti, og norðan frá Rínà suður að eyðimörkum Afríku, lutu boði og banni Rómaborgar. Allir menn á Ítalíu höfðu fengið rómverskan borgararètt; önnur lönd höfðu eigi rèttindi til jafns við Ítali, en þeim var stýrt sem rómverskum skattlöndum; þau voru eign Rómverja og skattskyld undir þá. Sum lönd voru eigi algjörlega orðin skattlönd, en höfðu einskonar sjálfsforræði undir yfirstjórn Rómverja, t. a. m. *Máritania, Þrakia, Ródusey, Lykia, Kappadokia, Kommagene, Gyðíngaland.* Fyrir Gyðíngalandi rèði *Heródes* hinn grimmi frá Ídúmeu, eptir að Makkabear voru liðnir undir lok. Þjóðir þær sem bjuggu umhverfis Rómaveldi, og voru þeim óháðar, voru að mestu leiti lítt mentaðar, og deildust í ótal smáflokka; fyrir austan Rómaveldi voru að eins tvö ríki teljandi: *Armenia* og *Partaríki.* Hið síðarnefnda var víðlent; þar sátu konúngar að völdum af *Arsasída*-ætt, en voru höfðingjum og stórmenni landsins mjög háðir, og jafnan voru þar styrjaldir um ríkiserfðir. Höfuðborgir þar í landi hètu *Ktesifón* og *Selevkia,* og stóðu báðar við Tígrisá hver andspænis annari.

Það má því svo að orði kveða, að því nær allur hinn mentaði heimur væri háður einni og sömu stjórn 30 árum fyrir Krists-

burð; *Rómaborg* var eigi einúngis aðalból, miðbik heimsstjórnarinnar, heldur einnig allra vísinda og íþrótta. Þar voru saman komin listaverk hinna frægustu meistara úr öllum heimsálfum, er Rómverjar höfðu tekið og til sín flutt, bæði með rèttu og röngu; með þeim voru prýdd bæði alþjóðleg hús og einstakra manna heimkynni; húsin voru að því skapi rausnarleg og skrautleg. Það er t. a. m. sagt um hús *Clódíusar*, að það hafi kostað yfir millíón ríkisdala í vorum peníngum. *Markús Scaurus*, stjúpsonur Súllu, lèt gjöra leikhús eitt, og skyldi að eins standa mánaðartíma, það tók 80 þúsundir manna, í því voru 300 súlur af dýrum marmara og 3000 skurðmynda. Þó voru búgarðar hinna rómversku auðmanna og stórmennis á landsbygðinni miklu skrautlegastir og viðhafnarmestir, enda var auður sumra manna mikill og ekki til sparað. Það er sagt, að *Pompeius mikli* hafi átt svo mikið fè hjá konúngi einum í Kappadokíu, að 33 talentur (þ. e. um 60000 rd.) nægðu eigi til þess að greiða mánaðarvöxtu af því fè. Þegar *Lúcúllus* kom heim úr Asíuför sinni lèt hann skipta meðal lýðsins 100 þúsundum vínkèra. *Hortensíus*, nafnfrægur mælskumaður og jafnaldri *Ciceróss*, var vanur að vökva trèn í aldingarði sínum með víni, og þegar hann dó fengu erfíngjar hans eingöngu í Kíeyjarvíni 10 þúsundir vínkera. *Ciceró* átti hèr um bil hálfa aðra millíón ríkisdala, þó var hann aldrei ríkur haldinn meðal ráðherranna. *Crassus* kvað engan ríkan, sem eigi gæti haldið her manns á tekjum þeim, er henn hefði af jörðum sínum. Eptir þessu fór háttsemi Rómverja í klæðaburði, borðhaldi o. s. frv., og þó varð óhóf og eyðsla manna miklu meiri og verri á dögum keisaranna. Málaraíþrótt og myndaskurður var Rómverjum aldrei sèrlega laginn. Það voru grískir menn, er þess konar listir tíðkuðu í Róm. Hins vegar hófust fyrst bókmentir Rómverja eptir hið annað púnverska stríð, og tóku mjög miklum framförum á þessu tímabili (200—30 f. Kr.); og þó bókmentir þeirra væru í mörgu lagaðar eptir grískri fyrirmynd, þá var margt í þeim einkennilegt og af sjálfs þeirra toga spunnið. Um og eptir ár 200 f. Kr. var *Ennius* skáld uppi; er hann hið fyrsta skáld hjá Rómverjum, sem nokkuð kveður að, og nokkurs konar skáldafaðir þeirra; eptir hann komu ýms skáld, eru þeir *Plautus* († 184) og *Terenzíus* († 159) þeirra merkastir. En á ofanverðu þessu tímabili náðu bókmentir Róm-

verja mestum þroska, og það svo í sumum greinum, að eigi varð síðan jafnmikill, því síður meiri. Hinir helztu rithöfundar á þessu tímabili, (er menn hafa nefnt Cícerós-öld, eða *hinn fyrri hluta gullaldar* í bókmentasögu Rómverja) eru: *Cíceró, Júlíus Cæsar, Sallústíus, Cornelíus Nepos, Terenzíus Varró, Lúcrezíus* og *Catúllus*. Þeir tveir hinir síðast nefndu voru skáld. Latínsk túnga gekk um alla Ítalíu og tók að breiðast út vestur á bóginn til skattlandanna. En í hinum austlægu skattlöndum var grísk túnga aðalmálið, sem allir mentaðir menn töluðu, enda lærðu allir, sem til menta voru settir vestur í löndum, einnig þá túngu. Heldri manna synir lètu sèr ekki nægja, að gefa sig við bóknámi eingöngu í Rómaborg, heldur fóru líka til Grikklands og námu þar vísindi.

Í þessu hinu volduga ríki, var mentunin komin á mjög hátt stig, auðæfin orðin ákaflega mikil hjá öllu stórmenni, og nóg til af öllu því, sem miðaði til hóglífis og munaðar; en þó var ástandið þar miklum mun lakara en fyrrum hafði verið. Þjóðveldisstjórn átti eigi lengur við í hinu afarvíðlenda ríki; mismunurinn á ríkum og fátækum orðinn geysimikill; þrælarnir rèttlausir, siðirnir spiltir, trúin dauð; þjóðlíf Rómverja var að ytri ásýnd glæsilegt, en hið innra var spillingin fólgin. Ný stjórnarskipun gat að vísu bætt úr ýmsum göllum, en algjörleg bót varð eigi á því ráðin, nema með nýjum opinberuðum trúarbrögðum. Trúnni á hinum fornu guðum hafði mentunin kollvarpað og annara þjóða trúarbrögð, sem komin voru inn í landið. Þeir, sem fundu hve ónóg hin fornu trúarbrögð Rómverja voru, sættu sig í þeirra stað við heimsspeki eður hjátrú austurlanda þjóða. Gyðíngatrúin var útbreidd um alt ríkið, en afbökuð og magnlaus. Alstaðar hlutu menn að finna löngun til einhvers, sem var æðra, og þannig var brautin rudd fyrir hina *kristnu trú*

---

## Hið rómverska keisaradæmi.

(Frá því 30 árum fyrir Krists burð til árs 476 eptir Krists burð).

### I. KEISARAR AF ÆTTUM JÚLÍUSAR OG CLAUDÍUSAR.

(Frá 30 f. Kristsburð til 68 eptir Kristsburð).

C. Júlíus Cæsar Octavíanus Ágústus (┼ 14 e. Kr.)

Nú er þar til máls að taka, að *Cæsar Octavíanus* sneri heim aptur til Róms frá Egyptalandi (29 f. Kr.), og hèlt þá dýrðlega sigurhelgi í mánuði þeim, er *sextilis* hèt, en síðan var nefndur *ágústus*, eins og mánuðurinn *qvintilis* var nefndur *júlíus*, til virðíngar við *Júlíus Cæsar*. Hann hafði fengið ógrynni fjár á Egyptalandi og skipti miklu af því meðal alþýðunnar, svo að hagur hennar batnaði stórum; undi hún þá sínum hluta vel og þótti yfirstjórn Octavianusar góð. Hann beitti líka öllum sínum vitsmunum og allri sinni slægð til þess að eyða allri mótspyrnu, friða ríkið, en draga öll yfirráð í sínar hendur; suma menn gjörði hann spaka með fègjöfum eða metorðum, suma rak hann af landi burt. Sjálfur lèt hann sèr dæmi *Júlíusar Cæsars* að kenníngu verða, og forðaðist að taka sèr alræðismanns nafn eða konúngs, en lèt öll hin fornu embætti halda sèr að nafninu til, sem verið höfðu meðan þjóðveldið stóð; þannig skýldi hann einveldi sínu undir niðri, en smám saman komust öll þessi embætti í sjálfs hans hendur. Í fyrstu lèt hann kjósa sig til *ræðismanns* á ári hverju, en seinna meir fekk hann það embætti æfilángt, en lèt aðra bera ræðismanns nafnið. Sömuleiðis lèt hann veita sèr æfilángt *alþýðustjóravöldin*, og sagðist gjöra það til þess að vernda alþýðuna; eptir lát *Lepídusar* varð hann einnig æzti prestur. Þegar er hann kom heim frá Egyptalandi, lèt hann kalla sig *hershöfðingja* (*Imperator*), en því nafni fylgdu hin æztu hervöld; seinna lèt hann sem hann vildi leggja þau völd niður, en var þó kosinn aptur til þeirra um 10 ára tíma; síðan voru þau völd hans optar en í eitt skipti endurnýjuð. Honum var einnig fengið *siðgæzlumanns*-embættið í hendur; og sem siðgæzlumaður ruddi hann tvisvar þeim mönnum úr öldúngaráðinu, er honum voru mótsnúnir, eða sem honum geðjaðist eigi að. Eptir það þóttist hann óhræddur geta fengið ráðinu hlutdeild í völdunum með sèr. Sem forseti ráðsins tók hann sèr nafnið *Princeps*

(þaðan eru komin nöfnin: *Prinz* og *fursti)*, og því nafni var *keisarinn* nefndur framan af. En nafnið »keisari« er dregið af *Cæsar*, er í fyrstu var að eins mannsnafn, en síðan, er það gekk í erfðir til ættmanna hans, er að ríkjum sátu, varð það alment heiti allra þeirra, er stýrðu Rómaveldi, þótt þeir væru af öðrum ættum. Nafnið *Ágústus* (hinn virðulegi eða hinn heilagi) fekk hann árið 27 f. Kr.; var það upphaflega að eins viðurnefni hans, en síðan voru keisarar alment nefndir því nafni.

Þjóðþíngin eða þjóðfundina í Rómaborg lèt *Ágústus* halda sèr eins og verið höfðu, en þau urðu nú næsta þýðíngarlítil, sem og var eðlilegt, því að mestur hluti hinna rómversku borgara bjó í fjarlægð við borgina. Á dögum Ágústusar segja menn að þeir, sem höfðu rómverskan borgararètt, hafi verið yfir 4 milliónir manna, en með konum og börnum að minnsta kosti 16 miliónir, en fólkstala í *Rómaborg* freklega 1 millión, (en, ef aðkomandi menn og þrælar eru meðtaldir, um 2 milliónir). Nokkurn hluta af því valdi, sem þjóðþíngin höfðu haft, fekk nú ráðið í hendur, en aptur tók keisarinn sum völd frá ráðinu, og fekk þau öðru og nyju *stjórnarráði* til meðferðar. Í þetta nýja ráð skipaði hann nokkra menn af öldúngaráðinu, af riddarastèttinni, af embættismönnum og lögfræðíngum. Yfirstjórn skattlandanna skipti keisarinn milli sín og öldúngaráðsins þannig, að hann fekk ráðinu öll þau skattlönd, sem friðuð voru, og eigi var styrjaldar að vænta, en sjálfum sèr ætlaði hann hin, þar sem búast mátti við ófriði innlendum eða útlendum. Í þeim skattlöndum hafði hann herliðið, er nú var orðið stöðugt setulið og undir einkis annars manns stjórn en keisarans sjálfs. Í hernum voru bæði rómverskir borgarar og menn úr skattlöndunum. Auk þessa liðs hafði keisarinn sèrstakt setulið í Rómaborg, 10 þúsundir manns, er nefndist lífvörður hans (*cohortes prætorianæ*). Forínginn fyrir því liði (*præfectus prætorio*) varð smámsaman æzti embættismaður ríkisins. Keisarinn hafði landstjóra í sínum skattlöndum, er voru kallaðir *legátar*, en landstjórar í skattlöndum ráðsins voru kallaðir *prókonsúlar*; undir þeim stóðu aðrir embættismenn. Allir þessir embættismenn höfðu fastar tekjur, en skattar af skattlöndunum gengu í ríkissjóðinn (*ærarium*), og í keisarans fjárbirzlu (*fiscus*). Var þessi ráðstöfun hin bezta fyrir skattlandsbúa alla, og gjörði hag og ástand þeirra miklu líkara því, er rómverskir borgarar höfðu, heldur en áður

hafði verið. Frá því er Makedonía var unnin (168), og þángað til þrístjóravaldið komst á (43), höfðu rómverskir borgarar engan tekjuskatt goldið, en nú voru þau gjöld lögð á þá, og önnur fleiri bættust síðan við. Í hjúskap sínum og af ættmönnum sínum átti *Ágústus* keisari mjög hverfulu láni að fagna, og mátti mæðumaður kallast. Hann var þríkvæntur. Miðkona hans hèt *Scribónía;* með henni átti hann eina dóttur barna, er *Júlía* hèt; hana gipti hann systursyni sínum þeim, er *Markús Claudíus Marcellus* hèt, efnilegum manni, en hann dó úngur. Giptist *Júlía* þá í annað sinn og átti *Agrippu,* sem áður er nefndur; stóð hann nú næstur til ríkiserfða, en andaðist á bezta skeiði (12 f. Kr.). Þeim Agrippu- og Júlíu varð barna auðið, og arfleiddi Ágústus sonu þeirra, *Cajus* og *Lúcíus Cæsar,* en þeir dóu báðir á tvítugsaldri, litlu eptir Kristsburð. Var *Livía,* þriðja kona *Águstusar,* grunuð um dauða þeirra bræðra, því að hún vildi koma syni sínum, *Tiberíusi Claudíusi Neró,* af fyrra hjónabandi, til ríkis. *Tiberíus* var kjarkmaður og dugandi maður í mörgu, en slægvitur og ákaflega myrkur í skapi og fláráður. Eigi var Ágústusi vel í þokka til hans, en þó gipti hann honum Júlíu dóttur sína, tveim árum eptir að Agrippa var dáinn; urðu samfarir þeirra eigi góðar; fór Tíberíus af landi burt, og dvaldist 8 ár austur í *Rhódusey,* en Júlía lagðist í saurlifnað, og varð faðir hennar að láta hana fara burt úr borginni til eyjar þeirrar, er Pandataría hèt. Eptir dauða þeirra dóttursona sinna, Cajusar og Lúcíusar, tók *Ágústus* sèr *Tiberíus* í sonarstað, og lèt hann aðstoða sig í ríkistjórninni hin síðustu ár æfi sinnar.

*Ágústus* keisari jók ríkið um sína daga. Hèrumbil 20 árum f. Kristsb. vann *Agrippa* sigur að fullu og öllu á þjóð þeirri norðan til á Spáni, er *Kantabrar* hètu, og alt til þess tíma hafði engum verið háð. Um sömu mundir var *Ágústus* sjálfur austur í Asíu; komu þar til hans sendiherrar af ýmsum löndum, þar á meðal austan af *Partalandi,* er færðu hönum þá menn, er eptir voru lifandi af þeim, er fylgt höfðu *Crassusi* og *Antóníusi,* og verið herteknir, svo og nokkur merki, er hershöfðíngjar þessir höfðu mist í viðureign sinni við Parta. Merkilegastar voru herferðir Rómverja um þessar mundir til nábúaþjóða þeirra í Norðurálfunni. Hèrumbil 15 árum fyrir kristsburð lögðu þeir bræður *Tiberíus* og *Drúsus,* stjúpsynir *Ágústusar,* undir sig fjallalöndin

*Rætíu, Vindelícíu* og *Noricum* (það er Tyról og nokkur hluti af Baiern og Austurríki), einnig náðu Rómverjar þá *Pannoníu* (eystri hluta Austurríkis og vesturhluta Úngarns) og norðurhluta *Þrakíu;* var það kallað *Mösía* eptir að Rómverjar unnu landið; áttu þeir nú þvínær öll lönd fyrir sunnan *Dóná,* vestan frá upptökum hennar og austur að ósum.

Þegar Rómverjar höfðu eignazt lönd norður að Dóná og Rín, hófst bráðum ófriður milli þeirra og *Germana,* er bjuggu fyrir norðan fljót þessi. *Drúsus* stjúpsonur *Ágústusar* var þá skattlandsstjóri á Gallíu; hann lèt gjöra yfir 50 kastala á Rínárbökkum til varnar móti Germönum, og hèlt síðan margar herferðir norður í lönd þeirra, og komst alt norður að Elfunni. Til þess að geta komið skipum sínum inn í Zuydersjó, gróf hann skurð úr Rín norður í Ysselfljót; er sá skurður enn til og kendur við Drúsus. Það varð dauðamein Drúsusar (9 f. Kr.), að hestur fèll undir honum á hinni fjórðu herferð hans móti Germönum; varð Drúsus mjög harmdauði, því að hann hafði verið hinn vinsælasti maðar og ágætur hershöfðíngi. Öldúngaráðið gaf honum til heiðurs viðurnefnið *Germanicus* og svo niðjum hans. Eptir lát Drúsusar fekk Tíberíus bróðir hans herstjórn móti Germönum; vann hann ýms hèröð undir Rómverja, fremur með undirferli og brögðum, en með hreysti og drengskap; mátti kalla að allar þjóðir milli Rínár og Veserfljóts kæmust þá undir Rómverja. En er hinn rómverski hershöfðíngi *Qvintilíus Varus* vildi leggja skatta á Germani, og neyða þá til að hlýðnast rómverskum lögum, gjörðu þeir samtök móti honum og höfðu þann fyrirliða, er *Hermann (Armin)* hèt; hann var höfðíngjason af þjóðflokki þeim, er *Kerúskar* hètu, og hafði áður verið í herþjónustu með Rómverjum; hann var hinn mesti hreystimaður, ann fósturjörðu sinni af hreinum hug, en hataði kúgun Rómverja. Varus hafði lið mikið þar norður, milli 30 og 40 þúsundir manns að öllu samtöldu; var það hin mesta hætta líttvopnuðum þjóðum og fákænum við hernað, að ætla sèr móti Rómverjum bæði liðmörgum og hinum herkænustu. Þó lèt *Hermann* slíkt eigi til fyrirstöðu verða og rèðist á *Varus,* er hann fór yfir skógland mikið, er nefnt hefir verið *Teutóborgarskógur,* og hyggja menn verið hafi í fylki því, er nú heitir *Lippe Detmold,* skamt frá Veserfljóti. Börðust þeir þar á skóginum í 3 daga, og lauk svo, að *Varus* fèll og

mest alt lið hans. Atburður þessi varð 9 árum eptir Kristsburð. Við þessi tíðindi varð *Ágústus* keisari svo hryggur, að hann varð mönnum vart sinnandi, og æpti hástöfum: »fáðu mèr aptur herskarana mína Varus«! Var það þó eigi venja keisarans að bregða skapi sínu, þótt eitthvað misjafnt bæri að höndum, því að hann var allra manna stillastur. Ágústus keisari dó 76 ára gamall á ferð í *Nóla* í Campaníu 14 árum e. Kr.

Meðan *Ágústus* keisari sat að ríkjum breyttist hagur Rómverja innanlands í mörgu til hins betra, enda var stjórn hans bæði viturleg og mild. Hann setti ýms þarfleg lög í landi, lèt gjöra þjóðvegu ágæta um landið, kom á póstgöngum, og Agrippa kom því til leiðar, að landmælíngar voru gjörðar víðsvegar um ríkið, vatnsveitíngar miklar á ýmsum stöðum, og stórkostlegar húsasmíðar, t. a. m. hið nafnfræga *Panþeon* í Rómaborg. Siðferðið leitaðist Ágústus við að bæta á ýmsan hátt, en sú spillíng gat vart lagazt við útvortis tilskipanir einar. Lögreglustjórnin batnaði að vísu nokkuð í Rómaborg, og einn maður var skipaður þar til yfirstjórnar, er hèt *staðarforíngi* (præfectus urbi).

Á dögum *Ágústusar* keisara stóð *hinn síðari hluti gullaldar* í bókmentasögu Rómverja. Þá voru uppi ýmsir ágætir menn, er efldu vísindi og listir á marga vegu, t. a. m. *Asiníus Pollió* og *Messala Corvinus,* en enginn er þó jafnfrægur fyrir slíka hluti sem *Mæcenas;* eru þeir menn síðan nefndir heiti hans, er efla vísindi og styðja námsmenn. Þá voru þeir uppi *Virgilíus, Hórazíus, Ovidíus, Tibúllus* og *Properzíus,* þjóðskáld Rómverja, og þá var *Livíus* uppi frá Pataví, er ritaði sögu Rómverja, fróðlegt rit og mikið, en meiri hluti þess er glataður. Mælskumenn gátu eigi þrifizt síðan þjóðveldið hvarf. Grískir sagnaritarar voru og um þær mundir í Rómaborg, *Diódórus* frá Sikiley og *Diónysíus* frá Halikarnasi, og *Strabó* frá Kappadokíu, er ritaði fróðlega bók um landaskipun.

Hinn merkilegasti viðburður, er gjörðist á dögum Ágústusar keisara, er fæðíng lausnara vors *Jesú Krists.* Þá var Heródes (mikli) sonur Antipaters, konúngur á Gyðíngalandi, og er nafnkendur af slægð sinni og grimd. Synir hans 3 skiptu landi eptir hann; fekk *Arkelás,* er var þeirra elztur, *Júdeu, Idúmeu* og *Samaríu,* en var 10 árum seinna rekinn frá völdum, og sá hluti af Gyðíngalandi var þá gjörður að rómversku skattlandi, og skipaður landstjóri yfir (Procurator).

## Júlíusar og Claudíusar ættin.

Cajus Júlíus Cæsar, dómstjóri, † 84 f. Kr.

*Cajus Júlíus Cæsar* (Dictator), † 44 f. Kr.
Júlía ∽ Pompeius mikli, † 48 f. Kr.

Júlía ∽ M. Atius Balbus.
Atía ∽ C. Octavíus, dómstjóri.

Octavía ∽ 1. Marcellus.
2. M. Antoníus.
1. M. Claudíus Marcellus
∽ Júlía.

*C. Júl. Cæsar Octavíanus Ágústus*, † 14 e. Kr.
∽ 2. Scribonia. 3. Livía, áður ∽ Tib. Claudíus Neró.

2. Júlía ∽ 1. Marcellus.
2. Agrippa.
3. Tiberíus.

*Tiberíus*, † 37.
Drúsus.

Drúsus († 9 f. Kr.).

2. Cajus Cæsar. 2. Lúcíus Cæsar. 2. Agrippina (eldri) ∽ Cæsar Germanicus.

Neró. Drúsus. *C. Cæsar Caligula*. † 41.
Agrippína (ýngri) ∽ 1. Dómitius.
2. Claudíus.

1. *Neró* ∽ 1. Octavía.
† 68. 2. Poppæa Sabína.

Cæsar Germanícus ∽ Agrippina (eldri).
*Claudíus*, † 54 ∽ 1. Messalína.
2. Agrippina (ýngri).

Octavía. Britannícus.

Athugagrein: Merkið ∽ þýðir: kvongaður eða gipt.
Tölurnar 1, 2, 3 merkja: 1., 2. og 3. hjónaband.

## Tíberíus (14—37 e. Kr.).

Eptir dauða Ágústusar kom *Tíberius* stjúpsonur hans til ríkis og var þá 55 ára gamall. Hann var dulur maður í skapi og djúpsettur í ráðum. Hann lèt sem sèr væri mjög nauðugt, að takast ríkisstjórnina á hendur, en lèt þó tilleiðast fyrir bænastað öldúngaráðsins; en ráðið var á þeim tímum eigi orðið annað, en verkfæri í hendi keisarans. Eitt hið fyrsta, sem *Tíberíus* gjörði, eptir að hann var orðinn keisari, var að taka þann rètt, er þjóðþíngin höfðu til að kjósa menn í hin æztu embætti, af þíngunum eða þjóðinni, og fá hann aptur öldúngaráðinu í hendur. Að öðru leiti lèt hann stjórnarskipun hins forna þjóðveldis halda sèr, en einúngis að nafninu einu, eins og Ágústus hafði gjört; hann setti sèr fyrir mark og mið, að halda einveldi því saman, er Ágústus hafði honum í hendur fengið, og stýrði því síðan með vitsmunum og dugnaði, en engu síður með slægð og ofríki; hann var sparneytinn og gætti þess vel, að skattlöndin væri eigi fèflett af þeim, er hann setti þángað sem landstjóra. *Tíberius* keisari var tvíkvæntur. Hann kvongaðist þegar á únga aldri, og átti *Vipsaníu* dóttur Agrippu og unni henni mikið, en *Ágústus* neyddi hann til að segja skilið við hana, og giptast *Júlíu* dóttur sinni; það hjónaband fór ílla, og af gremju út af því öllu saman hafði *Tíberíus* farið til *Rhóduseyjar* og dvalið þar árum saman, eins og áður er sagt. Síðan var *Tíberíus* ókvæntur alla æfi. Með fyrri konu sinni átti hann son, er *Drúsus* hèt; en er Ágústus tók Tíberíus sèr í sonarstað, og leiddi hann til ríkiserfða eptir sinn dag, var það með þeim skilmála gjört, að Tíberíus afsalaði ríkiserfðir fyrir hönd sonar síns Drúsusar, til bróðursonar síns *Cæsars Germanicusar,* sonar Drúsusar þess, er dó á herferðum í Germaníu (9 f. Kr.), eins og fyr er sagt. *Cæsar Germanicus* átti *Agrippínu* (eldri), dóttur Agrippu og Júlíu, hinn bezta kvennkost. *Livía* móðir Tíberíusar var mikill óvinur Agrippínu. *Cæsar Germanicus* var í öllu hinn mesti ágætismaður, og hugði allur lýður gott til þess, er hann kæmi til ríkis. Þegar *Ágústus* keisari var látinn, vildu herskarar þeir, er Germanicus var yfir settur norður á Germaníu, taka hann til keisara en eigi Tíberíus, og gjörðu uppreist í því skyni; en *Germanicus* var svo göfuglyndur, að hann vildi hvorki hefja borgarastríð nè þyggja keisaratignina

af uppreistarmönnum; sefaði hann þannig liðsmenn sína með allmikilli hættu fyrir sjálfan sig. Til þess að fá þeim annað að starfa, fór hann herferðir um Germaniu (þjóðverjaland), og lagði lönd og lýði undir sig. Hann átti orustur við *Hermann*, og bar hærra hlut í þeirra viðskiptum. Á þeirri ferð lét *Germanicus* jarða bein þeirra *Varusar* og manna hans, er fallið höfðu fyrir Hermanni á Teutoborgarskógi. Tíberíus sá ofsjónum yfir frægð og vinsældum Germanicusar, og óttaðist hann sem alla afbragðsmenn; fyrir því bauð hann honum að hætta hernaði á Germaníu — »hann hefði unnið nægan sigur« — og koma heim til Rómaborgar. Germanicus sá hvað undir niðri bjó, en kom þó, sem honum var boðið. Litlu þar á eptir sendi *Tíberíus* hann austur til Asíu, og fekk honum þar yfirstjórn alla í hendur og meiri völd, en landstjórar voru vanir að hafa; en um sama leiti lèt keisarinn landstjórann á Sýrlandi, *Sílanus*, góðan vin Germanicusar fara þaðan, og setti þar aptur til landstjórnar mann þann, er *Písó* hèt, mikinn dugnaðarmann, en hinn mesta stórbokka og engan vín Germanicusar. Hvað Tíberíus hefir sagt eður ritað Písó leynilega, vita menn eigi; en hitt er víst, að Písó gjörði ~~Tíberíusi~~ Germanicusi alt til skapraunar, er hann kunni, og nokkru síðar dó *Germanicus* þar eystra (19 e. Kr.); var það almenn sögn, að Písó hafi gefið honum eitur. Fór Písó eptir það til Rómaborgar til að hrynda af sèr því ámæli, en er hann kom þángað, var mál höfðað gegn honum; Tíberíus lèt ná frá honum öllum þeim brèfum, er hann hafði ritað honum, og eptir það drap Písó sig sjálfur; en sumir sögðu, að Tíberíus lèti drepa hann.

*Tíberíus* hafði sagt, þá er hann kvaddi Germanicus heim af Germaníu, »að bezt væri að láta Germani sjálfráða, og myndu þeir þá eigast ílt eitt við innbyrðis«. það var orð og að sönnu, því að litlu síðar hófst þar áköf styrjöld og stríð milli höfðingja þess er *Marboð* hèt, og *Hermanns*, hetjunnar, sem fyr er nefndur. *Marboð* hafði lært hernað hjá Rómverjum; hann var drotnunargjarn og hinn mesti kappi. Hann var höfðingi þeirrar þjóðar, er *Markómenn* hètu; höfðu þeir um það bil, er Kristur fæddist, flutt sig búferlum vestan undan Myrkviðarskógum og austur í land það, er fyrrum bjuggu *Bojar*, og hèt landið fyrir því Bojohemum; en nú heitir það *Böhmen*, og vèr köllum það Bæheim.

Marboð rèði fyrir meiri hluta Germaníu sunnan og austan; en Hermann stýrði þeim *Kerúskum*, er norðar og vestar bygðu löndin í Germaníu. Sú varð endalykt þeirrar styrjaldar, að Hermann bar hærra hlut, en Marboð varð að flýja og settist að á Ítalíu, og dó þar. Hermann barðist enn um nokkur ár og vildi sameina allar þjóðir á Germaníu, en þessi ágætismaður fèll að síðustu, og þó úngur að aldri, fyrir vèlabrögðum náúnga sinna.

Þá er *Tíberíus* hafði verið keisari 9 ár breyttist stjórn hans í mörgu til hins verra. Hafa menn eignað það manni þeim, er *Sejanus* hèt, og var foríngi fyrir lífverði keisarans. Áður hafði varðlið þetta verið á ýmsum stöðum, en Sejanus safnaði því öllu á einn víggirtan stað í borginni. Varð sá hermannaflokkur fyrir þá sök miklu geigvænlegri eptir en áður. Sejanus var starfsmaður mikill, fullur ofdyrfðar og metnaðargirni; hann kom sèr með ótal brögðum svo í kærleika við *Tíberíus*, að keisarinn trúði engum nema honum; margt fór fram í ríkisstjórninni að hans ráðum, og Sejanusi kom til hugar að gjörast einvaldur eptir Tíberíus látinn. Hann lèt drepa á eitri Drúsus, son keisarans (23 e. Kr.); hann rægði Agrippínu, ekkju Germanicusar, og börn hennar við Tíberíus, og var slíkt auðgjört, því að Tíberíus varð eptir dauða sonar síns miklu tortrygnari en hann hafði áður verið, og hèlt að allir myndu sitja á svikráðum við sig; hafði hann sína njósnarmenn nálega alstaðar, er báru honum orð og gjörðir manna, svo að enginn var ugglaus um sig; hafði þá ráðið löngum fult í fángi með að dæma þá alla til dauða, er það var að sök gefið, að sæti á svikráðum við keisarann; var að öllu þessu hinn mesti ófögnuður um alt ríkið.

Skömmu eptir þetta fór *Tíberíus* keisari brott úr Rómaborg, og hafðist við 10 ár hin síðustu æfi sinnar á smáeyju þeirri, er *Caprea* hèt, framundan Campaníu. Þaðan stýrði hann ríki sínu, en þó náði Sejanus enn þá meiri völdum í Rómaborg eptir en áður, og einkum síðan *Livía* keisaramóðir var dáin, og enginn gat staðið honum lengur á sporði. Loksins fekk keisarinn þó grun á því, að Sejanus myndi ætla að steypa sèr úr völdum; gjörði hann þá mann þann, er *Macró* hèt, og sem var litlu betri en Sejanus, að lífvarðarforíngja, en bauð ráðinu að láta höndla Sejanus og draga hann fyrir lög og dóm; gjörði ráðið það svo

rækilega, að Sejanus var litlu síðar drepinn og ættmenn hans allir og vinir (31 e. Kr.)

En svo tortryggur og myrkur og harður í skapi sem *Tíberíus* keisari hafði verið áður hann vissi, að Drúsus sonur hans var drepinn af Sejanusi, þá varð hann eptir það miklu viðsjálli og voðalegri. Þá voru menn svo að kalla daglega drepnir eptir hans skipun. Þá var Agrippína, ekkja Germanicusar tekin af lífi, og Drúsus sonur hennar, eptir lángar þjáníngar; en Neró, eldri sonur hennar, var áður dáinn. *Cajus Cæsar,* sem var þeirra bræðra ýngstur, og hafði á únga aldri verið með hersveitum keisarans norður við Rín, og fengið þar viðurnefnið *Caligúla,* var hjá Tíberíusi á Capreu. *Cajus* var þá enn úngur og óreyndur, en þó hann hafi reynt að dylja sinn innra mann fyrir Tíberíusi, þá var keisarinn nógu skarpskygn til að sjá, hvað bjó í þessum únga frænda sínum, sem sjá má af þessu: að einhverju sinni varð tilrætt milli þeirra um *Súllu* alræðismann. Cajus ámælti Súllu mjög fyrir eitthvað. Þá mælti Tíberíus: »Þú hefir alla hans ókosti en engan af hans kostum«. *Macró* vissi, að *Cajus* mundi koma til ríkis eptir Tíberíus og kom sèr í vináttu við hann. Var Tíberíus þá hníginn að aldri, en þó skapið hið sama og engu mýkra en áður. Einhverju sinni var hann á ferð og leit á búgarða sína, þá fekk keisarinn aðsvif og leið í ómegin, hèldu allir hann örendan og urðu glaðir. En Tíberíus raknaði við; sló þá ótta miklum á þá, er viðstaddir voru, en *Macró* tók það ráðs, að hann lèt kæfa hann í rekkjuvoðum. Lèt Tíberíus keisari þannig líf sitt, er hann hafði lifað því nær 78 ár, en verið keisari 23 (37 árum eptir Kristsburð).

## Cajus Cæsar Caligúla. (37—41 e. Kr.)

Þá er Tíberíus var dauður, var *Caligúla* til keisara tekinn og hafði þá fimm um tvítugt; hugðu margir gott til ríkisstjórnar hans, því að menn mundu föður hans *Germanicus,* er mannvænstur þótti verið hafa. *Caligúla* gafst allvel í fyrstu, en er hann hafði ríkt 8 mánuði, lagðist hann í sótt og misti ráðið, og alla stund síðan var hann líkastur því, sem hann hefði eigi fult vit. Eitt hið fyrsta ódáðaverk, er hann lèt vinna, var að taka *Tíberíus* frænda sinn af lífi, sonarson *Tíberíusar* keisara; skömmu þar á eptir lèt hann drepa *Macró* lífvarðarforíngja, er mest og

bezt hafði styrkt hann til keisaradóms; síðan lèt hann drepa fjölda manna fyrir litlar sem engar sakir. *Tíberíus* keisari hafði látið eptir mikið fè (yfir 100 milliónir ríkisdala) í fjárhirzlum ríkisins; öllu því fè eyddi *Caligula* á tveim árum, í margvíslegu óhófi og ráðleysu. Hann lèt t. a. m. gjöra brú yfir víkina milli *Bajæ* og *Púteóli*, og varði til þess ærnu fè, einúngis til að gjöra orð eins manns að ósannindum, er hafði sagt, að það væri eins fjarstætt, að Caligúla yrði keisari, sem hitt, að hann gæti riðið yfir víkina milli bæja þeirra tveggja, er nú voru nefndir; hann lèt smíða skip af sedrusviði einum, en skutir þeirra voru gimsteinum settir, og fleira þess konar. Einhverju sinni bauð hann út liði miklu, og fór herferð norður til Rínar, og þóttist ætla að færa Germönum stríð á hendur. En er hann var kominn norður að Rín, lèt hann nokkra menn af liði sínu fara yfir fljótið, og bauð þeim að felast þar. því næst lèt hann segja sèr, að nú væru óvinir hans komnir að fljótinu; bregður hann þá við og yfir fljótið og hertekur þessa sömu menn, sem hann hafði áður yfrum sent og boðið að felast þar. Raupaði hann allmjög af sigri þeim, er hann hefði þannig unnið. Öðru sinni dró hann saman 200 þúsundir manna, og bjóst að fara yfir til Bretlands; heldur því liði öllu norður að Bretlandssundi, og fylkir því þar við sjóinn; síðan býður hann öllu liðinu að fara og safna skeljjum, og svo var þeirri herferð lokið. Eitt sinn sat keisarinn yfir borðum, og er minnst varði, rak hann upp skellihlátur; ræðismenn spurðu, að hverju hann hlæi. Keisarinn svaraði: »að því, að jafnskjótt sem eg bendi hendi til, þá get eg látið drepa yður alla«. það sem hèr er sagt, nægir til þess að sýna, hvernig Caligúla var til orðs og æðis, og hve Rómverjum var nú brugðið frá því sem áður var, að þeir þoldu yfirráð hans um 4 ár. Loks tóku nokkrir foringjar í lífverði keisarans ráð sín saman, og drápu *Caligúlu* og konu hans og barn (41 e. Kr.).

## Claudíus (41—54 e. Kr.).

Nú þóttust Rómverjar góðu bættir, er Caligúla var látinn, og þeir orðnir lausir við hann; vildi þá öldúngaráðið koma á fót aptur þjóðveldinu forna, en lífvörðurinn, er rèði svo miklu, vildi eigi annað heyra nefnt en keisarastjórn, því að þaðan var fjárvonin meiri. Var þá tekinn til keisara föðurbróðir Caligúlu, sá

er *Claudíus* hèt; hann var þá fimtugur að aldri, hrumur mjög á sál og líkama, allvel lærður maður, og hafði ritað bækur í sagnafræði, en óhæfur til að stýra jafnstóru ríki sem Rómaveldi. Hann hafði falið sig, þá er Caligula var veginn, og búizt við dauða sínum; en liðsmaður einn fann hann í því skúmaskoti, og varð hann þannig keisari. Þá er hann kom til ríkis var hann kvæntur í þriðja sinni, og hèt drotníng hans *Messalína;* hún var hin mesta óhemja og leiddi mann sinn, er lítið vissi hvað gjörðist, til margrar óhæfu; svo var frekja hennar og óskamfeilni mikil, að hún giptist opinberlega manni þeim, er *Silíus* hèt; var keisarinn þó á lífi og þar í nágrenninu, er brúðkaupið stóð. En þetta dró hana þó til dauða, því að litlu síðar var hún drepin með vilja og vitund keisarans.

En þó *Claudíus* keisari væri mjög afskiptalaus um marga hluti, þá gekk þó ríkisstjórn um hans daga í ýmsum greinum betur en við mátti búast. Þannig fengu margir skattlandsbúar rómverskan borgmannarètt; þrælar voru haldnir miklu betur en áður; mönnum var hegnt fyrir okur og fèpintíngar; lönd voru lögð undir ríkið t. a. m. *Mauritanía* í Afríku (*Marokkó*), *Lycia* og *Þrakía; Gyðíngaland* var einnig gjört að skattlandi, og *Heródes Agrippa,* sonarsonur Heródesar mikla, settur yfir alt það land. Þá fór og *Aulus Plauzíus,* rómverskur hershöfðíngi, til Bretlands, — en þángað höfðu Rómverjar eigi komið síðan *Júlíus Cæsars* daga — og lagði suðurhluta þess undir Rómverja. *Claudíus* keisari kom og sjálfur til Bretlands, og sá sigur sinna manna. Af þeirri för gaf ráðið honum og syni hans við Messalínu, viðurnefnið *Britannicus.* Nokkru eptir það kvongaðist keisarinn í fjórða sinn, og átti þá *Agrippínu* (ýngri) bróðurdóttur sína, ekkju *Domizíusar Ahenobarbus,* fríða konu sínum, en grimma í skapi. Hún átti son eptir fyrra mann sinn, er *Domizíus* hèt. Hún kom því til leiðar, að *Claudíus* gipti Domizíusi þessum dóttur sína *Octavíu;* svipti son sinn *Britannicus,* efnilegan mann, erfðarètti, en tók Domizíus sèr í sonar stað, er síðan var kallaður *Neró Claudíus Cæsar.* Var Neró hafður í miklum hávegum, en Britannicus settur hjá í öllu. En er Agrippína hèlt, að *Claudíus* myndi sjá sig um hönd og taka sinnaskiptum, gaf hún honum eitur, og varð það hans bani (54 e. Kr.).

## Neró (54—68 e. Kr.).

*Neró* var 17 vetra þá er Claudíus stjúpi hans lèzt; var hann nú til keisara tekinn og reyndist allvel hin fyrstu stjórnarár sín, því að kennarar hans, *Burrus* lífvarðarforíngi og *Seneca,* hinn nafnkendi spekíngur, rèðu þá mestu með honum; þjóðin undi vel sínum kosti og vænti sèr árs og friðar, en sú von brást mönnum gjörsamlega. *Neró* tók skjótt að leiðast stjórnarstörfin og lèt Agrippínu móður sína, og þá Burrus og Senecu hafa þau á hendi, en sjálfur sökti hann sèr niður í svall og saurlifnað; drotníngu sína Octavíu hataði hann, en lagði ástarhug á aðrar konur. En sem móðir hans vissi það átaldi hún hann harðlega fyrir, og lèt hann skilja, sð *Britannicus* væri eins vel til stjórnar kjörinn sem hann. *Neró* lèt eigi segja sèr það tvisvar, og litlu síðar bar hann Britannicusi drykk þann, er hann dó af samstundis. Frá þeim tíma greri aldrei um heilt með þeim keisara og móður hans. Um þessar mundir kyntist *Neró* keisari við konu þá, er *Poppea Sabína* hèt; hún var hin fríðasta kona, en flest annað var henni illa gefið. Hún hafði gjörzt vinkona keisarans til þess að geta komizt í drotníngarsæti; fyrir því reyndi hún til á allar lundir, að ryðja þeim á brott, móður Nerós og drotníngu hans. Og af fortölum hennar lèt Neró tilleiðast, að veita móður sinni banatilræði. En hann vildi leyna morðinu, og fyrir því lèt hann gjöra skip, er þannig var til búið, að það skyldi alt úr greypíngum gánga, þá er það væri á flot komið með móður hans; það varð og, að skipið liðaðist sundur undir henni, en hún synti til lands. Neró hætti eigi við hálfgjört verk, sendi menn af stað til höfuðs móður sinni, og lèt drepa hana. Þeir Seneca og Burrus höfðu eigi þrek til að afstýra glæpi þessum, eða gátu það eigi. Samvizkan vaknaði reyndar hjá Neró eptir þetta ódæðuverk, en hann svæfði hana alt hvað hann kunni með óhemjusvalli og alskonar æðigángi. Litlu eptir þetta fóru báðir hinir ágætu ráðgjafar hans, *Seneca* og *Burrus,* frá honum. Burrus dó snögglega; Seneca komst í óvingan við keisarann og varð að fara brott. *Octavía* drotníng hans var rekin brott, og því næst ráðin af dögum; *Poppea* varð drotníng; eptirmaður Burrusar varð *Tigellínus,* hinn vesti maður; óstjórn og æði keisarans gekk lángt yfir öll takmörk. Árið 64 eptir Kr. kom upp eldur mikill í Rómaborg, og

geysaði yfir hana í átta daga; brunnu þá tveir þriðjúngar borgarinnar til kaldra kola; fórust þar margar ágætar fornmenjar og gripir, er aldrei hafa síðan fengizt. Neró lèt reisa borgina við að nýju, og gekk til þess ógrynni fjár, og kúgaði hann það út af mönnum á allar lundir. Þess var alment getið til, að Neró hefði látið kveikja í borginni, til þess að geta gjört sèr hugmynd um Trójuborgarbrennu; en til þess að hrynda því ámæli af sèr, kendi hann kristnum mönnum, er þá voru margir orðnir í Rómaborg, um eldsvoðann. Lèt hann nú ofsækja þá með mestu ákefð, og sættu margir þeirra hinum grimmustu ofsóknum og dauða. Það segja menn, að þeir *Pètur* og *Páll* postular, hafi verið líflátnir í þeim ofsóknum.

Meðan á öllum þessum ósköpum gekk, var alþýðunni haldið í kyrð og spekt með matgjöfum og gleðileikum, en hinir heldri menn tóku að una ílla afarkostum þeim, er þjóðin mátti sæta af hinum æðisgengna keisara; tóku þá (65 e. Kr.) nokkrir af ráðherrum og riddurum sig saman um, að steypa *Neró* úr völdum, en fyrirætlan þeirra varð opinber. Lèt keisarinn þá drepa nokkra af þeim flokki; meðal þeirra var skáldið *Annæus Lúcanus*, bróðurson *Senecu*. *Seneca* var og sjálfur grunaður um, að hafa verið í vitorði með samsærismönnum, þó aldrei yrði það sannað, og bauð Neró keisari, að hann skyldi deyja, en *Seneca* fekk sjálfur að ráða dauðdaga sínum. Lèt hann þá opna sèr æðar, settist í laug og lèt sèr blæða til ólífis (65 e. Kr.). Eigi lèt *Neró* sèr að kenníngu verða samsæri þetta, en hèlt hinni sömu grimd áfram sem að undanförnu; hann drap konu sína *Poppeu* á þann hátt, að hann spyrnti fæti til hennar svo óþyrmilega, að hún fekk bana af. Hann lèk og söng opinberlega í leikhúsum, bæði í Rómaborg og víðar: en dauðinn var vís, ef nokkur dirfðist annað en dáðst að honum fyrir þá íþrótt, og klappa lofi í lófa, eins og títt var á þeim stöðum, þegar mönnum þótti vel leikið og skemtunin góð. Þess konar skemtiför fór hann yfir til Grikklands, söng þar og lèk sèr, og var þar vel fagnað.

En þó þannig gengi innanlands, sem nú hefir verið sagt, þá haggaðist þó eigi álit og veldi Rómverja í viðskiptum þeirra við útlendar þjóðir. Á *Bretlandi* varð uppreist mikil, en *Svetóníus Paulinus*, rómverskur hershöfðíngi og dugandi maður, sefaði þær óspektir algjörlega. Austur í *Asíu* varð *Corbuló* hers-

höfðíngi frægur mjög af sinni framgöngu; en hann var einn, er sanna mátti, hve vandfarið er afbragðsmönnum, þar sem harðstjórar ráða ríkjum. *Neró* vildi eigi að hann lifði; svo dó *Corbúló*. Á ofanverðum dögum Nerós hófu Gyðíngar uppreisn, því að *Flórus,* landstjóri þeirra, hafði leikið þá mjög hart. Þeir höfðu þá krossfest hinn sanna *Messías,* og hèldu í blindni sinni, að annar Messías eptir þeirra skapi mundi rísa upp, og frelsa þá undan oki og yfirdrotnun Rómverja. En Neró keisari sendi hershöfðíngja þann, er *Títus Flavíus Vespasíanus* hèt, til Gyðíngalands; hann vann hverja borg á fætur annari, þótt Gyðíngar verðist af hinni mestu hreysti. Er það eitt til merkis um þá grimd, er menn þá börðust af, að í borg einni í Galílæu, er Vespasíanus tók eptir lánga umsát, fèll hvert mannsbarn af 40 þúsundum, nema tveir menn; svo segir *Jósefus* sagnaritari Gyðínga, og var hann sjálfur annar af þeim, er lífi hèldu.

Um þessar mundir gjörðu hersveitir Rómverja á Gallíu og á Spáni uppreist gegn *Neróni,* og tóku til höfðíngja yfir sig *Servíus Sulpicius Galba,* landstjóra á Spáni, og gáfu keisaranafn; hann var þá rúmlega sjötugur að aldri. Fer hann því næst með liði miklu og stefnir til Rómaborgar. Við þau tíðindi urðu menn glaðir; gekk landslýðurinn allur Galba til handa. En *Neró* keisari flýði úr borginni, og er hann frètti, að ráðið hefði sagt sèr upp hlýðni og hollustu og lýst yfir því, að hann væri rèttdræpur hvar sem hittist, þá veitti hann sèr bana með tilstyrk frelsíngja þess, er honum fylgdi (68 e. Kr.). Neró dó með þau orð á vörum: »mikill listamaður fer þar sem eg fer!«. Var þá aldauða ætt *Ágústusar* keisara.

## II. SKATTLÖNDIN TAKA ÞÁTT Í FORRÈTTI ÍTALA OG Í KEISARADÓMI (68—217 e. Kr.).

### Galba. Othó. Vitellíus (68—69 e. Kr.).

Þegar menn líta aptur fyrir sig og yfir tíma þann, sem liðinn var frá dögum Júlíusar Cæsars, síðan einveldið komst á fót og keisarar settust að völdum, þá kemur það í ljós, að alt hið forna vald höfðíngjanna og forrèttindi rómverskra borgara er horfið, en komið aptur í staðinn *hermannavald,* sem keisarinn hefir í sinni hendi og beitir eptir því sem honum þykir við þurfa.

Keisarinn hefir aðsetur sitt í Rómaborg, herskarar hans eru þar við höndina, og þaðan er hinu víðlenda Rómaveldi stjórnað. Skattlöndin eru í fjarlægð; þar eru einnig herskarar; þar ráða menn litlu, en hlýða því boði og banni, sem út gengur frá Rómaborg. En eptir því sem siðirnir spillast í Rómaborg, en skattlöndin mentast og finna betur til framfara sinna og apturfara stjórnarinnar í Rómaborg, að því skapi vex herliði og íbúum skattlandanna hugur. Þeir vilja ekki að Rómverjar einir ráði því í hvert skipti, hver til keisara verði kosinn; þeir vilja einnig ráða nokkru um það, hvað fram fer í Rómaborg. En þó herlið skattlandanna og íbúar þeirra hugsaði á þá leið, sem nú var sagt, og þó þeir yrðu yfirsterkastir í Rómaborg og gætu ráðið því, hver þar yrði keisari, komu þeir eigi fram sem útlendíngar, er kollsteypa vildu hinu rómverska valdi, heldur álitu þeir sig sjálfa sem rómverska borgara, sem samþegna þeirra manna, er heimili áttu á Ítalíu og í Rómaborg. Rómaveldi var enn þá í augum þeirra hið rètta heimsveldi, og Rómaborg hinn rètti aðseturstaður og höfuðborg heimsstjórnarinnar. Síðan breyttist þetta alt á annan veg eins og sagan sýnir.

---

En nú víkur sögunni aptur þángað, sem *Neró* keisari er fallinn frá, en *Galba* er tekinn til keisara og heldur til Rómaborgar. Hann var hinn fyrsti keisari, er herlið skattlandanna setti til þeirrar tignar. Hann hafði verið hinn nýtasti skattlandsstjóri, en hann var eigi því vaxinn, að stýra öllu Rómaveldi. Hann var maður harður og ágjarn og vildi eigi greiða lífverðinum það fè, er heitið hafði verið, en gæðíngar hans kúguðu menn til fjár og beittu ýmsum ójöfnuði og harðneskju. Varð keisarinn því brátt óvinsæll, og eptir missirisstjórn var hann drepinn af lífverðinum, er tók *Othó* til keisara í hans stað (69 e. Kr.).

*Othó* hafði verið svallvinur Nerós; en Neró hafði tekið frá honum konu hans Poppeu, og síðan sent hann til Lúsitaníu sem skattlandsstjóra. Hann hafði styrkt Galba til keisaratignar, en er Galba eigi vildi arfleiða hann, þá æsti Othó lífvörðinn móti Galba. *Othó* rèði ríkjum hálft missiri. Herliðið á *Germaníu neðri* (norðausturhluta Gallíu) hafði, áður Galba var feldur frá ríki, tekið hershöfðíngja sinn, er *Vítellíus* hèt, til keisara. Hèlt *Vítellíus* þá til Ítalíu; varð fundur þeirra *Othós* hjá *Bedríacum* fyrir norð-

an *Póelfu*. Othó hafði ósigur og drap sig sjálfur (69 e. Kr.). Eptir orustu þessa varð *Vitellíus* keisari yfir Rómaveldi. Hersveitir hans óðu yfir Ítalíu með gripdeildum og ráni, eins og það væri óvinaland, en keisarinn hugsaði eigi um annað en ofát og ofdrykkju. Það er sagt, að þá átta mánuði, sem hann sat að völdum, hafi hann eytt til matar og drykkjar nálægt 50 milíónum ríkisdala í vorum peníngum. Herinn á Egyptalandi, Sýrlandi og Gyðíngalandi, undi því illa, að þeir vestur í löndum skyldu ætíð ráða því hver keisari yrði, og tóku *Vespasíanus* hershöfðingja, sem áður er nefndur, til keisara yfir sig; slíkt hið sama gjörðu hersveitirnar á Pannóníu, og brutust síðan til Ítalíu. Urðu nú óspektir í Rómaborg; Júpítershof á Capitólío brann til kaldra kola. Þeir sem stóðu með *Vítellíusi* keisara urðu ofurliði bornir, og sjálfur hann illa leikinn og drepinn og varpað í Tíberfljótið (69 e. Kr.).

## Flavíusarnir (69—96 e. Kr.).

(Vespasíanus. Títus. Domizíanus).

Þá er (Títus Flavíus) *Vespasíanus* var til keisara tekinn, og varð að takast ríkisstjórn á hendur, bjó hann ferð sína til Rómaborgar, en setti *Títus* son sinn yfir herinn á Gyðíngalandi. Settist Títus um Jórsalaborg; en flokkadrættir miklir voru með borgarmönnum, og spilti það eigi alllítið þeirra hlut. Nú sem húngrið tók að þreyngja að þeim, bauð Títus þeim góða kosti, ef þeir gæfist upp; en Gyðíngar settu þar þvert nei fyrir. Eptir nokkra umsát náðu Rómverjar inngöngu í borgina, en Gyðíngar settust í musterið (Heródis musteri) og vörðust þaðan af mikilli hreysti. *Títus* vildi fyrir hvern mun hlífa hinu veglega musteri, en fekk þó eigi spornað við því, að eldur kæmist í það, og brann það niður til grunna. Eptir það sóttu Rómverjar borgina með eldi og járni og lögðu alt í eyði. Það er mælt, að yfir millión manna hafi týnzt af Gyðíngum í þessari óttalegu styrjöld, og margar þúsundir seldar mansali (70 árum eptir Kristsburð). Með þessum óförum var Gyðíngaríki lokið, og þjóðin hefir síðan verið dreifð út um víða veröldu.

Hið sama ár sem tíðindi þau urðu á Gyðíngalandi, er nú voru sögð, hófu *Batavar*, er bjuggu við Rínárósa, uppreist mikla undir forustu þess manns, er *Claudíus Civilis* hèt; ýmsir gall-

verskir og germanskir þjóðflokkar gengu í lið með þeim, en sundurlyndi sjálfra þeirra og dugnaður Rómverja eyddu því fyrirtæki. Gengu Batavar til hlýðni og gjörðust bandamenn Rómverja, eins og þeir höfðu áður verið frá dögum *Drúsusar*, og guldu þeim skatta.

Nú sem *Vespasíanus* var seztur að völdum, höfðu Rómverjar um síðir fengið dugandi keisara yfir sig (69—79), er með viturleik, rèttdæmi og sparsemi rèði bót á mörgum þeim meinsemdum, er þjóðina höfðu niðurbælt undir harðstjórn og óstjórn hinna fyrri keisara. Hann rak þá menn, sem honum þótti líttnýtir, úr ráðinu, en tók aptur í þeirra stað ráðsetta menn og reynda, bæði af Ítalíu og úr skattlöndunum; af þessu jókst álit og traust manna á öldúngaráðinu; herliðið var orðið agalaust, keisarinn kipti því í liðinn og kom aptur á góðum hermannaaga; hann safnaði miklu fè í fjárhirzlur ríkisins, sem áður voru tómar, og gat þannig látið reisa mörg stórhýsi, er sum höfðu legið í rústum síðan Nerós brennu; hann lèt aptur reisa hofið á Capitólium, og hið mikla leikhús, er tók 87000 manna. Tóptir þess standa enn (*Colosseum*), og þykja hið mesta furðuverk. *Vespasíanus* var manna hófsamastur og sparneytnastur, og fyrir því mínkaði mjög í Rómaborg hið mikla óhóf, er áður hafði átt þar heima meira en um freka öld. Hann setti menn til að kenna mælskufræði og veitti þeim árleg laun; hinn fyrsti af kennendum þeim var hinn nafnkendi *Fabius Qvintilianus* frá Spáni; hann þótti nokkuð bæta aptur vísindalegan smekk hjá Rómverjum, er áður var farið að hnigna. Vespasíanus þótti nokkuð harðdrægur og nærgöngull í fjárheimtum við menn, en það virðist þó hafa verið eigi um skör fram, þegar litið er til hinnar stjórnlausu eyðslu og óhófs, sem á undan honum átti sèr stað. Hann lagði ýmsa nýja skatta á menn til þess að safna fè í ríkissjóðinn; þar á meðal á öll keitu-ker í þófaramyllum. Sá tollur þótti Títusi syni hans óviðfeldinn. Þá er sagt, að keisarinn hafi tekið gullpening og brugðið fyrir vitin á syni sínum og spurt, hvort hann fyndi nokkurn óþef af þessu. *Vespasíanus* keisari varð sjötugur og andaðist 79 árum eptir Kristsburð. Hann hafði verið hinn þarfasti höfðingi.

Eptir hann kom til ríkis sonur hans, er hèt *Títus Flavíus Vespasíanus* öllu nafni, en jafnan er nefndur *Títus* (79—81 e. Kr.). Menn hugðu misjafnt til stjórnar hans, því að hann hafði verið

haldinn nokkuð gjálífur framan af æfinni. En sem hann var keisari orðinn, gjörðist hann hugljúfi hvers manns fyrir sakir mildi sinnar og göfuglyndis. Hann var vanur að segja, að þeim degi hefði hann glatað, er hann gat eigi gjört einhverjum eitthvað gott, og að enginn mætti hryggur gánga frá hásæti keisarans. Við þá, sem komu til hans og báru sakargiptir á aðra menn, var hann óþýður og enda refsíngasamur; svo hafði og faðir hans verið. Fátt var honum jafnkært sem að geta gefið mönnum upp sakir. Þjóðin kallaði hann: yndi og eptirlæti mannkynsins (*amor et deliciae generis humani*). Á hinu fyrsta ríkisstjórnarári *Títusar* (79), kom upp eldur mikill í *Vesúvíusfjalli* með ógurlegu öskufalli og hraunflóði; lögðust þá í eyði 3 borgir, *Herculanum*, *Pompeji* og *Stabiæ*, er eigi fundust aptur fyr en undir miðja átjándu öld; hafa menn síðan grafið til þeirra og fundið þar margar ágætar fornmenjar, er mjög hafa frætt menn um hýbýlahag og háttsemi Rómverja á þeim tímum; sýna það húsgögn þeirra og búsgögn, er þannig hafa fundizt, að smekkur og tilfinníng fyrir hinu fagra, hefir verið einstaklega næmur og lifandi, jafnvel hjá alþýðumönnum. Og svo segja fróðir menn, að fegurð þessara fornu gripa hafi eigi alllítið gjört til þess, að vekja fegurðartilfinníngu manna nú á tímum, er mjög var farin að dofna og spillast á næstliðinni öld. Menn eru enn að grafa, og finna ýmsa hluti á þessum fornu stöðvum, og er það eigi lítil fyrirhöfn, þar sem öskulagið, er hylur þessar fornborgir, er frá 68 til 100 feta á þykt.

Í þessu voðalega eldgosi fórst hinn ágæti náttúrufræðíngur *Pliníus* hinn eldri, er hann vildi sjá og ransaka þenna atburð, en hætti sèr of nærri og kafnaði í öskurykinu; systursonur hans, *Plinius* hinn ýngri, hefir skýrt frá atburði þessum í brèfum til *Tacitusar* sagnaritara, sem enn eru til. Ofan á þær hörmúngar, sem eldgos þetta olli mörgum þúsundum manna — Campaníuhèrað lagðist þvinær alt í eyði um stundarsakir —, bætlist sótt mikil, er geysaði í Rómaborg og víðar um landið, og eldsvoði, er lagði fjölda húsa í Rómaborg í eyði. Í öllum þessum mannraunum sýndi hinn ágæti keisari dæmafátt veglyndi og góðgirni; hann seldi eigur sínar til þess að hjálpa hinum húsviltu og fátæku, og til þess að þurfa eigi að leggja nýja skatta á þegna sína. *Títus* keisari unni mjög fagurri húsagjörð og stórsmíðum,

og lèt gjöra laugahús ákaflega stór og skrautleg, og margt fleira; eru enn til nokkrar leifar af stórvirkjum þessum. Ríkisstjórn *Titusar* var fögur en skammær. Eptir tveggja ára stjórn, úngur og í fullu fjöri, andaðist hann til mikils harms fyrir land og lýð (81 e. Kr.).

Þá urðu mikil umskipti í Rómaveldi, því að til ríkis kom *Domizíanus* (81—96) bróðir hans, hinn vesti maður, og svo ólíkur Títusi um flesta hluti sem þeir voru náskildir. Menn hafa jafnvel grunað Dómizíanus um dauða bróður síns, Hann var lítt mentaður, tortryggur, sællífur, latur, hègómagjarn og ákaflega grimmur; hann drap flugur, þegar eigi var annað stærra fyrir hendi; hann lèt kalla sig »*drottinn og guð*«. Heimsspekínga rak hann á brott úr Rómaborg t. a. m. *Epiktet;* en þeim vísindamönnum, sem báru lof á hann, leyfði hann að vera þar kyrrum.

*Dómizíanus* vildi líka láta sjást, að hann væri hermaður, og fór herferð móti *Germönum,* en sá þá aldrei, sneri síðan heim og hèlt sigurhelgi, og lèt kalla sig *Germanícus.* Það var líkast því sem Calígula væri risinn upp aptur. *Dakar* átti um þær mundir ríki mikið fyrir norðan *Dóná. Decebalus* hèt konúngur þeirra; hann rèðist suður yfir ána og fór herskildi um *Mösíu,* er Rómverjar höfðu hönd yfir. *Dómizíanus* fór til móts við þá Dakana, en þeirra viðskipti fóru svo, að keisarinn varð að semja frið við *Decebalus* og lofa að greiða honum skatt á ári hverju.

Á dögum *Claudíus* keisara höfðu Rómverjar, eins og áður er sagt, lagt undir sig suðurhluta Bretlands. En Bretar undu við hið vesta og gjörðu löngum uppreistir, þótt sefaðar yrði. Vespasíanus keisari hafði sent þángað *Júlíus Agrícóla,* ágætan hershöfðíngja og bezta mann. Agricóla var 7 ár á *Bretlandi* og lagði það alt undir sig og allan suðurhluta *Skotlands,* alt norður að ám þeim, er nú heita *Clyde* og *Forth;* hann fór jafnvel herferðir lengra norður og átti orustur við Skota; hann lèt og menn sigla umhverfis Stórbretaland; en keisaranum lèk öfund á um afreksverk Agrícólu og bauð honum að hætta og koma heim til Róms; dó Agrícóla að nokkkrum árum liðnum, en sumir segja af völdum Dómízíans. *Tacitus,* hinn ágæti sagnaritari, átti dóttur Agricólu, og hefir ritað æfisögu hans; hann telur Agrícólu sælan þess, að hann lifði eigi á hinum síðustu árum *Dómizíans,* því að þá gekk grimd hans úr hófi. Loksins vildi hann drepa drotníngu sína

og ýmsa af hirðmönnum, en þeir urðu skjótari til bragðs, og drápu hann 96 árum eptir Kristsburð.

Keisaradæmið frá 96—217 e. Kr.

Þeir menn, sem ráðið höfðu Dómizíanusi bana, komu því til leiðar, að einn af öldúngaráðinu var tekinn til keisara. Hann hèt *Coccejus Nerva,* ættaður frá Krítey, gamall maður að aldri, en vel virður af öllum hinum betri mönnum. *Nerva* keisari gjörði hvað hann gat til þess að friða og bæta í ríkinu; hann linaði skatta á mönnum, bætti rèttarfar, fekk fátækum mönnum jarðnæði. En hann vantaði þrek og kjark. Lífvörðurinn krafðist með frekju að banamenn Dómizíans yrðu framseldir til dauða, og keisarinn treystist eigi til að afstýra því. En er hann sá, að hann myndi eigi einfær um stjórnina og þyrfti hjálpar við, þá kaus hann þann mann, er *Ulpíus Trajanus* hèt, sèr til aðstoðar í stjórnarstörfum, og tók hann sèr í sonar stað. Litlu síðar andaðist *Nerva* keisari (98 e. Kr.).

*Trajanus* (98—117 e. Kr.) var spánverskur að ætt, og þá hershöfðingi norður í Germaníu, er hann varð keisari. Hann var einhver hinn vitrasti og bezti einvaldshöfðíngi, er nokkru sinni hefir uppi verið. Stjórn hans var í öllum greinum svo ágæt, að menn gáfu honum viðurnefnið: *Optimus* (hinn bezti); og um marga mannsaldra eptir hans daga var öldúngaráðið vant, að færa hinum nýju keisurum heillaóskir sínar með þeim orðum: *„vertú hamíngjusamari en Ágústus og betri en Trajanus“.* Hann gaf þjóðinni aptur leyfi til að kjósa embættismenn á þjóðþíngum. Hann stýrði Rómaveldi með miklum dugnaði, viturleik og starfsemi, var rèttlátur og mildur, ör á fè og lítillátur, hófsemdarmaður hinn mesti; fjáshirzlur ríkisins voru fullar um hans daga, þó lètti hann sköttum og skyldum af þegnum sínum, veitti styrk til uppeldis fátækra manna börnum, stofnaði bókhlöður, bætti þjóðvegu og jók nýjum við, lèt gjöra hafnir (t. a. m. *Civita Vecchia*), reisa stórhýsi og annað fleira. Einna mest dáðust menn að torgi því hinu mikla og fagra, er hann lèt gjöra í Rómaborg; yfir þvert torgið gengu súlnagöng, og á því miðju lèt hann reisa súlu þá, er við hann er kend og stendur enn í dag; hún var 109 feta há og mátti gánga upp í hana að innan; ofan á súlunni stóð

líkneskja keisarans af málmi, 22 feta há. En *Sixtus* páfi hinn fimti lèt taka hana ofan og setja aptur líkneskju *Pèturs* postula.

*Trajanus* keisari var hinn mesti hermaður og unni mjög hernaði og orustufrægð, hann var vandlátur og refsíngasamur við hermenn sína og hafði góðan aga á þeim. Honum þótti nauðsynlegt að Rómverjar ynni sèr nokkuð til ágætis til þess að halda við fornri frægð og fornri hreysti, hann vildi og eyða þeirri vanvirðu, sem Dómizíanus hafði gjört Rómverjum, þá er hann friðaðist við Decebalus. Fyrir þá sök fór Trajanus keisari með her sinn til *Daciu* á hendur Decebal konúngi og átti við hann orustur og hafði jafnan sigur. Lagði keisari Dacíu alla undir sig og gjörði að rómversku skattlandi, en Decebalus fyrirfór sèr sjálfur, og margt stórmenni hans með honum. Trajanus fekk menn af ýmsum löndum til að flytja sig búferlum til Daciu, og vísaði þeim þar til landa. Keisarinn lagði einnig lönd undir sig í Asíu. Hann vann *Arabíu hina grýttu*, og með því að *Partar* höfðu tekið sèr umráð öll í *Armeníu*, og hafið þar konúng einn til ríkis, en Rómverjar þóttust þar einir eiga yfir að ráða, þá hèlt Trajanus keisari liði sínu þángað austur, átti þar margar orustur og hafði jafnan sigur; lagði hann þá undir sig *Armeníu*, *Mesópotamíu* og *Assyríu;* vann höfuðborgir *Parta*, *Selevkíu* og *Ktesifón*, og hèlt síðan niður eptir *Tígrisá* og út til Persíuflóa. Aldrei hafði Rómaveldi orðið jafnstórt og viðlent sem nú eptir þessa herferð. Um haustið eptir tíðindi þessi hélt *Trajanus* keisari til Sýrlands, og var þar um veturinn. Þar varð hann veikur og vildi þá halda heim til Rómaborgar, en komst eigi lengra en til Selinus í *Kilikíu*. Þar andaðist hann 62 ára gamall, 117 árum eptir Kristsburð.

*Ælíus Hadríanus*, samlandi Trajans og frændi, tók keisaradóm eptir hann og stýrði Rómaveldi um 21 ár (117—138). Hann var að vísu ekki þeim miklu mannkostum búinn sem Trajanus hafði verið, því bæði var hann nokkuð hègómagjarn, og eigi laus við austurlenzka hjátrú, enda grimmur ef svo bar undir, og lèt taka nokkra ágæta menn af lífi fyrir litlar sakir; en þrátt fyrir þessa galla var hann einhver hinn starfsamasti og nýtasti keisari með Rómverjum. Einkum höfðu skattlöndin gott af árvekni hans og stjórnsemi; hann fór um alt ríki sitt, opt fótgángandi og fámennur, og leit eptir öllu. Alstaðar setti hann þarfar stofnanir á fót, bygði nýjar borgir, t. a. m. *Hadrianopolis*

í þrakiu (Adrianopel), bresti við og prýddi hinar fornu, einkum *Aþenuborg*, er hann hafði miklar mætur á, sem fornu höfuðbóli vísindanna. *Hadríanus* keisari lèt laus þau lönd öll, er Trajanus hafði unnið fyrir austan *Eufrat*. Á Bretlandi lèt hann og laust það land, er liggur fyrir norðan *Solway-fjörð*, (sem enn skilur England frá Skotlandi), og lèt hlaða 16 mílna lángan grjótgarð þaðan og austur í *Tynefljót*. það er fyrir sunnan Norðymbraland; sèr enn merki til garðsins, og er kendur við Rómverja. Hadríanus vildi eigi auka ríkið að löndum, en verja hitt því betur, sem hann hèlt eptir, og halda þar góðum friði og stjórn, og það tókst honum hvorttveggja. Valla mátti heita, að ófrið bæri að höndum í hinu víðlenda Rómaveldi um hans daga, nema á Gyðingalandi. Gyðíngar höfðu aldrei verið tryggir, hvar sem þeir voru, síðan musteri þeirra var lagt í eyði á dögum Títusar, og þeir hraktir brott frá Jórsölum. Meðan Trajanus sat að ríkjum, gjörðu þeir óspektir hèr og hvar og ollu manndrápum, en voru jafnharðan bældir niður aptur. Nú hlupu þeir aptur upp til ófriðar á dögum Hadríans, er hann lèt reisa nýja borg á rústum Jórsala og kalla *Ælía Capitólína*, og gjöra þar Júpitershof, sem musterið hafði áður staðið. Gjörðist sá maður fyrirliði Gyðínga, er hèt *Bar-Chochba*, og þóttist vera sannur *Messías*. Í þeim ófriði fèllu margar þúsundir Gyðínga; voru þeir alveg reknir brott úr hinni nýju borg, er síðan fekk aptur hið forna nafn (Jerúsalem). því nær öll *Júdea* lagðist þá í eyði; Gyðingar tvístruðust enn meir en áður út um heiminn.

Hin síðustu ár æfi sinnar þjáðist *Hadríanus* keisari mjög af sjúkdómi, og var þá ákaflega vanstiltur. Hann var barnlaus, eins og Trajanus hafði verið, og kaus sèr í sonar stað og til eptirmanns þann, er hèt *Títus Antónínus*. Litlu síðar andaðist *Hadríanus* keisari eptir miklar þjáningar (138 e. Kr.).

*Títus Antónínus* tók þá við ríkisstjórn (138—161), og er alment nefndur *Antónínus Píus* (þ. e. hinn ættrækni), að líkindum fyrir þá sök, að hann fekk komið því til leiðar, beint á móti fyriræltun ráðsins, er á hinum síðustu árum Hadríans hafði snúizt í móti honum, að tilskipanir hans skyldu standa í fullu gildi, og honum veitast guðdómlegur heiður, eins og venja stóð til. Antónínus Píus var mjög líkur Títusi í skapi, hinn bezti og ástsælasti maður, leitaðist við með mildi og spekt að bæta hag þegna

sinna, setti góð lög, er jafnvel vernduðu bæði þræla og kristna menn í ríkinu. Svo fór mikið orð af rèttdæmi hans, að ýmsar útlendar þjóðir lögðu vandamál sín undir úrskurð hans. Hann tók sèr *Markús Aurelíus* í sonar stað og andaðist 73 ára gamall (161 e. Kr.).

Kom þá til ríkis *Markús Aurelíus*, er tók sèr nafnið *Antonínus* eptir fyrirrennara sínum (161—180); hann var spekíngur að viti, og fyrir því er hann nefndur *filosofus* (spekíngur); hann tók sèr þann til samstjórnarmanns, er *Lúcíus Verus* hèt. *Markús Aurelíus* var hinn mesti ágætismaður, fylgdi lærdómssetníngum hinna »*stónesku*« spekinga, og gengdi stjórnarstörfum sínum með hinni mestu alúð og dugnaði, þótt hann væri mjög hneigður til vísinda og gæfi sig við ritstörfum; er og til eptir hann ritgjörð, er heitir: hugleiðíngar um sjálfan sig. Á hans dögum komu ýms vandræði að höndum (drepsott, hallæri, strið), og gafst keisaranum þá færi á að sýna dugnað sinn og manngæzku. *Partar* gjörðu um þær mundir árásir á Sýrland, og sendi Markus Aurelíus samstjórnarmann sinn þángað, en hann var líttnýtur maður og lagðist fyrir í *Antiókíuborg* í sællífi, en *Avidíus Cassíus*, hershöfðíngi hans, vann á meðan Mesópotamíu og lagði *Selevkíuborg* í eyði. Þá er herliðið kom heim aptur úr styrjöld þessari, flutti það drepsótt mikla með sèr til Ítalíu, og í sama mund (166 e. Kr.) hófu þjóðirnar fyrir norðan Ítalíu áhlaup mikið á ríkið; vestir og voðalegastir þeirra voru *Markamenn;* þeir brutust suður yfir Dóná og fóru herskildi yfir lönd og lýði. Markús Aurelius barðist við þá í mörg ár; á því tímabili dó *Verus* (169 e. Kr.); veitti ýmsum betur, en þó fór svo að lyktum, að keisarinn bar hærra hlut og samdi frið við þá. Um það leiti komu þau tíðindi austan af Sýrlandi, að *Avidíus Cassíus*, sá er fyr var nefndur, hefði hafið þar uppreist og vildi gjörast konúngur. Keisarinn brá þegar við og fór austur þángað, en þá var *Cassíus* fallinn, og ófriðnum var þegar lokið. Keisarinn gaf öllum mönnum upp sakir, sem verið höfðu í vitorði með *Cassíusi,* og sýndi þannig míldi sína, sem hans var venja til. Keisarinn friðaði síðan þjóðirnar þar eystra og gjörði þar ýmsar fyrirskipanir, og hèlt að því búnu til Rómaborgar. *Markamenn* gjörðu því næst uppreist að nýju; að tveim árum liðnum var keisarinn kominn norður þangað til móts við þá, og *Commódus* sonur hans með

honum. Rómverjar fengu sigur, en á þeirri herferð andaðist *Markús Aurelíus* í borg þeirri, er *Vindobona* (Wien) hèt, aðrir segja í *Sirmium*, 180 árum eptir Kristsburð. Keisaran skorti tvo vetur í sextugt.

Nú hefir um stund verið sagt frá því tímabili í sögu Rómverja, er þykir verið hafa eitt hið bezta og blómlegasta. Frá því *Domizíanus* keisara leið og til þess, er hèr var komið, eður um 84 ár, höfðu 5 keisarar setið að völdum, hver öðrum vitrari og betri. Að því leiti, sem þeir gátu viðgjört, leið því Rómaveldi vel. Margar þjóðir og mjög ólíkar í lund og háttalagi, vestan frá Atlantshafi austur að Eufrat, norðan frá Skotlandi, Rín og Dóná suður að Afríku öræfum, lifðu í friði og spekt hver við aðra, og lutu allar einum og sama höfðíngja. Ávextir friðarins tóku góðum þroska: akuryrkja, iðnaður og verzlun; ágætir þjóðvegir lágu víðsvegar um löndin og gjörðu samgöngur greiðar; kaupmenn sigldu um höfin fram og aptur, ugglausir fyrir víkíngum, því að þeirra heyrðist hvergi getið. Jafnhliða hinum stóru borgum suður og austur, rísa upp nýjar og skrautlegar borgir norður í löndum, þar sem áður voru engar t. a. m. *Ágústa Trevirorum* (Trier), *Mogontiacum* (Mainz), *Ágústa Vindelicorum* (Augsburg), *Sirmium* við Sáelfi í Pannóníu o. m. fl. Þá voru ýmsir fræðimenn uppi; þá ritaði *Tacítus* hinar frábæru sögubækur, *Svetonius* æfisögur 12 hinna fyrstu keisara, *Pliníus* ýngri sendibrèf, *Juvenalis* kvæði. Þá lifnaði og yfir grískum vísindum: *Plútark* ritaði margt, og þar á meðal æfisögur nokkurra merkra manna, *Arrían* lærisveinn Epictets var heimspekíngur og sagnaritari, *Lúcían* ritaði samræður og hæddi bæði guði og menn, *Ptolemæus* var frægur af stjörnuspeki og landafræði, *Galenus* af læknisritum. Vísindin breiddust út um skattlöndin; kvæði Hómers og Virgils voru lesin norður við Dóná og á Rínárbökkum; latínsk túnga gekk um vesturlönd Rómaveldis, en grísk í hinum eystra. Grísk og rómversk mentun hafði aldrei náð annari eins útbreiðslu um löndin, eins og þegar hèr var komið á annari öld eptir Krist; en hinn einkennilegi og upphaflegi kjarni og kraptur hins gríska og rómverska þjóðernis var horfinn. Þó þeir hinir síðustu keisarar hefðu verið hinir mestu ágætismenn, ríkisstjórn þeirra vitur og sterk, og hið ytra yfirborð Rómaveldis glæsilegt fyrir manna sjónum, þá varð samt eigi spornað við apturför ríkisins,

því að einveldið, eins og það var lagað, lamaði og spilti hinu innra lífsafli, anda þjóðarinnar; en andi þjóðanna ræður hinu ytra ástandi þeirra. Hin kristna trú, sem breiddist meir og meir út um hinn eystri hluta Rómaveldis, og hinar hraustu og harðfengu þjóðir, er að norðan komu, og sem meir og meir gjörðust varðmenn hins hnignanda keisaradæmis, áttu og mikinn þátt í því, að mynda nýtt tímabil í sögunni.

*Commódus* (180—192) sonur Markúsar Anrelíusar tók ríki eptir föður sinn. Hann var í alla staði óhæfur til þeirrar tignar; hann keypti sèr frið við Markamenn, og leitaði sèr fremdar í því, að sýna líkams afl sitt, og reyna sig við skilmingamenn; hann lèt kalla sig Herkúles; byrjaði ríkisstjórn sína eins og Neró á sællífi og endaði með grimd. Þó þoldu Rómverjar hann yfir sèr því nær um 13 ár; en þá var hann drepinn (192 e. Kr.).

Samsærismenn þeir er ráðið höfðu Commódus af dögum, og þar á meðal *Lætus* foríngi fyrir lífverðinum, gjörðu því næst staðarforstjórann (Stads Præfect) *Helvíus Pertínax* að keisara (192—193). Hann hafði verið einn í öldúngaráðinu, og var gegn maður og góður. Ráðið og lífvörðurinn samþyktust kosníngu hans til keisaradóms. Hann vildi bæta aptur fjárhag ríkisins, sem Commódus hafði spilt, og halda lífverðinum í skefjum, en þá myrtu hermenn þessir keisarann eptir 3 mánaða ríkisstjórn (193). Upp frá þessu rèði herinn því til allrar ógæfu hverjir keisarar urðu.

Þessu næst bauð lífvörðurinn keisaratignina fala hverjum þeim er bezt byði í móti. *Didius Júlíanus* hèt einn ríkur maður í ráðinu; hann varð hæstbjóðandi, og lífvörðurinn tók hann til keisara. En herinn í skattlöndunum mælti í móti, og nú voru 3 teknir til keisara í sama mund: *Septimius Severus* af herliðinu í Íllyríu, *Clodius Albínus* af hernum á Bretlandi, *Pescennius Níger* af liðinu á Sýrlandi. *Septimíus Severus* varð þeirra skjótastur að ná yfirráðum á Ítalíu, en D. Júlíanus var veginn eptir 2 mánaða stjórn.

*Septimíus Severus* (193—211) varð þannig keisari, en þeir mótstöðumenn hans, *Albínus* og *Níger* mistu báðir lífið, eptir að hafa beðið ósigur móti Septimíusi. Hann var harður maður og grimmur; lífvörðinn, sem selt hafði keisaratignina, rak hann frá sèr, og tók sèr aðra varðmenn úr ýmsum hersveitum ríkisins;

var nú lífvörður hans miklu fjölmennari og traustari en nokkru sinni hafði áður verið. Á þessu hermannavaldi studdi keisarinn ríkisstjórn sína, en virti öldúngaráðið að vettugi, og lèt það engu ráða; enda lèt hann drepa 42 ráðherra, er staðið höfðu með Albinusi. Upp frá þessu mátti ríkisstjórnin heita hermanna harðstjórn, og líkust því sem tíðkaðist með harðstjórum austur í Asíu. Þó stýrði *Septimíus* keisari ríkinu með miklum dugnaði, og gjörði ýmsar góðar og þarflegar rèttarbætur, að ráði og með tilstyrk hinna nafnfrægu lögvitrínga *Papiníans* og *Úlpíans*. Keisarinn fór herferð móti *Pörtum*, og varð þeim sigursæll, og braut *Ktesifon* höfuðborg þeirra. Hann fór og á ofanverðri æfi sinni til Bretlands til þess að verja landið fyrir Skotum (Caledónum), er gjörðu árásir á Breta að norðan; hrakti hann Skota norður á fjöll, og friðaði láglendið fyrir þeim. Nokkrir sagnaritarar segja, að Septimíus lèti setja torfgarð mikinn og varnir móti Skotum yfir þvert land, þar sem Hadríanus keisari hafði áður sett grjótgarðinn. Í þessari Bretlandsför hafði keisarinn sonu sína með sèr; hèt annar *Bassíanus Antónínus*, og er jafnan nefndur *Caracalla* (af gallneskum búníngi sem hann bar), en annar *Septimíus Geta*. Keisarinn komst eigi heim úr för þessari, en tók sótt og andaðist í *Eboracum* (*Jórvík* nú York) á Bretlandi (211) vetri meir en hálfsjötugur.

Septimíus keisari hafði gjört þá skipan áður hann andaðist, að þeir synir hans, *Caracalla* og *Geta*, skyldu báðir taka keisaradóm eptir sig og ráða fyrir ríkjum. Nú sem hann var dáinn kom fjandskapur upp á milli þeirra bræðra; lèt Caracalla drepa bróður sinn (212) í örmum *Júlíu Domnu* móður þeirra, er hann hafði þángað flúið og leitað sèr hælis. *Caracalla* (211—217) æddi fram sem villudýr, og lèt drepa alla þá menn, er höfðu fylt flokk bróður hans, eða hörmuðu afdrif þau, er hann fekk; voru það að sögn 20000 manna; hann lèt taka af lífi *Papiníanus* lögvitríng, einúngis fyrir þá sök, að Papiníanus vildi eigi semja varnarrít um bróðurmorð. En Caracalla lèt sèr eigi nægja, að drepa ráðherra og ríkismenn, eins og harðstjórar höfðu gjört fyrir hans daga, heldur fór hann um alt ríkið með morðvarga sína, kúgaði menn til fjár og lèt drepa. Hann hafði áður gefið öllum frjálsum mönnum víðsvegar um Rómaveldi borgmannarètt, einúngis til þess að geta síðan lagt sömu skatta á þá sem hina, er þann rètt

höfðu áður einir haft. þessi hálfæri harðstjóri vildi líkjast *Alexander mikla,* og lèt kalla sig *magnús* (mikill). Í *Alexandríu* lèt hann drepa margar þúsundir manna, fyrir þá sök, að þar höfðu menn ort háðvísur um hann. Loksins lèt *Macrínus* lífvarðarforíngi drepa Caracalla austur á Sýrlandi, þá er hann bjóst til herferðar móti Pörtum (217 e. Kr.).

Eptir fall Caracalla tók herinn *Macrínus* til keisara yfir sig (217—218). Hann var af lágum stigum, og fyrir þá sök voru höfðíngjar allir í Rómaborg honum mjög mótþverfir, enda kom hann aldrei þángað, meðan hann hafði keisaravöld á hendi. þess var heldur eigi lengi að bíða, að hann óvingaðist við herliðið, bæði af því, að hann vildi viðhafa betri stjórn og reglu meðal þess, en áður hafði verið, og svo hins vegna, að hann keypti sèr frið við *Parta,* sem Caracalla hafði ætlað herför í móti. Um það leiti var kona sú uppi í *Emesaborg* á Sýrlandi, er *Júlía Mæsa* hèt; hún var systir Júlíu Domnu, sem áður er getið. Dóttursonur Júlíu Mæsu hèt *Bassíanus;* hann var sólarprestur í Emesa, eins og afi hans hafði verið, og var þá 14 vetra að aldri[1]. Mörgum þótti sveinn sá líkjast Caracalla, og amma hans lèt í veðri vaka, að hann væri sonur hins myrta keisara. En er Macrínus frètti það fer hann frá Antíokkíu til móts við Bassianus; verður fundur þeirra skamt þaðan og lyktar svo, að Macrínus keisari hefir ósigur og er drepinn (118).

## III. HIÐ RÓMVERSKA KEISARADÆMI FÆR AUSTURLENZKAN SVIP. TILDRÖG TIL SKILNAÐAR MILLI HINS VESTLÆGA OG AUSTLÆGA RÓMAVELDIS (217—375).

þá er *Bassianus* var orðinn keisari (218—222), lèt hann kalla sig *Heliógabalus* (*Elagabal*) eptir sólargoði því, er hann hafði þjónað meðan hann var prestur. Hann flutti stein þann (svartan og keilumyndaðan), er tákna átti sýnilega mynd sólguðs-



ins, til Rómaborgar, með mikilli viðhöfn og setti þar í hof eitt á Palatínhálsi. Til þess að sameina trúarbrögð Rómverja og Asíumanna var túnglgyðjan (*Lúna*) gipt þessu nýja austangoði (sólargoðinu). Voru nú í Rómaborg teknir upp hirðsiðir og viðhöfn Asíukonúnga; leikarar og hárskurðarmenn fengu hin æztu embætti; alþýðan lifði við skemtanir og veizlur, en lífverðinum voru veittar stórgjafir til þess að hann væri tryggur. *Heliógabalus* keisari hugði eigi á annað en munað og máltíðir, og það með svo miklum firnum, að fá munu dæmi til slíks, þar á ofan var hann hinn mesti grimdarseggur. Eptir áeggjan ömmu sinnar kaus hann sèr til eptirmanns frænda sinn þann, er *Alexíanus* hèt, og kallaði hann *Alexander Severus*. En bráðum óttaðist keisari vinsældir þessa frænda síns, og vildi fyrirfara honum. Lífvörðurinn varð fyrri til bragðs og drap Heliógabal, er hann hafði setið 4 ár að ríkjum (222 e. Kr.).

*Alexander Severus* (222—235) var 14 vetra, þá er hann kom til ríkis. Móðir hans (*Mammæa*) stýrði ríkinu fyrir hans hönd, og tók sèr ráðaneyti til aðstoðar; einn af þeim ráðanautum var lögfræðíngurinn *Úlpíanus;* fór hennar ríkisstjórn vel fram. *Alexander* keisari var ágætlega vel viti borinn, hófsemdarmaður og mildur, og kom mildi hans einnig fram við kristna menn. Á hans dögum batnaði hagur Rómverja þó nokkuð frá því, sem verið hafði um undanfarin óstjórnarár. En það yfirsteig orku hins góða keisara, að koma stjórn á hina öfstopafullu og óeirðargjörnu herskara. Lífverðirnir hèldu hinn ágæta Úlpían vera einhvern hinn mesta mótstöðumann sinn, því að hann vildi jafnan við hafa lög og reglu, og drápu hann að keisaranum viðstöddum, án þess hann gæti afstýrt því fólskuverki, eða refsað þeim, er það unnu. Sagnaritarinn *Díó Cassíus* frá Nicæu, er hernum þótti vera siðavandur um of, hèlt lífi fyrir þá sök, að hann var erlendis, og eigi í Rómaborg, þá tíð er hann hafði ræðismannsembætti á hendi.

Um þessar mundir urðu þau stórtíðindi austur í löndum, að persneskur maður að nafni *Ardschir* eða *Artaxerxes,* sonur *Sassans,* er þóttist kominn af fornkonúngum Persa, steypti úr völdum *Artabanusi* hinum fjórða með því nafni, *Parta* konúngi, og setti aptur á stofn í *Íran* ríki það, er kallað var: *persneska ríkið hið nýja* (226). Eptirmenn þessa *Artaxerxes,* sem nefndir

eru *Sassanídar,* tóku upp aptur og leiddu í lög hin fornu persnesku trúarbrögð, og kveiktu nýja orku og dáð í þeirri þjóð. Artaxerxes konúngur gjörði þegar tilkall til allra þeirra landa í Asíu, er legið höfðu undir Persa í fyrri daga. Fór *Alexander* keisari þá í móti honum og átti við hann orustur, en hver sem viðskipti þeirra voru, þá urðu þó þær málalyktir, að Artaxerxes gaf frá sèr að krefjast landa fyrir vestan Eufrat. Þá er styrjöldinni við Persa var lokið, hèlt *Alexander* keisari heim til Rómaborgar, en þar voru eigi löng setugrið fyrir hann, og varð jafnskjótt að fara norður til Rínar móti *Germönum,* er gjörðu harðar árásir á landamæri þar norður. Svo er að sjá sem liðsmönnum hans hafi þótt lítið kveða að honum sem hershöfðíngja, og drápu hann þar og móður hans, sem jafnan var með honum (235). Tóku þeir þá til keisara þann mann, er *Maximínus* hèt frá Þrakíu (235—238). Hann var hinn mesti hermaður og allra manna mestur og sterkastur, en fráleitur allri mentun, og fyrirleit höfðíngja og heldrimanna siðu. Hann var grimmur við Rómverja, enda voru þeir honum mótsnúnir mest fyrir þá sök, að hann var útlendur og lítt mentaður. Hann kom aldrei til Ítalíu eða Rómaborgar, en stýrði ríkinu þaðan sem hann sat í herbúðum sínum. Hann brauzt norður yfir Rín og barði á Germönum. Öldúngaráðið í Rómaborg, sem undi ílla yfirráðum *Maximínusar* keisara, og þótti hann misbjóða sèr í mörgu, tók nú hug og dug til sín og lýsti yfir því, að Maximínus hefði fyrirgjört keisaratign, og kaus menn til ríkisstjórnar í hans stað, en þeir urðu skammærir mjög. Þá brá Maximínus við og ætlaði til Ítalíu, en liðsmenn hans drápu hann á þeirri leið (238).

Þá var tekinn til keisara sá, er *Gordíanus* hèt (hinn þriðji) (238—244); hann var barn að aldri, en fríður sýnum og hugljúfi hvers manns. Hann fór herferð móti Persum, er gjörðu árásir á lönd Rómverja þar austur. Gordíanus hafði þann hershöfðíngja, er *Misiþeus* hèt, ágætan mann, er vann sigur á Persum, en svo dó Misiþeus, og eptirmaður hans í herstjórn, er *Filippus* hèt og kallaður hinn *arabski,* því að hann var frá Arabíu, drap *Gordíanus* keisara, og komst síðan til ríkis (244).

*Filippus* keisari sat að völdum frá 244 til 249 e. Kr. Á hans dögum (248) var hátíð haldin í minníngu þess, að Rómaborg hafði þá staðið um 1000 ár. Það er sögn, að Filippus

keisari hafi verið maður kristinn, en hitt er víst, að hann studdi kristnina og átti brèfaviðskipti við *Origenes* kirkjuföður. En á dögum *Decíus* keisara, er kom til ríkis eptir Filippus (249—251), mættu kristnir menn aptur grimmum ofsóknum. Decíus keisari fèll í Mösíu á móti *Gotum*, sem komu að norðan og gjörðu harðar árásir á lönd Rómverja (251). *Gallus* keisari (251—253) sá, er eptir hann kom, keypti Gota af höndum sèr, en það var að eins stundar friður og hvöt fyrir þá, að koma aptur. Gallus var drepinn 253.

Á dögum *Valeríanus* keisara (253—260) og *Gallíenus* sonar hans, er fyrst stýrði ríkinu ásamt með föður sínum, og síðan einn (260—268), var eigi annað sýnna, en að Rómaveldi mundi leysast sundur og líða undir lok. Þá herjuðu ýmsar þjóðir á ríkið bæði að norðan og að austan, og skal þeirra hèr að eins getið.

Síðan *Markamenn* voru á ferðum, hafði Rómaveldi litlar ónáðir haft af Germönum, en þegar hèr var komið sögunni, á miðri þriðju öld, tóku þeir að gjöra nýjar og frekari árásir. Á tímabili því, sem þar er á milli (þ. e. frá Markúsar Aurels dögum og til þeirra sem hèr ræðir um) höfðu ýmsar af þjóðum þessum sameinað sig hver annari, og komu nú fram í stærri heildum. Þær heita ýmsum nöfnum. Á milli ánna Nekkar og Main voru *Alimenn*, milli Rínar og Veserfljóts *Frakkar*, milli Veser og Elfunnar *Saxar*. Fyrir austan *Germani* (er síðan eru nefndir *Þjóðverjar*) bygðu *gotneskar* þjóðir, norðan frá *Skandinavíu* og *Eystrasalti* alt suður að *Svartahafi;* auk *Vesturgota* og *Austurgota* teljast með þeim: *Gepidar, Vandalir, Búrgundar, Herúlar, Alánar* o. fl. Frakkar og Alimenn herjuðu á Gallíu, Alimenn fóru jafnvel til Ítalíu. Gotar fóru eptir Svartahafi og herjuðu bæði um Litlu-Asíu og Grikkland. *Persar* hèldu vestur yfir Eufrat og fóru herskildi um Sýrland. *Gallíenus* keisari, eða öllu heldur hershöfðingi hans *Postúmus,* varði Gallíu; *Valeríanus* keisari fór sjálfur móti Persum, en varð handtekinn af þeim (260), og kom aldrei aptur.

*Gallíenus* keisari var vitur maður, en mislyndur þótti hann og værugjarn; hann var hneigður til bóka og til skemtana, en seinn til landvarnar. Ríkinu hnignaði af harðæri og drepsótt, útlendum og innlendum óvinum. Í ýmsum skattlöndum brutust hers-

höfðíngjar til keisaradóms, og með því að tign þeirra átti sèr skamman aldur, urðu þeir svo margir, að menn hafa kallað tímabil þetta: *ríkisár hinna 30 harðstjóra;* en það nafn á hèr þó eigi vel við. Einkum komu þá upp tvö ríki, annað í vestri, hitt í austri. Í Gallíu og í vesturlöndunum ríkti *Postúmus;* austur á Sýrlandi og þar í kríng rèði *Ódenatus* öllu. Báðir þeir dóu ári fyr en Gallienus. Ódenatus var vitur maður og dugandi og barðist svo hraustlega móti Persum, að kalla mátti hann bjargaði eystri hluta ríkisins, og fyrir því veitti Gallíenus honum keisaratign með sèr. Höfuðborg Ódenatus hèt *Palmýra,* mikil borg og auðug. Eptir hans dag jók drotníng hans *Zenóbía,* komin af Cleópötru, ríki það, er maður hennar hafði stýrt; hún var hin mesta fyrirtakskona bæði að fríðleik og að öllu atgjörfi. *Gallíenus* keisari var myrtur af mönnum sínum 268 e. Kr.

Honum næstur kom *Claudíus hinn annar* til ríkis (268—270); hann hafði verið höfðíngi fyrir Dónárliðinu og stýrt því með miklum dugnaði. Hann vann sigur á Alimönnum, er komnir voru suður á Ítalíu; eptir það fór hann í móti Gotum, er komnir voru inn í lönd hans og höfðu óflýjandi her. *Claudíus* keisari barðist við Gota norður í Mösíu, varð þar ógurlegt mannfall af Gotum, en keisarinn fekk sigur; sótt kom í lið það, er eptir varð af Gotum; úr þeirri sótt dó keisarinn litlu síðar (270). Hann fekk viðurnefnið *Goticus* (hinn gotneski).

Þá kom til ríkis *Aurelíanus* (270—275); hann var bóndason úr Pannóníu, en var fyrir sakir hreysti sinnar og herkænsku kominn í há hervöld þá er Claudíus keisari fèll frá. *Aurelíanus* tók þar við er Claudíus hætti, og braut aptur til hlýðni skattlönd þau, er uppreist höfðu gjört, og fekk viðurnefnið: *restitutor orbis* (viðreisnarmaður heimsins). Hann lèt Dacíu lausa við Gota, svo að Rómverjar sleptu þannig löndum fyrir norðan Dóná. En í löndunum fyrir sunnan Dóná bældi hann niður allar óeirðir; sömuleiðis lagði hann Gallíu aptur undir sig, og ríki það, er Ódenatus hafði yfir ráðið; lèt taka *Zenóbíu* drotníngu höndum og flytja til Rómaborgar, en leggja Palmýraborg í eyði. Hann lèt setja múrvegg um Rómaborg til varnar móti útlendum þjóðum. Síðan fór hann herferð móti Persum, og ætlaði að hefna á þeim ófara *Valeríans* keisara, en á þeirri ferð var hann veginn af hermönnum nokkrum, er eigi þoldu stjórnsemi hans (275).

Keisarinn var fallinn, en eptir var höfuðlaus her, og þótti hernum vígið svo ilt verk, að hann vildi eigi ráða kosníngu, en bað *öldúngaráðið* kveða á hver verða skyldi keisari; var þá keisaralaust um nokkra mánuði. Loksins var hinn aldraði ráðherra *Tacítus,* afkomandi hins nafnfræga sagnaritara, tekinn til keisara (276); hann reyndist allnýtur höfðíngi þann stutta tíma, sem hann ríkti, en það var að eins eitt missiri, og andaðist þá annaðhvort af gremju eða af mannavöldum, að því er sumir segja (276).

Eptir lát *Tacítusar* tók herinn á Sýrlandi *Aurelíus Próbus* til keisara, og *ráðið* í Róm lagði á samþykki sitt. *Próbus* keisari (276—282) var af bændastètt úr Pannóníu eins og *Claudíus annar* og *Aurelían.* Hann var ágætur höfðíngi, vitur maður og mildur, og hinn mesti hermaður. Hann rak Germani út úr Gallíu, er þángað höfðu brotizt jafnskjótt sem Aurelíans misti við. Keisarinn lèt eigi þar við sitja heldur sótti þá sjálfa heim, og herjaði norður yfir Rín, til þess er Germanir beiddust friðar. Af sífeldum ófriði og drepsóttum var Rómaveldi út við landamærin orðið mjög mannfátt og niðurnítt. Keisarinn vildi bæta þau lönd aptur, og setti þángað menn úr öðrum þèttbýlli sveitum til að yrkja löndin að nýju; þannig flutti hann marga af Gepídum og Frökkum austur að Dóná, og fekk þeim þar bústaði. En sagan segir, að Frakkar hafi eigi fest þar yndi, og fengið sèr skip austur við Svartahaf; hèldu síðan suður um haf, út um Hellusund (*Hellespontus*), vestur um Miðjarðarhaf, og alla leið norður með löndum til Rínárósa og heim til ættjarðar sinnar. *Próbus* keisari var hinn mesti umsýslumaður í ríki sínu og vildi öllu hrynda í lag; hann lèt reisa og viðrètta margar borgir, sem annaðhvort eigi höfðu áður verið til, eður eyddar í ófriði. Hann lèt herskara sína flytja vínvið og planta í Gallíu og á Pannóníu, og þannig aftaka bann það, er Domizíanus keisari hafði gefið gegn vínviðarplantan í skattlöndunum. Það má því þakka ráðstöfun Próbusar hin úngversku vín og Rínarvínin; hann lèt og hermenn sína starfa að mýraþurkun og brúagjörð og vegabótum, o. s. fl. En að slíkum störfum geðjaðist hinum ofstopafullu hermönnum ekki. Þeir vildu heldur vinna níðíngsverk og myrtu keisarann (282) skamt frá *Sirmíum,* þar sem hann var fæddur.

Lífvarðarforínginn *Carus* varð þessu næst keisari. Hann var

hermaður mikill; hann fór herferð móti Persum, og vann sigur á þeim og komst austur yfir Tígris, en dó snögglega (283); sumir segja að lopteldur dræpi hann, en aðrir, að hann andaðist í sótt, eða væri drepinn af mannavöldum.

Synir *Carusar* hètu *Númeríanus* og *Carínus*, og erfðu ríkið eptir föður sinn. Hin fyrri var gott mannsefni, en var veginn af tengdaföður sínum *Aper*, að ári liðnu (284). Hinn síðari var drepinn ári síðar (285), og þá kom sá maður til ríkis, er *Díóclezíanus* hèt.

*Díóclezíanus* keisari (285—305) var leysíngjason og ættaður frá Dalmazíu, en afbragðsmaður að vitsmunum og dugnaði, og í sumu ekki ólíkur því, sem Ágústus keisari hafði verið. Hann stýrði ríkinu með miklum skörúngsskap, og reyndi að eyða öllum þeim menjum, er eptir voru hjá þjóðinni og mintu hana á þjóðveldið. Þar af kom það, að *Rómaborg* varð upp frá þessu að eins að nokkru leiti aðseturstaður keisarans. *Díóclezíanus* sat lengstum í *Nikómedíu* í Biþyníu; hirð keisarans og hirðsiðir allir voru sniðnir eptir því sem tíðkaðist hjá konúngum í Asíu; keisarinn lèt menn kveðja sig með knèfalli áður menn mætti tala til hans; hann bar einkennilegan klæðnað og mjög skrautlegan. En á þenna hátt gat keisarinn haldið hinum uppvöðslumikla lífverði í skefjum, og komið aptur reglu á margt í ríkisstjórninni.

Hið víðlenda ríki og hin margbrotna ríkisstjórn var erfiðari en svo, að einn maður gæti aðdugað, einkum þegar þar á bættust árásir útlendra þjóða, sem allajafna gjörðust nærgöngulli Rómaveldi og háskalegri. Fyrir því tók *Díóclezíanus* það til bragðs, er síðan hafði hin mestu áhrif á kjör ríkisins: *hann tók mann til að stýra ríkinu með sèr.* Díóclezíanus kaus þann mann, er *Maximíanus* hèt, sèr til samstjórnarmanns, og setti hann yfir vesturhluta ríkisins; hann var og af lágum stigum og allmikill hermaður; skiptu þeir nú með sèr bæði friðarstörfum og ófriðar, og hugðu á þann hátt, að geta stjórnað ríkinu með meiru fylgi og fjöri en einum var unt. Þeir tóku sèr tignarnafn og nefndist hvortveggja *Ágústus.* Þegar nú keisarar voru orðnir tveir, varð kostnaður allur meiri og skattar þýngri; tóku menn þá sumstaðar að kvarta um þúngar álögur; leiddi það til þess, að keisararnir tóku sèr, hver sinn aðstoðarmann eða *undirkeisara,* og kölluðu þá *Cæsara;* skyldu þessir stýra ríkinu með þeim og erfa það að

þeim dauðum. Vildi Díóclezíanus með þessu koma á löglegum ríkiserfðum, og tryggja alla stjórn, svo að ýmsir hershöfðíngjar gætu eigi brotizt til valda, er keisarinn fèlli frá, eins og áður hafði tíðkazt og valdið svo miklum óeirðum. Annar þessara Cæsara hèt *Constanzíus Chlorus*, ágætur maður, og kominn af Claudíusi keisara öðrum, hinn hèt *Galeríus*, ættsmár maður úr Dacíu, harður og hrokafullur. Skiptu nú þessir 4 keisarar þannig löndum með sèr, að *Constanzíus* hlaut Spán, Gallíu og Bretland; *Galeríus* Grikkland; *Maximíanus* Ítalíu og Afríku; *Díóclezíanus* austurlönd. Aðseturstaðir þeirra voru *Nikómedía, Sirmíum, Medíólanum* og *Ágústa Trevírorum*. En þrátt fyrir þetta var þó ríkið eitt sem áður og óskipt. Díóclezíanus áskildi sèr hin æztu yfirráð, og hans boði og banni var alstaðar gegnt. Um þessar mundir fór Galeríus herferð móti Persum og varð svo vel framgengt, að hann tók af þeim alla Mesópotamíu og lönd fyrir austan Tígris. Constanzíus var og sigursæll vestur í sínum löndum, og vann aptur Bretland undir Rómaveldi, eptir að sá maður, er *Carausíus* hèt, hafði verið þar einvaldur um 7 ára tíma.

*Díóclezíanus* keisari var mótfallinn kristnum mönnum; honum þóttu þeir mynda einskonar ríki í sínu ríki; þó var það eigi fyr en á ofanverðum dögum hans, að Galeríus kom honum til að leggja blátt bann fyrir helgihöld þeirra (303 e. Kr.), og fylgdu því banni hinar grimmustu ofsóknir. Constanzíus, er var hinn mildasti höfðíngi, afstýrði þeim ofsóknum í löndum þeim, er hann átti yfir að ráða.

Árið 305 lagði *Díóclezíanus* keisari niður völdin, og var þá sextugur að aldri; flutti sig til *Salónaborgar*, skamt þaðan, er hann var borinn og barnfæddur, og settist þar um kyrt, sem í helgan stein. *Maximíanus* gjörði slíkt hið sama, þó honum væri það ekki ljúft. Þá urðu hinir *Águsti* (yfirkeisarar): *Galeríus* í hinum eystri hluta, og *Constanzíus* í hinum vestri. Galeríus, sem var ójafnaðarmaður, þóttist nú einvaldur yfir öllu Rómaveldi og fór því einu fram, sem honum sýndist, án þess að leita ráða eður samþykkis hjá Constanzíusi samstjóra sínum, þannig útnefndi hann tvo menn til undirkeisara, án hins vilja; þeir hètu *Maximínus Daza* og *Severus*. En er Constanzíus andaðist árið 306, flýði sonur hans *Constantínus* (er síðar varð svo frægur), er verið hafði í einskonar gislíngu hjá Galeríusi, vestur til liðs þess, er

faðir hans hafði stýrt, og var þar til keisara tekinn. Kom það Galeríusi mjög á óvart, en treystist þó eigi, að etja kappi við Constantín, og samþyktist það, að hann yrði undirkeisari (Cæsar). Kom það einkum til af því, að þá var ófriður mikill á Ítalíu, er *Maximíanus* hinn gamli hafði brotizt þar aptur til ríkis, og með honum *Maxenzíus* sonur hans. Í þeim óeirðum fèll *Severus* undirkeisari. Tók þá Galeríus þann til undirkeisara í hans stað, er *Liciníus* hèt. Voru nú þannig 6 keisarar yfir Rómaveldi (*Galeríus, Maximínus Daza, Constantínus, Maximíanus, Maxenzíus* og *Licinius*). Sá þeirra, er fyrstur týndi tölunni, var Maximíanus. Þar varð ílla með þeim feðgum, því að Maximíanus flýði fyrir syni sínum og á náðir Constantinus keisara, er átti Faustu dóttur hans. En er Constantínus var heiman farinn, vildi Maximíanus brjótast þar til valda og jafnvel drepa tengdason sinn. Á því bragði fèll hinn gamli seggur og var drepinn (310). Ári síðar dó Galeríus; löndum hans skiptu þeir Licinius og Maximínus Daza: hinn fyrnefndi fekk Europulöndin, hinn síðari þau í Asíu. Voru keisarar þá 4 uppi.

En eigi stóð friður lengi milli þessara manna. Constanzía systir Constantíns giptist Liciníusi, og urðu þeir mágar allmiklir vinir. Hinsvegar bundu þeir Maximínus og Maxenzíus fèlagskap með sèr; voru þeir báðir hinir mestu harðstjórar og óvinsælir, og urðu bráðum að lúta þeim Constantínusi. Þau urðu æfilok Maxenzíus að hann druknaði í Tífur, er hann flýði fyrir Constantínusi (312), en Maximinus beið ósigur árið eptir fyrir Liciníusi, og drap sig síðan á eitri.

Nú voru þeir mágar *Constantinus* og *Liciníus* tveir eptir í tigninni, en urðu þegar á næsta ári sundurþykkir. Í þeim viðskiptum þröngvaði Constantínus mági sínum til að láta laus við sig flest af löndum þeim, er hann rèð fyrir í Europu, og sömdu þeir þannig frið með sèr. Stóð svo um 9 ár. Þá laust aptur upp ófriðnum og fekk Constantínus sigur, en Licínius þág líf og grið, en var þó skömmu seinna af dögum ráðinn (324).

## Constantínus mikli.

Fyrst hafði *Constantínus* haft yfirráð yfir fjórðúngi ríkisins um 6 ár, síðan stýrt því hálfu um 12 ára tíma; nú var hann eptir öll þessi stórvirki orðinn einvaldur yfir öllu Rómaveldi, og

var það síðan til dauðadags. Sigur Constantínusar keisara er einkum merkilegur orðinn fyrir þá sök, að það varð einnig sigur kristinnar trúar. Frá því, er Constantínus kom fyrst til ríkis, hafði hann jafnan verndað kristna menn; en á herferð sinni móti Maxenzíusi (312) er sagt, að hann hafi sèð krossmark á himni, og eptir þá vitran lèt hann setja krossmark í merkjablæur sínar, og trúðu menn hans, að því merki fylgdi sigur. Árið eptir að hann sigraðist á Maxenzíusi gaf hann fult trúarbragðafrelsi öllum þegnum sínum, hverrar trúar sem þeir voru. En síðan veitti hann kristnum mönnum ýms rèttindi fram yfir heiðna menn; að hans boði skyldu 7 dagar vera í viku hverri, og sunnudagurinn almennur hvíldardagur; hann lèt loka mörgum hofum og brjóta sum, en gjöra kirkjur. Þó lèt hann sjálfur eigi skýrast fyr. en litlu fyrir dauða sinn.

Upp frá þessu varð hin kristna kirkja sem einn þáttur í stjórn ríkisins. Þrátt fyrir allar ofsóknir átti hún nú marga áhángendur um alt ríkið og var komin á fastan fót. Stjórnendur og kennendur hennar voru nefndir *biskupar, prestar, djáknar;* og einu nafni hètu þeir *klerkar,* til aðgreiníngar frá öðrum mönnum, sem eigi höfðu kirkjulegt embætti á hendi, og kallaðir voru *leikmenn.* Aðgreiníng milli þessara tveggja flokka varð síðan miklu meiri þá er lengra sótti fram. Klerkar fengu nú fastar tekjur; kirkjum var leyft að eignast jarðir, og 50 árum síðar, en hèr var komið, áttu kirkjur tíunda hlutann af öllu jarðagózi.

Löngu fyrir daga Constantínus mikla hafði talsverður ágreiníngur komið fram í lærdómssetníngum kristinna manna; ýmsir trúarbragðaflokkar höfðu myndazt og risið upp t. a. m. *Gnostikar* og *Manikear.* Hvorirtveggja þessara blönduðu trúarbrögðum austurlanda saman við hina kristnu trú. Á dögum Constantínusar hófst áköf deila um eðli Krists milli *Alexanders* biskups í Alexandríu og *Aríusar* prests, og urðu svo mikil brögð að því stríði, að keisarinn skarst í málið og stefndi til kirkjuþíngis í *Nicæaborg* (325); er svo sagt að þar kæmu saman 300 biskupa. Sá hèt *Athanasíus,* er bezt fylgdi biskupi gegn Aríusi. Á því þíngi var lýst yfir því, að *Aríus* færi með villulærdóm, og varð hann útlægur; þó hneigðist keisarinn síðar að kenníngu Aríusar.

Smámsaman fór andi kristinnar trúar að hafa áhrif á lög og lagasetníngu. Þannig voru leikar skilmíngamanna af teknir, svo

var og bannað að bera út börn, o. fl. Þó er það eigi þannig að skilja, að hugir manna og siðir hafi alment mýkzt eður batnað þá þegar, þó að kristni gjörðist almenn út um löndin. Og svo er sagt um sjálfan keisarann, að hann væri í mörgu heiðínglegur í skapi, og ekki lýsti það kristilegu hugarfari, er hann lèt drepa Licinius í trygðum, eða *Crispus* son sinn eptir fyrri konu sína, efnilegasta úngling, þar að auki seinni konu sína Faustu, og fleiri menn. En alt um það var Constantínus keisari hinn merkasti maður og afrekaði margt og mikið gott, og fyrir öll þau afreksverk, er hann gjörði sem keisari, hefir hann fengið viðurnefnið: *hinn mikli.* Hann varði ríkið hreystilega fyrir áråsum útlendra þjóða; hann kom einveldisstjórninni algjörlega á um ríki sitt eptir þeirri stefnu, sem Díóclezíanus hafði byrjað. Í Rómaborg lifði enn endurminníng þjóðstjórnar og heiðni, þess vegna þótti Constantínusi sá staður ekki lengur vel fallinn til aðsetu fyrir sig; ófriðar var og síður að vænta þar vestur en hið eystra; en keisarinn varð að vera þar nálægt sem ófriðar var helzt von. Fyrir þá sök litaðist Constantínus um eptir nýju höfuðbóli handa sèr. Hann kaus til þess borg þá, er hèt *Byzanzíum;* enda mátti þeim stað margt til ágætis telja. Árið 330 var ákveðið, að þar skyldi vera aðalborg og aðsetur keisarans; breytti Constantínus þá nafni hennar og kallaði *Róm hina nýju,* en eptirkomendur hans *Constantínópel* (Constantínsborg), og heitir hún svo enn í dag. Borg þessi magnaðist á skamri stundu svo mjög, að hún gat staðið jafnfætis Alexandríu eða Antiokkíu, og er tímar liðu fram jafnazt við Rómaborg sjálfa. Constantínópel fekk sömu forrèttindi sem Rómaborg hafði haft; þar var skipað nýtt öldúngaráð; þar var fjölmennur skríll, er lifði á kostnað als ríkisins.

Constantínus keisari skipti ríki sínu í 4 *umdæmi* (*Præfecturæ*): *Austurheim* (skattlöndin í Asíu, Egyptaland og Þrakía), *Íllyricum* (Grikkland, Makedonía, Mösía), *Ítalíu* (með löndum fyrir sunnan Dóná og meiri hluta Afríku), og *Gallíu* með (Bretlandi, Spáni og Mauritaníu). Yfir hvert umdæmi skipaði hann einn *umdæmisstjóra* (Præfect). Síðan á dögum Hadríans hafði foríngi lífvarðarins (*præfectus prætorio*), ásamt hervaldi því, er hann hafði, einnig verið æzti dómari; enda höfðu frægustu lögvitríngar haft það embætti á hendi t. a. m. *Úlpíanus.* Þeir höfðu

hèr um bil haft sama vald á hendi sem Stórvezírinn hjá Tyrkjum. þessu breytti Constantínus alveg. þessir nýju umdæmastjórar höfðu engin hervöld, heldur að eins yfirstjórn í borgaralegum málefnum, en þau völd voru mikil. þeir voru einskonar jarlar. Yfir herinn setti Constantínus sèrstaka menn; þeir hètu *magistri militum* (hermeistarar, herforíngjar); undir þeim stóðu *comites* og *duces* (greifar og hertogar, en í alt annari þýðíngu en seinna á tímum), en alla setti keisarinn þessa skör lægra en hina æztu embættismenn borgaralegra málefna. Lífvörðinn af tók hann í þeirri mynd sem hann hafði verið, þó keisarinn að vísu hefði varðmenn um sig; og herinn var hafður í minni metum en áður; vildu því fáir Rómverjar verða hermenn, en tala þeirra útlendínga fjölgaði dag frá degi, sem gengu í herþjónustu keisarans. Næsta sèr hafði keisarinn 7 ráðgjafa, er gengu honum daglega til handa, og höfðu ýms störf með að fara einkum við hirðina; undir þá þjónuðu aptur ýmsir embættismenn; alt var samið að siðum austurlandakonúnga, og hið ríkasta einveldi drotnaði hvervetna.

*Constantínus mikli* andaðist 337 e. Kr., er hann hafði fjóra vetur um sextugt, en ættmenn hans lifðu þá margir eptir: fyrst synir hans 3, er hann átti með *Faustu* seinni konu sinni: *Constantínus, Constanzíus* og *Constanz*; þar næst hálfsystkyni hans (af síðara hjónabandi Constanzíus Chlórus), og í þriðja lagi börn þeirra. En í óeirðum, sem urðu í Constantínópel litlu þar á eptir, fækkaði þetta frændalið svo mjög, að eigi urða lífs eptir nema þeir bræður, Constantíns synir, og 2 bræðrúngar þeirra, *Gallus* og *Júlíanus*, og þá börn að aldri[1]. þeir bræður skiptu nú ríki föður síns milli sín þannig, að *Constantínus* fekk Gallíu umdæmi (Præfectur), *Constanzíus* Austurlönd, *Constanz* Ítalíu og Íllyrícum; þeir voru illir menn og ógegnir og urðu bráðum ósáttir sín í milli; Constantínus og Constanz fèllu, en *Constanzíus* náði yfir-

1)
Constanzíus Chlorus ∽ 1. Helena. 2. Theódóra stjúpd. Maximíans.
|
1. *Constantínus mikli* 2. Constanzía. 2. Júlíus Constanzíus
∽ 1. Mamertína 2. Fausta ∽ Liciníusi |
| Gallus. *Júlíanus*
1. Crispus. 2. *Constantínus.* 2. *Constanzíus.* 2. *Constanz.*

ráðum yfir öllu ríki föður síns 353. Hann tók Gallus frænda sinn sèr til aðstoðar í stjórninni, en Gallus reyndist illa og var drepinn, og við sjálft lá, að *Júlíanus* færi sömu leið, en það varð þó ekki. Eptir að Júlíanus hafði dvalizt um hríð í Aþenuborg og stundað þar vísindi af miklu kappi, setti Constanzíus hann til undirkeisara á Gallíu (355), því að hann þóttist þá eigi geta einn aðstaðið, er ófriður stóð fyrir dyrum. Um þær mundir er *Júlíanus* tók við yfirstjórn á Gallíu, herjuðu *Alimenn* og *Frakkar* þángað í land og gjörðu hin mestu landspjöll. Júlíanus átti stórorustu við Alimenn hjá *Argentóratum* (Strassborg), og hrakti þá norður yfir Rín; fór síðan margar herferðir norður yfir fljótið, og reyndist ágætur hershöfðíngi. Hann sat lengstum í borg þeirri, er þá hèt *Lútezía Parisiorum*, en nú heitir *París*, og stýrði ríki sínu af hinni mestu snild, og varð hvers manns hugljúfi. En er *Constanzíus* varð þess vísari, lèk honum öfund á um vinsældir Júlíans, og bauð honum að senda frá sèr meginhluta hersins til Austurlanda. Herliðið vildi eigi skiljast við Júlíanus og tók hann til keisara yfir sig. Varð Constanzíus þá æfareiður og vildi engum málum miðla, en hèlt með her manns til móts við Júlíanus; á þeirri leið dó Constanzíus (361 e. Kr.).

Var nú *Júlíanus* tekinn til keisara yfir alt Rómaveldi (361—363). Hann var mjög ólíkur þeim Constantínssonum, frændum sínum; hann var vitur maður og hafði lagt mikla stund á gríska heimsspeki, var sjálfur rithöfundur og unni fornum vísindum og fornri manndygð, en hataði ófrelsi og harðstjórn, austurlenzka hirðsiðu og sællífi, starfsmaður var hann óþreytandi, og í öllu hinn ágætasti maður nema í því, er trúarbrögðin snerti. Honum virtist sem Rómaveldi hefði hnignað fyrir þá sök, að það vanrækti trú forfeðranna; hann sá að siðir hinna kristnu manna samsvöruðu eigi kenníngu þeirra; keisararnir, verndarmenn kristninnar, voru grimmir og vèlafullir; hann hafði reynt svo mikið ílt af þeim, mist frændur og vini af þeirra völdum, og sjálfur að eins haldið lífi. Um alt þetta kendi hann hinni nýju trú, kristninni, sem kenna mátti ókostum mannanna sjálfra, og í því var villa hans fólgin. Hann einsetti sèr því að hefja aptur til fornra valda og vegsemdar hina fornu trú, heiðnina; þó ofsótti hann eigi beinlínis kristna menn, en setti þá hjá í öllu og gjörði gis að þeim, en veitti heiðnum mönnum ýms rèttindi; jafnvel Gyðíngatrú tók

hann fram yfir hina kristnu. Fyrir þá sök hafa kristnir rithöfundar borið honum ílla sögu, og gefið honum viðurnefnið: *Apostata* þ. e. hinn fráfallni (frávillíngur). Sagnaritarinn *Ammíanus Marcellínus,* er var samtímis honum, hefir bezt og rèttast um hann ritað. Eitt af því sem *Júlíanus* keisari vildi framkvæma og vinna sèr til frægðar var að fara herferð móti Persum, eins og Alexander keisari forðum, og leggja þá undir sig. Safnaði hann nú miklu liði og hèlt austur og barðist við Persa og vann sigur; hann komst austur yfir Tígris, en skorti vistir, er lengra dró inn í landið, og varð að snúa aptur. Persar eltu hann með miklu liði, en keisarinn barði þá af höndum sèr. Þá var það einhverju sinni að hann rak flóttann og var hlífarlaus, en hætti sèr mjög sem hann var jafnan vanur; varð hann þá sár og af því sári dó hann 32 ára gamall (363 e. Kr.). Herinn tók til keisara yfir sig herforíngja þann, er *Jóvíanus* hèt. Hann samdi frið við Persa og lèt laus ýms lönd þar eystra. Hann var kristinn og veitti kristnum mönnum aptur þau rèttindi og hlynnindi, sem þeir höfðu mist á dögum Júlíans. Kristnin tók aptur að rètta við, en heiðninni hnignaði. *Jóvíanus* keisari komst eigi alla leið heim til Constantínópel og dó í Litlu-Asíu (364). Kaus herinn þá til keisara *Valentinianus hinn fyrsta,* hraustan mann og hergjarnan frá Pannóníu. Hann stýrði ríkinu frá 364 til 375 e. Kr., og tók sèr til samstjórnarmanns (*Ágústus) Valens* bróður sinn, og skipaði hann yfir Austurlöndin. *Valens* keisari hafði eigi dugnað bróður síns; þó var ríkisstjórn þeirra bræðra allgóð í mörgu. *Valentiníanus* varði ríkið hraustlega móti Alimönnum og öðrum Germanaþjóðum, er herskildi fóru suður yfir Rín; en *Theódósíus* hershöfðíngi hans rak *Picta* og *Skota* út úr Bretlandi, er gjört höfðu árásir þángað norðan úr *Caledóníu* (Skotlandi). *Valentiníanus* keisari dó 375 e. Kr.; tóku þá synir hans, *Grazíanus* og *Valentiníanus annar,* ríki eptir hann, og voru á únga aldri; en *Valens* keisari sat þá enn að völdum í sínu ríki.

## IV. ÞJÓÐABYLTÍNGIN MIKLA.

### Theódósíus mikli.

Vèr höfum sèð að suðurþjóðir Európu höfðu um margar aldir haft fasta bústaði, aptur þar á móti höfðu hinar aðrar þjóð-

ir norður í álfunni verið á sífeldu reiki fram og aptur, en þau ferðalög þeirra eru oss að mestu leiti ókunn. Af þjóðum þeim, sem bygðu miðbik norðurálfunnar, gánga *Kèltar* fyrstir út úr náttmyrkri fornaldarinnar og koma fram í dagsljós sögunnar. þeir höfðu optar en einu sinni komið hópum saman suður um fjöll og sýnt mentun suðurþjóðanna í tvo heima; en jafnan hafði mönnum tekizt að stemma stigu fyrir þeim, og Rómverjar höfðu jafnvel lagt undir sig meiri hluta af löndum þeim, er þeir upphaflega bygðu, og komið rómverskri mentun inn hjá þeim. Að eins á Írlandi og Skotlandi hafði þeim tekizt að halda fornum siðum og einkennum.

Næst eptir *Kèlta* komu *germanskar* þjóðir til sögunnar: fyrst *Þjóðverjar* (þýzkir menn) þar næst *Gotar*, en *Norðmenn* voru með öllu ókunnir Rómverjum sökum fjarlægðar, og af því að aðrar þjóðir sátu í millí.

Fyrir árið 375 höfðu Rómverjar mist landshornið milli Rínar og Dónár, og þýzkar þjóðir höfðu sezt að fyrir sunnan Rín; hins vegar var Dóná enn þá markalína Rómaveldis. Fyrir norðan hana bjuggu *Vestgotar* og höfðu fengið mentun nokkra af viðkynningu við Rómverja. Maður hèt *Úlfílas;* hann var biskup þeirra Vestgotanna; hann sneri hinu nýja testamenti á gotneska túngu og kristnaði allan þorra landsmanna, eptir setníngum Aríusar, er þá voru drotnandi í Austurlöndum. Hins vegar höfðu *Austgotar* hinn forna sið, og *Ermanrik* (Jórmunrekur) hafði verið hinn mesti herkonúngur og brotið undir sig lönd og lýði norðan frá Eystrasalti suður til Svartahafs. Undir hann þjónuðu ýmsar þjóðir, bæði Gotar og Slafar og Finnar, er um þær mundir bygðu þau lönd norður og austur í Europu, er Rómverjar kölluðu *Sarmatia* einu nafni.

En hèr um bil 375 árum eptir Kristsburð varð sú breytíng hjá þjóðum þessum, er menn hafa kallað *þjóðabyltínguna hina miklu.* það er sagt að *Húnar* kæmi þá austan að Asíu, vestur yfir Volgá og rèðust á *Alána,* er bygðu löndin milli *Don* (Vanakvíslar) og Volga. Húnar voru af *Mongólaættum,* lifðu hjarðmanna lífi og höfðust við fyrir norðan Kaspiskahafið. *Ammianus Marcellínus* hefir lýst *Húnum*, og telur þá allra manna ljótasta og tryltasta. þessir óttalegu herskarar ultu fram eins og

þúngur straumur og svignuðu Alánar fyrir slíku ofurefli; lètu sumir lífið en sumir skárust í lið með Húnum.

Allur þessi sægur hèlt því næst vestur yfir Don og rèðist á Austgota. Var Ermanrik konúngur þá kominn yfir tírætt, enda hníginn að heilsu; varð þá engin vörn af honum, en Húnar óðu yfir landið. En er Vestgotar heyrðu ófarir frænda sinna, og sáu vogesti þessa þokast nær bygð sinni, beiddu þeir *Valens* keisara leyfis, að mega flytjast búferlum suður yfir Dóná inn í lönd hans, og það leyfði keisari þeim (376). Er svo sagt, að 200 þúsundir vígra manna af Vestgotum flyttu sig suður yfir ána með konur sínar, börn og þræla, og væri til samans því nær ein millíón manna. Settust þeir nú að í *Þrakíu* (neðri Mösíu). En valdsmenn keisarans þar norður nýttu sèr smánarlega neyð Vestgota, og seldu þeim íllan varníng við ofboðslegu verði, svo að Gotum varð eigi við vært; gjörðu þeir þá uppreist til að bjarga lífi sínu og herjuðu landið umhverfis. Valens keisari, er hann frètti óspektir þeirra, fór með her manns í móti þeim; bauð *Grazíanus* keisari frændi hans honum styrk móti Gotum, en Valens var svo grunnhygginn, að hann vildi eigi þyggja, og lagði til orustu við Vestgota hjá *Hadríanópel* (378). Þar varð hin mesta orusta, unnu Vestgotar frægan sigur, en Valens keisari fèll. Gotar tóku land alt til sjáfar; hinar víggirtu borgir voru einar eptir óunnar.

*Grazíanus* keisari var gegn maður og góðfengur og fór mjög að ráðum *Ambrósíus* biskups af Maílandi, hins ágætasta manns, og annara viturra manna. Hann þóttist eigi fær til að stýra einn saman ríkinu eptir orustuna við Hadríansborg, og kaus sèr því til aðstoðar *Theódósíus,* spánverskan mann, son þess er verið hafði hershöfðíngi Valentíníans fyrsta, og veitti honum keisaratign yfir austurlöndum og Illyrieum (379). Hann gat eigi kosið annan, er betur væri til stjórnar fallinn, en *Theódósíus.* Hann hagaði hernaði sínum við Gota svo hyggilega, að eptir nokkur ár gengu þeir honum til handa og gjörðust þegnar hans, en fengu að halda bústöðum sínum í Mösíu og fornri siðvenju. Keisarinn gjörði 40 þúsundir af þeim að liðsmönnum sínum, og þótti sú sveit hraustust í liði hans.

Um þessar mundir gjörði sá maður, er *Maxímus* hèt, uppreist á Bretlandi gegn *Grazíanusi* og var þar til keisara tekinn.

þessu næst fór hann með her sinn til Gallíu, gekk þar upp og herjaði; en Grazíanus keisari var svikinn af liði sínu og drepinn á flótta (383). Varð Theódósíus að viðurkenna keisaratign Maxímusar fyrir vestan Alpafjöll, en *Valentíníanus annar* hèlt enn Ítalíu. En er Maxímus nokkru síðar rèðist á Valentínían, þá fór Theódósíus og veitti keisara lið; fèll Maxímus í þeim viðskiptum, en Theódósíus fekk Valentíníanusi öll vesturlönd í hendur (388). Fjórum árum síðar var *Valentíníanus* drepinn af hershöfðíngja þeim er *Arbogast* hèt; hann var af frakkneskri þjóð; en með því hann vissi að Rómverjar myndu fyrirlíta útlendan keisara, þá vildi hann eigi sjálfur takast þá tign á hendur, heldur setti þann mann í keisarasæti, er *Eugeníus* hèt, og verið hafði skrifari Valentíníans. Tveim árum síðar kom *Theódósíus* keisari til Ítalíu, og átti orustu við þá hjá Akvileiaborg, og fèllu þeir þar báðir Arbogast og Eugeníus (394). Eptir þá orustu var *Theódósíus* einvaldi yfir öllu Rómaveldi um nokkra mánuði. Það var í síðasta sinn að *alt ríkið* var á eins manns valdi. Theódósíus dó ári síðar (395).

Hann hafði stýrt ríki sínu með miklum viturleik og dugnaði, og hefir hann verið kallaður: *hinn mikli;* en það nafn hlaut hann einkum af því, að hann styrkti kristna trú af alefli, en eyddi heiðinglegri villu. Hann lèt brjóla hof og hörga og bannaði harðlega allan heiðínglegan átrúnað og blótskap. Á hans dögum vann og hin *rètta trú* sigur á Aríusar lærdómsgreinum meðal Rómverja, en hjá hinum gotnesku þjóðum var þeim fylgt. Á næstu öld þar á eptir urðu ákafar trúarbragðadeilur í austurlöndum; en á vesturlöndum varð einna aðkvæðamest deilan milli *Pelagíusar* múnks á Bretlandi, er neitaði erfðasyndinni, og hins nafnfræga Ágústínusar kirkjuföðurs. Það var öndverðlega á 5. öld.

Biskupavaldið var þegar á dögum Thedósíus keisara orðið mikið. Þannig er það sagt, að keisarinn hafi eitt sinn látið drepa nokkrar þúsundir manna í Þessalonikuborg fyrir þá sök, að þar hafði orðið upphlaup og einn af valdsmönnum hans verið veginn í þeim óeirðum; en er keisarinn nokkru síðar vildi gánga í kirkju í Maílandi, gekk *Ambrósíus* biskup í móti honum, bannaði honum inngöngu fyr en hann bætti ráð sitt eptir slíkt glæpaverk. Theódósíus keisari viknaði við áminníngu hins ágæta biskups, er

engan mannamun gjörði sèr, og hlýðnaðist því banni; að 8 mánuðum liðnum var hann fyrst leystur af því. Biskupar í höfuðborgunum (*Metrópolítar*) voru teknir fram yfir aðra biskupa, og einkum þeir í *Róm*, *Constantínópel*, *Antíokkíu* og *Alexandríu* og seinna meir í *Jerúsalem*; þessa alla kölluðu menn *Patríarka*. Og af því að biskupinn í *Róm* þóttist beinlínis vera eptirmaður *Pèturs* postula, þá vildi hann vera yfirbiskup allra hinna. Þannig myndaðist klerkavaldið (*Hierarchiet*) í hinni kristnu kirkju.

Gagnstætt hinu hálfverzlega valdi biskupanna hafði *múnkastèttin* komizt á fót. Hún kom fyrst upp austur í löndum. Einstakir menn tóku sig út úr öllum veraldarglaumi og leituðu einveru, til þess að geta þannig náð þeirri fullkomnun, er þeir höfðu sèr fyrir sjónir sett; þeir voru nefndir *einbúar* eða *einsetumenn*. Einn hinn fyrsti og merkasti meðal þessara einsetumanna var *Antóníus* á Egyptalandi († 356); hann gaf fátækum aleigu sína, og settist svo að úti á eyðimörku, síðan fluttu ýmsir menn þángað til hans, og lètu fyrirberast í smákofum í nánd við hann. Einbúar þessir hètu á griska túngu *monachoi*; þaðan er dregið nafnið *múnkur*. Bústaði þessara manna, þegar margir voru komnir saman á einn stað og lifðu í fèlagsskap, kölluðu menn á latínu máli *claustra*; þar af er komið orðið *klaustur*. Síðan fluttust múnkar úr eyðimörkum í bygðir og borgir; þá komu og upp nunnuklaustur.

Þegar hin kristna trú var orðin drotnandi trú í Rómaveldi, lagðist niður og hvarf hið upphaflega viðhafnarleysi, hin helga einfeldni, sem auðkendi helgihöld manna í hinni fyrstu kristni, og í þess stað risu nú upp skrautlegar kirkjur; helg tíðahöld urðu margbrotin og með hinni mestu viðhöfn, og, þegar stundir liðu fram, fóru menn að tigna og tilbiðja helga menn og myndir þeirra, og heiðingleg hjátrú smeygði sèr inn í kristnina.

## Skiptíng Rómaveldis, og endalok hins vestari hluta (395—476).

*Theódósíus mikli* skipti ríki með sonum sínum áður hann andaðist (395). Komu þannig upp tvö ríki: *hið vestlæga* og *hið austlæga* Rómaríki. Segja menn, að ef lína sè dregin þaðan, sem Dóná beygist til suðurs á Úngaralandi, og beina stefnu yfir

land og lög til vesturstrandar Cyrenaicu á Afriku, þá hafi þar verið landamerki milli ríkjanna. *Arcadíus* (395—408), sem var eldri þeirra bræðra, og þá 18 vetra, varð keisari yfir hinum eystri hluta, en *Hónóríus* (395—423), sem var ýngri, og þá 11 vetra, fekk hinn vestari. Arcadíus sat í Constantinópel og hafði þann ráðgjafa, er *Rúfínus* hèt, grimman mann og fègjarnan, af gallneskum ættum. Hónóríus sat í Rómaborg, og hèt ráðgjafi hans *Stilikó*, vandælskur að kyni, ágætur maður og hinn mesti kappi. þeir bræður voru mjög ólíkir föður sínum og litthæfir til ríkisstjórnar; dró það til sundurþykkis með þeim, og til þess, að greiða útlendum þjóðum götu inn í ríkið og ná þar yfirráðum.

þegar er Theódósíus keisari var fallinn frá, hófu Gotar í eystri hlutanum uppreist og hèldu alt suður á Grikkland, og fóru með hinni mestu grimd og gripdeildum, hvar sem þeir komu. *Alarik* (Alrekur) hèt konúngur þeirra, harður maður og hraustur. Stilikó vildi koma Arcadíusi til hjálpar og bauð liðveizlu sína, en Arcadíus vildi eigi þyggja, og í þess stað samdi hann frið við Alarik og gjörði hann að æzta hershöfðíngja yfir Illyríu. þaðan herjaði hann því næst á Ítalíu — því að Arcadíus hataðist við Stilikó og vildi steypa honum — og Stilikó varð, til þess að geta mætt Alarik, að draga að sèr herlið bæði frá Rín og af Bretlandi; varð þá lítið um vörn móti óvinum þeim, er á þau lönd sóttu. Hónóríus keisari var allan þenna tíma aðgjörðalaus; var það helzt dægrastytting hans, að gefa hænsnum og öðrum alifuglum fæðu. En er Alarik var kominn með her manns til Ítalíu, flýði keisari frá Róm og settist að í *Ravenna;* þar voru mýrar og skurðir umhverfis, og þóttist keisarinn þar óhultari en í Róm. Fundur þeirra Stilikós og Alariks varð (403) hjá *Pollentía* norðarlega á Ítalíu (í *Piemont*); var sú orusta allhörð, og eptir það hèlt Alarik þaðan úr landi, en þó eru líkur til, að Stilikó hafi látið honum eptir lönd fyrir sunnan Dóná og lofað fègjöldum að auki.

Tveim árum síðar en Alarik fór af Ítalíu, brutust hersveitir miklar norðan og austan frá Dóná, og sem að líkindum hrukku fyrir *Húnum*, suður á Ítalíu. Höfðíngi þeirra hèt *Radagais;* hann var sagður heiðinn og grimmur. Stilikó fór í móti honum, og barðist við hann við *Fæsulæ* (406), allskamt þaðan sem *Florents* er nú, og fekk sigur. þeir sem af komust, hèldu síðan vestur

á Gallíu, og fleiri þjóðir slógust þá í förina; gjörði óþjóðalýður þessi alstaðar hin mestu íllvirki. Þaðan hèlt mikill þorri þeirra, einkum eru til þess nefndir *Vandælir, Svevar* og *Alánar*, vestur á Spán og lögðu það hið auðiga land undir sig (409).

Meðan Spánn fèll í hendur þessara manna, og alskonar óeirðir áttu sèr stað á Bretlandi og í Gallíu, sem Rómverjar gátu nú eigi lengur varið, varð Ítalía Vestgotum að herfángi. Alarik hafði krafizt fjár þess, er honum var heitið, en eigi goldið. Stilikó lagði það til, að honum væri greitt fèð undandráttarlaust, en öfundarmenn hans gripu tækifærið, og töldu Hónóríusi trú um, að Stilikó væri undir niðri vinur Alariks; þessu trúði hinn auðvirðilegi keisari og lèt drepa *Stilikó*, sem bæði var tengdafaðir hans og sá eini maður, er fær var til landvarnar, eins og hann hafði svo optlega sýnt (408). Annað glópskubragð gjörði keisarinn þar á eptir: hann þverneitaði að greiða fèð, og þar á ofan lèt hann myrða konur og börn hinna útlendu liðsmanna, er gengið höfðu á mála hjá honum, um 30 þúsundir manns. Hèlt Alarik þá her sínum til Ítalíu, og málaliðið, sem átti harma sinna að hefna, slóst í lið með Vestgotum. Námu þeir Alarik eigi fyr staðar en þeir komu til Rómaborgar. Höfðu Rómverjar eigi sèð óvinaher fyrir borgarhliðum síðan á dögum Hannibals. Sendu Rómverjar þá menn til fundar við Alarik til þess að semja við hann; þessir menn töluðu mikið um liðsafla þann og mannfjölda, sem væri í borginni. Alarik mælti: »því þèttara sem grasið er, þess hægra er að slá það«. Í það skiptið fengu þó Rómverjar keypt sèr grið móti ærnu fègjaldi. En árið eptir kom Alarik aptur, gafst þá Rómaborg upp fyrir honum, og setti hann þá þann mann, er *Attalus* hèt, í keisarasæti; en sem þessi nýorðni keisari snerist í móti honum, rak Alarik hann aptur úr völdum, og kom nú hið þriðja sinnið, og tók þá Rómaborg eptir litla vörn (410); fóru Vestgotar þá ránshendi um borgina, en eigi brendu þeir hana eða brutu stórvægilega. Þá voru liðin 800 vetra síðan Rómaborg var unnin af útlendum her.

Þá er Alarik hafði unnið Rómaborg stefndi hann liði sínu suður í land; en þar andaðist hann 34 ára gamall. Liðsmenn hans grófu hann í botni ár þeirrar, er *Búsentó* heitir, á þann hátt, að þeir veittu fljótinu úr farvegi og tóku þar gröfina, og settu konúng sinn þar niður með vopnum, veittu því næst fljót-

inu aptur í hinn forna farveg, svo það rann yfir legstað hans; drápu síðan þræla þá, er að því verki störfuðu, svo að enginn skyldi vera til frásagnar um það hvar Alarik væri grafinn. Eptir það tóku Vestgotar *Ataulph* (Adolf) mág hans til konúngs; tók Ataulph að semja við Hónóríus keisara, því að hann vildi eiga *Placidíu* systur keisarans; enda var hún jafnfús til þess fyrir sitt leiti, því að Vestgotakonúngur var hermannlegur maður og hinn fríðasti sýnum. Að sönnu neitaði keisarinn þessum ráðahag, því að nóg var rembilætið, en það varð framgengt engu að síður. *Placidía* gat nú miðlað svo málum, að Ataulph varð Rómverjum vinveittari en áður, og Gotar urðu einskonar bandamenn þeirra. Árið 412 fóru Gotar af Ítalíu norður á Gallíu og þaðan vestur á Spán. Litlu síðar var Ataulph veginn, en sá maður, er *Vallia* hèt, fekk þá yfirráð hjá Gotum, unnu þeir þá meiri hluta Spáns og fengu Rómverjum í hendur, en Vandælir, Svevar og Alánar hrukku fyrir, og hèldu að eins eptir norðvestur hluta landsins; voru Alánar orðnir þá svo aðþrengdir, að þjóðerni þeirra hvarf og blandaðist saman við Sveva og Vandæli. Vestgotar fengu eptir samkomulagi við Rómverja fasta bústaði í suðvesturhluta Gallíu. Þannig myndaðist *Vestgotaríkið; Tólósa* var þar höfuðborg.

Þegar *Hónóríus* keisari dó (423), voru þannig ýms lönd gengin undan ríki hans: nokkur hluti Spáns, mestöll Gallía; því að auk Frakka og Alimanna voru nú einnig Búrgundar komnir inn í Rínlöndin, og norðvesturhluti Gallíu, þar sem *keltnesk* þjóð hafði tekið sèr bólfestu, var einnig sjálfum sèr ráðandi. Alt hið sama mátti segja um Bretland, því að Rómverjar gátu þar engri vörn uppi haldið.

Eptir lát *Arcadíus* keisara (408) varð sonur, hans *Theódósíus annar,* keisari yfir hinum eystri hluta Rómaveldis (408—450). Hans er að litlu getið öðru en því, að hann ritaði einhverja hina fegurstu hönd; en systir hans *Pulchería* stýrði ríkinu að mestu, og þótti farast það allvel; enda var þar öllu hægra aðgjörða en í vestri hlutanum, því að Persar voru um þær mundir friðsamir nágrannar, og skattlöndin voru þar miklu auðugri og meiri tekjur af þeim heldur en vesturfrá. Hið eystra ríkið var þess vegna styrkara en hitt, og hafði eptir dauða Hónóríus keisara talsverð áhrif á vestri hlutann, eins og sýndi sig, er *Jóhannes skrifari* brauzt til valda á Ítalíu þegar eptir lát keisarans, að þá sendi Pulcheria her frá

Constantínópel, og setti *Valentiníanus þriðja,* son Placidíu og Constanzíusar hershöfðíngja, seinni manns hennar, til ríkis í vesturhlutanum (425); var Valentiníanus þá 7 vetra gamall[1]. Placidía stýrði ríkinu fyrir hönd sonar síns til dauðadags (450), því að Valentiníanus varð aldrei sjálffær til ríkisstjórnar.

En Placidía var eigi vaxín því að stýra ríkinu á hinum síðustu og vestu tímum, og því fór hníngandi dag frá degi. *Bretland* gekk nú alveg undan; *Pictar* og *Skotar* fóru þar herskildi yfir, og Bretar, sem eigi gátu rönd við reist, fengu *Jóta, Engla, Saxa* og *Frísa* sèr til hjálpar. Það er sagt, að bræður tveir að nafni *Hengist* og *Horsa* hafi árið 449 komið með her manns til Bretlands og rekið Picta og Skota norður til fjalla, en lagt síðan sjálfir Bretland undir sig og stofnað þar hin *engilsaxnesku-ríki,* er svo voru nefnd og 7 að tölu. En Bretar, frumþjóð landsins, hrukku fyrir og leituðu sèr bústaða, sumir vestur í *Wales* (þar eru dalir og fjöll) og sumir norðan til á Gallíu, þar heitir síðan *Bretagne.* En miklu tilfinnanlegra var Rómverjum að missa Afríku, því að bæði átti margt stórmenni þeirra jarðeignir miklar þar syðra, og líka fengu Rómverjar kornföng sín mest og bezt þaðan. Svo stóð á, að um þessar mundir höfðu Rómverjar landstjóra þann á Afríku, er *Bonifacius* hèt, hann var dugandi maður og vel látinn. Þá var og uppi sá maður hjá Rómverjum, er *Aëzius* hèt, ættaður frá Mösíu, undirhyggjumaður mikill og skorti eigi vitsmuni, hershöfðíngi hinn mesti. Þeir Aëzius og Bonifacius voru hinir mestu óvinir. Nú rægir Aëzius hann við Placidíu, svo að hún boðar Bonifacius heim til sín af Afríku, en í laumi segir Aëzius honum, að hlýðnast eigi þeirri skipan. Þá gjörir Bonifacius uppreist og kveður *Vandæli* norðan af Spáni til liðs við sig. Konúngur þeirra *Giserik* eða *Genserik* (sem hann og er nefndur) kemur með her manns til Afríku (429). Gense-

1) Theódósíus mikli

Arcadíus — Hónóríus. — Placidía ∽ 1. Ataulph, 2. Constanzíus

Pulchería ∽ Marcíanus. — Theódósíus annar — Valentiníanus. — Hónóría þriðji.

Eudoxia ∽ 1. Valentiníanus þriðji. 2. Petróníus Maxímus.

rik var grimmur maður og hraustur, drotnunargjarn og vèlráður; kom honum eigi til hugar að veita Bonifaciusi lið, heldur að leggja landið undir sig. Bonifacius sá um seinan hve vondslega hann var blektur af Aëziusi, og sem Placidia verður þess vísari sendir hún Bonifaciusi hjálp, en það kom fyrir ekki, hann beið ósigur móti Vandælum og hèlt til Ítalíu (432). Genserik fór herskildi um landið og vann það, og loksins tók hann höfuðborgina *Kartagó* árið 439; var Kartagó þá orðin mest borg og auðigust í vesturhlutanum önnur en Róm. En sem Vandælir höfðu náð undir sig allri norðurströnd Afríku, komu þeir sèr upp skipaflota miklum og urðu hinir mestu víkíngar; lögðu síðan undir sig Korsíku, Sardinarey og nokkuð af Sikiley og herjuðu norður á Ítalíu strandir. Alstaðar þóttu Vandælir vera hinir grimmustu víkíngar. þó voru þeir menn kristnir, en fylgdu Ariusar lærdómi og ofsóttu harðlega þá, er í móti honum mæltu.

En það er frá *Aëziusi* að segja, að hann hafði um þessar mundir verið norður á Gallíu og barizt við Germani; en sem hann frèttir, að Bónifacíus er kominn til Ítalíu, og í víngan við keisarann og móður hans, þá bregður hann við og fer með liði suður yfir fjöll, og vill nú að skríða skuli til skara með þeim Bónifacíusi. Svo fóru viðskipti þeirra, að Aëzíus hafði ósigur, og leitaði á fund Húna, er honum voru kunnir frá barnæsku, en Bónifacius dó af sárum. þó varð Aëzius eptir þetta aðalforíngi hins rómverska herliðs, og rèði reyndar einn öllu, því að keisarastjórnin var þá eigi orðin annað en nafnið tómt. Aëzius þekti manna bezt hinar útlendu þjóðir, er í það mund kreptu að ríkinu; gjörði hann þær sundurþykkar sín í milli og sigaði þeim saman, og með þeim kænskubrögðum hans höfðu Rómverjar allmikið ríki á Gallíu um þessar mundir; en við hinu gat hann eigi spornað, að *Svevar* efldust stórum á Spáni, eða að Afríka tapaðist alveg í hendur Vandælum.

Nú víkur sögunni aptur til Húna. Síðan þeirra fyrst var getið á dögum Valenz keisara, og hinna miklu þjóðbyltínga, er þá urðu af þeirra völdum, höfðu þeir að miklu leiti haldið kyrru fyrir austur við Svartahaf og meðfram Dóná neðanverðri, og ekki beinlínis haft mikil áhrif á hið rómverska keisaradæmi. En árið 433 varð sá maður, er *Attila* (Atli) hèt, konúngur Húna ásamt bróður sínum, er *Bela* er nefndur. Nokkru síðar drap

Attila bróður sinn og varð einvaldi yfir öllum Húnum. Hve lángt ríki hans náði, vita menn eigi gjörla, en hitt er víst, að austan úr Asíu og lángt vestur í Germaníu, jafnvel alt að Rín, lutu þjóðirnar þessum hinum grimma hugumstóra herkonúngi, og að hann átti vopnaviðskipti við Persa þar austur, eins og við Európuþjóðir hèr vestur í löndum. Hinn voldugi Húnakonúngur hafði aðsetu á hinu úngverska slèttlendi. Hús hans var gjört af viði einum; hann hafði borðbúnað allan af trè, lifði mest við kjötmeti, en brauð vildi hann ekki borða, því að honum þótti það helzt til lèttvægt; hann kvaðst hafa fundið sverð herguðsins, og kallaði sig *svipu guðs;* margir konúngar og stórmenni sóttu hans fund af ýmsum löndum, og lutu hans boði og banni; stóð öllum af honum hinn mesti ótti, og það sögðu menn, að aldrei sprytti þar gras, er hestur hans hafði stigið fæti á jörð. Hann gjörði nú ýmsar árásir á hið austlæga Rómaveldi, lagði löndin í eyði fyrir sunnan Dóná, og kúgaði *Theódósíus* keisara annan til þess að greiða sèr skatta. En hinn gamli hershöfðíngi *Marcíanus,* sem varð keisari 450 þegar Theódósíus andaðist, og giptist þá Pulcheríu, var einbeittur maður og eigi svo auðveldur Húnum, sem Theódósíus hafði verið, og þá sneri Attila sèr að vesturríkinu, því að bæði þóttist hann eiga sín að hefna á *Valentiníanus* keisara hinum þriðja, er eigi vildi gipta honum *Hónóríu* systur sína, og svo er það tilgáta margra, að Genserik hafi eggjað hann til ófriðar gegn Rómverjum og Vestgotum, er hann átti sökótt við, og vildi gjarnsamlega að fengi nokkurn skell af Húnum. Þessu næst hèlt Attila konúngur með óvígan her — menn segja 700 þúsundir manna — vestur að Rín, sigraði *Búrgunda* og eyddi öllu, hvar sem hann kom, eins og eldflóð rynni yfir landið, og nam eigi staðar fyr en vestur í Gallíu. Þá báru þeir ráð sín saman *Aezíus* og *Theódórik* (*Þjóðrekur*) *hinn fyrsti,* Vestgotakonúngur, og fengu aðrar Germanskar þjóðir í Gallíu til liðs við sig til þess að verja kristna trú og mentir og mannúð alla móti Húnum, hinum óttalegu landeyðum. Á *Katalánsvöllum* við Marnelfu (Catalauniske Marker), þar sem nú er *Chalons sur Marne,* varð fundur þeirra, 451 ári eptir Krístsburð. Þar stóð einhver hin ógurlegasta og frægasta orusta, er nokkru sinni hefir verið háð. Það voru fjörbrot fornaldarinnar, ógurleg sökum hins geysimikla mannfjölda, er þar var saman kominn, grimd-

arinnar, sem barizt var af, og mannfjöldans sem þar fèll — menn telja það 162000 manna —, og fræg fyrir þá sök, að þeir Aëzíus fengu sigur og frelsuðu mentun Norðurálfunnar frá eyðileggíngu Húna. Þar fèll Theódórik konúngur, en *Attila* lèt undan síga austur yfir Rín. Það hefir verið sagt, að Aëzíus hefði þá getað gjöreytt Húnum, en eigi viljað, af ótta fyrir því, að Vestgotar yrðu þá um of voldugir; taldi hann því *Thorismund* á, er til konúngs var tekinn yfir Gotum, eptir fall föður síns, að snúa heim aptur í ríki sitt, svo að Attila og herleifum hans var eigi eptirför veitt. Ári síðar gjörði Attila áhlaup á Ítalíu, og lagði þá í eyði hina auðigu og fögru *Akvilejuborg,* og margar fleiri á Norður-Ítalíu, en íbúar þeir, sem lifi hèldu, flýðu undan og út í eyjar þær, er liggja fyrir landi á innanverðum Aðriahafsbotni. Þar reis síðan upp á eyjunum hin nafnfræga *Venezía* (*Feneyjaborg, Venedig*). Í Rómaborg varð alt á tjá og tundri; Valentiníanus keisari hafði ekkert lið að senda móti Attila; það var því tekið til bragðs, að senda hinn rómverska biskup, *Leó hinn fyrsta,* og menn með honum til fundar við Húnakonúng og beiðast vægðar og friðar. Fyrir bænastað hins málsnjalla biskups og ríkulegar gjafir, sneri Attila burt af Ítalíu. Ári síðar (453) dó Attila konúngur af blóðnösum þá er hann hèlt brúðkaup sitt til *Ildikóar* hinnar fögru. Synir hans urðu sundurþykkir og bárust á banaspjót; þjóðirnar brutust undan, sem Attila hafði hnept í fjötra, og Húnar þokuðust austur að Svartahafi, og hurfu þar úr sögunni innan um aðrar þjóðir. *Gepídar* rèðu síðan fyrir Dacíu, *Austgotar* í Pannóníu, og nokkrum hluta Mösíu. Í norðvestur af þeim bjuggu *Lángbarðar, Herúlar,* Rygiar (Rængjar frá Re eða Ræng?), og aðrar smáþjóðir.

Þegar *Attila* var dauður þóttist *Valentíníanus* þriðji úr allri hættu og drap Aëzíus (454) í höll sinni; þannig launaði keisarinn honum landvörnina. *Petróníus Maximus,* ráðherra, er keisarinn hafði móðgað, kom því til leiðar, að tveir af vinum Aëzíusar drápu hann ári síðar (455). *Maxímus* varð því næst keisari og giptist *Eudoxíu* ekkju Valentíníans og dóttur Theódósius annars. En það er sagt, að hún hafi hefnt sín þannig, að hún kallaði *Genserik* í Kartagó sèr til hjálpar. Hann kom þegar og tók Rómaborg eptir enga eða litla vörn, og rupladi þar og rændi öllum dýrgripum og fornmenjum, og flutti af landi burt. Svo fóru

auðæfi hinnar miklu Rómaborgar. *Maxímus* keisari var grýttur til bana af skrílnum.

Eptir lát hans varð *Avítus* keisari; hann var áður hershöfðíngi á Gallíu, og styrktu Vestgotar hann til ríkis. En ári síðar (456) var hann rekinn úr völdum af *Ricimer* hershöfðíngja, hraustum manni og slægvitrum og af Sveva kyni. Ricimer vildi eigi sjálfur verða keisari, en ráða vildi hann því hver það væri, og haga svo öllu eptir sinni vild. Hann setti þvínæst *Majórianus*, ágætan mann, til keisara tignar; en honum þótti Majórianus vera of aðgjörðamikill, og lèt drepa hann (461). Síðan stýrði Rícimer ríkinu um nokkur ár, þó að sá hèti *Severus*, er keisara nafnið bar. En nú var það af sem áður var. Keisaratignin í hinum vestari hluta Rómaveldis var aðfram komin, og alt vald var í höndum útlendra herforíngja, sem þóttust vera verndarmenn ríkisins. *Búrgundar* og *Vestgotar* gengu nú alveg undan og urðu sjálfum sèr ráðandi; lögðu stór hèruð undir sig og juku ríki sitt; hinir fyrri austan til á Gallíu; hinir síðari um suðvesturhluta Gallíu og mestallan Spán, einkum undir forustu *Euríks*, sonar Theódóriks fyrsta. *Ægidíus*, landstjóri Rómverja á Gallíu, var sem sjálfráður konúngur í löndunum fyrir norðan Signu; eptir hann kom þar til valda sonur hans, sá er *Sýagríus* hèt.

Í hinum eystri hluta Rómaveldis kom *Leó hinn fyrsti* til ríkis eptir *Marcíanus* (457—474), og með samþykki Ricimers hóf hann þann mann, er *Anþemíus* hèt, til keisaradóms yfir vesturhlutanum (467), þá er Severus var látinn. Lögðust nú bæði ríkin á eitt, að eyða víkíngum Vandæla, er sveimuðu um Miðjarðarhaf og gjörðu hvervetna hinn mesta óskunda, en floti keisaranna beið ósigur, og víkíngar fóru sínu fram sem áður.

Þeir Ricímer og Anþemíus urðu bráðum ósáttir, og því næst kom til baráttu með þeim. Ricímer rèðist á Róm og vann hana og rændi þar og lèt drepa *Anþemíus* (472), en dó sjálfur hið sama ár, ásamt keisara þeim (Olybríus), er hann hafði til valda sett í stað Anþemíusar. Þá gjörðu Búrgundar þann að keisara, er *Glyceríus* hèt, en stjórnin í Constantínópel gaf *Júlíusi Nepos* keisaratign, og rak hann Glýceríus úr sæti og lèt vígja hann til biskups (474). En hershöfðíngi sá, er *Orestes* hèt, ættaður af Pannóníu, og fyrrum skrifari Attilu Húnakonúngs, reis upp í móti Júlíusi Nepos; varð hann þá að flýja austur til Dalmazíu (475).

Orestes vildi eigi sjálfur verða keisari, en hóf son sinn *Rómúlus Ágústúlus* til ríkis En er málaliðið krafðist, að fá þriðjúng allra jarða á Ítalíu og Orestes synjaði þeirri kröfu, þá gjörði liðið uppreist undir forustu höfðíngja þess, er *Ódoacer* hèt, og var af Herúla ættum, að því er flestir segja; Órestes var drepinn, en Rómúlus rekinn frá ríki (476) og fengin til bústaðar hin forna höll Lúcúllusar suður í Campaníu. Rómúlus hèt höfundur Rómaborgar, og sem þar hafði fyrstur manna lagt grundvöll að einveldinu, og Rómúlus hèt hinn síðasti *keisari* í hinu vestlæga Rómaveldi. Ódoacer skipti löndum meðal hermanna sinna, og stýrði Ítalíu á sama hátt sem konúngar Vestgota, Búrgunda o. fl. stýrðu hinum öðrum skattlöndum. Hinar síðustu leifar hins vestrómverska ríkis voru þannig komnar í hendur Germana þjóðum, og menn hafa því alment látið fornaldarsöguna enda árið 476 e. Kr. Hið austlæga ríki stóð enn nærfelt um 1000 ár, og var kallað rómverskt, þó að það væri í raun rèttri grískt og austurlenzkt.

Þegar litið er á ástandið eins og það var við endalok fornaldarinnar, þá er það eigi glæsilegt: hin fögru lönd við Miðjarðarhafið voru orðin þunnskipuð af mönnum; margar borgir lágu í rústum; akrar í órækt, iðnaður horfinn. En nýjar og hraustar kynslóðir voru komnar að norðan og saman við hina fornu og útlifuðu suðurheimsbúa. Mannfólkið þurfti þess við að ýngjast upp að nýju, og sú æskutíð þess er *Miðöldin*.

---

## Ríkisár Rómverjakeisara.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Ágústus | ríkti | frá | 30 f. Kr. | til | 14 e. Kr. | | |
| Tíberíus | — | — | 14 e. Kr. | — | 37 | - | — |
| Calígúla | — | — | 37 - | — | 41 | - | — |
| Claudíus | — | — | 41 - | — | 54 | - | — |
| Neró | — | — | 54 - | — | 68 | - | — |
| Galba | — | — | 68 - | — | 69 | - | — |
| Othó | — | — | 69 - | — | 69 | - | — |
| Vítellíus | — | — | 69 - | — | 69 | - | — |
| Vespasíanus | — | — | 69 - | — | 79 | - | — |
| Títus | — | — | 79 - | — | 81 | - | — |
| Dómizíanus | — | — | 81 - | — | 96 | - | — |
| Nerva | — | — | 96 - | — | 98 | - | — |
| Trajanus | — | — | 98 - | — | 117 | - | — |
| Hadríanus | — | — | 117 - | — | 138 | - | — |
| Antónínus Píus | — | — | 138 - | — | 161 | - | — |
| Markús Aurelíus (L. Verus 161-169) | — | — | 161 - | — | 180 | - | — |
| Commódus | — | — | 180 - | — | 192 | - | — |
| Helvíus Pertínax | — | — | 192 - | — | 193 | - | — |
| Didíus Júlíanus | — | — | 193 - | — | 193 | - | — |
| Septimíus Severus | — | — | 193 - | — | 211 | - | — |
| Caracalla (Geta 211—212) | — | — | 211 - | — | 217 | - | — |
| Macrínus | — | — | 217 - | — | 218 | - | — |
| Helíógabalus | — | — | 218 - | — | 222 | - | — |
| Alexander Severus | — | — | 222 - | — | 235 | - | — |
| Maximínus hinn þrakverski | — | — | 235 - | — | 238 | - | — |
| Gordíanus þriðji | — | — | 238 - | — | 244 | - | — |
| Filippus af Arabíu | — | — | 244 - | — | 249 | - | — |
| Decíus | — | — | 249 - | — | 251 | - | — |
| Gallus | — | — | 251 - | — | 253 | - | — |
| Valeríanus | — | — | 253 - | — | 260 | - | — |
| Gallíenus | — | — | 260 - | — | 268 | - | — |
| Claudíus annar | — | — | 268 - | — | 270 | - | — |
| Aurelíanus | — | — | 270 - | — | 275 | - | — |
| Tacítus | — | — | 275 - | — | 276 | - | — |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Próbus | ríkti | frá 276 | e. Kr. | til 282 | e. Kr. |
| Carus | — | — 282 | - — | — 283 | - — |
| Carínus (Númeríanus 283—284) | — | — 283 | - — | — 285 | - — |
| Díóclezíanus (Maximíanus) | — | — 285 | - — | — 305 | - — |
| Constanzíus Chlorus (Galeríus 305 —311) | — | — 305 | - — | — 306 | - — |
| Constantínus mikli (Severus 306 —307) | — | — 306 | - — | — 337 | - — |
| (Maxenzíus 306—312). | | | | | |
| (Maximínus Daza 311—313). | | | | | |
| (Licinius 307—324). | | | | | |
| Constanz | — | — 337 | - — | — 350 | - — |
| Constanzíus | — | — 350 | - — | — 361 | - — |
| Júlíanus Apostata | — | — 361 | - — | — 363 | - — |
| Jóvíanus | — | — 363 | - — | — 364 | - — |
| Valentinianus fyrsti | — | — 364 | - — | — 375 | - — |
| Grazianus | — | — 375 | - — | — 383 | - — |
| Valentiníanus annar | — | — 383 | - — | — 392 | - — |
| Eugeníus | — | — 392 | - — | — 394 | - — |
| Theódósíus mikli | — | — 394 | - — | — 395 | - — |
| Hónóríus | — | — 395 | - — | — 423 | - — |
| (Jóhannes 423—425). | | | | | |
| Valentiníanus þriðji (Placidía) | — | — 425 | - — | — 455 | - — |
| Petróníus Maxímus | — | — 455 | - — | — 455 | - — |
| Avítus | — | — 455 | - — | — 456 | - — |
| Majoríanus | — | — 456 | - — | — 461 | - — |
| Libíus Severus (Ricimer) | — | — 461 | - — | — 465 | - — |
| Anþemíus | — | — 467 | - — | — 472 | - — |
| Olybríus | — | — 472 | - — | — 472 | - — |
| Glýceríus | — | — 472 | - — | — 474 | - — |
| Júlíus Nepos | — | — 474 | - — | — 475 | - — |
| Rómúlus Ágústúlus | — | — 475 | - — | — 476 | - — |

